# FORNALDAR SÖGUR NORÐRLANDA

EPTIR

## GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AF


## C. C. RAFN, P. D.,

Prófessor, Riddara af Danabrógsorðunni, Sekretèra hins konúngliga norræna fornfræða-fèlags, heiðrslimi, orðu- eða brèfligum limi hins skandínaviska lærdómslista-fèlags, hins íslenzka bókmenta-fèlags, hinnar kgl. svensku vitterhets-, sagnafræða- og fornfræða-akademíu, hinnar kgl. svensku stríðsvísinda-akademíu, hins kgl. skandínaviska sögnfræða-fèlags í Stokkhólmi, hinnar kgl. írsku akademíu í Dýflini, hins enska fornfræða-fèlags í Nýakastala við Tínarelfu, hins kgl. þýzka fèlags í Konúngsbergi, hins þýzka túngufræða-fèlags í Berlín, Danavinafélagsins við Dóná, ásamt fornfræða-, bókmenta- og föðurlands fèlaganna í Þrándheimi, Björgvin, Kristjaníu, Gautaborg, Oðinsey, Altónu, Mítá, Stettín, Breslá, Hohenlauben, Görlitz, Leipsig, Saxahöll, Minden, Munster, Vísbaðen, Vurzborg og Fríborg.


---

ANNAT BINDI.

---


KAUPMANNAHÖFN, 1829.




# FORMÁLI.

I FORMALANUM viðfyrsta bindi sögusafns þess, er nú birtist hèr annað bindið af, var til þess bendt, er helzt þótti aðalathugavert við söguflokk þenna, var þar og frá þeim reglum greint, er hvervetna hefir fylgt verið í skipun og atbúnaði útgáfunnar; skal því þess eins getið hèr, þar sem þar var einúngis á það minnzt, er viðkom fyrsta bindinu, hverjar til eru eldri útgáfur og útleggíngar af sögum þeim, er í þessu bindi framkoma, og hver handarrit hafi hèr viðhöfð verið. Þau handarrit, sem eigi er viðgetið, hvaðan sèu, eru úr HANDRITASAFNI ARNA MAGNUSSONAR (*Bibliotheca Arna-Magnæana*).

**1.** FRA FORNJOTI OK HANS ÆTTMÖNNUM, bls. 1-21. Báðir þættir þessir eru áðr prentaðir aptan við Snorra-Eddu, er *Rask* útgaf í Stokkhólmi 1817, bls. 357-372. Síðari þátturinn, er nefndr hefir verið Fundinn Noregr eptir fyrirsögn fyrsta Kap. þarí, var og áðr útgefinn í *Björners Nordiska Kämpadater*, með svenskri og látínskri útleggíngu, er þar og viðbætt ágripi af fyrra þættinum, sem nefnist eptir fyrirsögn fyrsta kap. Hversu Noregr bygðist. Síðari þátturinn er og prentaðr í *Olafs sögu Tryggvasonar*, útg. í Skálholti.

Frásögnin er hèr prentuð eptir Flateyjarbók, má fyrra þáttinn þar finna á 8-10 dálki, en þann enn síðari á 110-111 dálki. Nokkra leiðrèttínga *Rasks* er viðgetið í orðamuninum neðan undir.

Ymislig pappírshandrit eru og til af frásögn þessi, en öll eru þau eptir Flateyjarbók eða afskriftum af henni rituð, og því ómerk; eru þau í Nr. 34 og 56 í arkarf., 93 í 8blf, og í Nr. 40 í 4blf. úr Viðbætirnum (*Additamentis*).

2. SAGA AF HALFI OK HALFS REKKUM, bls. 23-60. Saga sú er áðr prentuð með svenskri og látínskri útleggíngu í *Björners Nordiska Kämpadater*. þessar bækr hafa nú viðhafðar verið:

1. Sagan er prentuð eptir skinnbókinni Nr. 2845 í 4blf. *(A)* í enu eldra konúngliga handritasafni, og er bók þeirri áðr fulllýzt við Hervarar sögu í fyrsta bindinu. Samhljóða henni er Nr. 202f. í arkarf., og hefir *Arni Magnússon* skrifað á fremsta blað henni þetta: *Ex Membrana in 4to e Bibliotheca Regia, quæ omnium hodie extantium hujusmodi historiarum originalis est, etiamsi chartæ inter sese paulum varient.* Pappírshandritin Nr. 202c í arkarf. og Nr. 40 í 4blf. í Viðbætirnum, sem bæði eru með hendi *Asgeirs Jónssonar*, skrifara *þormóðar* (*Torfæi*) sagnaritara, eru og samhljóða skinnbókinni, líka Nr. 202d og 202e í arkarf., sem þó eru seinna skrifuð.

2. Nr. 202b í arkarf. með hendi Síra *Jóns Erlendssonar* í Villíngaholti *(E)*, víkr bók þessi nokkuð frá *A*, og þikkir svo sem hún við stöku orð taki henni fram, en sleppir þó stundum málsgreinum, sem betr ferr að haldið sè og hin hefir; er þó orðamunr sá eigi meiri enn svo eða á annann hátt, enn að fyrr greind orð *Arna Magnussonar* vel geti staðizt, því afskrifarinn má stundum hafa viljað laga, en stundum yfirsèzt stöku orð. Við *E* á Nr. 202a í arkarf. með hendi *Jóns* prests *Gissurssonar*.

3. *Björners* útgáfa *(B)*; ferr nærr *E*, en hefir þó málsgreinir þær, er hin sleppir.

3. FRIDÞJOFS SAGA ENS FRÆKNA, bls. 61-100. Saga sú er áðr útgefin í *Björners Nordiska*

*Kämpadater*, með svenskri og látínskri útleggíngu; skáldið *Samsöe* hefir samið æfintýri úr henni á dönsku og kallað *Frithjof, en Fortælling* (í hans *Efterladte digteriske Skrifter, 1ste Deel*), en annað skáldið *Söetoft* hefir fært hana í sjónarspil (hans *Romantiske Digte*, 1815). Eptir sögu þessari hefir og skáldið *Tegner* biskup orkt kvæði það á svensku, er *Fridthjofs Saga* nefnist; því er snúið á dönsku af *Foss*, á þýzku af *Mohnike* og í fleiri mál af öðrum.

þessar bækr hafa viðhafðar verið:

1. Sagan er prentuð eptir pappírshandritinu Nr. 173 í arkarf. *(A)*, er það með hendi *Ásgeirs Jónssonar*, og þótti skipuligast og bezt af öllum handritunum.

2. *Björners* útgáfa *(B)*, er mjög samhljóða *A* nema hvað sumstaðar er heldr úr lagi fært.

3. Pappírshandritið Nr. 109 í 8blf. *(C)*, skrifað dag 25 Jan. 1660. því er samhljóða pappírshandritið Nr. 342 í 4blf., ritað 21 dag Febr. 1653.

4. Nr. 1006 í arkarf, er það pappírsbók í eldra handritasafninu í bókasafni Konúngs *(D)*. Henni eru helzt samhljóða papp. handritin Nr. 339, 568 (3) og 591c, í 4blf., líka Nr. 3b í arkarf. í Viðbætirnum með hendi *Ásgeirs Jónssonar*, og eru þau handrit öll ýngri, en ekkert af öllum þeim handritum, er nú voru talin að sögu þessari, er öðru, svo telja megi, frábrugðið.

Önnur frásögn sögu þessarar, og mjög frábrugðin þeirri, er nú var viðkomið, er til í skinnbókinni Nr. 510 í 4blf., *(M)*; er bók sú eigi allvel né regluliga skrifuð, og mun hún vera rituð á 15du öld, hún segir þvínær hvervetna frá atburðunum með öðrum orðum og stundum á annann hátt, eru og þarí nokkrar vísur umfram hina; og þó víðast þikki þar frásögninni og vísunum verr farið enn í hinni, þótti hæfiligt að hnýta henni hérvið, er hún mun áðr ókunn vera; hún er því prentuð aptan við bindi þetta orðrétt eptir téðri skinnbók með smærra letri, bls. 488 - 503.

4. AF UPPLENDINGA KONUNGUM, bls. 101-106. þáttr þessi er áðr útgefinn ásamt þáttinum af Ragnars sonum, sem frá var skírt í formálanum við 1sta bindið, í *Langebeks Scriptores Rerum Danicarum, T.* 2, bls. 266-270, og er hann þar prentaðr eptir enni sömu ágætu skinnbók Nr. 544 í 4blf. (*A*), sem hèr er nú fylgt; er skinnbók þeirri áðr fulllýst framan við 1sta bindið.

5-6. SAGA KETILS HÆNGS, bls. 107-139, og SAGA GRIMS LODINKINNA, bls. 141-157. Sögur þessar eru áðr útgefnar af *Ole Rúdbeck*, með látínskri útleggingu *Isleifs þorleifssonar*, ísl., ásamt Örvar-Odds sögu og Hèðins og Högna sögu eða Sörla þætti, *Upsala* 1697 í arkarf.

þessar bækr hafa nú hagnýttar verið:

1. Sögurnar eru prentaðar eptir Nr. 343 í 4blf. (*A*), er það lambskinnsbók vel rituð og settliga, og að líkendum skrifuð á 14du öld; hún er víða máð og daufletruð og því allopt óhæg að ráða úr; á henni eru margar þær sögur, er í þessu og 3ðja bindinu verða útgefnar og ýmsar fleiri. Rèttritun í henni er lítt frábrugðin þeirri, sem vanaligust er í góðum skinnbókum, og má þess hèr viðgeta, að opt kemr þar *zs* eða *z* fyrir *ds* eða *s*, t. d. b ó n o r z s, R a u ð f e l l z s, t i l m ó z s, H a r a l z, k a l l z, I s l a n z, o. s. frv.; líka O z fyrir O d d s, stundum f i e l l, h i e ð a n f. f è l l, h è ð a n; ennfremr: a n n l i t f. a n d l i t. e i r n f. e i n n, s o f. s v á, s e a f. s á, og s e ó f. s j ó, a t h f. a t eða a ð, og víða *th* í orðum, þar sem nú er ð hljóð brúkað.

2. Skinnbókin Nr. 471 í 4blf. (*B*), líkliga skrifuð á 15du öld eða seinna, og þó allskipuliga, á henni er og Örvar-Odds saga, Krókarefs saga og ýmsar fleiri. Hún er hvervetna mjög samhljóða *A*, nema hvað málsgreinum er sumstaðar sleppt, og er það auðsjáanliga af vangá. Rèttritun í henni er nokkuð með gömlu móti,

en það er helzt afbrugðit, að opt stendr *ör* f. *úr*, líka kvat f. kvað, er og c brúkað mjög fyrir *k*, t. d. com drece, o. s. frv.

3. Skinnbókarblað í Nr. 567 í 4blf. (*C*), er byrjar í niðrlagi 1sta kap. sögu Gríms loðinkinna, og nær fram í annann kap., byrjar þá aptr seint í 2um kap., og endar síðan í niðrlagi hans. Brot þetta er af bók í stóru 4blf., er hverju blaði hefir verið skipt í 2 dálka, en þeir eru 2 einir hèr eptir orðnir, er að kjölnum vissu. Síðari blaðsíðan er svo máð, að eigi verðr fráðið nema lítinn hluta hennar, en brotið sjálft er allgamalt.

4. Pappírshandarritið Nr. 340 í 4blf. (*D*) er með fljótaskriftarhendi Síra *Jóns Gissurssonar*; á því eru allflestar sögur þær, sem í *A*, og mun það vera allt afskrift af bók þeirri; var þess og helzt getið þessvegna, að á stöku stað, er *A* var máð og lítt til úrræða, var við það stuðzt.

5. Pappírshandarritið Nr. 173 í arkarf. (*E*) með hendi *Ásgeirs Jónssonar*, er víða fáorðara, sleppir og stundum heilum málsgreinum; í því eru og margar vísnanna úr lægi færðar, en þeim sumstaðar sleppt, og er þar innihaldið dregið í óbundna ræðu, en vera má að allr sá mismunrinn sè tilkominn af gálausri ritun sagnanna og misskilníngi vísnanna. Handriti þessu eru því nær samhljóða pappírs handritin Nr. 172 í arkarf. með sömu hendi, líka 342 og 552q í 4rablf. og 109 í 8blf., eru þau reyndar lítt merk. Við *E* kemr og *Rudbecks* útgáfu saman, og er hun þó víða svo afbökuð og úr stað færð, að varla mætti sumstaðar þikkja trúanda, að sama væri frásögnin. Það má hèr greina, að eigi er þess allstaðar getið, sem *E* fellir undan smá málsgreinir, því slíkt þótti allopt litlu varða.

7. ÖRVAR-ODDS SAGA, bls. 159-322. Saga þessi er áðr útgefin með látínskri útleggíngu *Isleifs Þorleifsonar*, ísl., af *Ole Rúdbeck*, Upsala 1697 í arkarf.;

hún er og útgefin í *Rasks Sýnishorni af fornum og nýjum norrænum ritum í sundrlausri og samfastri ræðu, Stokkholm*, 1819, 8blf., og er henni þareptir snúið á svensku af *J. G. Liljegren* í hans *Skandinaviska Fornålderns Hjeltesagor, 2 Del*; en sú frásögn sögunnar, er stendr í þessari útgáfu og útleggíngu hennar, er nú var síðast greind, er hinni mikið olík, hún er víðast fáorðari hinni, og sleppir mörgum atburðum, þeim er helzt eru ýkjur í hinni, mun hún hinni því eldri.

Þessar bækr hafa nú hagnýttar verið:

1. Sagan er prentuð eptir lambskinnsbókinni Nr. 343 í 4blf. (*A*), sem áðr er lýst við Ketils sögu og Gríms. Við hana kemr pappírshandritinu Nr. 344 í 4blf. saman, líka pappírshandarritsbrotinu Nr. 591 í 4blf.

2. Kálfskinnsbókin Nr. 471 í 4blf. (*B*), henni var og hèr á undan lýst, og má það sama merkja hèr og þar um orðamun hennar, en jafnan er hann hèr gjörsamliga tekin og viðsettr.

3. Tvö skinnbókarblöð úr Nr. 567 í 4blf. (*C.*) eru gömul á að líta úr bók í 4rablf., og eru að miklu leiti lítt læsilig, hafa og aungan orðamun, er mót sè að. Þaú taka yfir frá niðrlagi 10da kap. og inní 20 kap.

4. Pappírsbókin Nr. 340 í 4blf. (*D*), sem lýst var við Ketils sögu og Gríms, og má allt segja það sama um hana við sögu þessa sem hinar.

5. Pappírsbókin Nr. 173 í arkarf. (*E*), henni var og áðr lýst; orðamun hennar við sögu þessa er við líka varið og við hinar var greint, og víkr hún þó hèr allt meira frá *A*. Við hana kemr saman pappírshandritunum Nr. 342 og 552q í 4rablf., líka Nr. 109 í 8blf. og Nr. 3a í arkarf. úr Viðbætirnum (*Additamentis*); *Rúdbecks* útgáfa fylgir og *A* á sama hátt sem í Ketils og Gríms sögum.

6. Kálfskinnsbókin Nr. 76b, í 4blf. úr Viðbætirnum (*M*). Tvö fremstu blöð bókar þessarar eru ágæta-

vel skrifuð, og þikkja mjök gömul vera, líkliga frá 14du öld; en ýmislig fábreytni í rèttrituninni, t. d. Rafnisto, fyrer, heiter, seger, mælte, kende, komenn, búenn, boðet, aðrer, seglen, þesse, henne, í Víkene, tíðende, til sveinsens, egi f. eigi, o. s. frv. þikkir benda til, að bókin sè rituð í Noregi. Að undanteknum greindum 2 blöðum er öll bókin aptr yfirskrifuð með seinni hendi, því eldri ritböndin mun hafa verið orðin afmáð, og er þó niðrlagið með enn seinni hendi enn hlutinn sá þángað aptr frá fyrstu 2 blöðunum, og víkr frásögnin, úr því hönd sú byrjar, enn meir enn áðr frá *A*. *Arni Magnússon* hefir á blaði ritað athugasemd um bókina: „þessi Örvar-Odds saga var aptan við Alexandrí Magní sögu með ágætri gamalli hendi ritaða; ek separeraði þetta. Bókina hefi eg fengið í Noregi." Frásögnina í bók þessari og *A* skilr svo mikils, að anngvan veginn mátti taka orðamun algjörliga, nema við vísur og ýmsa aðra staði, er mest þótti tilkoma, en hins er þó jafnan getið í athugasemd, hvar sagan fellir undan mikið eða eykr við. Æfidrápuna vantar alla.

7. Við æfidrápuna er og orðamunr tekinn af útgáfu sögunnar í Sýnishorni *Rasks (R)*, eptir pappírshandriti því, er hann hagnýtt hafði.

Saga þessi, sem hana finna má í Sýnishorni *Rasks*, er prentuð eptir agætri kálfskinnsbók Nr. 7 í 4blf. í enu konúngl. handritasafni í Stokkhólmi. Prófessór *Rask* ætlar hana telja megi meðal eldri skinnbóka, og kveðr þó sjá megu merki til, að hún sè eptir eldri bók skrifuð. Rèttritun hennar er ágæt og það helzt frábrugðit, er bókstafirnir *l* og *n* jafnan tvöfaldast, þó einfaldt sè hljóðið, t. d. frænndi, ráðanndi, helldi, skylldi, er það og frábrugðið, er skrifast bœ f. bæ, Hrafnistö, fegrstö, Vínö, feár, hanum, 1 f. einn. Smbr. *Liljegrens Hjeltesagor, 2 Del, Formáli, bls. XXXII-XXXVI.* Þó í þeirri frásögn

sögunnar, er tèð skinnbók hefir, standi alllítið það, er *A* eigi flytr, sem og hefir margt umfram hina, þótti þó hæfiligt, er þessi meðferð sögunnar mun eldri, að hnýta henni hèrvið, og er hún því í niðrlagi bindis þessa, bls. 504-59 prentuð með smærra letri eptir útgáfu Próf. Rasks og með ljúfu leyfi hans.

8. ANS SAGA BOGSVEIGIS, bls. 323-362. Saga sú er áðr útgefin með svenskri og látínskri útleggíngu í *Björners Nordiska Kämpadater.*

Nú hafa þessar bækr viðhafðar verið:

1. Sagan er prentuð eptir skinnbókinni Nr. 343 í 4blf *(A)*, eins og 3 fyrirfarandi sögurnar, og er henni við þær lýst. Samanvið hana kemr pappírshandritunum Nr. 345, 560c, 587d í 4blf. og 109b í 8blf, sem öll eru því lítt merk, þegar hennar viðnýtr.

2. Pappírsbókin Nr. 340 í 4blf. *(D)*, sem og er lýst við fyrirfarandi sögur; hún er þó nokkuð frábrugðnari *A* hèr, enn í þeim var hún.

3. Pappírsbókin Nr. 173 í arkarf. (*E*); hún ferr allnærri *A* í sögu þessari og mikið nærr enn í hinum. Henni eru pappírshandritin Nr. 172 í arkarf. og Nr. 109a í 8blf. samhljóða.

4. *Björners* útgáfa (*B*); víkr mikið frá í orðatiltæki, og vísurnar vanta þar, en frá efni þeirra er sagt í sundrlausri ræðu, er svo að virða sem frásögn þessi sè samsett eptir rímum, sem orktar hafi verið útaf sögunni, eða annars kostar er hún mjög afbökuð úr enni eldri frásögn.

9. SAGA AF HROMUNDI GREIPSSYNI, bls. 363-380. Saga sú er áðr útgefin með svenskri og látínskri útleggíngu af *Björner* í *Nordiska Kämpadater.*

Nú eru þessar bækr hagnýttar:

1. Sagan er prentuð eptir pappírshandritinu Nr.

587 í 4blf. (*A*) með látínu letri og hendi *Asgeirs Jónssonar*, því engin skinnbók mun nú til af sögu þessi.

2. *Björners* útgáfa (*B*), henni og *A* berr mjög lítið í millum.

4. Pappírshandritið Nr. 345 í 4blf. með hálfsettri hendi (*C*), er því nær samhljóða *B*. Pappírshandritinu Nr. 3e í arkarf. í Viðbætirnum berr og saman við það.

10. SAGA ÞORSTEINS VIKINGSSONAR, bls. 381-459. Saga sú er áðr útgefinn með svenskri útleggíngu og athugasemdum af *Reenhjelm*, *Upsala* 1680 8blf.

Nú eru þessar bækr viðhafðar:

1. Sagan er prentuð eptir kálfskinnsbókinni Nr. 152 í arkarf. (*A*) að líkindum rituð í byrjun 15du aldar. Réttritun hennar er nokkuð að seinni tímalagi og eigi allstöðug. Eptir henni er pappírshandritið Nr. 341 í 4blf. skrifað, er henni og samhljóða papp. hrð. Nr 170 í arkarf.

2. Skinnbókarbrotið Nr. 579 í 5blf. (*B*), er það trauðliga seinna ritað enn á miðri 15 öld, fyrsta brot þess nær framí 4ða kap.; byrjar þá 2að brotið í 12 kap., og endar aptr í 16 kap.; það víkr alllítið frá *A*. I réttritun þess verðr það helzt fyrir fábreytiligt, að *w* er brúkað fyrir *u* og *v*, t. d. wr, war, o. s. frv. líka er *aa* viðhaft f. *á*, þá er og eft, ath o. s. frv. skrifað f. ef, at.

3. Skinnbókin Nr. 556b. í 4blf. (*C*) álíka gömul og sú fyrirfarandi, og eigi allvel rituð; í hana vanta einatt málsgreinir, en líkist að öðru leiti *B*.

4. Skinnbókarbrotið Nr. 567 í 4blf. (*D*), að líkindum ritað við byrjun 15du aldar; það byrjar á sögunni, og nær fram í 13 kap., vantar þó stundum í það blöð, sem sjá má af athugasemdunum undir sögunni.

5. *Reenhjelms* útgáfa (*R*).

Þaraðauk eru til í handritasafni *Arna Magussonar* þessi pappírshandrit af sögunni: Nr .342b, 345, 552kβ,

591d 4rablf., líka Nr. 109 í8blf., en þau eru lítilfjörlig og ómerkilig, er skinnbækr þær, er nú var frá greint, voru brúkaðar, þar flest munu þau eptir þeim rituð og þó illa. Pappírshandritin Nr. 169c í arkarf. og 342a í 4blf. innihalda og ómerkiligt ágrip af sögunni.

**11.** ASMUNDAR SAGA KAPPABANA, bls. 461-487. Saga sú er áðr útgefin af *J. F. Peringskjöld* með svenskri og látínskri utleggíngu, *Stockholm*, 1722 í arkarf.

Nú eru þessar bækr brúkaðar við útgáfuna:

1. Sagan er prentuð eptir enni ágætu skinnbók Nr. 7 í 4blf. í bókasafni Konúngs í Stokkhólmi, byrjar hún þar á 104 bls. Bókar þessarar er áðr getið við Örvar-Odds sögu. Handrit það, sem saga þessi er prentuð eptir, á útgefarinn Cand. Theol. Þorgeiri Gudmundssyni að þakka, sem það skrifaði í Stokkhólmi eptir skinnbókinni, er hann sumarið 1827 ferðaðist þángað í erindum ens Konúngliga Norræna Fornfræða felags.

2. Skinnbókarbrotið í Nr 586 í 4blf. (*B*), mun ritað við lok 14du eða byrjun 15du aldar, það byrjar öndverðliga í 5ta kap., og endar í byrjun 8da kap, I því er eigi alllítill orðamunr, og var hann tekinn, þar sem nokkru þótti sæta.

3. *Peringskjölds* útgáfu berr allstaðar, að kalla má, saman við *A*, en hefir þó í einum stað viðbætt málsgrein, sem vantar í *A* í 8da kap., og má því eigi fyrir víst segja, hvort hún er prentuð eptir tèðri skinnbók.

Kaupmannahöfn þann 28 Janúarií 1829.

## Hversu Noregr bygðist.

Nu skal segja dæmi til, hversu Noregr bygðist í fyrstu, eðr hversu konúnga ættir hófust þar; eðr í öðrum löndum, eðr hví þeir heita Skjöldúngar, Buðlúngar, Bragníngar, Öðlíngar, Völsúngar[1] eða Niflúngar, sem konúnga ættirnar eru afkomnar. Fornjótr[2] hèt maðr; hann átti 3 sonu, var einn Hlèrr, annarr Logi, þriði Kári; hann rèð fyri vindum, en Logi fyrir eldi, Hlèrr fyri sjó. Kári var faðir Jökuls, föður Snærs konúngs; en börn Snærs konúngs voru þau Þorri, Fönn, Drífa ok Mjöll. Þorri var konúngr ágætr; hann rèð fyri Gottlandi, Könlandi ok Finnlandi; hann blótuðu Könir til þess, at snjófa gerði, ok væri skíðfæri gott; þat er ár þeirra; þat blót skyldi vera á miðjum vetri, ok var þaðan af kallaðr þorramánaðr. Þorri konúngr átti 3 börn; synir hans hètu Norr ok Gorr, en Gói dóttir; Gói hvarf á brott, ok gerði Þorri blót mánaði síðarr, enn hann var vanr at blóta, ok kölluðu þeir síðan þann mánað, er þá hófst, Gói. Þeir Norr ok Gorr leituðu systur sinnar; Norr átti bardaga stóra fyri vestan

[1] Vaulsúngar, *þannig F.* [2] Forv...., *óglöggt í F.*

Kjölu, ok fèllu fyrir honum þeir konúngar, er svâ heita: Vee ok Vei, Hundíngr ok Hemíngr, ok lagði Norr þat land undir sik allt til sjófar. Þeir bræðr fundust í þeim firði, er nú er kallaðr Norafjörðr; Norr fór þaðan uppá Kjölu, ok kom þar, sem heita Úlfamóar; þaðan fór hann um Eystri-Dali, ok síðan í Vermaland, ok með vatni því, er Vænir heitir, ok svâ til sjófar; þetta land allt lagði Norr undir sik, allt fyri vestan þessi takmörk; þetta land er nú kallaðr Noregr. At miðjum vetri komu þeir í Heiðmörk; þar var sá konúngr fyrir, er Rólfr í Bergi hèt; hann var son Svaða jötuns norðan af Dofrum, ok Áshildar, dóttur Eysteins konúngs, er lengi hafði ráðit fyrir Heiðmörk[1]. Rólfr í Bergi hafði tekit Gói, ok gengit at ega hana; en er hún spurði til Nors bróður síns, þá fór hún ímót honum, ok þau Rólfr, ok gaf hann sik upp í vald Nors, ok gerðist hans maðr. Eptir þat fór Norr til veizlu til mágs síns, ok fèkk Norr Höddu, dóttur Svaða jötuns, systur Rólfs. Eptir þat fór Norr konúngr vestr aptr til sjófar, ok þá hitti hann Gor, bróður sinn; hann var þá kominn norðan or Dauðahafi[2], ok hafði eignast eyjar allar á þessari leið, bæði bygðar ok úbygðar. Þá skiptu þeir bræðr ríkinu með sèr, svâ at Norr skyldi hafa meginland allt norðan frá Jötunheimum ok suðr til Álfheima, þat heitir nú Noregr; en Gorr skyldi hafa eyjar allar, þær

[1]) Hei . . . *óglöggt í F.* [2]) *óglöggt í F; máske þó rèttara* Dumbshafi.

er lágu á bakborða elliða hans, er hann ferði norðan með landi. Þeir voru synir Gors sækonúngs: Beiti ok Heiti, Meitir ok Geitir. Beitir sækonúngr fór með elliða inní Þrondheim[1], ok inní Beitsjó; hann lèt gera skipsleða undir elliðann, en snjór var mikill ok sleðfæri gott; þá settist Beitir í lyptíng, ok lagði stýri í lag, ok lèt draga upp segl, ok lèt menn sína draga elliðann norðr um Elliða-eið til Naumudals, ok eignaði sèr land allt þat, er lá á bakborða. Beiti sækonúngr var faðir Heita sækonúngs, föður Svaða; en Geitir var faðir Glamma ok Gylfa. Meiti sækonúngr var faðir Mæfils ok Myndils; Myndill var faðir Ekkils ok Skekkils. Norr var faðir þessara manna, en Hödd, dóttir Svaða, móðir: Þrándar ok Garðs, er kallaðr var agði; en er þeir skiptu arfi, þá hlaut Þrándr Þrándheim, ok heitir því svâ. Garðr-agði var faðir þeirra, er svâ heita: Hörðr, Rúgálfr, Þrymr, Vegarðr, Freygarðr, Þorgarðr ok Grjótgarðr. Hörðr laut Hörðaland or skipti; hans son var Jöfurr eðr Jösurr, faðir Hjörs konúngs, föður Hjörleifs hins kvennsama. Rúgálfr átti Rogaland; hans son var Rögnvaldr, faðir Ögvalds konúngs. Þrymr átti Agðir; hans son var Agði ok Agnarr, faðir Ketils þryms, er bú átti í Þrumu. Vegarðr átti Sygnafylki; hann var faðir Veðrorms, föður Vemundar hins gamla, er Sygni trausti kallaðist. Freygarðr átti Fjörðu

[1]) *þannig.*

ok Fjalir; hans synir voru þeir Freysteinn gamli, er bú átti á Gaulum, ok Freybjörn, faðir Auðbjarnar, föður Arinbjarnar Fyrða jarls. Þorgarðr átti Sundmæri; hans son var Þorviðr, faðir Arnviðar trèserkjabana[1], föður þeirra Slæviðar ok Bráviðar. Grjótgarðr átti Norðmæri; hans son var Salgarðr, faðir Grjótgarðs, föður Sölfa, föður Högna í Njarðey, föður Sölfa víkíngs ok Hildar hinnar mjófu, er átti Hjörleifr hinn kvennsami; Hálfr berserkr var þeirra son. Annarr son þeirra Grjótgarðs var Sigarr, faðir Signýjar, er átti Haraldr Naumdæla jarl, faðir Herlaugs, föður Grjótgarðs, föður Hákonar jarls, föður Sigurðar jarls, föður Hákonar Hlaðajarls. Raumr, son Nors konúngs, tók ríki eptir feðr sinn; hann átti Álfheima, ok svâ vítt ríki, sem ár þær falla, er þar spretta upp; þaðan fellr Lögrinn austan um dal í Mjörs, en þaðan Vermá í Raumelfi, en hún til sjófar; af Vermá fellr Raumá ofan eptir Raumsdal; af Vermá fellr Eystri-Elfr um Eystri-Dali ok í Væni, en þaðan Gautelfr til sjófar. Raumr konúngr átti samdrykkju um jól við Bergfinn, son Þryms jötuns af Vermá, ok gekk þá í rekkju Bergdísar, systur hans; ok eptir þat gat hún 3 sonu, Björn, Brand ok Álf; hann fóstraði Bergfinnr, ok var kallaðr Finn-Álfr; Björn var með móður sinni, ok var kallaðr Jötun-Björn; Brand sendi hún Rauma, föður hans; en hann gaf hann guðunum, ok var hann kallaðr Guð Brandr; honum gaf Raumr konúngr dali

[1]) *máske heldr*, berserkjabana?

þá, er Guðbrandsdalir heita; Jötunbirni gaf hann Raumsdal, en Álfi Eystri-Dali, ok allt fyri norðan Væni, ok frá Gautelfi ok norðr til Raumelfar; þat voru þá kallaðir Álfheimar. Guðbrandr Dala-konúngr var faðir Auðleifs, föður Guðmundar konúngs; hans son var Guðbrandr, er eigi vildi láta kalla sik konúng, ok lèt gefa sèr jarls nafn, fyri því, at hann vildi vera ríkastr jarl á Norðrlöndum; hans son var Geirmundr jarl, faðir Roðgeirs jarls, föður Guðbrands, er eigi vildi vera konúngr nè jarl, ok lèt gefa sèr hersis nafn, ok rèð þó löndum sem konúngr, ok at engu var hann úríkari; hans allir ættmenn voru síðan hersar. Jötunbjörn hinn gamli var faðir Raums konúngs, föður Hrossbjarnar, föður Orms skeljamola, föður Knattar, föður þeirra þórólfs hálma ok Ketils raums; synir þórólfs voru þeir Helgi, faðir Bersa, föður þormóðs, föður þorlaugar, móður Túngu-Odds. Finnálfr hinn gamli fèkk Svanhildar, er kölluð var Gullfjöðr; hún var dóttir Dags Dellíngssonar ok Sólar, dóttur Mundilfara; sonr þeirra var Svanr hinn rauði, faðir Sæfara, föður Úlfs, föður Álfs, föður þeirra Íngimundar ok Eysteins. Raumr hinn gamli fèkk síðarr Hildar, dóttur Guðrauðar hins gamla, sonar Sölva konúngs, er fyrstr ruddi þar, sem nú heita Sóleyjar; en synir hans voru þeir Guðröðr, Haukr, Haddíngr ok Hríngr. Guðröðr var konúngr eptir feðr sinn, ok konúngar voru allir hans ætt-

menn; Eysteinn illráði var hans son; hann setti Inn-þrændum hund sinn fyri konúng, er Saurr hèt, fyri þat er þeir höfðu drepit Önund, son hans, er hann hafði þar sett til lands gæzlu.

*Ættartala frá Höð*[1].

2. Höðr átti þar ríki, er kallat er Haðaland; hans son var Hoddbroddr, faðir Rólfs, föður Rómundar berserks, föður þeirra Hámundar, Haka ok Gunnhlaðar, móður þeirra Útsteins ok Innsteins. Hámundr var Hörða jarl; hann var faðir Hróks hins svarta ok Hróks hins hvíta. Haki var faðir Hroðgeirs, föður Hroðmars, föður Haka berserks; Gunnlöð var dóttir Hróks hins svarta, en móðir Hrómundar Grípssonar. Haddíngr, son Rauma, átti Haddíngjadal ok Þelamörk; hans son var Haddíngr, faðir Haddíngs, föður Högna ens rauða; eptir hann tóku ríki Haddíngjar 3, ok var hverr þeirra eptir annann; Helgi Haddíngjaskati var með einum þeirra. Hríngr konúngr, son Rauma, átti Hríngaríki ok Valldres; hann fèkk dóttur Vífils sækonúngs; þeirra son var Hálfdán gamli; ok þá er hann tók konúngdóm, gerði hann blót mikit at miðjum vetri, ok blótaði til þess, at hann skyldi mega lifa 300 vetra í konúngdómi sínum, sem sagt var, at lifat hefði Snærr hinn gamli; en frèttin sagði honum svâ, at hann mundi lifa ekki meirr, enn einn mannsaldr, en þat mundi vera 300

[1]) Hauð, F.

vetra, at engi mundi vera útíginn maðr í hans ætt ok engi kona. Hann var hermaðr mikill, ok herjaði víða um' Austrveg; þar drap hann þann konúng, er Sigtryggr hèt, í einvígi; hann gekk at ega Álfnýju, dóttur Eymundar konúngs or Hólmgarði; þau áttu 9 sonu: hèt einn Þengill, er kallaðr var Manna-Þengill, Ræsir, Gramr, Gylfi, Hilmir, Jöfr, Tiggi, Skýli ok Harri; þessir 9 er sagt, at allir væri jafngamlir, ok urðu svâ ágætir, at í öllum fræðum eru þeirra nöfn höfð fyri tignarnöfn ok konúnganöfn; svâ er sagt, at engi þeirra ætti börn, ok fèllu allir senn í orrostu. Enn áttu þau aðra 9 sonu, hètu þeir Hildir, Næfill, Auði, Skelfir, Dagr, Bragi, Buðli, Lofði, Sigarr. Hildir, Sigarr ok Lofði, voru allir herkonúngar; Auði, Buðli ok Næfill, voru sækonúngar; Dagr, Skelfir ok Bragi, sátu at löndum. Dagr átti Þóru drengjamóður, ok áttu þau 9 sonu: hèt einn Óli, annar Ámr, þriði Jöfr, fjórði Arngrímr. Óli var faðir Dags, föður Óleifs, föður Hríngs, föður Óláfs[1], föður Helga, föður Sigurðar hjartar, föður Ragnhildar, móður Haralds hins hárfagra; sú ætt Haralds var kölluð Döglíngar. Arngrímr átti Eyfuru; þeirra son var Ángantýr berserkr. Bragi gamli var konúngr á Valdresi; hann var faðir Agnars, föður Álfs, föður Eireks, föður Hildar, móður Hálfdánar ens milda, föður Guðröðar, föður Hálfdánar svarta, föður Haralds hins hárfagra; þessi ætt Haralds heita Bragníngar. Skelfir

[1]) *þannig.*

var konúngr á Vörs; hans son var Skjöldr, faðir Eireks, föður Álfreks, föður Eireks hins málspaka, föður Álreks hins frækna, föður Vikars, föður Vatnars, föður þeirra Ímalds ok Eireks, föður Gýðu, er átti Haraldr enn hárfagri; þat heitir Skilfínga ætt, eða Skjöldúnga ætt. Hildir var enn fimmti son Dags[1]; hann var faðir Hildibrands, föður Vígbrands, föður Hildis ok Herbrands, föður Haralds ens Grænska, föður Ásu hinnar stórráðu, móður Hálfdánar svarta, föður Haralds hins hárfagra. Sigarr var faðir Siggeirs, er átti Signýju, dóttur Völsúngs konúngs; Sigarr var ok faðir Sigmundar, er átti Hildi, dóttur Grjótgarðs konúngs af Mæri; hans son hèt Sigarr, faðir Signýjar; hann lèt hengja Hagbarð; þat heitir Siklínga ætt. Lofði var konúngr mikill; þat herlið, er honum fylgdi, eru Lofðar kallaðir; hann herjaði á Reiðgotaland, ok varð þar konúngr; hans synir voru þeir Skekkill sækonúngr ok Skýli, faðir Egðis, föður Hjálmþèrs, föður Eylíma, föður Hjördísar, móður Sigurðar Fáfnisbana, föður Áslaugar, móður Sigurðar orms í auga, föður Áslaugar, móður Sigurðar hjartar, föður Ragnhildar, móður Haralds hins hárfagra; þessir ættmenn Haralds eru kallaðir Lofðúngar. Auði ok Buðli voru sækonúngar, ok fóru báðir saman með her sinn; þeir komu með liði sínu til Saxlands, ok herjuðu þar víða, lögðu undir sik Valland ok Saxland, (ok) settust þar at löndum. Auði

[1]) Hálfdánar?

hafði Valland, ok var faðir Fróða, föður Kárs, föður Ölrúnar; þat eru kallaðir Öðlíngar. Buðli hafði Saxland, hann var faðir Attíls, föður Vífils, föður Lènfa[1], föður Buðla, föður Sörla eða Serla, ok Atla ok Brynhildar, móður Áslaugar; ok er sú ætt Haralds hins hárfagra kölluð Buðlúngar. Næfill konúngr var faðir Heimars, föður Eynefs, föður Raka[2], föður Gjúka, föður þeirra Gunnars ok Högna, Guðrúnar, Guðnýjar ok Gullrandar; ok er þat kölluð Niflúnga ætt. Nú eru taldar konur þær, er fyrst komu í ætt Hálfdánar gamla; en þá er hin fyrsta kona kom í ættina, var liðit 300 vetra frá blótinu, er Hálfdán blótaði til aldrs sèr ok ríkis.

*Ættartala.*

3. Álfr konúngr hinn gamli rèð fyrir Álfheimum; hann var faðir Álfgeirs, föður Gandálfs, föður Álfhildar; Álfhildr var móðir Ragnars loðbrókar, föður Sigurðar orms í auga, föður Áslaugar, móður Sigurðar hjartar, föður Ragnhildar, móður Haralds hins hárfagra. Haraldr hinn gamli, son Valdars hins milda Hróarssonar, átti Hervöru Heiðreks dóttur, konúngs; þeirra son var Hálfdán snjalli, faðir Ívars víðfaðma, föður Auðar innar djúpauðgu; hana átti Hrærekr slaungvanbaugi; þeirra son var Haraldr hilditönn; síðarr átti Auði Raðbarðr konúngr; þeirra son var Randverr, faðir Sigurðar ríngs, föður Ragnars loðbrókar, föður Sigurðar, föður Áslaugar, móður Sigurðar, föður Ragn-

[1]) Leenfua, *F.* [2]) *eða* Ráku *eða* Rakn.

hildar, móður Haralds hins hárfagra, er fyrstr var einvalds konúngr yfir Noregi.

*Ættartala Haralds frá Óðni.*

4. Burri hefir konúngr heitit, er rèð fyri Tyrklandi; hans son var Burr, er var faðir Óðins Ása konúngs, föður Freyrs, föður Njarðar, föður Freyrs, föður Fjölnis, föður Sveigðis, föður Vandlanda, föður Visburs, föður Dómalda, föður Dómars, föður Dyggva, er vèr köllum Tryggva, föður Dags, föður Agna Skjálfar-bónda, föður Álreks, föður Yngva, föður Jórmunfróða, er vèr köllum Jörund, föður Ana ens gamla, er vèr köllum Ön[1], er 9 vetr drakk horn fyrir elli sakir, áðr hann dó. Ön var faðir Egils tunnadólgs, föður Ottars vandilskráku, föður Aðils at Uppsölum, föður Eysteins, föður Íngvars hins hára, föður Braut-Önundar, föður Íngjalds ens illráða, föður Ólafs trètelgju, föður Hálfdánar hvítbeins, föður Eysteins, föður Hálfdánar ens milda ok matarilla, föður Guðröðar veiðikonúngs, föður Hálfdánar svarta, föður Haralds hins hárfagra.

*Ættartal.*

5. Skjöldr hèt son Óðins Ása-konúngs; hann var faðir Friðleifs, föður Friðfróða, föður Friðleifs, föður Hávarðs ens handramma, föður Fróða, föður Vermundar ens vitra, föður Ólafs ens lítilláta, föður Dans ens mikilláta, föður Fróða ens friðsama, föður Friðleifs, föður Fróða ens frækna,

[1]) Aun, F.

föður Íngjalds Starkaðar-fóstra, föður Hræreks hnöggvanbauga, föður Hálfdánar, föður Hræreks slaungvanbauga, föður Haralds hilditannar; bróðir Haralds var Randverr, faðir Sigurðar hríngs; er þá slík ættartala til Haralds konúngs hins hárfagra, sem fyrr segir.

*Ætt Haralds frá Adam.*

6. Adam skapaði guð fyrst allra manna; Seth var son hans, hans son Enos, hans son Kaynan, hans son Malaleel, hans son Phareth, hans son Enoch, hans son Mathúsalem hinn gamli, hans son Lamech; þá var úti enn fyrsti heimsaldr; hans son var Nói, er örkina smíðaði, hans son Japhet, hans son Japhan, hans son Zechim, hans son Cíprus, hans son Cretus eða Telíus[1], hans son Satúrnus í Krít, hans son Júpíter, hans son Daríus, hans son Eríthóníus, hans son Tróes, hans son Ílus, hans son Lamídon, hans son Príamus höfuðkonúngr. Munnon eða Memnon[2] hèt konúngr í Tróju; hann átti Tróanam, dóttur Príamí konúngs; hans son hèt Trórr, er vèr köllum Þórr, hans (son) var Lóritha[3], er vèr köllum Hlóriða, hans son Eredeí, er vèr köllum Eindriða, hans son Víngi-Þórr, hans son Vínginerr, hans son Móði, hans son Mági, er vèr köllum Magna, hans son Seseph, hans son Beðúis, hans son Atra, hans son Trínan, hans son Heremoth, er vèr köllum Hermóð, hans son Skjaldin, er vèr köllum Skjöld, hans son

1) *eða* Celius. 2) *eða* Mennon. 3) *eða* Loricha.

Beaf, er vèr köllum Bjár, hans son Goðólfr, hans son Burri, er vèr köllum Finn, hans son Frjáláfr, er vèr köllum Bors, hans son Vóðen, er vèr köllum Óðinn, hann var Tyrkja konúngr; hans son Skjöldr, hans son Friðleifr, hans son Friðfróði, hans son Herleifr, hans son Hávarðr enn handrammi, hans son Fróði, hans son Vemundr enn vitri, hans dóttir Ólöf, hún var móðir Fróða ens friðsama, hans son Friðleifr, hans son Fróði enn frækni, hans son Hálfdán, hans son Hróarr, hans son Valdarr enn mildi, hans son Haraldr gamli, hans son Hálfdán snjalli, hans son Ívarr víðfaðmi, hans dóttir Auðr en djúpauðga, hennar son Randverr, hans son Sigurðr hríngr, hans son Ragnarr loðbrók, hans son Sigurðr ormr í auga, hans dóttir Áslaug, hennar son Sigurðr hjörtr, hans dóttir Ragnhildr, hennar son Haraldr konúngr hinn hárfagri; verðr þessi tala einum manni fátt í sjötugu at meðtöldum bæði Adam ok Haraldi.

*Hverir konúngar stýrt hafa Noregi.*

7. Son Haralds hárfagra hèt Sigurðr hrísi; hans son Hálfdán, hans son Sigurðr sýrr, hans son Haraldr hinn harðráði, bróðir Ólafs ens helga, hans son Ólafr kyrri, hans son Magnús berbeinn, hans son Haraldr gilli, hans son Sigurðr munnr, hans son Sverrir magnus, hans son Hákon harmdauði, hans son Hákon gamli, hans son Magnús, er lögbók sendi til Íslands, þá er kölluð er Jónsbók; hans son Hákon háleggr, hans dóttir Íngibjörg, hennar son Magnús góði, Eiríksson, lánga-hertuga; hans

son Hákon, hans son Ólafr, er þá var 10 vetra, er faðir hans andaðist; hann var konúngr yfir Noregi, Danmörk ok öllum þeim skattlöndum, er þar liggja til, ok rèttr erfíngi alls Svíaríkis, er Albrikt, son Mækinborgar-greifa, hèlt; hann var systurson Magnúss konúngs góða, föðurföður Óláfs. Þessi Ólafr var heitinn eptir hinum heilaga Ólafi konúngi Haraldssyni eptir sjálfs hans tilvísan; hann var þá konúngr, er sjá bók var tilrituð[1]; þá var liðit frá híngatburð vors herra Jesú Kristí 1300 ok 80 ok 7 ár.

8. Þessir hafa stýrt Noregi: Ólafr konúngr, sem nú sagði, þá Hákon konúngr, þá Magnús konúngr góði, þá Hákon háleggr, þá Eirekr ok Magnús, þá Magnús, er bókina setti, þá Hákon úngi, jafnfram Hákoni gamla, föður sínum, þá Íngi Bárðarson ok Erlíngr steinveggr ok Philippus Bagla-konúngr, þá Hákon harmdauði, þá Sverrir magnus ok margr lýgikonúngr um hans daga; þá Magnús Erlíngsson ok Eysteinn birkibeinn, þá Hákon herðibreiðr, þá Íngi krypplíngr ok Eysteinn ok Sigurðr munnr, þá Haraldr Gilli-Kristr ok Magnús blindi ok Sigurðr slembidjákn, þá Sigurðr Jórsalafari, Eysteinn ok Ólafr, þá Magnús berbeinn ok Hákon Þórisfóstri, þá Ólafr enn kyrri ok Magnús, faðir Hákonar Þórisfóstra, þá Haraldr hinn harðráði, þá Magnús enn ríki, son Ólafs ens helga, þá óforsynju-konúngr Sveinn Alfivuson ok Knútr enn ríki, þá Ólafr hinn helgi Haraldsson, þá Eirekr,

[1]) *þannig leiðrètt í F úr* skrifuð.

jarl, Sveinn jarl ok Hákon jarl, þá Ólafr Tryggvason, þá Hákon blótjarl enn ríki; þá Haraldr Gráfeldr, þá Hákon Aðalsteinsfóstri, þá Eirekr blóðöx, þá Haraldr hinn hárfagri, er fyrstr var einvaldskonúngr yfir öllum Noregi, svâ at sögur finnist til.

*Hvarf Ólafs konúngs Hákonarsonar.*

9. Ári síðarr, enn fyrr segir, hvarf Ólafr konúngr Hákonarson; sögðu Danir hann dauðan, en Norðmenn vildu ekki trúa því. Þá var tekin til ríkisstjórnar yfir Noreg ok Danmörk dróttníng Margrèta, móðir Ólafs konúngs, en dóttir Valdamars Dana-konúngs, eptir er hún lèt fánga Albrikt.

## Fundinn Noregr.

Fornjotr hefir konúngr heitit; hann rèð fyrir Jótlandi[1], er kallat (er) Finnland ok Kvenland; þat er fyrir austan hafsbotn þann, er[2] gengr fyri móts við Gandvík, þat köllu vèr Helsíngjabotn. Fornjótr átti 3 syni, hèt einn Hlèrr, er vèr köllum Ægi, annarr Logi, þriði Kári; hann var faðir Frosta, föður Snærs hins gamla; hans son hèt Þorri; hann átti 2 syni, hèt annarr Norr, en annarr Gorr; dóttir hans hèt Gói. Þorri var blótmaðr mikill; hann hafði blót á hverju ári at miðjum vetri, þat kölluðu þeir þorrablót; af því tók mánaðrinn heiti. Þat var tíðenda einn vetr at þorrablóti, at Gói hvarf í brott, ok var hennar leita farit, ok finnst hún eigi; ok er sá mánaðr leið, lèt Þorri fá at blóti, ok blóta til þess, er þeir yrði vissir, hvar Gói væri niðrkomin; þat kölluðu þeir góiblót; einskis urðu þeir vísir um hana at heldr. Þrim vetrum síðarr strengdu þeir bræðr heit, at þeir skyldu hennar leita, ok skipta svâ leitinni, at Norr skyldi leita

1) *máske* Jötunlandi. 2) liggr fyrir austan hafsbotn þann, *ofaukið í*.

um löndin, en Gorr skyldi leita um útsker ok eyjar, ok fór[1] hann á skipum; hvorrtveggi þeirra bræðra var fjölmennr. Hèlt Gorr skipum sínum úteptir hafsbotnum ok svâ í Allannshaf; síðan kannar hann víða Svíasker ok allar eyjar, er liggja í Eystrasalti, eptir þat í Gautasker, ok þaðau til Danmerkr, ok kannar þar allar eyjar; hann fann þar frændr sína, þá er komnir voru af Hlè hinum gamla or Hlèssey, ok hèlt hann þá enn fram ferðinni, ok spyrr ekki til systur sinnar; en Norr, bróðir hans, beið þess, er snjó lagði á heiðar, ok skíðfæri gerði gott; eptir þat fór hann af Kvenlandi, ok fyrir innan hafsbotninn, ok kvomu þar, er þeir menn voru, er Lappir heita, þat er á bak Finnmörk; en Lappir vildu banna þeim yfirför, ok tókst þar bardagi; ok sá kraptr ok fjölkýngi fylgdi þeim Nor, at úvinir þeirra urðu at gjalti, þegar þeir heyrðu heróp, ok sá vopnum brugðit, ok lögðu Lappir á flótta. En Norr fór þaðan vestr á Kjölu, ok var lengi úti, ok svâ, at þeir vissu ekki til manna, ok skutu dýr ok fugla til matar sèr; fóru þar til, er vötn hnigu til vestrættar af fjöllum; þá fara þeir með vötnunum, ok kvomu at sjá; þar var fyri þeim fjörðr mikill, sem hafsbotn væri; þar voru bygðir miklar, ok dalir stórir gengu at firðinum; þar var safnaðr fyri þeim, ok rèðu þeir þegar til bardaga við Nor, ok fóru þeirra skipti eptir vana: allt fólk fèll þar eða flýði;

[1]) *þannig leiðrètt;* forir, *F.*

en Norr ok hans menn gengu yfir, sem log[1] yfir akra. Fór Norr um allan fjörðinn, ok lagði undir sik, ok gjörðist konúngr yfir þeim hèruðum, er þar lágu innan fjarðar. Norr dvaldist þar um sumarit, þartil er snjáfaði á heiðar; þá stefndi hann uppeptir dalnum þeim, er suðr gengr af firðinum; sá fjörðr er nú kallaðr Þrándheimr; suma menn sína lætr hann fara hit fremra um Mærina; hann lagði undir sik, hvar sem hann fór; ok þá er hann kemr suðr yfir fjallit þat, er var fyri sunnan dalsbotninn, sótti hann suðr eptir dölunum, þartil er hann kom at vatni miklu, er þeir kölluðu Mjörs; þá snýrr hann enn vestr á fjallit, þvíat honum var sagt, at menn hans höfðu farit úsigr fyri konúngi þeim, er Sókni hèt. Þá kvomu þeir í þat hèrað, er þeir kölluðu Valdres; þaðan fóru þeir til sjófar, ok kvomu í lángan fjörð ok mjófan, er nú heitir Sogn; þar var fundr þeirra Sókna, ok áttu þeir þar orrostu mikla, þvíat Sókna brá ekki við fjölkýngi þeirra; Norr gekk fram hart, ok skiptust þeir Sókni höggum við; þar fèll Sókni ok margt lið hans.

*Ferð Nors eptir Noregi at leita systur (sinnar).*

2. Eptir þat fór Norr í fjörð þann, er norðr gengr af Sogni; þar hafði Sókni fyriráðit, er nú heitir Sóknadalr; þar dvaldist Norr lengi, ok heitir þar nú Norafjörðr. Þar kom til móts

[1]) *þannig leiðrètt;* lok, *F.*

við hann Gorr, bróðir hans, ok hafði þá hvorgi þeirra spurt til Gói. Gorr hafði ok undir sik lagt land allt et ytra, er hann hafði sunnan farit; ok þá skiptu þeir löndum með sèr bræðr; hafði Norr meginland allt, ok Gorr skal hafa eyjar þær allar, er hann ferr stjórnföstu skipi milli ok meginlands. Ok eptir þat ferr Norr til Upplanda, ok kom þar, sem nú heitir Heiðmörk; þar rèð sá konúngr fyrir, er hèt Hrólfr or Bjargi; hann var son Svaða jötuns norðan af Dofrum. Hrólfr hafði numit á brott af Kvenlandi Gói Þorradóttur; hann fór þegar til móts við Nor, ok bauð honum til einvígis; þeir börðust lengi, ok varð hvorgi sárr; eptir þat sættust þeir, ok fèkk Norr systur Hrólfs, en Hrólfr fèkk Gói. Þaðan snèri Norr aptr norðr til ríkis þess, er hann hafði undir sik lagt; þat kallaði hann Norveg; rèð hann því ríki, meðan hann lifði, en synir hans eptir hann, ok skipta þeir landi með sèr, ok tóku svâ ríki at smækkast, sem konúngar tóku fjölgast, ok greindust svâ í fylki.

*Beitir fèkk Noreg.*

3. Gorr[1] hefir ok verit kallaðr sækonúngr; hans synir voru þeir Heiti ok Beiti; þeir voru sækonúngar ok ofstopamenn miklir; þeir gengu mjök á ríki sona Nors, ok áttu þeir margar orrostur, ok sigruðust ýmsir. Beitir lagði inní Þrand-

[1]) *þannig leiðrètt, sjá bls.* 5; Norr, *F.*

heim, ok herjaði þar; hann lá þar, er nú heitir Beitisær eða Beitistöð; þar lèt hann draga skip or Beitistöð innanverði, ok norðr yfir Æskrueið; þar gánga Naumudalir at norðan; hann settist í lyptíng, ok hèlt um hjálmvöl, ok eignaðist land allt þat, er var á bakborða, ok eru þar margar bygðir. Heitir, son Gors, var faðir Sneiða[1] sækonúngs, föður Hálfdánar hins gamla, föður Ívars Upplendínga jarls, föður Eysteins glumru, föður Rögnvalds jarls hins ríka ok hins ráðsvinna.

[1]) *eða* Sveiða, *F.*

# SAGA

AF

# HÁLFI OK HÁLFSREKKUM.

## Saga af Hálfi ok Hálfsrekkum[1].

Álrekr[2] hèt konúngr, er bjó á Álrekstöðum[3]; hann rèð fyrir Hörðalandi; hann átti Signýju, dóttur konúngs af Vörs; Kollr hèt hirðmaðr hans, ok fylgdi hann konúngi norðr í Sogn, ok sagði konúngi allmikit frá vænleik Geirhildar Drífsdóttur, þvíat hann hafði sèt hana við munngátsgjörð, ok kveðst honum unna þess ráðs. Til fundar við Geirhildi kom Höttr, er Óðinn var reyndar, þá er hún var at lèreptum; hann keypti því við hana, at Álrekr konúngr skyldi ega hana, en hún skyldi á hann heita til alls; konúngr sá hana, er hann fór heim, ok gjörði brúðlaup til hennar et sama haust. Konúngr launaði Koll vel trúleik sinn, ok gaf honum jarlsdóm ok atsetu í Kollsey fyri sunnan Harðsæ[4], ok er þat fjölbygt hèrað. Álrekr konúngr mátti eigi ega þær báðar fyrir ósamþykki þeirra, ok kvaðst þá þeirra ega skyldu, er betra öl gjörði mót honum, er hann kæmi heim úr leiðángri. Þær keptust um ölgjörðina. Signý hèt á

[1]) Saga af Alfi ok Alfsrekkum, *E.* [2]) Alfrekr, *allstaðar, B, E.*
[3]) Alfreksstöðum, *B, E.* [4]) Hörðsæ, *E.*

Freyju, en Geirhildr á Hött; hann lagði fyri dregg hráka sinn, ok kvaðst vilja fyri tilkvâmu sína þat, (er) var milli kersins ok hennar; en þat reyndist gott öl; þá kvað Álrekr:

Geirhildr getta!
gott er öl þetta,
ef því annmarkar
aungvir fylgja;
ek sè hánga
á háfum gálga
son þinn, kona!
seldan Óðni.

Á þeim misserum var fæddr Víkarr, son Álreks konúngs ok Geirhildar.

2. Ögvaldr[1] Rogalands konúngr, bjó á Roga á Jösurheiði; hún er ímilli Rogalands ok Þelamerkr; þat kalla menn nú Viði; hann fór á dýraveiði; honum fylgdi hirð hans, ok þar fæddi dróttn'ng svein þann, er Jösurr hèt; þann fóstraði Gunnvaldr Storða[2]-jarl. Hæklíngr víkíngr kom með her sinn á hendr Ögnvaldi konúngi; í þeirri orrostu fèll Ögnvaldr konúngr, ok var hann heygðr á Ögnvaldsnesi. Finnr enn au'gi af Akranesi, landnámamaðr, lá við Ögnvaldsnes, ok (var) búinn til Íslands, ok spurði, hversu fyri laungu Ögnvaldr konúngr fèll; hann heyrði vísu þessa kveðna í hauginn:

Þat var fyri laungu,
er leið hèldu

[1]) Ögnvaldr, *allstaðar*, *E.* [2]) Skotta, *rángt*. *B.*

heldr hundmargir
Hæklíngs feru[1];
sigldu um salta
slóð birtínga,
þá varð ek þessa
þorps ráðandi.

3. Gunnvaldr jarl ok Kollr báðu einnar konu báðir, ok fékk[2] Gunnvaldr. Eptir þat kom Kollr með lið mikit í Storð á laun, ok lögðu eld í hús Gunnvalds Roga; Gunnvaldr gekk út, ok var drepinn. Þá hafði Jösurr verit konúngr nokkura stund; síðan fór hann með lið mikit at hefna fóstra síns; ok er Kollr sá siglíng hans, þá ljóp hann á herskip sín, ok sigldi norðr um Harðsæ í Grafdalsvog. Þá kom Álrekr konúngr til móts við Koll, fámennr, þvíat hann vissi eigi ófriðar von. Þá börðust þeir Jösurr konúngr, ok fèllu þeir Álrekr konúngr ok Kollr, ok mestr hlutr liðs þeirra. Vikarr, son Álreks konúngs, kom eigi fyrr úr liðsamnaði, enn Jösurr konúngr var burt farinn. Í þeirri ferð lagði Jösurr undir sik ríki þat allt, er átt hafði Kollr.

4. Mörgum vetrum síðarr kom Vikarr konúngr fjölmennr á hendr Jösuri, þá er hann var í því ríki, er Kollr hafði átt, ok áttu þeir orrostu; ok þar fèll Jösurr konúngr fyrir[3], ok allir bændr þess hèraðs; því heitir þat Kvennahèrað, at þar bygðu ekkjur einar eptir. Síðan eignað-

[1]) *líkl.* ferju; varu, *B*; veru, *E*; *aðr.* keilu, *í spázíunni* á 202 f. [2]) *þannig leiðrètt*; fèll, *A og hin.* [3]) honum, *b. v. B, E.*

ist Vikarr ríki þat allt, er átt hafði Kollr. Fyri þat fór Hjörr[1] Jösursson (móti) Vikari, ok áttu þeir orrostu lánga hríð sín ímillum, ok höfðu ýmsir betr, ok sættust um síðir. Sonr Vikars var Vatnarr, er heygðr var í Vatnarshaugi; hans synir voru þeir Snjallr ok Hjallr, er liggja í Bræðrahaugi.

5. Hjörr[2] konúngr Jösursson var ríkr konúngr, ok varð sóttdauðr, ok var heygðr á Rogalandi; hans son var Hjörleifr Hörðalands konúngr; [hann rèð ok fyri Rogalandi, ok var allríkr konúngr[3]; hann var kallaðr Hjörleifr enn kvennsami; hann átti Æsu ena ljósu, dóttur Eysteins jarls af Valdresi. Hjörleifi brustu lausafè fyrir örleika; hann lèt gera skip af virktum, ok fór til Bjarmalands. Högni enn auðgi bjó í Njarðey[4] fyri Naumudalsmynni; hann tók vel við Hjörleifi konúngi, ok var hann þar þrjár nætr, ok gekk at ega Hildi hina mjófu, dóttur Högna, áðr hann fór brott, ok fór hún með honum til Bjarmalands, ok Sölvi, bróðir hennar. En er Hjörleifr konúngr kom í Vínumynni, skipti hann liði sínu í 3 þriðjúnga; á skipi hans voru 90 manna; þriðjúngr liðs hèlt upp bardaga með honum við landsmenn, annarr þriðjúngr liðs varðveitti skip með stýrimanni, en þriði þriðjúngr braut haug með stafnbúa, ok fengu þeir mikit fè. Á sunnanverðri Finnmörk í Gjarðeyjargeima[5] lá

1) *þannig B*; *v. í A, E.* 2) *þannig B, E*; Kjör, *A.* 3) *v. í E.* 4) Njandey, *E.* 5) Gjarðeyjarhólma, *E.*

Hjörleifr konúngr um nótt, ok höfðu sveinar eld á landi, ok fóru tveir menn at sækja vatn til lækjar, er fèll af bjargi fram; þar sá þeir brunnmiga[1], ok sögðu Hjörleifi konúngi; síðan heitir konúngr broddspjót í eldi, ok skaut til hans; konúngr kvað:

Gakk þú[2] frá brunni,
gletta littu við mik,
þræll herfiligr!
þíns innis til;
man ek senda þèr
sveiðanda spjót,
þat er gyrja mun
granir þínar.

Þá tóku þeir vatn; en þussinn skauzt inní bjargit; þá er þau sátu við eld, þá kvað þussinn af bjargi annat ljóð:

Veit eigi[4] gjörla
víf þitt, konúngr!
hvat hnekkja mun
hennar sælu;
vèr verðum þèr[5],
Hildr! Hjörleifi
haldtu nær loga.

Þá skaut Hjörleifr hinu sama spjóti í auga því trölli[6]. Högni bauð Sölva ok Hildi at vera þar eptir, en konúngr vildi þat eigi. Síðan fóru

[1]) brunnúnga, *E*; brunnauga, 202 e. [2]) *þannig B*; gekk þú, *A*; gekk þá, *E*. [3]) sverðandi, *E*; svíðandi, 202 e. [4]) ek, *B*, *E*. [5]) u. uerðum þèr, *A*; undum þín, *B*, *E*; *hèr er ein staka gleymd; kannske:* vísir! lostinn. [6]) Síðan sigldi Hjörleifr suðr til Njarðeyjar, *b. v. í spáziunni á* 202 f.

ambáttar 2 með Hildi[1], en 20 karlar með Sölva. Æsa varð ófegin konúngi ok hans föruneyti, en allir aðrir fegnir.

6. Hjörleifr konúngr fór með skipi sínu til Konúngahellu, því sem hann hèlt til Bjarmalands; þeir Reiðarr, Sjálands konúngr, settu búðir sínar et nærsta þar. Heri, son Reiðars konúngs, gjörði sèr kært við Hjörleif konúng; á þeim fundi eggjaði hann föður sinn at bjóða heim Hjörleifi konúngi. Reiðarr konúngr sagði, at þat mundi at engri gæfu verða, en lagði þó leifi til ok fjármuni; þeir höfðu samflot til Danmerkr. At því boði sá Hjörleifr konúngr Hríngju, dóttur Reiðars konúngs; Hèri fýsti þess ráðs, ok fylgdi henni skipshöfn manna, ok farmr allr. Í Jótlandshafi lá Hjörleifr konúngr í lognrètt; ok er hann fór í sólar upprás, sá hann í norðr koma uppor sjónum mikit fjall, ok jafnt vaxit sem mann; þat' kvað:

Ek sè Hríngju
haug um orpin,
en Hèra híngat
hvatinn spjóti;
sè ek Hjörleifi
höft[2]-bönd snúin,
en Hreiðari
huginn gálga.

Þá gengu ekki skipin; þá bað konúngr taka til ára. Þá kendi Hríngja sèr sóttar; þeir lögðu upp árar; hún andaðist at jafnlengd þess, er hún

[1]) hann, *A*, *E*. [2]) haupt, *A*; höfuð, *B*.

hafði sótt' tekit, ok varð skotit kistu hennar fyri borð, en hún fór svâ skjótt suðr aptr, sem róit væri sexærðu skipi. Hèri fann kistuna rekna skamt frá naustum föður síns, ok sagði honum til, ok kvað Hjörleif konúng mundu hafa myrðt hana.

7. Þetta haust rèru feðgar tveir á fiski, ok drógu marmendil[1], ok hèt annarr Handir, en annarr Hrindir; þeir færðu hánn Hjörleifi; konúngr fèkk hann í hendr hirðkonu einni, ok bað hana gjöra vel við hann; enginn maðr fèkk orð af honum. Kertisveinar glímdu, ok slökktu ljósin. Í því bili sló Hildr[2] horni á skikkju Æsu; konúngr sló hana með hendi sinni; en Æsa sagði hundinn valda, er lá á gólfinu; þá laust konúngr hundinn; þá hló marmendill; konúngr spurði, hví hann hló; hann svarar: þvíat þèr varð heimslíga, þvíat þaü munu þèr líf gefa; konúngr spurði hann fleira; hann svarar aungu; síðan lèzt konúngr mundu flytja hann til sjófar, ok bað hann segja sèr þat, er hann þyrfti at vita; hann kvað, er hann fór til sjófar:

Ek sè lýsa
lángt suðr í haf,
vill Danskr konúngr
dóttur hefna;
hann hefir úti
ótal skipa,
býðr hann Hjörleifi

[1]) marbendil, *allstaðar B.* [2]) Hilder, *hèr A.*

hólmstefnu til;
varast þú vítr[1], ef þú villt,
vil ek aptr í sjá.

En er þeir rèru þángat með hann, sem þeir höfðu hann uppdregit, þá kvað hann:

Sögu kann ek segja
sonum Háleygja,
vilgi góða,
ef þèr vilið heyra:
hèr ferr sunnan
Svarðar dóttir,
um-drifin dreira,
frá Danmörku.

Hefir sèr á höfði
hjálm uppspentan,
herkuml harðligt
Hèðins af lètta[2];
skamt man sveinum,
sè þat sem er,
hildar at bíða
hèr á ferli.

Bresta mun baugröst[3],
brá mèr augum
um hèruð híngat
hegna til þegna;
hafa skal hverr drengr
hjörnjót[4] ok mörg spjót,
áðr komi mikil fram
málmahríð síðan.

1) víti, *B, E.* 2) afsetta, *B, E.* 3) *skrifað:* baugraust. 4) hjörmót, *B, E.*

þó man, ef þat er satt,
þá ferr illa, hafa[1]
allir alkeypt
ár, þá er kemr vár.

þá lèt Hjörleifr konúngr hann utanborðs. þá tók einn maðr í hönd honum, ok spurði: hvat er manni bezt? Marmendill svarar:

Kalt vatn augum,
en kvett tönnum,
lèrept líki,
lát mik aptr í sjó!
dregr mik engi
í degi síðan
maðr uppí skip
af marabotnum.

Konúngr gaf þeim [Handi ok Hrindi[2] land at búa á, ok þarmeð þræl ok ambátt.

8. Síðan lèt Hjörleifr konúngr fara örvarboð, ok samnaði liði at sèr; þá hina sömu nótt gó hundr hans Flóki, er aldrí gó, nema hann vissi konúngi ótta vonir. Um nóttina kom Reiðarr konúngr með her sinn, ok sló hríng um bæ Hjörleifs konúngs. Hjörleifr konúngr hleypti á manngarðinn, ok skaut aptr spjóti til liðsins; þá heyrði hann kallat fall Hèra. Konúngr sá or skógi bæjarbruna sinn ok burtsiglíng Reiðars konúngs með herfángi miklu. þetta

[1]) stafa *eða* stefna, *B.* [2]) Handar ok Hrindir, *B, E.*

sama haust kom Hjörleifr konúngr einskipa um nótt á bæ Reiðars konúngs, ok gekk einn til svefnhúss, en allar konur voru or rekkju[1] brottu nema Æsa ein. Konúngr bað hana koma sèr við Reiðar konúng; hún lysti[2] hann í vaðkeri sínu, ok sagði síðan Reiðari konúngi. Hjörleifr konúngr var uppfestr í konúngs höll með skóþvengjum sínum sjálfs, millum elda tveggja, at ráði Æsu; en hirðin sat við drykkju. Ámeðan vakti Hildr, ok jós mungáti í eldana, ok kvað Hjörleif þar vera; hún leysti hann svâ, at hún hjó með sverði skóþvengina. Reiðarr konúngr sat sofandi í hásætinu, en Æsa sat í knjám honum; Hjörleifr konúngr lagði í brjóst honum, ok gekk síðan til skips eptir liði sínu, ok lèt binda hirð Reiðars konúngs, ok gaf grið; en Reiðar konúng lèt hann hengja dauðan á gálga þann, er hann hafði honum ætlat. Þann enn sama aptann, er Hjörleifr konúngr kom, heyrði Reiðarr konúngr kveðit:

Minntist Reiðarr,
hvar Hèra felduð?
vo vaktist þar
fyri vestrdyrum;
enn man hún sinna[3]
til sala þinna,
byrsæl kona,
bíð þú enn, konúngr!

---

1) *þannig hin;* reycku, *A,* 2) læsti, *B.* 3) sína, *A; eða* sira, 202 c.

Hjörleifr konúngr lagði undir sik ríki þat allt, er átt hafði Reiðarr konúngr, ok setti þar Sölva Högnason, ok gaf honum jarlsdóm; en Hjörleifr konúngr fór til Noregs, ok hafði með sèr Hildi ok Æsu, ok kvaddi þíngs. Þat dæmdi landsfólkit, at Æsu væri drekkt í mýri; en Hjörleifr konúngr sendi hana uppá land (með) heimanfylgju sína. Sonr Hjörleifs ok Æsu var Óblöðr[1], faðir Ótryggs, föður Högna hins hvíta, föður Úlfs hins skjálga, er Reyknesíngar eru frákomnir.

9. Hjörleifr konúngr ok Hildr hin mjófa áttu 2 sonu, hèt hinn ellri Hjörólfr, en hinn ýngri Hálfr. Hjörleifr konúngr fèll í víkíngu. Ásmundr hèt konúngr; hann fèkk Hildar hinnar mjófu, ok fóstraði sonu Hjörleifs konúngs. Þá er Hjörólfr var 8 vetra, þá bjóst hann at fara í hernað; hann hafði hvert skip, er hann fèkk, smá ok stór, ný ok forn, ok hvern mann, er hann fèkk, frjálsan ok nauðgan. Þeir höfðu margt til vopna: stengr ok stafi, klumbur ok króka; fyri þá sök er þat kallat síðan Hjörólfsfæri, er ófimligt er. En er hann kom til orrostu við víkínga, þá treystist hann liðsfjölda, ok lagði til orrostu; hann hafði lið ókænt ok vâpnlaust, ok fèll margt lið hans, en sumt flýði. ok kom við þat aptr at hausti, ok varð hann lítill maðr fyri sèr.

10. Eptir um vorit var Hálfr 12 vetra gam-

[1]) Oblauðr, *E.*

all, ok var engi maðr jafnmikill, eða jafnsterkr, sem hann; þá bjóst hann at fara í hernað, ok hafði hann eitt skip nýtt ok vel búit. Á Hörðalandi var jarl sá, er Álfr hinn gamli hèt; hann átti Gunnlöðu, dóttur [Hrómundar berserks[1], systur Hámundar hersis hins frækna; synir þeirra voru 2, ok hèt hvorrtveggi Steinn; hinn ellri var þá 18 vetra gamall; hann var þá ráðgjafi Hálfs konúngs; enginn skyldi fara ýngri, enn hann, eða bernskari. Steinn mikill stóð í garðinum; engi skyldi fara, sá sem eigi fengi hafit steininn af jörðu; engi skyldi sá fara, at eigi væri hreystimaðr, svâ at aldrí kvíddi, eða mælti æðru, eða brygði grönum fyri sára sakir. Steinn hinn ýngri Gunnlaðarson var eigi færr fyrir aldrs sakir, þvíat hann var 12 vetra gamall. Hámundr hersir átti 2 sonu, ok hèt annarr Hrókr hinn svarti, en annarr Hrókr hinn hvíti; þeir voru valdir til ferðar þessarar. Áslákr hèt ríkr bóndi; hans synir voru þeir Egill ok Erlíngr[2]; þeir voru ágætir menn. Vemundr hèt merkismaðr Hálfs konúngs; 4 menn fylgdu honum or hirðinni. Þá var leitat um 11 fylki; fengust þar 12 menn; þar voru bræðr 2 Haukr ok Valr[3], Styrr hinn sterki, Dagr enn prúði, Börkr ok Brynjólfr, Bölverkr ok Haki, Hríngr ok Hálfdán, Stari ok Steingrímr, Stúfr[4] ok Gauti, Bárði ok Björn;

---

[1]) *þannig bætir Arni Magnússon við í spázíunni af 202 f; v. í A og hin.* [2]) Ellíngr, *A*; Erlendr, *E.* [3]) Völr, *E.* [4]) Staufar, *E.*

þeir voru 20 ok 3, er þeir ýttu hit fyrsta kveld, er þeir lögðu til hafnar; þá var regn mikit; þá bað Steinn tjalda; konúngr svarar: villtu enn tjalda húsa, sem heima? síðan kölluðu þeir hann Innstein. En um daginn eptir rèru þeir fyrir annes eitt í hvössu veðri; maðr stóð á nesinu, ok bað fars; konúngr bað hann standa á stýrstaungu til kvelds; hann kvað þat vel mælt, ok kvað sèr þá þikkja skipat nær konúnginum; svâ var gjört; þessi maðr var Steinn Gunnlaðarson hinn ýngri; hann var síðan kallaðr Útsteinn. Margt var gjört til varaðar þeirra lögum fyri kapps sakir; þat var eitt, at engi þeirra skyldi hafa lengra sverð, enn álnar, svâ skyldi nær gánga[1]; þeir lètu gjöra söx til þess, at þá skyldi höggin stærri; engi þeirra hafði minna afl, enn 12 meðalmenn; aldrí hertóku þeir konur nè börn; engi skyldi sár binda, fyrr enn at jafnlengd annars dags; við aungum var þeim tekit, er minni var at afli, eðr hreysti, enn nú var sagt. Þeir herjuðu víða um lönd, ok höfðu jafnan sigr. Hálfr konúngr var 18 sumr í hernaði, ok hafði jafnan sigr. Þat var siðr þeirra, at liggja jafnan fyrir annesjum; þat var annarr siðr þeirra, at tjalda aldrí á skipum, ok aldrí hálfsegl fyrir ofviðri; þeir voru kallaðir Álfsrekar, ok hafði hann aldrí fleiri á skipi, enn 60.

11. Hálfr konúngr fór til ríkis síns úr her-

[1]) hvörr öðrum, *b. v. B.*

naði; þeir fengu storm mikinn í hafi; skip þeirra varð ekki ausit; þá var þat ráðs tekit, at hluta menn fyri borð at fara[1], en þess þurfti eigi, þvíat hverr bauð sínum fèlaga fyri borð at fara; en er þeir stigu fyri borð, þá mæltu þeir: strálaust er fyri stokkum. En er Hálfr konúngr kom til Hörðalands, þá fór Ásmundr konúngr á fund hans, ok gjörðist hans maðr, ok sór honum eiða, ok bauð honum til veizlu ok hálfu liði hans. En annann morgin, er konúngr bjóst, ok sagði, at helmíngr liðs skyldi eptir vera á skipum, kvað Innsteinn:

Upp mundu vèr
allir gánga,
skatna beztir,
af skipum vorum,
láta brenna
bragnínga sveit,
ok Ásmundar lið
aldri týna.

Konúngr kvað:

Vèr skulum hálfir
herjar þessa
sáttir sækja
frá sjó neðan;
Ásmundr hefir
oss umboðna
hrínga rauða,
sem hafa viljum.

[1]) *b. v. B, E.*

Innsteinn kvað:

Sèr ei þú allan
Ásmundar hug,
hefir fylkir sá
flærð í brjósti;
mundir þú, þengill!
ef vèr því rèðum,
mági þínum
mjök lítt trúa.

Konúngr kvað:

Ásmundr hefir
oss um unnit
margar trygðir,
sem menn vitu;
man ei góðr konúngr
gánga á sáttir,
nè gramr annann
í griðum væla.

Innsteinn kvað:

Þèr er orðinn
Óðinn til gramr[1],
er þú Ásmundi
allvel trúir;
hann mun alla
oss um væla,
nema þú víti[2]
viðsjár fáir.

---

[1]) *óljóst* (...mr) *í A*; gramr, 202 f; snúinn, *B, E.* [2]) *þannig óljóst í A*; nokkrar, *B, E*; hermanni, 202 c.

Konúngr kvað:

Æ lystir þik
æðru at mæla,
man ei sá konúngr
sáttir rjúfa;
gull egum þar
ok gersimar,
hrínga rauða,
frá hans búum.

Innsteinn kvað:

Hálfr! dreymdi mik,
hygðu at slíku!
at logi lèki
um liði voru;
íllt væri þar
or at leysast;
hvat kvað þú, þengill!
þann draum vita?

Konúngr kvað:

Hrynja um herðar
þeim, er hamalt fylgja
grams verðúngu
gyldnar brynjur;
þat man á öxlum
öðlíngs vinum
ljóst at líta,
sem logi brenni.

Innsteinn kvað:

Enn dreymdi mik

öðru sinni:
hugða ek á öxlum
elda brenna;
gruna tek ek nokkut,
at þat gott viti;
hvat-kvað þú, þengill!
þann draum vita?

Konúngr kvað:
Gefa man ek hverjum
hjálm ok brynju
fræknra drengja,
er fylgja mèr;
þat man at líta,
sem logi brenni
skjöldúngs liði
of skararfjöllum.

Innsteinn kvað:
Þat dreymði mik
þriðja sinni,
at vèr í kaf niðr
komnir værum;
ega mun allstórt
um at væla[1];
hvat kvað þú, þengill!
þann draum vita?

Konúngr kvað:
Fulllángt er sjá
fíflskapr talaðr;
vera kveð ek ekki

[1]) væta, *B*, *E*.

undir slíku;
seg þú aungva,
svå at heyri,
drauma þína
í degi síðan!

Innsteinn kvað:

Illýði Hrókar
ok herkonúngr[1]
orðum mínum,
Útsteinn þriði:
gaungum allir
uppfrá ströndu,
kunnum ekki
konúngs mál um þat.

Útsteinn kvað:

Konúng látu vèr
keppinn ráða
fyri fólki
um farir vorar;
hættum, bróðir!
svå honum líki,
fjörvi okkru
með frömum vísi.

Innsteinn kvað:

Illýtt hefir fylkir
í förum úti
mínum ráðum
mörgu sinni;
nú kveð ek aungu,

[1]) herkonúngar, *B.*

er ek mæli,
hlýða vilja,
sízt híngat komum.

12. Hálfr konúngr gekk upp til bæjar Ásmundar konúngs með helmíng liðs síns; þar var fyri fjölmenni mikit; veizla var kappsamlig, ok drykkr svâ sterkr, at Álfsrekkar sofnuðu fast. Ásmundr konúngr ok hirðin lögðu eld í höllina. En sá, er fyrst vaknaði af Hálfsrekkum, sá höllina nær fulla af reyk; hann mælti: rjúka mun um hauka vora nú, sagði hann; síðan lagðist hann niðr ok svaf. Þá vaknaði annarr, ok sá, at höllin logaði, ok mælti: drjúpa mun nú vax af söxum; sá lagðist niðr. Ok þá vaknaði Hálfr konúngr; hann stóð upp, ok vakti liðit, ok bað þá vopnast; þeir hlupu þá á veggina, svâ at af gengu nafarnir af timbrstokkunum. Þá kvað Innsteinn:

Rýkr um hauka
í[1] höll konúngs[2];
von er, at rjúki
vax af söxum;
mál er gulli
ok gersimum
hjálmum skipta
með Álfsrekkum.

Hins fýsi ek nú,
at Hálfr vaki;
er ei af eklu

[1]) ok, B, E. [2]) konúngr, B, E.

eldar kyndnir[1];
áttu, mannbrjótr!
mági þínum
grimmlunduðum
gjafir at launa.
Hryndum heilir
hallar bjóri!
nú taka súlur
í sundrþoka;
æ man uppi,
meðan öld lifir,
Hálfsrekka för
til hertuga.
Hart skulum gánga
ok hlífa ekki við,
verðr vísis lið
at vega með söxum;
þeir skulu sjálfir
á sèr bera
blóðgar benjar,
áðr braki lètti[2].
Snúist snarliga,
snyrtidrengir!
útor eldi
með auðbrota;
enginn er ýta,
sá er æ lifir;
mun ei baugbroti
við bana kvíða.

1) kyndtir, *B*, *E*. 2) setti, *B*, *E*.

13. Svâ er hèr sagt, at Hálfr konúngr ok Hálfsrekkar kœmist útor eldinum, ok Hálfr konúngr fèlli fyrir ofrefli liðs, ok sveit hans. Innsteinn kvað, er konúngr var fallinn:

Hèr sá ek alla
einum fylgja
jafnröskliga
öðlíngs syni;
hittumst heilir,
þá hèðan líðum;
er eigi lèttara
líf, enn dauði.

þá komu Hálfsrekkar til orrostu, þeir sem við skip höfðu verit. þar fèll mikill hlutr Hálfsrekka; orrostan hèlzt alltil nætr, áðr Innsteinn fèll; Innsteinn kvað:

Hrókr er fallinn
með hertoga,
[frækn á[1] fótum
fólks oddvitinn;
egum Óðni
íllt at gjalda,
er hann slíkan konúng
sigri rænti.

Ek hefi úti
átján sumr
fylgt fullhuga,
flein at rjóða;
skal ek eigi annann

1) frækinn af, *B*, *E*.

ega drottinn
gunnar gjarnan,
nè gamall verða.
Hèr man Innsteinn
til jarðar hníga,
hoskr, at höfði
hers oddvita;
þat munu seggir
at sögum gjöra,
at Hálfr konúngr
hlæjandi dó.

14. Gunnlöð fór til valsins um nóttina, at leita sona sinna; hún fann Innstein dauðan, en Útstein særðan til ólífis, ok Bárð ok Björn; hún ók þeim til bæjar, ok græddi þá á laun, ok sendi þá síðan suðr til Svíþjóðar; fóru þeir Björn ok Bárðr á fund Sölva konúngs, móðurbróður Hálfs konúngs, en Útsteinn fór til Danmerkr til Eysteins konúngs, frænda síns. Hrókr enn svarti hafði mörg sár ok stór; hann gekk um nóttina frá orrostu, ok kom til kotbónda eins, er Skógkarl hèt; þar var hann, ok voru bundin sár hans; karl flutti hann norðr í Sogn til Geirmundar hersis, föðurbróður[1] síns; þar var hann græddr á laun, ok fór um haustit til Upplanda, ok austr til Gautlands; hann kom til Haka konúngs á Skáney, ok var með honum um vetrinn.

15. Útsteinn var með Eysteini konúngi.

[1]) bróður, *B.*

Úlfr hinn rauði hèt ráðgjafi Eysteins konúngs; hann átti 8 sonu, ok voru þeir allir hinir mestu kappar ok öfundsamir; þeir voru illa til Útsteins, ok sló[1] með þeim í kappmæli við drykkju; hitt var fyrr, at Útsteinn sagði frá falli Álfs konúngs; hann kvað þá:

Hitt hlæir mik
helzt í máli,
mun eigi Ásmundi
öll vo sofa;
þrír eru fallnir
af því liði,
Eynefs synir,
en einn lifir.

Útsteinn kvað, er Úlfr jafnaði sèr við hann, ok eggjaði hann:

Upp skulum rísa,
út skulum gánga,
ok ramligar
randir knýja;
hygg við hjálmum
híngat komnar
til Danmerkr
dísir vârar.

Úlfr kvað:

Yðr munu dauðar
dísir allar,
heill kveð ek horfna
frá Hálfsrekkum;
dreymdi mik í morgin,

[1]) *þannig B, E*; skó, *A*.

at megir vorir
efri yrði[1],
hvar er vèr mættumst.

Útsteinn kvað:

Sigrs vænti ek mèr
sýnu betra,
enn Úlfr vill
æskja Steini;
yðr mun snimma
á sverðtogi
haus um högginn,
en háls roðinn.

Úlfr kvað:

Munu þeir efri verða
Úlfssynir,
Oddr ok Örnólfr,
Atli[2] hinn svarti,
Börkr ok Brynjólfr,
Búi, Harðskafi[3],
Rauðr hinn rammi,
[ef þú reynir[4] til.

[Útsteinn kvað[5]:

Mundi ei Steini
[með Stara[6] þikkja
ógn at etja
við Úlfssonum,
þvíat eigi var

1) væri, *B*, *E*. 2) *þannig B*, *E*; Ati, *A*. 3) Harðfari, *B*, *E*.
4) ok Reinir, *E*. 5) *v. í. A*. 6) nè Stari, *B*, *E*.

vorum bróður
við dritmenni þitt
dramb at setja.
Þótti ei Hrókum,
nè Hálfdáni,
raun at berjast
við ragmenni,
þá er vèr fjórir
falla lètum
átta jarla
fyrir Annisnesi[1].
Fari Úlfssynir
út at berjast,
átta drengir,
við eitt höfuð!
mun ei stökkva,
þó Steinn hafi
færra nokkut
í flokki lið.
Hálfr[2], dreymdi mik,
hvati[3], at ek berðumst,
ok kveðst mèr frækn konúngr
fylgja skyldu;
hefir mèr gramr
verit góðr í draumi,
hvar vèr orrostu
ega skyldum.

Þá gengu þeir Úlfssynir ok Útsteinn út, ok

[1]) Aunds- *eða* Aununds-nesi, *B.* [2]) Hálf, *B*, *E*, [3]) hvar, *B*, *E*.

börðust; hann drap alla Úlfssonu, ok gekk síðan inn fyri konúng, ok kvað:

Nú er ek innkominn,
Úlfi at segja,
at hans synir
höggnir liggja,
nú fari, Eysteinn!
ef þèr vilið,
fleiri at freista
við fleina við[1].

Eysteinn kvað:

Sjálft man letja
slíks at freista,
Hálfs eru rekkar
hverjum meiri;
þik veit ek manna
miklu fremstan,
einn snjallastan,
er þú átta vótt[2].

Útsteinn kvað:

Alla munda ek
Eysteins liða
sverði beita
at sömu[3] hófi,
ef ek mèr þarfir
þess verks sæi,
eðr íllt með oss
áðr um væri.
Magni fýsir engi
við mik at deila,

[1]) nið, *B.* [2]) vógst, *B, E.* [3]) sönnu, *B, E.*

þvíat mèr var úngum[1]
aldr skapaðr;
ek hefi hjarta
hart í brjósti,
síst mèr í æsku
Óðinn framdi.

16. Hrókr enn svarti var með Haka konúngi; dóttir Haka konúngs var Brynhildr. Sveinn hinn sigrsæli hèt sá konúngr, er beðit hafði Brynhildar, en Haki konúngr synjaði; Sveinn strengdi heit, at verða bani þess manns, er ætti Brynhildi, ok svâ föður hennar. Hèðinn hèt jarl Haka konúngs, en Vífill son hans; hann bað Brynhildar, ok var honum heitit, ef hann verði land fyri Sveini. Hrókr enn svarti var þar ekki kendr, ok var hann í engum metnaði, ok sat í gestasæti. Þat var einn dag, at hirðin fór á dýraveiðar, en konur á hnetskóg; Brynhildr konúngsdóttir sá, hvar maðr stórr stóð við eyk eina; hún heyrði at hann kvað:

Nú mun segja
sonr Hámundar,
hvert eðli var
okkart bræðra:
minn var faðir
miklu fremri,
haukr gjörr at hug,
enn Haki yðvarr.
Vildi engi

1) *þannig B, E; ángum, A.*

við Vífil jafnast,
þóat Hámundar
hjarðar gætti;
sá ek aungan þar
svínahirði
huglausari,
enn Hèðins arfa.
Mín var æfi
miklu æðri,
þá er vèr Hálfi konúngi
hoskum fylgdum;
bárum allir
eitt ráð saman,
ok herjuðum
hvert land yfir.
Höfðu vèr allir
haukmanna lið,
hvar sem fróðhugaðr
frama kostaði;
gengu vèr ígegnum
með grá hjálma
fullstór öll
fóstrlönd níu.
Hálf sá ek höggva
höndum báðum,
hafði ei hilmir
hlífskjöld fyri sèr;
finnr engi maðr,
þó fari víða,
hæfra hjarta

ok hugprúðara.
Mæla virðar,
þeir er vitu eigi,
at Hálfs frami
heimsku sætti;
kann eigi sá
konúng Háleyskan,
er heimsku þrótt
honum eignaði.
Bað hann ei við dauða
drengi kvíða,
nè æðruorð
ekki mæla;
engi skyldi
jöfri fylgja,
nema forlögum
fylkis hèldi.
Skyldi ei stynja,
þóat stór hlyti
sár í sóknum
siklíngs vinir,
nè benjar sèr
binda láta,
fyrr enn annars dags
jafnlengd kæmi.
Bað ei hann í her
höptum[1] græta,
nè manns konu
mein at vinna;
mey bað hann hverja

[1]) *eða* hoptum.

mundi kaupa
fögru gulli
at föður ráði.
Voru ei svâ margir
menn á skeiðum,
at vèr á flótta
fyrir hèldum,
þóat miklu lið
minna hefðum,
svâ at ellifu
einum gegndi.
Höfðu vèr allir
enn efra hlut,
hvar sem Hildar
hlífar knúði[1];
einn vissa ek
jafnsnjallan gram,
Sigurð konúng,
at sölum Gjúka.
Margir voru
menn á skeiðum
góðir ok fræknir
með gram sjálfum:
Börkr ok Brynjólfr,
Bölverkr ok Haki,
Egill ok Erlíngr
Ásláks synir.
Mest voru mèr
manna hugðir:
Hrókr, bróðir minn,
ok Hálfr konúngr:

[1]) kendi, *B*, *E*.

Styrr ok Steinarr,
sterkir báðir,
snarráðir menn,
synir Gunnlaðar:
Hríngr ok Hálfdán,
Haukar báðir,
rèttir dómendr
Dana þjóðar,
Dagr hinn prúði,
Stari ok Steingrímr,
Styrr ok Gauti;
finnr þú aldrí
fríðari drengi.
Valr ok Haukr
í víkíngu
báðir fræknir,
buðlúngs vinir;
fáir mundu þeim
fylkis rekkum
hæfir þikkja
úr Haka veldi.
Hvergi þótta ek
í því liði
opt auðkvisi[1]
ættar minnar;
mik kvóðu þeir
mann snarpastan,
þvíat hverr öðrum
hróðrs leitaði.
Vo barr Vemundr,

[1]) aurkvisi, *B*; aukvysi, E.

er vega þorði,
Björn ok Bersi,
fyri buðlúngi;
fylgdi sínu
sá framligast
lofðúngr liði,
meðan lifa mátti.
Naut eigi svâ
aldrs, sem skyldi,
frækn landreki
við frama dáðir;
tólf vetra nam
tiggi at herja,
en þá var þengill
þrítugr, er dó.
Slíkt kennir mèr
at sofa lítit
marga grímu,
ok mjök vaka,
er bróðir minn
brenna skyldi
kvikr í eldi
með konúngs rekkum.
Sá hefir dagr um mik
daprastr komit
miklu í heimi,
svâ at menn vitu;
muna þikkjumst vèr
allir síðan,
at fylgja máttum
fræðum hollum.

Alls mundi mèr
ángrs lèttara[1],
ef ek Hálfs konúngs
hefna mættak,
svâ at Ásmundi
eggfránan hjör
bruna[2] baugspjót
brjóst raufgaðak.
Hefnt man verða
Hálfs ens frækna,
þvíat þeir göfgan gram
í griðum væltu;
olli morði
ok mannskaða
Ásmundr konúngr
illu heilli.
Þá man reyna,
ok raun gefa,
ef við Sveinn komum
saman í rómu,
hvorir í vígi
verða hæfri,
Hámundar bur,
eðr Haka þegnar.
Segi ek svâ kveðit
snotru vífi,
at ek Brynhildar
biðja mundak,
ef vita þættumst,
at vildi hún

[1]) lètta, *hin.* [2]) *þannig hin*; bana eða banna, *A.*

Hróki unna,
Hámundar bur.
Von væri mèr
vitra manna,
snarpra seggja,
ef vèr saman ættim;
þvíat ek fann ei mey
margsvinnari
hvergi landa,
enn Haka dóttur.
[Fann ek aldrí,
þó hefik farit víða,
hugþekkri mey,
enn Haka dóttur[1],
hún er at öllu
sem ek æskja man.
Hèr þikki ek nú
í Haka veldi
hornúngr vera
hverrar þjóðar;
allir egu
innarr at sitja
hálfu gjarnarr[2],
enn Hálfsrekkar.

Brynhildr, dóttir Haka konúngs, sagði föður sínum þat, er hún hafði heyrt, ok kvað þar mundu kominn einn af Hálfsrekkum; en er konúngr vissi þat, þá leiddi hann Hrók til sætis í öndugi, ok var hann þá í hinum mesta kærleik við konúng. Hrókr hinn svarti fèkk Bryn-

[1]) *v. í B, E.* [2]) *þannig B, E;* hálfar girmar, *A.*

hildar, dóttur Haka konúngs. Eptir um vorit fór Hrókr með her ímóti Sveini hinum sigrsæla, ok áttu þeir orrostu; þar fèll Sveinn, en Hrókr kom aptr með sigri til Haka konúngs. Eptir um sumarit höfðu þeir her úti, Sölvi konúngr ok Haki konúngr ok Hrókr hinn svarti, Eysteinn konúngr ok Útsteinn með honum; þeir fóru til Noregs, áttu orrostu við Ásmund konúng, ok feldu hann. Hjörr hèt son Hálfs konúngs, er þá var konúngr yfir Hörðalandi. Hrókr ok Útsteinn voru lengi síðan í víkíngu, ok voru enir mestu ágætismenn. Dóttir Hróks hins svarta ok Brynhildar var Gunnlöð, móðir Hrómundar Gripssonar[1].

17. Hjörr konúngr Hálfsson átti Hagnýju, dóttur Haka konúngs Hámundarsonar. Hjörr konúngr fór í konúngastefnu; en meðan fæddi Hagný 2 sonu, ok voru svartir ok furðu ljótir, ok hèt annarr Hámundr, en annarr Geirmundr. Þá fæddi ambátt ok son, ok hèt Leifr; hann var enn fríðasti; drottníng keypti[2] um sonu við ambátt, ok færði þann konúngi. Konúngr fór enn annat sinn í leiðángr, þá voru sveinarnir þrèvetrir. Leifr gugnaði, svâ sem á aldr hans leið; en Hámundr ok Geirmundr voru geysimiklir ok orðvísir. Bragi skáld kom þar at heimboði. Þat var einn dag, at karlar allir fóru á skóg, en konur á hnetskóg[3], ok var ekki heima manna í höllinni, nema Bragi sat í öndugi, en drottníng leyndist þar, ok var hulin klæðum. Leifr sat í hásæti, ok lèk sèr at gulli,

[1]) Greipssonar, *B*, *E*. [2]) skipti, *B*, *E*. [3]) hnotskóg, *B*, *E*

en Hámundr ok Geirmundr voru í hálminum niðrá gólfinu; þá fóru þeir til Leifs, ok skúfuðu honum úr sætinu, ok tóku þeir af honum gullit allt; hann grèt þá. Þá stóð Bragi upp, ok gekk þartil, er drottníng lá, ok drap staf ofaná klæðin, ok kvað:

Tveir eru,
ok trúek vel báðum,
Hámundr ok Geirmundr
Hjörvi bornir,
en Leifr þriði,
Loðhattarson,
fæddir eigi þú
þann mög, kona!

Síðan skipti Hagný aptr sveinunum við ambátt; en er Hjörr konúngr kom heim, þá barr hún sveinana til hans, ok sagði, at þeir voru hans synir. Konúngr svarar: berr íburt! sagði hann, eigi sá ek slík heljarskinn; þeir voru báðir svâ kallaðir síðan. Þeir voru miklir afreksmenn at afli, ok mikil ætt er frá þeim komin á Íslandi; Þórir á Espihóli var son Hámundar; þaðan eru komnir Espelíngar[1]. Geirmundr heljarskinn nam Meðalfellsströnd í Breiðafirði; Yri hèt dóttir hans, ok er þaðan mikil ætt komin.

[1]) Esphelmíngar, *E.*

## Hèr byrjar sögu af Friðþjófi enum frækna.

Sva byrjar þessa sögu, at Beli konúngr stýrði Sygnafylki; hann átti 3 börn; Helgi hèt son hans, annarr Hálfdán, en Íngibjörg dóttir; Íngibjörg var væn at áliti, en vitr at hyggju, hún var fremst konúngsbarna. Þar gekk strönd nokkr fyri vestan fjörðinn, þar var bær stórr; sá bær var kallaðr í Baldurshaga; þar var griðastaðr ok hof mikit, ok skíðgarðr mikill um; þar voru mörg goð, þó var af Baldr mest haldit; þar var svâ mikit vandlæti gert af heiðnum mönnum, at þar skyldi aungu grand gera, hverki fè nè mönnum; engi viðskipti skyldu karlar við konur ega þar. Þat hèt[1] á Sýrströnd, er konúngr rèð fyrir; en hinumegin fjarðar stóð bær, ok hèt á Framnesi; þar bjó sá maðr, er Þorsteinn hèt, ok var Víkíngsson; bær hans stóðst á ok konúngs atsetr. Son átti Þorsteinn við konu sinni, er Friðþjófr hèt; hann var allra manna stærstr ok sterkastr, ok bezt at íþróttum búinn þegar í æsku; hann var kallaðr Friðþjófr hinn frækni, en var svâ vinsæll, at allir báðu

[1]) heitir, *B.*

honum góðs. Konúngsbörn voru þá úng, er móðir þeirra andaðist. Hildíngr hèt einn góðr bóndi í Sogni; hann bauð konúngsdóttur fóstr, var hún þar uppfædd vel ok vandliga; hún var kölluð Íngibjörg hin fagra. Friðþjófr var ok at fóstri með Hildíngi bónda, ok voru þau konúngsdóttir fóstrsyzkin, ok báru þau af öðrum börnum. Bela konúngi tók mjök at draga lausafè or höndum, því hann gerðist gamall. Þorsteinn hafði þriðjúng ríkis til forráða, ok varð honum þat mestr styrkr, sem Þorsteinn var; hèlt Þorsteinn konúngi veizlu þriðja hvert ár með stórum kostnaði, en konúngr hèlt veizlu 2 ár Þorsteini. Helgi Belason gerðist snemma blótmaðr mikill; eigi voru þeir bræðr vinsælir. Þorsteinn átti skip þat, er Elliði[1] hèt; þar rèru 15 menn á hvort borð; þar voru á bugustafnar, ok ramligt, sem hafskip; borðit var spengt járni. Svá var Friðþjófr sterkr, at hann rèri tveim árum í hálsi á Elliða, en hverr ár var 13 álna laung, en 2 menn tóku hverja ár annarstaðar. Friðþjófr þótti afbragð annarra manna úngra í þann tíma; öfunduðu þetta konúngssynir, at hann var meirr lofaðr, enn þeir. Beli konúngr tók nú sótt; ok er at honum dró, heimti hann at sèr sonu sína, ok mælti við þá: þessi sótt man leiða mik til bana, en þess vil ek biðja ykkr, at þið hafið lángvini þá, sem ek hefi haft, því mèr sýnist ykkr allt skorta við þá feðga, Þorstein

[1]) *þannig B;* Elliða, *hèr A, C, D.*

ok Friðþjóf, bæði ráðagerðir ok harðfengi; haug skulu þið verpa eptir mik; eptir þat dó Beli. Eptir þat tók Þorsteinn sótt; hann mælti þá til Friðþjófs: frændi! segir hann, þess vil ek biðja þik, frændi! at þú svegir til við konúngssonu um skaplyndi þitt, því þat hæfir fyri tignar sakir, enda segir mèr vel hugr minn um þitt mál; ek vil láta heygja mik gengt haug Bela konúngs, þessumegin fjarðar, niðr við sjóinn, er okkr þá alhægt at kallast á fyri tíðendum. Björn ok Ásmundr hètu fóstbræðr Friðþjófs; þeir voru miklir menn ok sterkir. Litlu síðarr andaðist Þorsteinn; var hann heygðr, sem hann hafði fyrisagt, en Friðþjófr tók land ok lausafè eptir hann.

2. Friðþjófr gerðist enn frægsti maðr, ok gafst hraustliga í öllum mannraunum; Björn fóstbróður sinn virðti hann mest, en Ásmundr þjónaði þeim báðum; skipit Elliða tók hann beztan grip eptir föður sinn, ok gullhríng, annann grip, eigi var annarr dýrri í Noregi. Svâ mikill rausnarmaðr var Friðþjófr, at þat töluðu flestir menn, at hann væri eigi minni sómamaðr, enn þeir bræðr, fyrir utan konúngstignina; fyri þat lögðu þeir fæð ok fjandskap á Friðþjóf, ok þeim líkaði þat þúngt, er hann var kallaðr meirri maðr, en þóttust finna þat, at Íngibjörg, systir þeirra, ok Friðþjófr lögðu hugi saman. Þá kom at því, at,

konúngarnir áttu at sækja veizlu til Friðþjófs til Framness, ok gekk þat eptir vanda, at hann veitti öllum framarr, enn þeir voru[1]. Þar var Íngibjörg, ok töluðu þau Friðþjófr laungum; konúngsdóttir mælti til hans: þú átt góðan gullhríng; satt er þat, segir Friðþjófr. Eptir þat fóru þeir bræðr heim, ok óx öfund þeirra við Friðþjóf. Litlu síðarr tók Friðþjófr ógleði mikla; Björn, fóstbróðir hans, spurði, hverju þat sætti; honum kveðst leika hugr á at biðja Íngibjargar: þótt ek sè með minni nafnbót, enn bræðr hennar, þá em ek þó eigi minni háttar; Björn segir: gerum svâ! Síðan fór Friðþjófr með nokkra menn á fund þeirra bræðra. Konúngarnir sátu á haugi[2]; Friðþjófr kvaddi þá vel; síðan flutti hann bónorð sitt fram, at hann bað systur þeirra, Íngibjargar Beladóttur; konúngarnir sögðu: eigi er þessara mála allvitrliga leitat, at við giptum hana ótignum manni, ok afsegju vèr þat með öllu móti. Friðþjófr segir: þá er skjótt gert mitt eyrendi: en þat skal ímóti koma, at ek mun aldrí hèreptir ykkr lið veita, þótt þèr þurfið þess við; þeir kvóðust aldrí um þat hirða. Fór Friðþjófr heim síðan, ok tók gleði sína.

3. Hríngr hefir konúngr heitit; hann rèð fyrir Hríngaríki, þat var í Noregi líka; hann var ríkr fylkiskonúngr ok vel at sèr, ok þá kominn á hinn efra aldr; hann mælti til sinna manna: þat hefi ek spurt, at synir Bela[3]

[1]) vanir, *b. v. B.* [2]) föðursíns, *b. v. B,C.* [3]) *b. v. C, D; v. í A.*

konúngs hafa skilit vinfengi við Friðþjóf, er ágætastr er flestra manna; nú vil ek senda menn á fund konúnganna, ok bjóða þeim þá kosti, at þeir gángi undir mik, ok gjaldi mèr skatt, ella mun ek gera her á hendr þeim, ok mun laust fyri liggja, því hverki hafa þeir við mèr liðsafla nè vitsmuni, þó væri mèr þat allmikil frægð á gamals aldri, at fyrikoma þeim. Eptir þetta fóru sendimenn Hríngs konúngs, ok fundu þá bræðr Helga ok Hálfdán í Sogni, ok sögðu svâ: Hríngr konúngr sendi ykkr boð, at þið senduð[1] honum skatt, elligar mundi hann herja á ríki ykkar. Þeir svöruðu, at þeir vildu eigi læra þat á úngum aldri, sem þeir vildu eigi í elli kunna, at þjóna honum með svívirðíng: skal nú liði safna öllu því, sem vèr fáum; ok svâ var gert; en er þeim þótti lið sitt lítit verða, sendu þeir Hildíng fóstra til Friðþjófs, ok skyldi hann biðja hann, at fara til liðs með konúngunum. Friðþjófr sat at hnefatafli, er Hildíngr kom; hann mælti svâ: konúngar vorir sendu þèr kveðju, ok vildu hafa liðsinni þitt til orrostu mót Hríng konúngi, er gánga vill á ríki þeirra með ofsa ok ójafnaði. Friðþjófr svaraði honum aungu, ok mælti til Bjarnar, er hann tefldi við: bil er þarna, fóstbróðir! ok mantu eigi bregða því, heldr mun ek setja at hinni rauðu töflunni, ok vita, hvort henni er forðat. Hildíngr mælti

[1]) skylduð gjalda, *C.*

þá aptr: svâ bað Helgi konúngr segja þèr, Friðþjófr! at þú skyldir fara í herferð þessa, eða þú mundir sæta afarkostum, þá er þeir kæmi aptr. Björn mælti þá: tvíkostr er þarna, fóstbróðir! ok tvo vega frá at tefla. Friðþjófr segir: þá mun ráð, at sitja fyrst at hnefanum, ok mun þó verða ótrauðr tvíkostrinn. Aungan fèkk Hildíngr annann úrskurð sinna erenda; fór hann aptr skjótt til móts við konúngana, ok segir þeim svör Friðþjófs; þeir spurðu Hildíng, hverja þýðíng hann tæki or þessum orðum. Hildíngr segir: þar er hann ræddi um bilit, þar mun hann á bil hyggja um ferðina þessa með ykkr; en þar er hann lèzt setja mundu at rauðu[1] töflunni, þat mun koma til Íngibjörgu, systur ykkar; gætið hennar vel svâ víst! en þá er ek hèt honum afarkostum af ykkr, þat virðti Björn tvíkost; en Friðþjófr kvað, at hnefanum mundi verða fyrst lagt; þat mælti hann til Hríngs konúngs. Síðan bjuggust konúngarnir, ok lètu áðr flytja Íngibjörgu í Baldrshaga, ok 8 konur með henni, sögðu þeir Friðþjóf eigi mundu svâ djarfan, at hann færi til fundar við hana þángat: því þar er engi svâ djarfr, at nokkrum grandi. En þeir bræðr fóru suðr til Jaðars, ok fundu Hríng konúng í Sóknarsundi. Því hafði Hríngr konúngr mest reiðst, er þeir bræðr höfðu mælt, at þeim þætti skömm, at berjast við svâ gamlan mann, at eigi kæmist á bak, nema með stuðníngi.

1) fögru, C.

4. Þegar konúngarnir voru í brott, þá tók Friðþjófr tignarklæði sín, ok lèt gullhrínginn góða á hönd sèr; síðan gengu þeir fóstbræðr til sjófar, ok settu fram Elliða. Björn mælti: hvert skal nú halda, fóstbróðir! Friðþjófr segir: til Baldrshaga, ok skemta sèr við Íngibjörgu. Björn mælti: þat er eigi gjöranda, at gremja goð at sèr. Friðþjófr mælti: þar skal nú áhætta, enda virði ek meira hylli Íngibjargar, enn reiði Baldrs. Eptir þat rèru þeir yfir fjörðinn, ok gengu upptil Baldrshaga, ok í skemmu Íngibjargar; hún sat þar með 8 meyjum, þeir voru ok 8; en er þeir komu þar, þá var þar allt með pellum tjaldat ok dýrum vefnaði. Íngibjörg stóð þá upp, ok mælti: því ertu svâ djarfr, Friðþjófr! at þú ert hèr kominn at óleyfi bræðra minna, ok gremr svâ goð at þèr? Friðþjófr segir: hverninn sem þat er, þá virði ek meirr elsku þína, enn goðanna reiði. Íngibjörg svarar: þú skalt hèr velkominn, ok allir þínir menn! síðan gaf hún honum rúm at sitja hjá sèr, ok drakk til hans hit bezta vín, ok sátu svâ, ok skemtu sèr; þá sá Íngibjörg hrínginn góða á hendi hans, ok spyrr, hvort hann ætti gersemina; Friðþjófr sagðist ega; hún lofar mjök hrínginn; Friðþjófr mælti: gefa mun ek þèr hrínginn, ef þú heitir, at lóga honum eigi, ok senda mèr, ef þú villt eigi ega, ok hèrmeð skulu við játa hvort öðru trú sinni; með þessari trúlofan skipta þau hríngnum. Friðþjófr var opt í Baldrshaga um

nætr, ok hvern dag kom hann þángat þess ímilli, ok skemti sèr við Íngibjörgu.

5. Nú er at segja frá þeim bræðrum, at þeir fundu Hríng konúng, ok hafði hann meira liðsafla; gengu menn þá ímillum, ok leituðu um sættir, svâ at enginn ófriðr gerðist; Hríngr konúngr segist þat vilja með því móti, at konúngar gángi á vald hans, ok gipti honum Íngibjörgu fögru, systur þeirra, með þriðjúngi allra eigna þeirra. Konúngarnir játuðu þessu, því þeir sáu, at þeir áttu við mikit ofrefli; var þessi sátt bundin fastmælum, ok skyldi brullaup vera í Sogni, þá Hríngr konúngr kæmi í móti festarkonu sinni. Fara þeir bræðr heim með lið sitt, ok undu við hit versta. Þá Friðþjófi þótti þess von, at þeir bræðr mundi heim koma, mælti hann við konúngsdóttur: vel hafi þèr oss veitt ok fagrliga, hefir Baldr bóndi eigi við oss ýfst; en nær þèr vitið konúnga yðra heimkomna, þá breiðið blæjur yðrar á dísarsalinn, því hann er hærstr hèr á garðinum, manu vèr sjá þetta af bæ vorum. Konúngsdóttir segir: eigi hafi þèr þetta at annarra manna dæmum gert, en at vísu egu vèr vorum vinum at fagna, þá þèr komið. Síðan fór Friðþjófr heim; ok nærsta morgin eptir gekk hann út snemma, ok segir svâ, er hann kom inn, ok kvað:

Mun ek[1] segja
seggjum vorum,
at gjörla mun farit

[1]) þat, *b. v. B, C.*

gamanferðum;
skulu ei skatnar
til skips fara,
því nú eru blæjur
á blik komnar.

Gengu þeir þá út, ok sáu, at allr dísarsalrinn var þaktr bleiktum lèreptum. Björn mælti þá: nú manu konúngar heim komnir, ok manu vèr skamma stund ega um kyrt at sitja, ok þikki mèr ráð, at safna liði; ok svâ var gert; dreif þángat múgr manns. Þeir bræðr spurðu brátt um háttu þeirra Friðþjófs, ok svâ liðsafla[1] hans. Helgi konúngr mælti þá: undr þikki mèr, at Baldr skal þola þeim Friðþjófi hverja skömm; skal nú senda menn til hans, ok vita, hverja sætt at hann vill bjóða oss, elligar skal boða hann af löndum, því ek sè eigi þann afla vorn at sinni, at berjast við þá. Hildíngr fóstri barr erendi konúnganna til Friðþjófs, ok þarmeð vinir Friðþjófs; þeir segja svâ: þat vilja konúngarnir í sætt hafa af þèr, Friðþjófr! at þú heimtir skatt af Orkneyjum, er eigi hefir goldinn verit, síðan Beli dó, en þeir þurfa fjárins við, þar sem þeir gipta Íngibjörgu, systur sína, með miklu lausafè. Friðþjófr segir: sá einn lutr heldr til friðgerðar með oss, at virða til hina fyrri frændr vora, en aungan trúleik munu þeir bræðr oss sýna; vil ek þat tilskilja, at allar vorar eignir sèu í friði, ámeðan ek er íburt; því var heitit, ok eiðum bundit. Nú býr Friðþjófr ferð sína,

1) liðsafnað, C.

ok valdi með sèr menn at hreysti ok allri liðsemd; þeir voru 18 saman. Þeir spurðu Friðþjóf at, hans menn, hvort hann vill eigi fara til Helga konúngs áðr, ok sættast við hann, ok biðja af sèr reiði Baldrs. Friðþjófr segir: þat mun ek heitstrengja, at ek skal eigi Helga konúng friðar biðja; eptir þat gekk hann á Elliða, ok hèldu þeir úteptir firðinum Sogni. En er Friðþjófr var heiman farinn, mælti Hálfdán konúngr við Helga, bróður sinn: þat mun fleiri ok meiri stjórn, at Friðþjófr taki nokkr gjöld fyri brot sín, manu vèr brenna bæ hans, en gera at honum þann storm ok mönnum hans, at þeir þrífist aldrí; Helgi kvað þat til liggja. Síðan brendu þeir upp allan bæinn á Framnesi, en ræntu fè öllu; síðan sendu þeir eptir seiðkonum tveimr, Heiði ok Hamglöm, ok gáfu þeim fè til, at þær sendi veðr svâ stórt at Friðþjófi ok mönnum hans, at þeir týndust allir í hafi; þær efldu seiðinn, ok færðust á hjallinn með göldrum ok gjörníngum.

6. En er þeir Friðþjófr komu útor Sogni, þá gerði at þeim hvast veðr ok storm mikinn, var þá mjök bárustórt; gekk skipit harðla mikit, þvíat þat var örskreitt ok et bezta í sjó at leggja. Þá kvað Friðþjófr vísu:

Sinda[1] lèt ek or Sogni,
en snótir mjaðar[2] neyttu,
bræddan byrjar sóta,

[1]) Syndra, *B*; Snidja, *C*, *D*. [2]) ama þar, *B*.

í Baldrshaga miðjum;
nú tekr hregg á herða,
hafi dag brúðir góðan[1],
þær[2] er oss vilja unna,
þótt Elliða fylli[3].

Björn mælti: þat væri vel, þóttú ættir annat at vinna, enn ljóða um þær Baldrshaga meyjar; eigi mun þat þó þverra, segir Friðþjófr. Þá sló þeim norðr til sundanna nærri eyjum þeim, sem Sólundar hètu, var þá veðrit sem harðast. Þá kvað Friðþjófr:

Mjök tekr sjór at svella,
svá er nú drepit skýjum,
því ráða[4] galdrar gamlir,
er gjálfr or stað færir;
eigi skal ek við ægi
í ofviðri berjast,
látum Sólundir[5] seggjum
svellvífaðar[6] hlífa.

Þá lögðu þeir undir þær eyjar, er Sólundar heita, ok ætla þar at bíða; ok þá fèll veðrit jafnskjótt. Bregða þeir þá við, ok láta undan eyjunni; þikkir þeim þá vænligt um sína ferð, því þá hafa þeir hæfiligan byr um stund; en þar kom, at snerpa tók leiðit. Þá kvað Friðþjófr:

Þat var fyrr
á Framnesi,

1) *þannig B, C;* þar, *A, D.* 2) *b. v. C;* fagrar, *b. v. B; v. í hin.* 3) *þannig B, C;* felli, *A, D.* 4) valda, *B.* 5) sal undir, *B, D.* 6) *þannig B, C;* sverlvífaðar, *A, D.*

at rèra ek á vit[1]
við Íngibjörgu;
nú skal sigla
í svölu veðri[2],
láta lètt undan
lángdýr hlaupa.

Ok þá er þeir komu lángt í haf[3] undan, þá ókyrðist sjórinn ákafliga í annat sinn, ok gerði þá storm mikinn með fjúki svâ miklu, at hvorigan stafn sá frá öðrum, en ágekk á skipit, svâ jafnan varð at ausa. Þá kvað Friðþjófr:

Eigi sèr til alda,
erum útá brim[4] komnir,
frægðar[5] fylkis drengir,
fyri gjörnínga veðri;
ok standa nú allir,
eru Sólundar horfnar[6],
átján menn í austri,
er Elliða verja.

Björn mælti: sá verðr at mæta misjöfnu, er víðaferr; svâ er víst, fóstbróðir! segir Friðþjófr, ok kvað:

Helgi veldr, at hrannir
hrímfaxaðar vaxa,
er ei sem bjarta brúði
í Baldrshaga kyssim;
ólíkt mun mèr unna
Íngibjörg, eða þengill,
heldr vilda ek hennar
hæfi at minni gæfu.

1) *þannig A, B, D; v. í C.* 2) svöl-veðri, *B, C, D.* 3) *þannig B;* land, *A.* 4) brún, *B.* 5) frægir, *B, C.* 6) hafnar, *B.*

Verða má, segir Björn, at hún hyggi þèr hærra, enn nú er, ok[1] er nú þessu eigi illa at kunna. Friðþjófr segir, at kostr mundi, at reyna góða liðsmenn, þóat blíðara væri í Baldrshaga. Þeir bjöggu sik þá drengiliga, því þar voru hraustir menn samankomnir, en skip et bezta, sem verit hefir á Norðrlöndum. Friðþjófr kvað vísu:

Eigi sèr til alda,
erum vestr í haf komnir,
allt[2] þikki mèr ægi,
sem á einmyrju[3] sæi[4];
hrynja hafbárur,
haug verpa svanflaugar,
nú er Elliði orpinn
í örðugri báru.

Þá komu áföll stór, at þeir standa allir í austri. Friðþjófr kvað:

Mjök drekkr á mik mærin
munnklökkva, ef ek skal sökkva,
[í svanabrekku austr,
þar sem blæan lá á bliki[5].

Björn mælti: ætlar þú enn Sygnsku[6] meyjarnar tárfelli mjök eptir þik? Friðþjófr mælti: þat kemr mèr víst í hug. Síðan lagði at stamni[7], svâ at fossum fèll inn; en þat dugði, at skipit var svâ gott, en liðsmenn harðir innanborðs. Þá kvað Björn vísu:

[1]) þó, *B, C, D.* [2]) allr, *B, C.* [3]) einmerju, *C.* [4]) *þannig B*; sè, *A.* [5]) *líkliga rèttara þannig*: þar sem blæan lá á bliki, í brekku svana austr. [6]) Synsku, *B*; Sinsku, *C, D.* [7]) straumana, *B.*

Erat sem ekkja
á þik vilì drekka,
björt baugvara
biðì nær fara;
sölt eru augu,
sukkuð[1] í laugu,
bilsterka[2] arma
bítr mèr í hvarma.

Ásmundr svarar: þat varðar eigi, þótt þèr reynið á armana, því þèr vorkynntuð oss eigi, þá vèr hrifum í augun, þá þið stóðuð svâ snemma upp í Baldrshaga forðum; eða[3] því kveðr þú eigi, Ásmundr? segir Friðþjófr; eigi skal þat, segir Ásmundr, ok kvað vísu:

Hèr varð snæfrt um siglu,
er sjór á skip hrundi[4],
ek varð err[5] við átta
innanborðs at vinna;
dælla var til dýngju
dagverð konum færa,
enn Elliða ausa
í öruggri[6] báru.

Eigi segir þú minna frá liði þínu, enn er, segir Friðþjófr, ok hló, en þó brá þèr nú í præla ættina, er þú vildir at matreiðum starfa. Óx þá enn at nýu veðrit, svâ at þeim þótti líkara, er á skipinu voru, stórgnýpum ok fjöllum, enn bárum, sjófarskaflar þeir, sem brökuðu öllumegin at skipinn. Þá kvað Friðþjófr:

1) sykkuð, *B, C.* 2) *máske:* bilar sterka. 3) *v. í B.*] 4) knúði, *B.* 5) einn, *B, C;* eyrr, *D.* 6) örðugri, *B, C.*

Sat ek á bólstri
í Baldrshaga,
kvað ek þat ek kunna
fyri konúngsdóttur;
nú skal ek raunar
Rán-beð troða,
en annarr mun
Íngibjörgu.

Björn mælti: stórr kvíðr er nú fyri, fóstbróðir! ok er nú æðra í orðum þínum, ok er þat illa um svâ góðan dreng. Friðþjófr segir: hvârki er þat æðra nè kvíði, þótt kveðit sè um gamansferðir vorar, en þat má verða, þeirra sè optarr getit, enn þörf sè á; en flestum mönnum mundi þikkja vísari dauði, enn líf, ef at svâ væri komnir, sem vèr, ok skal enn svara þèr nokkru ok kvað:

Þat hefik gagns um goldit,
gekk mèr, en þèr eigi,
við ambáttir átta
Íngibjargar[1] at þínga;
saman höfum brenda bauga
í Baldrshaga lagða,
var þá vigli fjarri
vörðr Hálfdánar jarða.

Björn mælti: við slíkt er nú at una, fóstbróðir! sem orðit er. Þá kom áfall svâ mikit, at frálaust vígin ok hálsana báða, ok sló útbyrðis fjórum mönnum, ok týndust allir. Þá kvað Friðþjófr:

[1]) Ingibjörgu, *B.*

Brustu báðir hálsar
í báru hafs stórri,
sukku sveinar fjórir
í sæ ógrunnan.

Nú þikki mèr von, segir Friðþjófr, at nokkrir vorir menn muni til Ránar fara; manu vèr eigi sendiligir þikkja, þá vèr komum þar, nema vèr búumst vaskliga; þikki mèr ráð, at hverr maðr hafi nokkut gull á sèr; hann hjó þá ísundr hrínginn Íngibjargar-naut, ok skipti með mönnum sínum, ok kvað vísu:

Þann skal hríng um höggva,
er Hálfdánar átti,
áðr enn oss tapar[1] ægir,
auðigr faðir, rauðan;
sjá skal gull á gestum,
ef vèr gistíngar þurfum,
þat dugir rausnar rekkum
í Ránar salnum miðjum.

Björn mælti þá: eigi er slíks nú vísar vonir, enda er eigi örvænt. Þá fundu þeir Friðþjófr, at mikill var skriðr á skipinu, en ókunnigt var þeim fyri, því myrkr lagði at þeim öllumegin, svâ at eigi sá stafna ámillum með sjódrifi ok ofveðri, frosti ok fjúki ok feyknar kulda. Þá fór Friðþjófr í trè upp, ok sagði fèlögum sínum, er hann kom ofan: ek leit mjök undarliga sýn: stórhveli lagðist í hríng um skipit, ok er mèr grunr, at vèr manum komnir nærri landi nokkru,

[1]) tapi, *B*, *C*.

ok mun hann vilja banna oss landit; hygg ek Helga konúng eigi búa við oss vingjarnliga, ok mun hann sendt hafa oss aungva vinsendíng; konur sè ek 2 á baki hvalnum, ok munu þær valda þessum ófriðar-stormi með sínum versta seið ok göldrum; nú skulu vèr til reyna, hvort meira má, hamíngja vor, eða tröllskapr þeirra, ok skulu þið stýra at sem beinast, en ek skal með lurkum berja þessi óvætti, ok kvað vísu:

Sè ek tröllkonur
tvær á báru,
þær hefir Helgi
híngat sendar;
þeim skal sníða
sundr í miðju
hrygg[1] Elliði,
áðr enn af för skríðr.

Svâ er sagt, at þau atkvæði hafi fylgt skipinu Elliða, at þat hefði kunnat at skilja manns mál. Þá mælti Björn: nú mega menn sjá dygð þeirra bræðra til vor; ok fór Björn þá undir stjórn. En Friðþjófr greip fork einn, ok ljóp í framstafninn, ok kvað vísu:

Heill Elliði!
hlauptu á báru,
brjóttu í tröllkonum[2]
tennr ok enni,
kinnur ok kjálka

[1]) *þannig B, C, D;* hryggs, *A.* [2]) tröllkonu, *B.*

í konu vondri,
fót, eða báða,
í flagði þessu.

Síðan skaut hann fork at annari hamhleypunni, en barð Elliða kom á hrygg annari, ok brotnaði hryggrinn í báðum, en hvalrinn tók kaf, ok lagðist áburt, ok sáu (þeir) hann eigi síðan. Þá tók at kyrra veðrit, en skipit marði. Friðþjófr hèt þá á menn sína, ok bað þá ausa upp skipit; Björn segir, eigi þyrfti fyri því starf at hafa. Varastu nú æðruna, fóstbróðir! segir Friðþjófr, ok hefir þat verit áðr fyrri drengja siðr, at veita lið, ámeðan hann má, hvat sem eptir kemr. Friðþjófr kvað vísu:

[Þurfið ei drengir
dauða at kvíða[1],
verið þjóðglaðir
þegnar mínir!
Þat ef[2] vita
vorir[3] draumar,
at ek ega mun
Íngibjörgu.

Þá jusu þeir upp skipit; voru þeir þá komnir nærri landi, kastaði þá enn hreggi ímóti þeim. Þá tók Friðþjófr enn 2 árar í hálsi, ok rèri þeim heldr sterkliga. Þá birti veðrit, ok sáu þeir, at þeir voru komnir utanat Effíusundi[4], ok tóku þar land; liðsmenn voru þá dasaðir mjök,

---

1) *b. v. B, C; v. í A, D.* 2) munu, *B.* 3) *b. v.* C; *v. í A, D*; mínir, *b. v. B.* 4) Effýusundi, *hèr og framvegis C.*

en sva var Friðþjófr frækinn, at hann barr úr flæðarmáli 8 menn, en Björn 2, en Ásmundr einn. Þá kvað Friðþjófr:

Ek bar upp
til eldstóar
dæsta drengi
í drífuveðri;
nú hefik segli
á sand komit,
ei er við hafsmegn[1]
hægt at reyna[2].

7. Ángantýr var í Effíu fyrir, er þeir Friðþjófr komu at landi; þat var siðr hans, þá hann drakk, at maðr skyldi sitja viðljóra, ok horfa í gegn veðri á[3] drykkjuskála hans, ok halda vörð; hann skyldi drekka af dýrs horni, ok var fyllt annat, er af var þá öðru; sá hèt Hallvarðr, er þá hèlt vörð, er Friðþjófr kom á land. Hallvarðr sá ferð þeirra Friðþjófs, ok kvað vísu:

Menn sè ek ausa
í meginveðri
sex á Elliða,
en sjö róa;
þat er gunnhvötum
glíkt í stafni
Friðþjóf frækna,
er [framfellr við[4] árar.

Ok er hann hafði drukkit af horninu, kastaði hann því inn um skjáinn, ok mælti til konu þeirrar, er drekka gaf:

1) hafsmeyju, B. 2) eiga, C. 3) úr, C. 4) framfèll á, C.

Taktu af gólfi,
gángfögr kona!
horn holfanda,
hefik af drukkit;
menn sè ek á mar,
þeir er munu þurfa,
hreggsmóðir, lið,
áðr höfn taki.

Jarl heyrði þat, hvat Hallvarðr kvað, ok spurði tíðenda. Hallvarðr segir: menn eru hèr við land komnir, ok eru mjök dasaðir, ok hygg ek vera góða drengi, en svâ er einn hraustr, at hann berr aðra á land. Þá mælti jarlinn: gángið þá ámóti þeim, ok takið við þeim sæmiliga, ef þat er Friðþjófr, son Þorsteins hersis, vinar míns, er ágætr er at allri atgerfi. Þá tók sá maðr til orða, er Atli hèt, víkíngr mikill: nú skal reyna, er sagt er, at Friðþjófr hafi þat heitstrengt, at hann skal aungvan fyrr friðar biðja. Þeir voru 10 saman, illir menn ok ágjarnir, þeir gengu opt berserksgáng; ok sem þeir fundust, [tóku þeir vâpn sín[1]; þá mælti Atli: þat er nú ráð, Friðþjófr! at horfa við, því öndverðir skulu ernir klóast með okkr, Friðþjófr! enda er nú ráð, at efna orð sín, ok mæla eigi fyrr til friðar. Friðþjófr snèri ímóti þeim, ok kvað vísu:

Þèr munuð eigi
oss kúgat geta,

1) v. í B.

æðrufullir
eyjarskeggjar!
heldr mun ek gánga,
enn griða biðja,
einn til ógnar
við yðr tíu.

Þá kom Hallvarðr at, ok mælti: Þat vill jarl, at þèr sèuð allir velkomnir, ok skal enginn á yðr leita; Friðþjófr segist því mundu vel taka, en sæma þó við hvorutveggju. Eptir þat gánga þeir til fundar við jarlinn, ok tók hann vel við Friðþjófi ok öllum hans mönnum, ok voru þar með honum um vetrinn, ok velvirðtir af jarli, hann spurði opt at ferðum þeirra; Björn kvað vísu:

Jusu vèr, meðan
yfir gekk svölr,
bragnar teitir,
á bæði borð
[tíu dægr
ok átta.

Jarl mælti: nærri[1] hefir Helgi konúngr stígit yðr; er slíkum konúngum illa varit, sem til einkis annars eru[2], enn fyrikoma mönnum með fjölkýngi; enn veit ek, segir Ángantýr, at þat er þitt erendi híngat, Friðþjófr! at þú ert eptir

[1]) átján dægr í mæværi, *rángt lesið úr*: 10 dægr ok 8. J. m. nærri, *C*; tíu dægr, tel ek ok átta, er marvaða mæddu Ránar jóð. Jarl mælti, *B*. [2]) færir, *b. v. B, C.*

skatti sendr, ok mun ek þar skjót svör fyri setja, at Helgi konúngr skal aungvan skatt af mèr fá, en þú skalt hafa af mèr lausafè svâ mikit, sem þú villt, ok máttu kalla þat skatt, ef þú villt, en þá öðruvís[1], ef þú villt þat. Friðþjófr sagðist taka mundi við fènu.

8. Nú skal segja, hvat gerðist í Noregi, or því Friðþjófr var íburtu farinn: lètu þeir bræðr brenna allan bæinn á Framnesi; en er þær systr voru at seiðnum, duttu þær of anaf seiðhjallinum, ok brotnaði hryggrinn í báðum. Þetta haust kom Hríngr konúngr norðr í Sogn til brullaups síns, ok var þar ágæt veizla, er hann drakk brullaup til Íngibjargar. Hvaðan hefir komit hríngr sá hinn góði, sem þú hefir á hendi, segir Hríngr konúngr við Íngibjörgu; hún kvað föður sinn átt hafa; hann svarar: þetta er Friðþjófsnautr, ok fá af höndum þegar, því eigi skal þik gull skorta, er þú kemr í Álfheima; þá fèkk hún konu Helga hrínginn, ok bað hana fá Friðþjófi hrínginn, er hann kæmi aptr. Fór Hríngr konúngr þá heim aptr með konu sína, ok lagði mikla ást við hana.

9. Eptir um vorit fór Friðþjófr or Orkneyjum, ok skildu þeir Ángantýr með kærleikum; Hallvarðr fór með Friðþjófi. En er þeir komu til Noregs, spurðu þeir, at bær hans væri brendr; ok er hann kom á Framnes, mælti Friðþjófr: sortnat hafa hýbýli, ok hafa hèr eigi vinir umfjallat, ok kvað vísu:

[1]) öðru nafni, *C.*

Drukkum fyrr
á Framnesi
fræknir drengir
með föður mínum;
nú sè ek brendan
bæ þann vera,
á ek öðlíngum
íllt at launa.

Þá leitaði hann ráða við menn sína, hvat nú skyldi upptaka; en þeir báðu hann fyrisjá; en hann lèzt fyrst mundu skattinn af hendi greiða. Síðan rèru þeir yfir fjörðinn ok til Sýrstrendr[1]; þá spyrja þeir þat, at konúngarnir væri í Baldrshaga at dísablóti; þá gengu þeir upp þángat, Björn ok Friðþjófr, ok bað hann Hallvarð ok þá Ásmund at brjóta öll skip, stór ok smá, sem þar voru í nánd, ámeðan; ok svâ gerðu þeir. Síðan gengu þeir Friðþjófr at dyrunum í Baldrshaga; Friðþjófr vildi inngánga; Björn bað hann fara varliga, er[2] hann vildi einn inngánga; Friðþjófr bað hann úti vera, ok halda vörð meðan, ok kvað vísu:

Einn mun ek gánga
inn til bæjar,
þarf ek lítit lið,
lofðúnga at[3] finna;
varpið eldi
í jöfra bæ,
ef ek kem eigi
aptr at kveldi.

[1]) Sýrstrandar, *C.* [2]) en, *A.* [3]) v. í *C.*

Björn segir: þetta er vel kveðit. Síðan gekk Friðþjófr inn, ok sá, at fátt fólk var í dísarsalnum, voru konúngar þá at dísablóti, ok sátu at drykkju; eldr var á gólfinu, ok sátu konur þeirra við eldinn ok bökuðu goðin, en sumar smurðu, ok þerðu með dúkum. Friðþjófr gekk fyrir Helga konúng, ok mælti: nú muntu vilja hafa skattinn; hann reiðir þá upp sjóðinn, sem silfrit var í, ok rekr á nasir honum, svâ at or honum stukku 2 tennr, en hann fellr í[1] hásætinu í óvit; þá greip Hálfdán til hans, svâ hann fèll eigi í eldinn. Þá kvað Friðþjófr vísu:

Taktu við skatti,
skatna drottinn!
fremstu tönnum,
nema þú[2] framarr beiðir;
silfr er á botni
belgjar þessa,
sem við Björn höfum
báðir ráðit.

Fátt manna var í stofunni, því þat drakk í öðrum stað. En þegar Friðþjófr gekk utar eptir gólfinu, sá hann hrínginn góða á hönd konu Helga, er hún bakaði Baldr við eldinn; Friðþjófr tók til hríngsins, en hríngrinn var fastr á hendinni, ok dróg hann hana utar eptir gólfinu at dyrunum, en Baldr fèll útá eldinn; en kona Hálfdáns greip til hennar skjótt, fèll þá þat goðit út á eldinn, sem hún hafði bakat; lýstr nú eldinum í bæði

[1]) úr, C. [2]) v. í B, C.

goðin, en þau voru áðr smurð, ok þaðan upp í ráfrit, svâ at logaði húsit. Friðþjófr náði hríngnum, áðr hann gekk út; þá spurði Björn, hvat til tíðenda hefði gerzt í inngaungu hans; en Friðþjófr hèlt upp hríngnum, ok kvað vísu:

Helgi varð fyrir höggi,
hraut sjóðr á nef kauða,
hneig Hálfdánar hlýri
or hásæti miðju;
þar varð Baldr at brenna,
en baugi náða ek áðr;
síðan frá eldi öslá
ódrjúgr[1] dró ek bjúga.

Þat segja menn, at Friðþjófr hafi undit eldskíðu í ræfrarnar, svâ at salrinn logaði allr, ok kvað hann vísu:

Stundu[2] vèr[3] til strandar!
stórt ráðu vèr síðan,
þvíat blár logi baukar
í Baldrshaga miðjum.

Eptir þat gengu þeir til sjófar.

10. Þegar Helgi konúngr raknar við, bað hann þá fara hratt eptir Friðþjófi, ok drepa þá alla, förunauta hans: hefir sá maðr fyrigert sèr, er hann hlífði aungvum griðastöðum; var þá blásit saman hirðinni. Ok sem þeir komu út at salnum, sáu þeir, at hann logaði; fór Hálfdán konúngr þartil með sumt liðit, en Helgi konúngr fór eptir þeim Friðþjófi; voru þeir þá á

[1]) ódeigr, B. [2]) skundum, B. [3]) nú, B, C, D.

skip komnir, ok lètu vakka við. Fundu þeir Helgi konúngr, at meidd voru öll skip þeirra, ok urðu þeir þá at landi at leggja aptr, ok lètust nokkrir menn; varð Helgi konúngr þá svâ reiðr, at hann hamaðist; hann bendti þá upp boga sinn, ok lagði ör á streng, ok ætlaði at skjóta til Friðþjófs með svâ miklu afli, at báðir hrukku ísundr boghálsarnir; en er Friðþjófr sá þat, fór hann undir 2 árar á Elliða, ok sökti þeim svâ fast, at báðar brotnuðu, ok kvað vísu:

Kysta ek únga
Íngibjörgu
Beladóttur
í Baldrshaga;
svâ skulu árar
á Elliða
báðar bresta,
sem bogi Helga.

Eptir þat rann vindr á innan eptir firðinum; undu þeir þá upp segl, ok sigldu, ok segir Friðþjófr þeim, at þeir mundu svâ mega viðbúast, at þeir mundi eigi mega dveljast þar til lengdar; síðan sigldu þeir út eptir Sogni. Þá kvað Friðþjófr vísu:

Sigldu vèr or Sogni,
svâ fóru vèr nærstum,
þá lèk eldr it efra
í óðali voru;
en nú tekr bál at brenna

Baldrshaga miðjan[1],
því mun ek vargr [at vísu[2],
veit ek þat[3] mun heitit.

Björn mælti til Friðþjófs: hvat skulu vèr nú athafast, fóstbróðir? eigi mun ek hèr vera í Noregi, vil ek kanna hermanna sið, ok fara í víkíng. Síðan könnuðu þeir eyjar ok útsker um sumarit, ok öfluðu sèr svâ fjár ok frægðar; en um haustit hèldu þeir til Örkneyja, ok tók Ángantýr vel við þeim, ok sátu þar um vetrinn. En þá Friðþjófr var farinn or Noregi, þá höfðu konúngarnir þíng, ok gerðu Friðþjóf útlagan fyrir öllum sínum ríkjum, en lögðu undir sik allar hans eignir. Hálfdán konúngr settist at Framnesi, ok bygði upp aptr bæinn, þat sem hann var brunninn, ok svâ bættu þeir upp allan Baldrshaga, ok var þat lengi, áðr enn eldrinn varð slöktr. Þat fèll Helga konúngi verst, at goðin voru uppbrend, varð þat mikill kostnaðr, áðr Baldrshagi varð uppbygðr til fulls, jafn ok áðr; sat Helgi konúngr nú á Sýrströnd.

11. Friðþjófi varð gott til fjár ok virðíngar, hvar sem hann fór, drap illmenni ok grimdarfulla víkínga, en bændr ok kaupmenn lèt hann í friði vera, var hann þá at nýu kallaðr Friðþjófr enn frækni; hafði honum nú aflazt mikit lið, vel fært, ok var Friðþjófr orðinn mjök auðigr at lausafè. En er Friðþjófr hafði 3 vetr í víkíngu verit, fór hann austan, ok lagði inn í Víkína;

[1]) í Baldrshaga miðjan, *B.* [2]) í veum, *B.* [3]) því, *B, C.*

þá sagðist Friðþjófr mundi á land gánga: en þèr skuluð í hernað leggjast í vetr, því mèr tekr til at leiðast hernaðrinn; mun ek fara á Uppland[1], ok finna Hríng konúng at máli, en þèr skuluð vitja mín híngat at sumri, en ek mun hèr koma sumardaginn fyrsta. Björn segir: þessi ráðagerð er eigi vitrlig, en þó muntu ráða verða, vilda ek, at vèr færim norðr í Sogn, ok drepum konúngana báða, Hálfdán ok Helga; Friðþjófr segir: til einkis er þat, ek vil heldr fara at hitta Hríng konúng ok Íngibjörgu. Björn segir: ófúss em ek þess, at hætta þèr einum á hans vald, því Hríngr er vitr ok stórættaðr[2], þótt hann sè nokkut við aldr. Friðþjófr kveðst ráða mundu: ok skaltu, Björn! ráða fyri liðinu ámeðan; þeir gerðu, sem hann beiddi. Fór Friðþjófr til Upplanda um haustit, því hann forvitnaði at sjá ástir þeirra Hríngs konúngs ok Íngibjargar; ok áðr enn hann kom þar, fór hann í stóran kufl yzt klæða, ok var hann allr loðinn; hann hafði 2 stafi í höndum ok grímu fyrir andliti, ok gerði sik sem elliligstan; síðan hitti hann hjarðarsveina nokkra, fór óframliga, ok spyrr: hvaðan eru þið? en þeir svöruðu: vèr egum heima á Streitulandi at konúngs atsetunni. Karl spyrr: er hann Hríngr ríkr konúngr? þeir svöruðu: svâ lízt okkr á þik, sem þú munir vera svâ gamall, at þú mættir hafa vit til þess, í hverju lagi Hríngr konúngr væri til allra luta.

[1]) Upplönd, *B*, *C*. [2]) *þannig B*, *C*; forættaðr, *A*.

Karl segist meirr hafa hugsat um saltbrennur enn konúnga siðu; síðan fór hann heim til hallar; ok at liðnum degi gekk hann inn í höllina, ok sèr allhrumliga, ok nam staðar utarliga, steypti kuflshöttnum ok duldist. Hríngr konúngr mælti til Íngibjargar: maðr gekk þar inn í höllina, miklu meirri enn aðrir menn; drottníng svaraði: þat eru hèr lítil tíðendi. Hann talaði þá við þjónustumanninn, er stóð fyri borðinu: gaktu, ok spyrðu, hverr hann sè, kuflmaðrinn, eðr hvaðan hann kæmi, eðr hvar hann á kyn. Sveinninn ljóp utarr á gólfit at komumanninum, ok mælti: hvat heitir þú, maðr? eðr hvar varstu í nótt? eðr hvar er kyn þitt? Kuflmaðrinn segir: tíðum spyrr þú, sveinn! eða kanntu nokkra grein á at gjöra, þótt ek segi þèr hèr frá? hinn kvaðst þat vel kunna. Kuflmaðrinn segir: Þjófr heiti ek, at Úlfs var ek í nátt, en í Ángri var ek uppfæddr. Sveinninn ljóp fyri konúng, ok segir honum svör komumannsins. Konúngr segir: þèr skilst vel, sveinn! ek veit þat hèrað, er heitir í Ángri, enda má verða, at manninum sè eigi hughægt, ok mun þetta vitr maðr, ok þikki mèr mikils vert um hann. Drottníng segir: þat er undarligr háttr, at þèr girnist at tala svâ frekt við hverja þá karla, er hèr koma, eðr hversu er vert um hann? Eigi veiztu gjörr, segir konúngr, enn ek; ek sè hann hugsar fleira, enn hann talar, ok skygnist víða um. Eptir þetta sendi konúngr mann

eptir honum, ok gekk kuflmaðr innarr fyri konúng heldr bjúgr, ok kvaddi hann með lágri raust. Konúngr mælti: hvat heitir þú, enn mikli maðr? Kuflmaðr svarar, ok kvað vísu:

Þá hèt ek Friðþjófr,
er ek fór með víkíngum,
en Herþjófr,
er ek ekkjur grætta,
Geirþjófr, er ek
gaflokum fleigða,
Gunnþjófr, er ek
gekk at fylki;
Eyþjófr, er ek
útsker rænta,
Helþjófr, er ek
hendta smábörnum,
Valþjófr, þá ek
var æðri mönnum;
nú hefik sveimat síðan
með saltkörlum
hjálpar þurfandi,
áðr enn ek híngat kom.

Konúngr segir: af mörgu hefir þú þjófs nafn tekit, eðr hvar vartu í nótt? eðr hvar er þitt heimili? Kuflmaðr svarar: í Ángri var ek fæddr[1], en hugr hvatti mik híngat, en heimili á ek ekkert. Konúngr segir: svâ má verða, at þú hafir í Ángri verit uppalinn nokkra stund, enda má þat ok verða, at þú hafir í friði fæddr verit; í

[1]) upp fæddr, *B*, *C*.

skógi muntu í nótt verit hafa, því engi bóndi er sá hèr í nánd, er Úlfr heitir; en þar sem þú segist eiga ekkert heimili, þá máske þèr þikki þat lítils vert hjá þeim hug, sem þú hefir híngat. Þá mælti Íngibjörg: far, Þjófr! til annarar gistíngar eðr í gesta skála! Konúngr segir: ek er nú svâ gamall, at ek kann hèr gestum at skipa[1], ok far af kufli þínum, komumaðr! ok sit á aðra hönd mèr! Drottníng segir: gamalæra gerist þú nú, at þú skipar hjá þèr stafkörlum. Þjófr segir: eigi hæfir þat, herra! ok er sá betr, sem drottníng segir, þvíat ek er vanari saltbrennum, enn sitja hjá höfðíngjum. Konúngr mælti: gjör sem ek vil, því ek mun verða at ráða at sinni. Þjófr steypti af sèr kuflinum, ok var undir í myrkblám[2] kyrtli, ok hafði hrínginn góða á hendi sèr; hann hafði digurt silfrbelti um sik, ok þará stórr sjóðr með skærum silfrpeníngum, girðt sverði á hlið; en stóra skinnahúfu hafði hann á höfði, því hann var augndapr mjök ok loðinn um andlitit allt. Nú kalla ek betr fara, segir konúngr, skaltu, drottníng! fá honum skikkju góða ok sèr[3] hæfiliga. Drottníng segir: þú skalt ráða, herra! en lítit er mèr um Þjóf þenna; síðan var honum fengin góð skikkja yfir sik, ok settist þá í hásæti hjá konúnginum. Drottníng setti dreyrrauða, er hún sá hrínginn góða, en þó vildi hún aungum orðum við hann skipta; en konúngr

[1]) skikka, *B*, *C*, *D*. [2]) *þannig B*; mýrblám, *A*, *C*, *D*.
[3]) honum, *B*.

var allkátr við hann, ok mælti: góðan hríng hefir þú á hendi þèr, ok lengi munt þú hafa þar salt til brennt; hann segir: þat er föðurarfr minn allr; verða má, segir konúngr, þú hafir meira enn hann, en fáa saltbrennukarla ætla ek þèr jafna, nema nógu fast sígi elli í augu mèr. Þjófr var þar um vetrinn í góðu yfirlæti, ok virðtist öllum mönnum vel til hans; hann var mildr af fè ok glaðr við alla menn; drottníng mælti fátt við hann, en konúngr var glaðr við hann ávalt.

12. Þess er getit eitt sinn, at Hríngr konúngr skyldi til veizlu fara, ok drottníng, með miklu liði. Konúngr mælti við Þjóf: hvort villtu fara með oss, eða vera heima? hann sagðist heldr fara vilja; konúngr mælti: þat líkar mèr betr. Síðan ferðuðust þeir, ok áttu at fara yfir vatnsís nokkurn; Þjófr mælti til konúngs: ótraustr þikki mèr ísinn, ok þikki mèr farit óvarliga; konúngr mælti: opt finnst þat á, at þú hyggr vel fyrir oss. Litlu síðarr brast niðr ísinn allr; Þjófr ljóp þá til, ok kippti at sèr vagninum ok öllu því, er á var ok í, konúngr ok drottníng sátu þarí bæði; öllu þessu kippti Þjófr uppá ísinn ok hestinum með, sem fyri vagninum var beittr. Hríngr konúngr mælti: nú er allvel upptekit, Þjófr! ok eigi mundi Friðþjófr enn frækni sterkligarr hafa upptekit, þótt hann hefði hèr verit, ok er slíkt hinir fræknustu fylgdarmenn. Nú koma þau til veizlunnar,

var þar allt tíðendalaust, ok fór konúngr heim með virðuligum gjöfum; liðr af hávetrinn, ok er vorar, tekr veðrátta at batna, en viðr at blómgast, en grös at gróa, [ok skip mega skríða landa ámeðal[1].

13. Þat var einn dag, at konúngr talar við hirðmenn sína: vil ek at þið farið út á skóg í dag með mèr oss til skemtanar, ok sjá fagurt landsleg; ok svâ gerðu þeir, dreif fjöldi manna með konúngi út á skóginn. Svâ bar til; at þeir konúngr ok Friðþjófr voru báðir saman í skóginum, fjærri öðrum mönnum; konúngr segir sik höfgi, ok verð ek at sofa; Þjófr svarar: farið heim, herra! því þat sómir betr tignum manni, [heldr enn úti[2] [at liggja[3]; Konúngr mælti: eigi má ek þat; síðan lagðist hann niðr, ok sofnar fast, ok hraut hátt; Þjófr sat nærri honum, ok dró sverðit or slíðrum, ok fleygði því lángt frá sèr. Stundu síðarr settist konúngr upp, ok mælti: var eigi svâ, Friðþjófr! at margt kom í skap þèr, ok var vel orráðit, skaltu nú hèr hafa góða virðíng með oss; en þegar kenda ek þik et fyrsta kveld, er þú komt í höll vora, ok eigi muntu skjótt við oss skilja, mun ok nokkut mikit fyri þik leggjast. Friðþjófr segir: veitt hafi þèr mèr, herra! vel ok vingjarnliga, en burt mun ek nú snart, því lið mitt kemr brátt til móts við mik, sem ek hefi áðr ráð fyri gert. Síðan riðu þeir heim af skógi, dreif þá

[1]) *v. í C.* [2]) *v. í C.* [3]) *b. v. B; v. í A, C.*

til þeirra hirð konúngsins, fóru síðan heim til hallar, ok drukku vel; var þá gert bert fyrir alþýðu, at Friðþjófr enn frækni hefði verit þar um vetrinn.

14. Þat var einn morgin snemma, at drepit var högg á hallardyr þær, er konúngr svaf í ok drottníng ok margt annarra manna. Konúngr spurði, hverr á dyrnar kallaði[1]. Sá sagði, sem úti var: hèr er Friðþjófr: em ek nú búinn til burtferðar. Þá var lokit upp hurðunni, ok gekk Friðþjófr inn, ok kvað vísu:

Nú skal ek þèr of þakka,
þú hefir mest of veitta,
búinn er garpr at gánga,
gistíng ara nisti;
ek man[2] Íngibjörgu
æ, meðan lifum bæði,
lifi hún heil, [en hljótum[3]
hnoss fyri [koss at senda[4].

Kastaði hann þá hríngnum góða til Íngibjargar, ok bað hana eiga. Konúngr brosti at vísu þessari, ok mælti: svâ varð þó, at betr var henni þökkuð vetrarvistin, enn mèr, en þó hefir hún eigi verit vingjarnligri til þín, enn ek. Þá sendi konúngr þjónustumenn sína at sækja drykk ok vist, ok segir, at þau skyldi snæða ok drekka, áðr Friðþjófr færi íburt: ok sittu upp, drottníng! ok vert kát; hún kveðst eigi

[1]) klappaði, *B*, *C*. [2]) *þannig B*, *C*; mun, *C*, *D*. [3]) ok hljóti, *B*. [4]) marga kossa, *B*.

nenna at snæða svâ snemma. Hríngr konúngr segir: við skulum nú öll saman snæða; ok svâ gerðu þau. En er þeir höfðu drukkit um hríð, þá mælti Hríngr konúngr: hèr vilda ek at þú værir, Friðþjófr! þvíat synir mínir eru börn at aldri, en ek gamall ok eigi feldr[1] til landvarnar, ef nokkr sækir á þetta ríki með hernaði[2]. Friðþjófr segir: brátt skal fara, herra! ok kvað vísu:

Bú þú, Hríngr konúngr!
heill ok lengi,
æðstr buðlúnga[3]
undir heims skauti!
gættu, vísir! vel
vífs ok landa,
skulu við Íngibjörg
aldrí finnast.

Þá kvað Hríngr konúngr:

Farðu eigi svâ,
Friðþjófr! hèðan,
dýrstr döglíngr!
í döprum hug;
þèr mun ek gjalda
þínar hnossir
víst betr, enn þik
varir sjálfan.

Ok enn kvað hann:

Gef ek [frægum
Friðþjóf[4] konu

---

[1]) fallinn, *B.* [2]) ófriði, *B, C, D.* [3]) buðlúngr, B. [4]) þèr frægr Friðþjófr, *B.*

ok alla með
eigu mína.

Friðþjófr tók undir, ok kvað:

[Mun ek eigi þær
gáfur þiggja[1],
nema þú, fylkir!
[fjörsótt hafir[2].

Konúngr segir: ek munda eigi gefa þèr, nema ek hygða, at þat væri, ok em ek sjúkr, ok ann ek þèr þessa ráðs bezt at njóta, þvíat þú ert fyrir öllum mönnum í Noregi; man ek ok gefa þèr konúngsnafn, þvíat bræðr hennar munu verr unna þèr virðíngar, ok festa þèr síðr konu enn ek. Friðþjófr segir: hafi þèr mikla þökk fyrir, herra! fyrir yðvarn velgerníng, meira enn ek vænta, en eigi vil ek meira hafa, enn jarlsnafn, í nafnbót. Þá gaf Hríngr konúngr Friðþjóf vald með handfesti yfir því ríki, er hann stýrt hafði, ok þarmeð jarlsnafn; skyldi Friðþjófr ráða, þartil synir Hríngs konúngs væri þroskaðir til at stýra sínu ríki. Hríngr konúngr lá skamma stund; ok sem hann andaðist, varð hrygð mikil eptir hann í ríkinu; síðan var haugr orpinn eptir hann, ok mikit fè ílagt eptir beiðni hans. Síðan gerði Friðþjófr virðugliga veizlu, er menn hans komu til, var þá allt saman drukkit, erfi Hríngs konúngs, ok brullaup þeirra Íngibjargar ok Friðþjófs. Eptir þetta settist Friðþjófr þar

---

1) þær mun ek ekki þiggja gjafir, *B.* 2) þèr fjörsóttar kennir. *B.*

at ríki, ok þótti þar mikill ágætismaðr; þau Íngibjörg áttu mörg börn.

15. Þeir konúngarnir í Sogni, bræðr Íngibjargar, frèttu þessi tíðendi, at Friðþjófr hafði konúngsvald á Hríngaríki, ok gengit at eiga Íngibjörgu, systur þeirra; Helgi segir Hálfdáni, bróður sínum, at þetta væri fyrn mikil ok djörfúng, at einn hersis son skyldi eignast hana; safna þeir nú miklu liði, ok fara með þat út á Hríngaríki, ok ætla at drepa Friðþjóf, en leggja allt ríkit undir sik. En er Friðþjófr varð varr við þetta, safnaði hann liði, ok mælti til drottníngar: nýrr ófriðr er kominn í ríki vort; hvernin sem hann reiðir af, þá vilju vèr eigi sjá á yðr fæðar sið; hún segir: þar er nú komit, at vèr manum þik æðstan láta. Þá var Björn austan kominn til liðs við Friðþjóf. Síðan fóru þeir til orrostu, ok var enn sem fyrr, at Friðþjófr var fremstr í þeirri mannhættu; þeir Helgi konúngr áttu höggvaviðskipti, ok veitti Friðþjófr honum bana. Þá lèt Friðþjófr halda upp friðskildi, ok stöðvaðist þá bardaginn; Friðþjófr mælti þá til Hálfdánar konúngs: tveir eru þèr stórir kostir fyrir hendi, sá annarr, at þú leggir allt á mitt vald, ella fær þú bana sem bróðir þinn; sýnist þat á, at ek hefi betra málaefni enn þið. Þá tók Hálfdán þann kost, at leggja sik ok sitt ríki undir Friðþjóf; tók Friðþjófr nú vald yfir Sygnafylki, en Hálfdán skyldi vera

hersir í Sogni, ok gjalda Friðþjófi skatt, ámeðan hann stýrði Hríngaríki. Friðþjófi var þá konúngsnafn gefit yfir Sygnafylki, úr því hann lèt Hríngaríki af höndum við syni Hríngs konúngs, ok þareptir vann hann undir sik Hörðaland. Sonu 2 áttu þau, Gunnþjóf ok Húnþjóf; urðu þeir miklir menn fyri sèr; ok endar hèr nú sögu frá Friðþjófi enum frækna.

---

## Af Upplendínga konúngum.

Ólafr, sun Íngjalds konúngs illráða af Svíaríki, ruddi Vermaland; hann var kallaðr Ólafr trètelgja; hann var fæddr í Vestra-Gautlandi með þeim manni, er Bófi hèt; Saxi hèt sun Bófa, er kallaðr var flettir; móðir Ólafs var Gautildr snót[1], dóttir Algauta konúngs, en hann var sun Gautreks konúngs ens milda, sunar Gauts, er Gautland er viðkennt; Álöf var móðir Gautildar, dóttir Ólafs konúngs skygna, konúngs af Næríki. En þá er Ívarr víðfaðmi hafði lagt undir sik allt Danaveldi ok Svíaríki, þá flýði Ólafr ok mikill fjöldi þeirra manna, er útlaga urðu fyrir Ívari konúngi. Þeir fara norðr um Væni, ok ruddu þar markir, ok bygðu þar stór hèruð, ok kölluðu þat Vermaland, ok kölluðu Svíar því Ólaf trètelgju, ok var hann þar konúngr til elli; kona hans hèt Sölva, hún var systir Sölva ens gamla, er fyrstr ruddi Sóleyjar. Ólafr ok Sölva áttu 2 syni, hèt annarr Íngjaldr, en annarr Hálfdán. Íngjaldr var konúngr í Vermalandi eptir föður sinn; en Hálfdán var fæddr upp í Sóleyjum

---

[1]) *máð ok lítt læsiligt; Langebeck hefir:* mjöll.

með Sölva, móðurbróður sínum; hann var kallaðr Hálfdán hvítbein; hann var konúngr í Sóleyjum eptir Sölva konúng; hann fèkk Ásu, dóttur Eysteins konúngs illráða af Heið; sá Eysteinn lagði undir sik Eynafylki í Þrondheimi[1], ok fèkk þeim til konúngs þar hund sinn, er Sórr hèt; við hann er kendr Sórshaugr; þau Hálfdán ok Ása áttu 2 syni, Eystein ok Guðrauð. Hálfdán hvítbein eignaðist Raumaríki ok mikit af Heiðmörk; hann varð sóttdauðr á Þottni, ok var hann fluttr á Heiðmörk, ok heygðr þar.

2. Guðröðr, sun Hálfdánar, var konúngr á Heiðmörk eptir föður sinn; hans sun var Helgi, faðir Íngjalds, föður Ólafs hvíta, er átti Unni ena djúpúðgu, dóttur Ketils flatnefs; þeirra sun var Þorsteinn rauðr, er jarl var í Skotlandi, ok fèll þar. Eysteinn, sun Hálfdánar hvítbeins, var konúngr á Raumaríki; hann átti dóttur Eiríks Agnarssunar, er konúngr var á Vestfold. Eiríkr átti engan sun; Agnarr, faðir Eiríks, var sun Sigtryggs konúngs af Vindli. Eysteinn konúngr fèll fyri borð, ok sló hann beitiás í sundi einu mjófu; Hálfdán hèt sun hans, er konúngdóm tók eptir hann, gerðist hann ríkr maðr ok hermaðr mikill; hann gaf gull í mála hirð sinni svå mikit, sem aðrir menn gáfu silfr, en hann tímdi eigi at gefa mönnum sínum mat, því var hann kallaðr Hálfdán enn mildi ok enn matarilli; hann átti Lifu, dóttur Dags[2] konúngs af Vestmörum; hann var sóttdauðr á Vestfold,

[1]) *þannig*. [2]) Dax, *A*.

ok er hann þar heygðr. Guðröðr hèt sun þeirra, er konúngdóm tók eptir föður sinn, hann var kallaðr Guðröðr enn göfugláti; hann átti Ásu, dóttur Haralds konúngs granrauða, er konúngr var á Ögðum; þau áttu tvâ sunu, hèt annarr Hálfdán, en annarr Ólafr. Guðröðr enn göfugláti var drepinn á Geirstöðum á Vestfold, svâ at hann var lagðr með kesju, er hann gekk af skipi sínu í Stíflusundi seint um kveldit; hafði Ása, kona hans, eggjat mann[1] til at drepa hann, þvíat Guðröðr konúngr hafði áðr drepa látit Harald konúng, föður hennar ok Gyrð, sun hans. Guðröðr konúngr hafði fyrr átt dóttur Álfarins af Álfheimum, ok hafði heiman með henni hálfa Víngulmörk; þeirra sun var Ólafr; hann var þá fulltíða, er faðir hans fèll, ok tók hann þá konúngdóm eptir föður sinn; hann var allra manna mestr ok sterkastr ok fríðastr sýnum; hann var kallaðr Ólafr Geirstaðaálfr. Ása en stórráða fór norðr á Agðir með Hálfdán, sun sinn; hann var þá vetrgamall, ok hèlt hún þá því ríki, er faðir hennar hafði átt. Hálfdán vóx upp meðr Ásu, móður sinni, ok var hann brátt mikill maðr ok sterkr ok svartr á hár, ok því var hann kallaðr Hálfdán svarti. Eptir fall Guðröðar konúngs [tok Rólfgeirr[2] konúngr undir sik Víngulmörk, ok setti þar yfir sun sinn, er kallaðr var Gandálfr; þeir feðgar eignuðust ok mestan hluta Raumaríkis. En Eysteinn konúngr, sun

[1]) *eða* man. [2]) *ágizkað;* Tolfgeirr, *A.*

Högna Eysteinssunar ens ríka ok ens illráða, lagði þá undir sik alla Heiðmörk ok Sóleyjar, en Ólafr Geirstaðaálfr hafði Grænland ok Vestfold; hann Ólafr andaðist af fótarverk á Geirstöðum, ok er þar heygðr; sun hans var Rögnvaldr, er kallaðr var heiðum-hærri; hann var konúngr á Grænlandi eptir föður sinn; um hann orti Þjóðólfr Hvinverski Ýnglíngatal, ok segir þar frá þeim konúngum, er komnir voru frá Ýngvi-Frey í Svíþjóð, ok af hans nafni eru Ýnglíngar kallaðir.

## Hèr hefr upp sögu Ketils hængs.

Hallbjörn hèt maðr, hann var kallaðr hálftröll, hann var son Úlfs hins óarga; hann bjó í eyjunni Hrafnistu, hún liggr fyri Raumsdal[1]; hann var ríkr maðr ok mjök fyri þeim bændunum norðr þángat; hann var kvongaðr maðr, ok átti þann son, er Ketill hèt; hann var mikill vexti ok karlmannligr maðr, ok ekki vænn. En þegar Ketill var nokkra vetra gamall, lagðist hann í eldahús, þat þótti þá röskum[2] mönnum athlægi, [er svâ gjörði[3]. Þat var vandi Ketils, þá hann sat við eld, at hann hafði aðra hönd í höfði sèr, en með annari skaraði hann eldinn fyri knè sèr; Hallbjörn bað hann eigi hafa hönd í höfði sèr, ok sagði, at þá mundi batna[4] með þeim; Ketill svarar engu; hann hvarf íburtu nokkru síðarr, ok var íburtu 3 nætr; þá kom hann heim, ok hafði stól á baki sèr, hann var vel gjörr; hann gaf hann móður sinni, ok kveðst henni meiri ást eiga at launa enn föður sínum. Þat var einn tíma um sumarit veðrdag góðan, at Hallbjörn

[1]) Naumudal, *B*, *E*. [2]) traustum, *E*. [3]) *v. í B*, *E*. [4]) vel fara, *B*.

lèt aka heyi, ok lá mikit undir; Hallbjörn gekk þá í eldaskálann til Ketils, ok mælti: nú væri ráð, frændi! at duga vel, ok aka heyi í dag, þvíat allir eru í önn nýtir[1]. Ketill spratt þá upp, ok gekk út; Hallbjörn fèkk honum 2 eyki ok eina konu til verks; ekr hann nu heyi til garðs, ok gengr at svâ röskliga, at átta urðu undan at hlaða umsíðir, ok þóttust þó allir nóg hafa at gjöra; en er kveld kom, var borgit[2] öllu heyinu, enda voru þá sprúngnir báðir eykirnir. Hallbjörn mælti þá: nú þikki (mèr) ráð, frændi! at þú takir við fjárvarðveizlu, þvíat þú ert nú úngr ok upprennandi ok til alls vel færr, en ek gjörumst gamall ok styrðr ok til enkis meir; Ketill kvaðst eigi þat vilja; Hallbjörn gaf honum þá öxi eina harðlastóra ok mjök bitrliga ok furðu gott vopn; hann mælti; einn er sá hlutr, frændi! at ek vara þik mest við, at þegar degi er sett, vil ek at þú sèrt lítt úti, ok þó allra helzt, at þú gángir eigi norðr á eyna frá bænum; margt glósaði Hallbjörn þá fyri Katli, syni sínum. Björn er maðr nefndr, hann bjó skamt þaðan; hann hafði þat jafnan lagt í vanda, at dára Ketil, ok kallaði hann Ketil Hrafnistufífl. Björn rèri jafnan á sjó til fiska; þat var einn dag at hann var róinn, at Ketill tók einn fiskibát ok vað ok aungul, ok rèri út á mið, ok sat til fiska; þar var Björn fyrir; ok er þeir sáu Ketil, hlógu þeir mjök, ok dáruðu hann fast, gekk Björn enn mest fyri þessu, sem hann

1) neytir, *B.* 2) ekið, *B.*

var vanr; þeir fiskuðu vel, en Ketill dróg eina laungu, heldr kostilla, en ekki fleira fiska. En er þeir Björn höfðu hlaðit, kipptu þeir upp veiðarfærum sínum, ok bjuggust heim, ok svâ gjörði Ketill; þeir hlógu þá at honum. Ketill mælti þá: nú vil ek leggja af við yðr alla mína veiði, ok skal sá yðarr eiga, sem fyrst náir; hann þrífr þá upp launguna, ok sendi á skip þeirra; lángan kom við eyrat Birni bónda svâ hart, at haus-inn lamdist, en Björn hraut útbyrðis ok þegar í kaf, ok kom aldrí upp síðan; þá rèru hinir at landi ok svâ hvorirtveggju; fátt gaf Hallbjörn sèr at þessu. Eitt kveld eptir dagsetr tók Ketill öxi sína í hönd sèr, ok gekk norðr á eyna; en er hann var kominn eigi allskamt íburt frá bænum, sèr hann dreka einn fljúga at sèr norðan úr björgunum; hann hafði lykkju ok sporð sem ormr, en vængi sem dreki; eldr þótti honum brenna úr augum hans ok gini; eigi þóttist Ketill slíkan fisk sèt hafa, eðr nokkura úvætti aðra, því at hann vildi heldr eiga at verjast fjölda manna. Dreki sjá sótti at honum, en Ketill varðist með öxinni, vel ok karlmannliga; svâ gekk lengi allt þartil, at Ketill gat höggit á lykkjuna ok þar í-sundr drekann, datt hann þá niðr dauðr. Síðan gekk Ketill heim, ok var faðir hans úti í túni, ok heilsar vel syni sínum, ok spurði, hvort hann hefði við nokkura glettivætti varr orðit norðr á eynni. Ketill svarar: ekki kann ek at færa í frásagnir, hvar ek sè fiska renna, en satt var þat,

at sundr hjó ek einn hæng í miðju, hverr sem hrygnuna veiðir frá. Hallbjörn svarar: lítils mun þèr síðarr vert þikkja um smáhluti, er þú telr slík kvikendi með smáfiskum, mun ek nú auka nafn þitt, ok kalla þik Ketil hæng; settust þeir nú um kyrt. Eldsætinn var Ketill mjök. Hallbjörn sótti mjök veiðiskap, ok beiddist Ketill at fara með honum; en Hallbjörn kvað honum makara, at sitja við elda, enn vera í sjóförum[1]. En er Hallbjörn kom til skips, var Ketill þar fyrir, ok kunni Hallbjörn þá eigi at reka hann aptr; gekk Hallbjörn þá fyri framstafn á ferjunni, en bað Ketil gánga fyri skut ok setja á; Ketill gjörði svâ, ok gekk hvergi; Hallbjörn mælti: ólíkr ertu frændum þínum, ok seint ætla ek, at afl verði í þèr; en ek var vanr, áðr enn ek eldtumst, at setja einn ferjuna. Ketill reiddist þá, ok hratt fram ferjunni svâ hart, at Hallbjörn hraut [fallinn út á[2] fjörugrjótit, en ferjan stöðvaðist ekki, fyrri enn út á sjó. Hallbjörn mælti þá; lítt lætr þú mik njóta frændsemi frá þèr, er þú villt brjóta bein í mèr, en þat vil ek nú tala, at ek ætla, at þú sèrt nógu sterkr, þvíat ek vilda nú reyna afl þitt, ok stóð ek við, sem ek gat fastast, en þú settir fram sem áðr, þikki mèr góð sonareign í þèr; fara þeir nú í veiðistöð. Hallbjörn gætti skála, en Ketill rèri á sjó; hann komst við stórfaung; þá rèru at honum 2 menn allvígligir; þeir báðu hann láta laus

[1]) sjófar háska, *B.* [2]) ífram, ok fèll flatr í, *B.*

faungin; en Ketill neitar því, ok spurði þá at nafni; annarr kveðst heita Hængr, en annarr Hrafn, ok vera bræðr. Þeir sóttu at honum; en Ketill varðist með kylfu, ok sló Hæng fyri borð, ok drap hann svâ, en Hrafn rèri áburt. Ketill fór heim til skála síns, ok gekk faðir hans ámót honum, ok spurði, hvort hann hefði nokkut fundit manna um daginn; Ketill kveðst fundit hafa bræðr 2, Hæng ok Hrafn; Hallbjörn mælti: hversu fóru skipti yðr? en gjörla veit ek deili á þeim, þeir eru hraustir menn, ok eru útlægir úr bygðinni fyrir óspektir sínar. Ketill kveðst hafa drepit[1] Hæng fyri borð, en Hrafn hefði flúit. Hallbjörn mælti: gjarn ertu, frændi! á stórfiskana, ok því er þó vel tilfundit um nafn þitt. Annann dag fóru þeir heim með faung sín; þá var Ketill 11 vetra, ok batnaði nú frændsemi þeirra.

2. Þenna tíma var hallæri mikit á Hálogalandi, en bú þeirra eru mjök í sjónum; Ketill kveðst þá vilja fara til fiskjar, ok vera eigi allr ómagi; Hallbjörn bauð at fara með honum; Ketill kveðst vera vel einfærr meðr ferjuna; þetta er óráðligt, sagði Hallbjörn, ok villtu einráðr vera; en 3 fjörðu mun ek nefna fyri þèr[2], heitir einn Næstifjörðr[3], annarr Miðfjörðr,

[1]) slegit, *B.* [2]) sem þú skalt forðast, *b. v E.* [3]) Viðfjörðr, *E*; er við fórum í, *b. v. B.*

þri:i Vitaðsgjafi[1], ok hefir nú lángt verit, síðan ek fór úr þeim 2, ok var þá eldr í báðum skálum. Þetta sumar fór Ketill í Miðfjörð, ok lifði þar eldr í skála; inni í fjarðarbotni [fann Ketill stóran skála[2], ok var bóndinn þar ekki heima, er Ketill kom; mikinn veiðifánga sá hann þar, ok grafir stórar í jörð niðr grafnar, ok reif hann allt upp úr þeim, ok kastar út hèr ok hvar; hann fann þarí af hvölum ok hvítabjörnum, selum ok rostúngum ok allskonar dýrum, en á botninum í hverri gröf fann hann mannakjöt[3] saltat; allt rak hann þat út, ok spilti hann þar hvívetna; en er kveldaði, heyrir hann áragáng mikinn, gekk hann þá til sjófar; bóndi rèri þá til lands, hann hèt Surtr, mikill var hann ok illiligr. Þegar skipit kendi grunns, stè hann fyri borð, ok tók skipit, ok barr upp í naust, ok náliga óð hann jörðina til knjá; hann var dimmraddaðr, ok mæltist við einsaman: hèr er illa umgengit, sagði hann, at hrökt er öll eiga mín, ok með þat þó verst farit, sem bezt er, sem eru mannakrof mín, væri slíkt launa vert; hefir nú ok eigi hagliga umskipzt, at Hallbjörn, vinr minn, sitr nú kyrr heima, en Ketill hængr, eldhúsfíflit, er nú hèr kominn, enda væri mèr aldrí við of, at launa honum; væri mèr nærsta skömm í því, at bera eigi lángt af honum, þar sem hann hefir vaxit upp við eld ok verit kolbítr. Hann snýr heim til skálans,

1) Vitaskrapi, *E.* 2) *v. í B.* 3) mannskrof, *E.*

en Ketill undan, ok nemr stað at hurðarbaki með reidda öxina; en er Surtr kemr at skálanum, verðr hann at lúta í dyrunum harðla mjök, ok rekr fyrst inn höfuðit ok herðarnar; Ketill höggr þá á hálsinn með öxinni; hún saung hátt við, er hún sneið af honum höfuðit, fèll jötuninn þá dauðr á skálagólfit; þar hlóð Ketill ferju sína, ok fór heim um haustit. Annat sumar [fór hann[1] til Vitjaðsgjafa[2]; Hallbjörn latti þess, ok kvað gott heilum vagni heim at aka; Ketill kvað ekki duga ófreistat: ok mun ek fara, sagði hann; reimt mun þèr þar þikkja, sagði Hallbjörn, en auðsýnt er þat, at þú villt mínar eldstóar kanna ok við mik jafnast í hvervetna; Ketill kvað hann rètt geta. Síðan fór hann norðr í Vitjaðsgjafa, ok fann þar skála, ok bjóst um; þar skorti ekki veiðiskap, mátti þar taka fiska með höndum sèr; Ketill festi fángit í naust sitt, ok fór síðan at sofa; en um morguninn, er hann kom til, var íburtu allt fángit. Aðra nótt vakti Ketill; þá sá hann jötun gánga í naustit, ok batt sèr byrði mikla; Ketill gekk at honum, ok hjó til hans með öxinni á öxlina, ok fèll byrðrinn ofan; jötuninn brást við fast, er hann fèkk sárit, svá at Katli varð laus öxin, ok stóð hún föst í sárinu; jötuninn hèt Kaldrani; hann hljóp inní fjarðarbotninn ok í helli sinn, en Ketill eptir; þar sátu tröll við eld, ok hlógu mjök, ok kvóðu Kaldrana

1) ætlaði hann at fara, *B*. 2) Vitaskrapa fjarðar, *E*.

hafa fengit makliga skript fyri sinn tilverknað; Kaldrani kvað sárinu meiri þörf smyrsla, enn ávíta; þá kom Ketill í hellinn, ok kveðst vera læknir, ok bað færa sèr smyrsl, ok kveðst vilja binda sár hans. Tröllin fóru innar í hellinn; en Ketill þreif öxina úr sárinu, ok hjó jötuninn banahögg, fór heim síðan til skála síns, ok hlóð ferju sína, ok fór heim síðan; ok tók Hallbjörn vel við honum, ok spurði, ef hann hefði við nokkut varr orðit; Ketill kvað þat fjarri farit hafa; Hallbjörn kvað þá mjök endr rjóða: [ok saztu[1] um kyrt? sagði hann; já, sagði Ketill[2].

3. Um haustit fyri vetrnætr bjó Ketill ferju sína; Hallbjörn spurði, hvat þá skal athafast; Ketill kveðst ætla í veiðiför; Hallbjörn kvað þat aungra manna hátt: ok gjörir þú þetta í óleyfi mínu. Ketill fór ekki at síðr; ok er hann kom norðr á fjörðu, tók hann ofviðri, ok sleit undan til hafs, ok náði ekki höfn, ok rak hann at björgum nokkrum norðr fyri Finnmörk, ok lendi þar, er björgin skildust; bjóst hann nú um, ok sofnar; en hann vaknar við þat, at skipit skalf allt; hann stóð upp, ok sá, at tröllkona tók í stafninn, ok hristi skipit. Ketill hljóp í bátinn, ok tók upp smjörlaupa nokkura, ok hjó festina ok rèri íburt; hèlzt ofviðrit; þá lagðist hvalr at honum, ok skýldi skipinu við veðrinu, ok þótti honum manns augu í honum vera; ok

[1]) orðit, ef þú sazt nú, *B.* [2]) ok settist Ketill nú nokkura stund um kyrt, *hefir E ístaðinn fyrir* Hallbjörn kvað, *o. s. fr.*

þá rak hann at skerjum nokkrum, ok braut hann bátinn, ok lagðist í sker nokkr, ok sá hann þá ekki nema sorta til lands, ok lagðist hann þángat eptir hvíld sína, ok komst at landi, ok hitti götu úr fjörunni, ok fann bæ; þar stóð maðr úti fyri dyrum, ok klauf skíð, hann hèt Bruni; sá tók við honum vel, ok kvað vísu:

Heill kom þú, Hængr!
hèr skaltu þiggja,
í[1] allan vetr
[með oss vera;
þèr mun ek fastna,
nema þú fyrilátir,
dóttur mína,
áðr dagr komi.

Ketill kvað vísu:

Hèr mun ek þiggja,
hygg ek at valdi
Finns fjölkýngi
feikna veðri;
ok í allan dag
einn jós ek við þrjá,
hvalr kyrði sjá[2],
hús mun ek þiggja[3].

þeir gengu síðan inn; þar voru fyri 2 konur; Bruni spurði, hvort hann vill liggja hjá dóttur hans eðr einsaman; hún hèt Hrafnhildr, ok var harðla stor vexti, ok þó drengilig; svâ er sagt,

[1]) ok í, *B*; beina í, *E*, [2]) haf, *B*. [3]) þat mun ek þiggja, kvað Ketill, *E ístaðinn fyrir þat frá merkinu.*

at hún hafði álnarbreitt andlit; Ketill kveðst hjá Hrafnhildi liggja vilja. Síðan fóru þau í rekkju, ok breiddi Bruni á þau uxahúð efsta; Ketill spurði, hvat því skyldi; ek hefi híngat boðit Finnum, vinum mínum, (sagði Bruni), ok vil ek eigi, at [þið verðið[1] fyri sjónum þeirra[2]; þeir skulu nú koma til smjörlaupa þinna. Finnar kvomu, ok voru eigi mjóleitir; þeir mæltu: mannfögnuðr[3] er oss at smjöri þessu; síðan fóru þeir íburt; en Ketill var þar eptir, ok skemti sèr við Hrafnhildi; hann fór ok jafnan í skotbakka, ok nam íþróttir, stundum fór hann á dýraveiðar með Bruna. Um vetrinn eptir jól fýstist Ketill íburt; en Bruni kvað eigi þat mega fyri vetrarríki ok illum veðrum: en Gusi[4] Finna konúngr liggr úti[5] á mörkum. Um vorit bjuggust þeir Bruni ok Ketill til ferðar, þeir fóru hit fremra um fjörðu; ok er þeir skildu, mælti Bruni: far þú þá leið, sem ek vísa þèr, en eigi á skóginn; hann gaf honum skeyti nokkr[6] ok brodd einn, ok bað hann hans neyta, ef hann þyrfti í nauðsyn sína; síðan skildu þeir, ok fór Bruni heim. Ketill mæltist við einsaman: því mun ek eigi fara hina skemri leiðina, ok hræðast ekki grýlur Bruna? síðan snèri hann á skóginn, ok sá hann mjallroku mikla, ok at maðr rendi[7] eptir honum, [ok hafði 2 hreina ok vagn[8]; Ketill [kvaddi hann með vísu:

1) þú verðir, *B.* 2) því at, *b. v. B.* 3) efs fagnaðr, *B.* 4) Gusir, *jafnan B.* 5) á heiðum ok, *b. v. B.* 6) mörg, *B, E.* 7) ákafliga, *b. v. B, E.* 8) *v. í B, E.*

Skríð þú af kjálka,
kyrr þú hreina,
seggr síðförull[1]!
seg, hvattú heitir.

Sá svarar:

Gusa kalla mik
göfgir Finnar,
em ek oddviti
allrar þjóðar.
Hvat er þat manna,
er mèr ímóti ferr,
[ok skríðr[2], sem vargr, af viði?
æðru skaltu mæla,
ef þú undan kemst
þrisvar[3] fyri[4] þrumu[5].

því[6] tel ek[7] þik ósnjallan; þeir fundust fyrir Ófara-þrumu. Ketill kvað vísu:

Hængr ek heiti,
kominn úr Hrafnistu,
hefnir[8] Hallbjarnar,
[hví skríðr þú svâ, hinn armi[9]?
[friðmálum mæla[10]
mun ek ei við Finn ragan,
heldr mun ek boga benda,
þann mèr Bruni gaf.

Gusi þóttist nú vita, hverr Hængr sè, þvíat hann var frægr mjök. Gusi kvað vísu:

1) sagði, *E.* 2) skríðr þú, *B.* 3) Ill, *A.* 4) í, *B*, *E.* 5) firði, *b. v. B.* 6) *v. í B.* 7) teldu, *B.* 8) arfi, *E.* 9) hygg ek ei friðar biðja, *B*; hinn armi, *v. í E.* 10) hopa, *E.*

Hverr er á öndrum
öndverðan dag,
gjarn til gunnar
í grimmum hug?
við skulum freista
flein at rjóða,
hvorr at öðrum,
nema hugr bili.

Ketill kvað:

Hæng kalla mik
hálfu nafni,
mun ek veita þèr
viðnám hèðan;
skaltu víst vita,
áðr við skiljum,
at búkörlum
bíta örvar[1].

Gusi kvað:

Bústu nú [við
bitri[2] eggþrumu,
haf þú hlíf fyri þèr,
hart[3] mun ek skjóta;
þèr mun ek bráðliga
at bana verða,
nema þú af auði[4]
öllum látir.

Ketill kvað:

Mun ek af auði[5]

---

[1]) *þessar 2 vísur v. í B.* [2]) *v. í E;* ef þú villt, brátt við, *B.*
[3]) bratt, *E.* [4]) óði, *E.* [5]) óði, *E.*

eigi láta,
ok fyrir einum þèr
aldrí renna;
fyrr skal [þèr höggin[1]
hlíf fyri brjósti,
ok[2] fyri sjónum
svart at gánga.

Gusi kvað:

Skaltu ei[3] gulli,
nè gersimum,
með heilum hug[4]
heima ráða;
kemr þèr bani
brátt at höndum,
ef við skulum úti
oddum leika.

Ketill kvað:

Munik ei gulli
við Gusa skipta,
nè heldr[5] fyrri
til friðar mæla;
mèr er bragr[6]
betri miklu,
enn mèr er hugr[7]
ok hèðankvoma.

Síðan bendu þeir upp boga sína, ok lögðu örvar á streng, ok skutust í odda, ok fór svå tylft örva hvors, at niðr fèllu. Fleinn einn var þá eptir,

---

[1]) höggum, *B*; höggva, *E*. [2]) en, *B*, *E*. [3]) *v. í E*. [4]) hag, *B*. [5]) *b. v. B*. [6]) bráðr bani, *B*. [7]) hugleysi, *B*.

er Gusi átti, [broddr Ketils var ok eptir[1]; þá tók Gusi fleininn, ok sýndist honum hallr, ok steig hann á. Ketill mælti:

Feigr er nú
Finnr hinn ragi,
er hann fóttreðr
flein sinn rángan.

Síðan skutust þeir at, ok mættust nú ekki á fluginum, ok fló broddrinn í brjóst Gusa, ok fèkk hann bana. Bruni hafði látit Gusa sýnast hallr fleininn, þvíat hann var konúngdóminum nærstr[2], ef Gusa yrði nokkut, en þóttist áðr vanhaldinn af skiptum þeirra. Gusi hafði haft sverð þat, er Dragvendill hèt, allra sverða bezt; Ketill tók þat af Gusa dauðum ok örvarnar Flög[3], Hremsu ok Fífu. Ketill fór aptr til Bruna, ok sagði honum, hvat í hafði gjörzt; Bruni kvað sèr nærri höggit, at bróðir hans var drepinn; Ketill kveðst nú hafa unnit undir hann konúngdóminn; síðan fylgdi Bruni honum í bygðina, ok skildust þeir með miklum kærleikum. Eigi er fyrr sagt af ferðum Ketils, enn hann kom heim til Hrafnistu; hann hitti bónda einn, ok spurði, hvat skip þau skyldu, er fóru til eyjarinnar; bóndi kvað þat vera boðsmenn, ok ætti at drekka erfi eptir Ketil, ef þá spyrðist ekki til hans. Ketill fór á vondu skipi til eyjarinnar, ok gekk inn í skálann, ok urðu menn honum fegnir; var nú veizlunni snúit í fagnaðaröl ímót Katli; var hann

1) ok bræddr, *B.* 2) *tekið úr B; v. í A.* 3) Flaug, *A, B.*

nú heima 3 vetr; þá kom þar skip við eyna, ok var þar á Hrafnhildr Brunadóttir ok son þeirra Ketils, er Grímr hèt; Ketill bauð þeim þar at vera. Hallbjörn mælti: því býðr þú trölli þessu hèr at vera? ok var hann mjök bistr ok styggr við hennar kvomu. Hrafnhildr kvað hvorigum þeirra mein mundu at henni vera: ok mun ek burt hèðan fara, en Grímr, son okkar, loðinkinni, skal eptir vera; því var hann svâ kallaðr, at kinn hans önnur var loðin, ok með því var hann alinn; þar festi ekki járn á. Ketill bað Hrafnhildi eigi reiðast fyri þessa sök; hún kvað þeim lítt mundu undir þikkja reiði hennar; síðan fór hún heim, ok rèri norðr með landi, en bað Grím þar vera 3 vetr, ok kveðst þá mundu koma eptir honum.

4. Bárðr hèt maðr, góðr bóndi, ok átti dóttur fríða, er Sigríðr hèt; sá þótti þá beztr kostr. Hallbjörn bað Ketil biðja sèr konu, ok hyggja svâ af Hrafnhildi. Ketill kvað sèr ekki hug á kvonfaungum, ok var hann jafnan hljóðr, síðan þau Hrafnhildr skildu. Ketill kveðst mundu fara norðr með landi; en Hallbjörn sagðist mundu fara bónorðsför fyrir hann: ok er þat íllt, at þú villt elska tröll þat. Síðan fór Hallbjörn bónorðsför til Bárðar; bóndi kvað Ketil hafa farit meiri ok torveldari ferðir, enn biðja sèr konu; vænir þú mik lýgi? sagði Hallbjörn; bóndi svarar: veit ek, at Ketill væri hèr kominn, ef honum væri hugr á þessu, en

eigi hefi ek traust til, nè vilja, at synja þèr konu; ok keyptu þeir saman, ok var ákveðin brullaupsstefna. Síðan fór Hallbjörn heim; Ketill spurði ekki at tíðendum; Hallbjörn kvað mörgum meiri á vera um ráðahaginn forvitnina enn Katli; en Ketill gaf at því aungvan gaum, en þó gekk fram þessi ráðastofnun, ok var veizlan góð. Ketill fór ekki af klæðum hina fyrstu nótt, er þau kvomu í eina sæng; hún fór ekki at því, ok samdist brátt með þeim. Eptir þetta andaðist Hallbjörn; en Ketill tók við búsforráðum, ok var fjölmennt með honum. Ketill átti dóttur við konu sinni, er Hrafnhildr hèt. Ok at liðnum 3 vetrum kom Hrafnhildr Brunadóttir til fundar við Ketil; hann bauð henni með sèr at vera; en hún kveðst ekki þá mundu dveljast: þar hefir þú nú gjört fyrir um fundi okkra ok samvistir í lauslyndi þinni ok óstaðfestu; hún gekk þá til skips mjök döpr ok þrúngin, ok var þat auðsýnt, at henni þótti mikit fyri skilnaðinum við Ketil; Grímr var eptir. Ketill var ríkastr[1] manna norðr þar, ok þótti þeim mikit traust at honum; hann fór eitt sumar norðr á Finnmörk, at finna þau Bruna ok Hrafnhildi; þeir fóru á litlu skipi; þá lágu þeir við bjarg eitt hjá á nokkurri. Ketill bað Grím sækja þeim vatn; hann fór, ok sá tröll við ána, þat bannaði[2] honum, ok vildi taka hann; Grímr hræddist, ok hljóp heim, ok

1) röskastr, *B.* 2) bandaði at, *B.*

sagði föður sínum. Ketill [fór þá til móts við tröllit[1], ok kvað vísu:

Hvat er þat býsna,
[er við bjarg stendr[2],
ok gapir[3] eldi yfir?
búsifjar okkrar
hygg ek batna munu,
líttu á, ljóð vega[4].

Tröllit hvarf, en þeir feðgar fóru heim[5]. Þat var á einu hausti, at víkíngar kvomu til Ketils, hèt annarr Hjálmr, en annarr Stafnglamr, þeir höfðu herjat víða; þeir beiddust at hafa þar friðland með Katli, ok þess lèt hann þeim kost, ok voru þeir með honum um vetrinn í góðu yfirlæti. Um vetr at jólum strengdi Ketill heit, at hann skal eigi Hrafnhildi, dóttur sína, gipta nauðga; víkíngar báðu hann hafa þar þökk fyrir. Eitt sinn kom þar Áli Uppdalakappi, hann var Upplenzkr at ætt; hann bað Hrafnhildar; Ketill kveðst eigi vilja gipta hana nauðga: en tala má ek málit við hana. Hrafnhildr kvèðst eigi vilja leggja ástarhug við Ála, eða binda forlög sín við hann. Ketill sagði Ála svà búit, ok hèrfyri skorar Áli Ketil á hólm,

[1]) kvað þat ekki tröll vera, *B*, *E*. [2]) er ek á bjargi sè, *B*.
[3]) gnapir, *B*. [4]) *E hefir vísuna þannig:*

Hvat er þat at bál
segir bani flagði,
ok gapir eldi
fyri glöð sifjar?
okkar hugða ek
ei mun batna
víst vinátta,
vertu íburtu!

[5]) var þetta raunar Hrafnhildr, ok fýsti Ketil, at fara eigi lengra, *b. v. E.*

en Ketill kveðst fara mundu. Þeir bræðr Hjálmr ok Stafnglamr vildu berjast fyri Ketil; en hann bað þá halda skildi fyri sik. En er þeir kvomu til vígvallar, hjó Áli til Ketils, ok varð eigi viðbrugðit skildinum, ok kom blóðrefillinn í enni Ketils, ok arði[1] niðr um nefit, ok blæddi mjök; þá kvað Ketill vísu:

Hjálmr ok Stafnglamr!
hlífið ykkr báðir;
gefið rúm gömlum,
at gánga framarr hóti!
Fljúga fólknöðrur[2],
frækn er Dalakappi,
ljótr er leikr[3] sverða[4],
litat[5] er skegg á karli;
skrapa skinnkyrtlar,
skjálfa járnserkir,
hristast hríngskyrtur,
hræðist biðill meyjar.

Síðan sveiflar[6] Ketill sverðinu til höfuðsins; en Áli brá upp skildinum; en Ketill hjó þá til fótanna, ok undan báða, ok fèll Áli þar.

5. Litlu síðarr gjörðist hallæri mikit, fyri því at fiskrinn firðist landit, en kornárit brást, en Ketill hafði fjölmennt, ok þóttist Sigríðr þurfa fánga í búit. Ketill kveðst óvanr frýunni, ok stökk á skip sitt; víkíngar spurðu, hvert hann vildi; ek skal til veiða[7], sagði hann; þeir

[1]) ærði, *E.* [2]) flokknöðrur, *E.* [3]) litr, *E.* [4]) eggja, *B, E.* [5]) litið, *B, E.* [6]) slæmdi, *E* [7]) selveiða, *B, E.*

buðu at fara með honum; en hann kvað sèr við aungu hætt, ok bað þá annast um bú sitt ámeðan. Ketill kom þar, sem heitir í Skrofum; ok er hann kom til hafnar, sá hann á nesinu tröllkonu í berum skinnkyrtli, hún var nýkomin af hafi, ok svört, sem bik væri[1]; hún glotti við sólunni. Ketill kvað vísu:

Hvat er þat flagða,
er ek sá[2] á fornu nesi[3]
at uppiverandi sólu,
[er ek hefik
aunga eina[4]
leiðiligri litit[5].

[Hún kvað[6]:

Forat ek heiti,
fædd var ek norðarla
hraust í Hrafnseyju,
hvimleið búmönnum,
ör til áræðis,
[hvatki er[7] íllt skal vinna.

[Ok enn kvað hún[8]:

Mörgum manni
hefik til moldar snúit,
þeim [er til fiskjar fóru[9];

---

1) ok var ber um skallann, *b. v. E.* 2) sè, *B.* 3) ok glottar við guma, *b. v. B.* 4) hef ek önga fyrr, *B.* 5) *E. hefir vísuna þannig:*

Hvaða er þat flagði,
er á fornu nesi
sveðju svarteygða
setr á landi?
svörtum sjónum
sólu ámóti,
armari hef ek þèr
aungva litit.

6) *b. v. B, E.* 7) ef, *E.* 8) *v. í B.* 9) sem fiskaför hefir farit híngat, *E.*

hverr er sjá
hinn köprmáli[1],
er[2] kominn er í skerin?

Hann svarar: [kalla mik Hæng! sagði hann. Hún svarar: nærr[3] væri þèr, at vera heima í Hrafnistu, enn dratta einum til útskerja. Ketill kvað vísu:

Einhlítr ek þóttumst,
áðr enn hèr kvomum[4],
um [flestar allar[5]
farir vorar,
hvat [sem ferlig
flögð um gleipa[6],
lastig dreng drasinn
drefik[7] á vit fánga.
[Læt ek hèr[8] fyri vinnast,
hvat er Forat mælir,
nauðir mik hvöttu,
nánum [er at[9] bjarga;
hættik eigi
á hólm til sela,
ef [í eyju[10]
ærnir væri.

1) kauprmáli, *A*; koprmáli, *B*; hvaðærmáli (hvaðrmáli), *E*. 2) híngat, *b. v. E.* 3) Hæng kalla [mik, hálfu nafni; hún svarar: hollara, *B.* 4) *ístaðinn fyri seinni hluta vísunnar hèðan frá og fyri nærstu vísu hefir E þannig:*

Hirði ek um eigi, nauðir mik hvöttu
hvat er flögð mæla, nauðsyn er at bjarga.

5) *v. í B.* 6) *máske* glepja. 7) er flögð mæla, lasta ek dreng dæsinn, drep ek, *B.* 8) hykkat ek, *B.* 9) átti ek, *B.* 10) heima, *B.*

Hún svarar:

[Synja ek þess eigi[1],
segir hin víðförla,
at þú líf hafir
lángt um aðra,
ef þú fund okkarn
fyrðum[2] segir,
sveinn alllítill[3]!
sè ek þinn hug skjálfa.

Ketill kvað:

Úngr var ek heima[4],
fór ek einsaman
opt[5] í útveri
marga myrkviða;
[hvatki[6] ek fann
á minni götu[7],
hræddumst ek aldrí
flagða forynjur[8].
  Lángleit ertu, fóstra!
ok lætr róa nefit,
ei hefi ek flagðit[9]
felligra[10] litit;
eða hvert hefir þú
förina gjörfa?

Hún þokaði at honum við, ok kvað:

Gáng hóf ek upp í Ángri,

---

1) ei sè ek sýrna, *E.* 2) óblauðum, *b. v. B, E.* 3) lítill, *B, E.* 4) *v. í E.* 5) út, *E.* 6) hvar, *B.* 7) *frá [ v. í E.* 8) frjósun, *B.* 9) flagðkonu, *E.* 10) ferligra, *B*; ferligri, *E.*

eigraða ek á til Steigar,
skálm [glotaðri skroptu,
skrarin raðri[1] ek á til Karmtar[2];
elda mun ek á Jaðri,
ok at Útsteini blása;
þá mun ek austr við Elfi,
áðr dagr á mik skíni,
ok með [brúðkonum beigla[3]
ok bráðlíga gefit jarli.

Sjá leið er fyrir endilángan Norig. Hún spurði: hvat skaltu nú at hafast? sjóðaslátr ok búast til matar, sagði hann; hún kvað:

Seyði þínum mun ek snúa,
en sjálfum þèr gnúa,
unst þik gríðr grípr,
ok mun hún koma
með sínu gjálfri.

Þess er nú at henni von, sagði Ketill; hún fálmaði þá til hans; Ketill kvað þá vísu:

Örum trúi ek mínum,
en þú afli[4] þínu,
fleinn mun þèr mæta,
nema þú fyrir hrökkvir.

Hún kveðr vísu:

Flög ok Fífu
hugða ek fjarri vera,
ok hræddumst ek eigi
Hremsu bit.

[1]) glamtaðri skrumtu (sk..mta), *B.* [2]) *fyrri part vísunnar v. í D.* [3]) brúðgum brigla, *B.* [4]) afrendi, *B.*

Svâ hètu örvar Ketils. Hann lagði ör á streng, ok skaut at henni[1], en hún brást í hvalslíki, ok steyptist í sjóinn, en örin kom undir fjöðrina[2]; þá heyrði Ketill skræk[3] mikinn, [þá sá hann gríði, ok tók til orða: rennt mun nú þeim sköpunum, at Forat eigi jarlinn, ok ógirnilig er nú rekkja hennar[4]. Síðan kom Ketill við faung, ok hlóð ferju sína[5]. Þat var eina nótt, at hann vaknar við brak mikit í skóginum; hann hljóp út, ok sá tröllkonu, ok fèll fax á herðar henni. Ketill mælti: hvert [ætlar þú[6], fóstra? hún reigðist við honum, ok mælti: ek skal til tröllaþíngs, þar kemr Skelkíngr norðan úr Dumbshafi[7], [konúngr trölla, ok Ófóti[8] úr Ófótansfirði, ok Þorgerðr Hörgatröll[9] ok aðrar stórvættir[10] norðan úr [landi; dvel eigi mik, því[11] mèr er ekki um þik, síðan þú kveittir[12] hann Kallrana; ok þá óð hún út á sjóinn ok svâ til hafs; ekki skorti gandreiðir í eyjunni um nóttina, ok varð Katli ekki mein at því, ok fór hann heim við svâ búit,

1) *ístaðinn fyri þat undanfarna frá orðunum:* Hún þokaði at honum við, ok kvað, *og híngat að hefir E þannig:* at brytja hænginn til spaðs, segir Forat; nærr muntu þá verða at gánga, segir Ketill; hún þokaðist örskot at Katli við hverja vísu, en Katli var eigi um, at hún gengi nærr sèr, ok lagði ör á streng af Gusisnautum; en þá hún sá þat, fálmaði hún ámóti, ok sagðist eigi hræðast Hremsu bit; hann skaut þá til hennar. 2) hönd kerlíngar í því hún steyptist, *E.* 3) skrækt, *B.* 4) ok óhljóð, umbrot ok óra, *E.* 5) ok komst svâ úr skerjum ok undir hamar nokkurn, *b. v. E.* 6) skal skræka, *E.* 7) Dumbshafs björgum, *E.* 8) ok konúngrinn, *E.* 9) *eðr* Haurðaþ., *A;* Höldaþ., *B, E.* 10) óvættir *B, E.* 11) Skuggafirði, en, *E.* 12) kventir, *B*; kneiktir, *E.*

ok sat nú um kyrt nokkura hríð. Þessu næst kom við Hrafnistu Framarr[1] víkínga konúngr, hann var blótmaðr, [ok bitu eigi járn[2]; hann átti ríki [í Húnaveldi[3] á Gestrekalandi; [hann blótaði Árhaug, þar festi eigi snjó á; Böðmóðr hèt son hans, er átti mikit bú við Árhaug, ok var vinsæll maðr[4]. Allir báðu Framari ílls. Þat hafði Óðinn skapat Framari, at hann bitu eigi járn. Framarr bað Hrafnhildar, ok hafði Ketill þau svör fyri sèr, at hún skyldi sèr sjálf mann kjósa. Hún kvað nei við Framari: vilda ek eigi Ála kjósa mèr til bónda, þá mun ek hálfu síðr kjósa þetta tröll. Ketill sagði Framari svör hennar, hann reiddist mjök fyri þessi svör; skoraði Framarr Ketil á hólm við Árhaug jóladaginn fyrsta: ok ver hvers manns níðíngr, ef þú kemr eigi! Ketill kveðst koma mundu. Þeir Hjálmr ok Stafnglamr buðu honum at fara með honum; Ketill kveðst einn fara vilja. Litlu fyrir jól lèt Ketill flytja sik á land í Naumudal; hann var í loðkápu, ok stígr á skíð sín, ok fór upp eptir dalnum, ok svâ yfir skóg til Jámtalands, [ok svâ austr yfir Skálkskóg til Helsíngjalands[5], ok svâ austr yfir Eyskógamörk[6], hún skilr Gestrekaland ok Helsíngjaland, ok er (hann) 20[7] rasta lángr, en 3 breiðr, ok er illr yfirferðar. Þórir hèt maðr, er bjó við skóginn, hann bauð Katli fylgd sína, ok sagði illvirkja liggja á skóginum: sá er fyri

1) Fraumar, *B.* 2) mikill, *B, E.* 3) *v. í B.* 4) *v. í E.* 5) *v. í E.* 6) Eyskerjamörk, *E.* 7) 10, *E.*

þeim, er heitir Sóti, hann er svikall ok harðfengr. Ketill kvað sèr ekki mein mundu at þeim verða; síðan fór hann á skóginn, ok kemr at skála Sóta, hann var ekki heima; Ketill kveikti upp eld fyri sèr; Sóti kom heim, ok heilsar ekki Katli, ok setti vist fyri sik; Ketill sat við eld, ok mælti: eitu matníðíngr, Sóti? sagði hann; Sóti kastaði þá stykkjum nokkrum at Katli; ok er þeir voru mettir, lagðist Ketill niðr hjá eldi, ok hraut mjök; þá spratt Sóti upp, en Ketill vaknaði, ok mælti: því sveimar þú hèr, Sóti? hann svarar: blæs ek at eldi, er nærsta var slokinn; Ketill sofnaði öðru sinni, þá hljóp Sóti enn upp, ok tvíhendi öxina; Ketill spratt þá upp, ok mælti: stórum villtu nú brytja, sagði hann, síðan sat Ketill upp um nóttina; um morguninn beiddi Ketill, at Sóti færi með honum á skóginn, ok hann fór; ok þá náttaði, lögðust þeir undir eik eina; Ketill sofnar, at því Sóti hugði, því hann hraut hátt; Sóti spratt upp, ok hjó til Ketils, svâ at af hraut kápuhattrinn, en Ketill var ekki í kápunni; Ketill vakti, ok vildi reyna Sóta; hann hljóp upp, ok mælti: nú skulu við reyna fángbrögð með okkr; Ketill kipti Sóta um lág eina, ok hjó af honum höfuðit, ok fór síðan leið sína, ok kom jólaaptan til Árhaugs; [hann var blótaðr af Framari ok landsmönnum til árs[1]; þá var kafa hríð; Ketill gekk upp á hauginn, ok settist ímót[2] [veðrinu. Þá er menn kvomu í sæti

[1]) *v í E.* [2]) *hèr vantar blað í B, og er ritað söguna út á tvö nýrri skinnblöð í hins stað með annarri hendi.*

at Böðmóðs, þá[1] tók hann til orða: hvört mun Ketill kominn til Árhaugs; [menn kvóðu þess aungva von[2]; Böðmóðr[3] mælti: þar er sá maðr, at ek kann enskis til at geta, farið nú ok vitið um hann, ok bjóðið honum til vor! Þeir fóru nú til haugsins, ok fundu Ketil eigi, ok segja Böðmóði svâ komit. Böðmóðr kvað hann kominn mundu upp á hauginn, fór hann síðan til haugsins ok upp á hauginn, ok sèr þar [hrúgald mikit[4] á norðanverðum hauginum; Böðmóðr kvað vísu:

Hverr er sá hinn háfi,
er á haugi sitr,
[ok horfir veðri viðr[5]?
frostharðan mann
[hygg ek þik feiknum vera,
hvat þèr hvergis hlýr[6].

Ketill kvað vísu:

Ketill ek heiti,
kominn úr Hrafnistu,
þar var ek upp um alinn;
hugfullt hjarta
veit ek hlífa mèr,
þó vilda'k gistíng geta.]

Böðmóðr kvað:

Upp skaltu rísa,
ok gánga haugi af,
ok sækja mína sali;

[1]) norðrinu; Framarr átti son, þann er Böðvarr hèt; hann var ok kominn til mótsins, þá Framarr kom í sæti, *E.* [2]) *v. í E.* [3]) Böðvarr, *allstaðar í E.* [4]) Ketil, *E.* [5]) *v. í E.* [6]) finna vil ek þik, *E.*

málsefnis ann ek þèr
margan dag,
ef þú villt þiggja þar.

Ketill kvað vísu:

Upp mun ek nú rísa,
ok gánga haugi af,
alls mèr Böðmóðr býðr;
bróðir minn, þótt sæti
brautu nær,
mundi eigi betr um boðit.

Böðmóðr tók í hönd Katli[1]; ok er hann stóð upp, skriðnuðu honum fætr á hauginum, þá kvað Böðmóðr vísu:

Reyndr ertu, fóstri!
at gánga hervígis til,
ok berjast við Framar til fjár;
á lèttum aldri
gaf honum Óðinn sigr,
mjök kveð ek hann vígum vanan.

Þá reiddist Ketill, er hann nefndi Óðin, því at hann trúði ekki á Óðin, ok kvað vísu:

Óðni blóta
gjörða ek aldregi,
hefik þó lengi lifat;
Framar veit ek falla
munu fyrr enn
þetta hit háfa höfuð[2].

---

1) ok leiddi hann, *b. v. B.* 2) *ístaðinn fyri þat undanfarna frá orðunum:* Ketill ek heiti, *og hingat að hefir E:* Ketil or Hrafnistu máttu mik kalla; Böðvarr svarar: upp skaltu rísa ok gánga haugi af, ok tók hann í fætr á Katli, ok dró hann ofan

Síðan fór Ketill með Böðmóði, ok var með honum um nóttina, ok sat honum hit nærsta. Ok um morguninn bauð Böðmóðr at fara með honum, eða[1] fá mann í móti Framari. Ketill vildi eigi þat; þá mun ek fara með þèr, sagði Böðmóðr; þat vildi Ketill, ok fóru þeir til Árhaugs. Framarr fór grenjandi til haugsins, ok voru þeir Böðmóðr ok Ketill þar fyri fjölmennir; þá sagði Framarr upp hólmgaungulög; Böðmóðr hèlt skildi fyri Katli, en enginn fyri Framar; hann mælti: þá skaltu nú vera minn[2] fjandmaðr heldr enn sonr; Böðmóðr kvað hann hafa sundrsagt frændsemi með þeim í fjölkýngi sinni; ok áðr þeir börðust, fló örn af skógi at Framari, ok sleit af honum klæðin; þá kvað Framarr vísu:

Illr er örn í sinnu,
[emka ek sár at[3] kvíða,
færir hann sínar[4] greypar
gular í blóðæðar[5] unnar[6];
hlakkar hreggskoran[7]
[hvers er hann forkunnigra[8];
opt hefi ek ara gladdan,
[óðr em ek valgöglum[9].

---

eptir haugnum; þá kvað Böðvarr: reyndr ertu, ef þú berst við Framar, þvíat Oðinn sjálfr er hans fulltrúi; þá reiddist Ketill, er hann nefndi Oðin, því Ketill trúði ekki á hann.

1) ok, *B.* 2) *b. v. B, E.* 3) ei kann ek sárum, *C*; einkum ek sáru, *E.* 4) *v. í B.* 5) sáraflæði *E*; *seinni part vísunnar hèðan frá v. í E.* 6) mínar, *B.* 7) hreggskornir, *B*; henni *b. v. C.* 8) h. e. h. fjölkunniga, *B*; oss er fár kunnugra, *C.* 9) áðr ek valgögl vann, *B.*

þá sótti örninn svå fast, at hann varð vopnum at verjast; þá kvað hann vísu:

Veifir þú vængjum,
vopnum mun ek þèr heita,
vafrar þú nú, víðflögull[1],
sem vitir mik feigan;
villr ertu, vífstari[2]!
við munum sigr hafa,
[hverf þú at[3] Hængi!
hann skal nú[4] deyja.

Sá átti fyrr at höggva, sem á var skorat; Ketill hjó á öxl Framari, hann stóð fyri kyrr, svérðit beit ekki á, en vazt þó við, at höggit var svå mikit. Framarr hjó til Ketils í skjöldinn[5]; Ketill hjó á aðra öxl Framari, ok beit enn ekki; Ketill kvað vísu:

Dregst þú nú, Dragvendill!
við krass arnar,
mætir þú meingöldrum,
máttir þú ei bíta;
mik þess ei varði,
at hrökkva mundi,
[egg í eitr herðar[6],
þóat Óðinn deyfði.

Ok enn kvað hann vísu:

Hvat er þèr, Dragvendill?
hví ertu slær vorðinn?

---

1) víða, *E.* 2) vígirjar, *E.* 3) hlífðu eigi, *E.* 4) fyrri, *E.* 5) ok klauf hann niðr ígegnum, *b. v. E.* 6) eggjar eitri herðar, *B*; egg eitrum herðum, *C.*

til hefi ek nú höggit,
tregt er þèr nú at bíta,
hliðrar[1] þú at hjörþíngi,
hefir þèr ei fyrr vorðit
bilt í braki[2] málma,
þar er bragnar hjuggust[3].

Framarr kvað vísu:

Skelfr nú skegg á karli,
skeika vâpn gömlum,
frír hann hjör hvössum,
hræðist faðir meyjar;
[brýndust benteinar,
svâ at bíta mátti
[hölda hugprúða[4],
ef þèr hugr dygði[5].

Ketill kvað:

Ei þarftu oss at eggja,
eiga mèr[6] sjaldan
fyrðar flugtrauðir[7]
fría stórhögga;
bít þú nú, Dragvendill!
eða brotna ella!
horfin er okkr[8] heill báðum,
[þó bilat sinn[9] þriðja.

[Ok enn kvað hann:

1) hliðar, *A, L*; hliðir, *C*. 2) barcki, *B*. 3) *ístaðinn fyri báðar fyrifarandi vísur hefir E:* þá mælti Ketill við sverð sitt: eigi varði mik þess, Dragvendill! at þú mundir eigi bíta, þó Oðinn deyfði eggjar, ok því ertu slíkr orðinn, sem aldrei hefir fyrr orðit? 4) höldum hugprúðum, *C*. 5) *ístaðinn fyri þat frá fyrra merkinu hefir E:* at höggva hugprúðr, því honum hugr ei dugar. 6) nú, *B*. 7) fulltraustir, *E*. 8) *v.* í *B*. 9) ef bilar hinn, *B*; ef þú bilar sinn, *E*.

Hræðist ei faðir meyjar,
meðan heill er Dragvendill,
vita ek víst þikjumst,
verðr honum ei bilt þrisvar.

Þá snèri hann[1] sverðinu í hendi sèr, ok hverfði fram eggina aðra; Framarr stóð kyrr, er sverðit reið á öxlina, ok nam eigi staðar fyrr enn í mjöðminni, ok flakti frá síðan; þá kvað Framarr vísu:

Hugr er í Hængi,
hvass er Dragvendill,
beit[2] hann orð Óðins,
sem ekki væri[3];
brást nú Baldurs faðir,
brigt er at trúa honum,
njóttu heill handa,
hèr munum[4] skiljast.

Þá dó Framarr, en Böðmóðr fylgdi Katli af vetfángi; þá mælti Böðmóðr: nú með því ef þú þikist mèr eiga at launa nokkura liðveizlu, þá vil ek at þú giptir mèr dóttur þína; Ketill tók því vel, ok sagði Böðmóð góðan dreng. Eptir þetta unnit fór Ketill heim, ok var frægr mjök af sínum stórvirkjum; hann gipti Hrafnhildi Böðmóði[5]. Ketill rèð fyrir Hrafnistu, meðan hann lifði, en Grímr loðinkinni eptir hann; Örfar-Oddr var sonr Gríms; ok lýkr hèr þessari sögu.

---

[1]) þá sagðist Ketill enn eigi hræðast skyldi, á meðan heill væri Dragvendill, ok snèri þrisvar, *E.* [2]) heiti, *E.* [3]) er verri, *E.* [4]) við, *b. v. B.* [5]) sem Böðvarr er nefndr, *b. v. E.*

## Hèr byrjar söguna af Grími loðinkinna.

Sva er sagt af Grími loðinkinna, at hann var bæði mikill ok sterkr ok hinn mesti garpr; því var hann loðinkinni kallaðr, at kinn[1] hans önnur var vaxin með dökkt hár, ok með því var hann alinn, ekki beit þar járn á. Grímr tók við búi í Hrafnistu eptir Ketil hæng, föður sinn; hann gjörðist ríkr at fè, hann rèð ok náliga einn öllu um allt Hálogaland. Haraldr hèt einn hersir ríkr ok ágætr í Vík austr, hann átti Geirhildi, dóttur Sölga konúngs Hrólfssonar [konúngs úr Bergi af Upplöndum[2]. Dóttir þeirra hèt Lopthæna; hún var kvenna fríðust ok velmennt. Þángat fór Grímr loðinkinni á skútu við átjánda mann, ok bað Lopthænu sèr til handa; var þat at ráðum ráðit, ok skyldi hann sækja brullaupit um haustit; en 7 nóttum fyrr hvarf Lopthæna burt, ok vissi engi, hvat af henni varð; en er hann kom til brullaupsins, saknar hann vinar í stað, er brúðrin var í burtu, ok þóttist hann þó vita, at faðir hennar olli þar aungu um; þar sat hann 3 nætr, ok drukku þeir, ok þó með lít-

[1]) *v. í A.* [2]) *v. í B.*

illi kæti. Síðan fór hann heim í Hrafnistu. Þat hafði borit til 5 árum fyrr[1], at kona Haralds hersis hafði andazt, en hann fèkk ári síðarr norðan af Finnmörk Grímhildar Jösursdóttur, ok hafði hana heim til sín. Skjótt þótti hún þar öllu spilla; illa var hún til Lopthænu, stjúpdóttur sinnar, sem síðarr barr raun á. Grímr undi lítt við hag sinn, er hann spurði ekki til Lopthænu, festarkonu sinnar. Þat barr þá til sem optar, at hallæri mikit kom á Hálogaland; Grímr loðinkinni bjóst þá heiman, ok fór á ferju sinni við 3ðja mann; hann hèlt norðr fyri Finnmörk ok svâ austr til Gandvíkr, ok er hann kom í víkina, sá hann at þar var nógr veiðifángi; setti hann þar upp skip sitt[2], ok gekk síðan til skála, ok kveikti upp eld fyri sèr. En er þeir voru í svefn komnir um nóttina, vöknuðu þeir við þat, at kominn var stormr með svartahríð; svâ mikil grimd fylgdi veðri þessu, at allt sýldi bæði úti ok inni. Um morguninn, er þeir voru klæddir, gengu þeir út ok til sjófar; sáu þeir þá, at á burtu var allr veiðifángi, svâ at hvergi sá staði; þóttust þeir nú ekki vel staddir, en ekki gaf áburtu; gengu þeir nú heim til skála, ok voru þar um daginn. Um nóttina vaknar Grímr við þat, at hlegit var úti hjá skálanum[3]; hann spratt þá upp skjótt, ok tók öxi sína, ok gekk út; hann hafði ok með sèr sem ávalt endrarnær örv-

1) áðr enn Grímr bað Lopthænu, *b. v. E.* 2) ok bjó um, *b. v. B, E.* 3) *b. v. B.*

arnar Gusisnauta, er Ketill hængr, faðir hans, hafði gefit honum. En er hann kom út, sá hann 2 tröllkonur við skip niðri, ok tók í sinn stafninn hvor þeirra, ok ætluðu at hrista í sundr skipit. Grímr mælti, ok kvað vísu:

Hvat heita þær
hrauns í búr,
er skaða vilja
skipi mínu?
ykkr hefik
einar sènar,
ámátligastar
at yfirlitum.

Sú kvað vísu, er nær honum stóð:

Feima[1] ek heiti,
fædd var ek norðarla,
Hrímnis dóttir
úr Háfjalli;
hèr er systir mín
hálfu fremri,
Kleima at nafni,
komin til sjófar.

Grímr kvað:

Þrífist hvörgi
Þjassa dóttir,
brúðir[2] vestar!
brátt skal ek reiðast;
ykkr skal ek rètt,

[1]) Finna, *hèr og framvegis*, E. [2]) bornar, E.

áðr röðull skíni,
vörgum senda
víst til bráðar.

Kleima kvað:

Þat var fyrri,
at faðir okkar
[burtu seiddi
báru hjarðir[1];
skuluð aldregi,
nema sköp ráði,
heilir hèðan
heim um komast.

Grímr kvað:

Skal ek ykkr báðum
skjótliga heita
oddi ok eggju
í upphafi;
munu þá reyna
Hrímnis[2] mellur,
hvort at betr dugir
broddr eða krumma[3].

Grímr tók þá eina af Gusisnautum, ok skaut þá firr[4] honum stóð, svâ hún fèkk þegar bana. Feima mælti: illa fór nú Kleima systir! Hún veðr þá upp at Grími, hann höggr þá til hennar með öxinni, ok kom á herðarblaðit; hún kvað við hátt, ok hljóp inn með fjörum. Grími varð laus öxin við höggit, ok stóð hún föst í sárinu.

[1]) braut undir sik húsveina, *E.* [2]) *þannig C*; Hrúngnis, *A*; Rögnis, *B.* [3]) *Vísuna v. í E.* [4]) fyrr er fyrir, *B.*

Grímr hljóp eptir, ok barr hvorki með þeim sundr nè saman, ok allt þar til at þau kvomu at björgum stórum, þar sá hann framan í björgunum helli mikinn; þar var einstígi upp at gánga, ok hljóp hún þar upp sem slèttan völl; ok í því er hún hóf sik til hlaups upp í björgin, hraut öxin úr sárinu. Grímr tók hana þegar upp, ok varð hann at krækja öxinni í annat sporit, er hann stóð í öðru, ok las sik svâ eptir skaptinu, ok svâ komst hann upp í hellinn; þar sá hann brenna bjartan eld, ok sátu 2 tröll við eldin; þat var karl ok kellíng; [þau spyrndust í iljar[1]; þau voru í stuttum ok skörpum[2] skinnstökkum[3] bæði; gjörla sá hann, hversu þau voru í sköpun bæði í millum fótanna; hann hèt Hrímnir[4], en hún Hyrja. En er Feima kom inn í hellinn, heilsuðu þau henni, ok spurðu, hvar Kleima, systir hennar, væri; hún svarar: gettu þessna[5]! hún liggr dauð út með fjörum, en ek særð banasári; en þið liggið inni ok fletizt hèr við eld. Jötuninn mælti: þetta hefir verit lítit fremdarverk, at drepa ykkr, aðra sex vetra, en hina sjö; eðr hverr hefir gjört þetta? Feima svarar: þetta hefir gjört illmennit Grímr loðinkinni; eru þeir feðgar meir lagðir til þess enn aðrir menn, at drepa niðr tröll ok bergbúa; en þó hann hafi

---

[1]) *v. í B.* [2]) *þannig A, B;* skorpnum, *D.* [3]) skinnkyrtlum, *B;* skinnfeldum, *E.* [4]) *þannig B;* Hrúngnir, *A.* [5]) þat eigi, *B, E.*

nú þetta gjört, þá mun hann þó aldrí ná Lopthænu, konu sinni; ok er þat nú gaman, svâ skamt sem nú er á millum þeirra; Hrímnir mælti þá: því veldr Grímhildr, systir mín, ok er henni flest til menta gefit. Þá mæddi Feimu blóðrás, ok[1] fèll hún dauð niðr. Í því gekk Grímr inn í hellinn, ok hjó til Hrímnis[2] karls svâ hart, at aftók höfuðit; þá spratt Hyrja[3] kellíng upp, ok rann á hann, ok tóku þau at glíma, ok var þeirra atgángr bæði harðr ok lángr, þvíat hún var hit mesta tröll, en Grímr var rammr at afli; en þó lauk svâ, at hann brá henni [á loptmjöðm[4], svâ at hún fèll; hjó hann þá af henni höfuðit, [ok gekk af henni dauðri[5], fór síðan[6] til skála síns.

2. Annann dag eptir var veðr gott; gengu þeir þá um fjörur, ok sáu, hvar rekin var reyðr[7] mikil[8], gengu þeir þángat, ok tóku til hvalskurðar; litlu síðarr sá Grímr, hvar 12 menn gengu; þá barr brátt at; Grímr heilsar þeim ok spyrr at nafni; sá kveðst heita Hreiðarr hinn hvatvísi, er[9] fyri þeim var, ok spurði, því Grímr vildi ræna hann eigu sinni; Grímr kveðst fyrr hafa fundit hvalinn; veiztu eigi, sagði Hreiðarr, at ek á hèr reka alla? eigi veit ek þat, sagði Grímr, en hversu sem er, þá höfum at helmíngi; eigi

[1]) *hèr byrjar skinnblaðið C.* [2]) *þannig A, B, C.* [3]) Kyrja, *C.* [4]) til mjaðmar, *B, C;* mjaðmar bragð, *E.* [5]) *v. í C.* [6]) með gull ok gersimar úr hellirnum, ok barr heim, *b. v. E.* [7]) hvalr, *E.* [8]) *v. í C.* [9]) ör, *jafnan í C.*

vil ek þat, sagði Hreiðarr; þèr skuluð gjöra annathvort, gánga frá hvalnum, ella munu vèr berjast; fyrr gjöru vèr þat, sagði Grímr, enn missa allan hvalinn; fóru síðan til ok börðust, ok gjörðist þar hin harðasta sókn; Hreiðarr ok hans menn voru bæði stórhöggvir ok vopnfimir, ok innan lítils tíma fèllu báðir menn Gríms; var þá bardagi hinn harðasti, en þó lauk svâ, at Hreiðarr fèll ok allir menn hans. Grímr fèll ok bæði af sárum ok mæði; lá hann þar nú í valnum í fjörunni, ok ætlaði sèr ekki nema dauða. En er hann hafði eigi lengi legit, sá hann, hvar kona gekk, ef svâ skyldi kalla; hún var eigi hærri enn sjövetra gamlar stúlkur, en svâ digr, at Grímr [hugði, at hann mundi eigi geta feðmt um hana[1]; hún var lángleit ok harðleit[2], bjúgnefjuð ok baröxluð, svartleit[3] ok svipilkinnuð[4], fúlleit[5] ok framsnoðin; svört var hún bæði á hár ok á hörund, hún var í skörpum[6] skinnstakki, hann tók eigi lengra enn á þjóhnappa henni á bakit; harðla ókyssilig þótti honum hún vera, þvíat horðigullinn[7] hèkk ofan fyrir hvöptana á henni. Hún gengr þángat at, sem Grímr lá, ok mælti: lágt fara nú höfðíngjarnir Háleygjanna, eðr villtu, Grímr! þiggja líf af mèr? Grímr svarar: valla kann ek þat, svâ ámátlig

1) h. a. h. m. e. g. spennt saman fíngrum at baki henni, svâ at hann gengi framan at henni, ok feðmdi um hana, *B*, *C*; þótti fyrr í vera, *E*. 2) bjagleit, *C*. 3) svarteyg, *B*, *C*, *E*. 4) sifalkinnuð, *C*. 5) fölleit, *B*, *C*, *E*. 6) *hèr endar fyrra blaðsíðubrotið af C*. 7) horðíngullinn, *E*.

sem þú ert, eða hvert er nafn þitt? hún svarar: ek heiti Geiríðr Gandvíkrekkja, máttu þat ætla, at ek er hèr nokkurs ráðandi um víkina, ok gjör þik greiðan í öðruhvöru. Grímr svarar: þat er fornt orð, at frekr[1] er hverr til fjörsins, ok mun ek þat kjósa, at þiggja líf af þèr; hún greip hann þá upp undir skinnstakkinn, ok hljóp með hann sem eitt lèbarn[2], ok svâ hart, at hann var vindsfullr; hún lètti eigi fyrri, enn þau kvomu at helli einum stórum; ok er hún lèt hann niðr, sýndist Grími hún [slíkt at[3] ámátligri enn fyrr. Nú ertu hèr kominn, sagði hún, ok vil ek at þú launir mèr, at ek barg þèr, ok bar híngat, ok kyssir mik nú; þat má ek aunganveg gjöra, sagði Grímr, svâ fjandliga sem mèr lízt nú á þik. Þá mun ek aungva þjónustu þèr veita, sagði Geiríðr, ok sè ek, at þá ertu skjótt sem dauðr. Þat mun þá þó vera verða, sagði Grímr, þóat mèr sè þat mjök ímóti skapi; hann gekk þá at henni, ok kysti hana; eigi þótti honum hún svâ ill viðkvomu, sem hún var hrímuglig[4] at sjá. Þá var komit at kveldi; bjó Geiríðr þá sæng, ok spurði, hvort Grímr vill liggja einsaman eða hjá sèr; Grímr kvað heldr vilja liggja einsaman; hún kveðst þá aungva stund vilja áleggja at græða hann; Grímr sá at þat mátti honum eigi nægja, ok kveðst þá heldr mundu hjá henni liggja, ef sá væri á baugi; gjörði hann þá svâ;

[1]) frekari, *E.* [2]) lítit barn, *E.* [3]) slík eða, *B.* [4]) óþökkulig, *B*; hörmulig, *D*; óþektarlig, *E.*

batt hún[1] áðr öll sár hans, ok þóttist hann hverki kenna sviða nè sárinda. Þat þótti honum undarligast, hversu mjúkfíngruð hún var, svâ ljótar hendr[2] sem honum sýndist hún hafa, því at honum þótti þær gammsklóm líkari enn mannshöndum; en þegar er þau kvomu í sæng, sofnaði Grímr. En er hann vaknar, sá hann konu svâ fagra liggja í sænginni hjá sèr, at slíka þóttist hann valla sèt hafa; hann undraðist, hversu lík hún mátti vera sköpuð Lopthænu, festarkonu hans. Niðri fyri stoknum sá hann, hvar lá sá hinn illiligi tröllkonuhamr, er Geiríðr Gandvíkrekkja hafði haft; [raun máttlítil var þá þessi kona[3]; hann stóð upp skjótt, ok dró haminn fram í eldinn, ok brendi upp at kolum; síðan fór hann til, ok dreipti [á konuna, þar til at[4] hún raknaði við, ok mælti: nú hefir hvorttveggja okkar vel; ek gaf þèr líf fyrir öndverðu, en þú komt mèr úr ánauðum. Hversu komtu hèr, eða með hverju móti er um hag þinn? sagði Grímr. Hún svarar: litlu síðarr enn þú vart farinn úr Vík austan frá Haraldi, föður mínum, mætti Grímhildr, stjúpmóðir mín, mèr svâ talandi: nú skal ek þat launa þèr, Lopthæna! at þú hefir sýnt mèr þrjózku ok þverúð, síðan er ek kom í ríkit; læt ek þat verða um-

1) *ístaðinn fyri gamalt blað, sem vantar í B, er niðrlag sögunnar hèðanfrá skrifað á 2 nyrri blöð.* 2) krummur, *E.* 3) *v. í B, E.* 4) víni á varir Lopthænu, því af henni var allr tröllastyrkr, or því hún slepti hamnum ok, *E.*

mælt, at þú verðir at hinni ljótustu tröllkonu, ok hverfir norðr til Gandvíkr, ok byggir þar afhelli, ok sitir þar í stóðrenni[1] við Hrímni, bróður minn, ok eigist þið við bæði margt ok íllt, ok hafi þat verr, sem verr herðer sik; þú skalt ok vera hvimleið öllum, bæði tröllum ok mönnum; þú skalt ok, sagði hún, í þessari ánauð vera alla þína æfi, ok aldrí úrkomast, nema nokkr mennskr maðr játi þèr þeim 3 hlutum, sem þú beiðir, sem ek veit at engi mun vera: sá er hinn fyrsti, at þiggja at þèr líf, sá annarr, at kyssa þik, ok sá er hinn þriðì, at byggja eina sæng ok þú, sem öllum mun first um fara. Nú hefir þú þessa hluti alla við mik gjörfa, enda var þèr ok skyldast; nú vil ek at þú færir mik í Vík austr til föður míns, ok drekkir til mín brullaup, eptir því sem ætlat var. Síðan fóru þau heim til skála Gríms, ok var þá nógr veiðifángi, lá þá hvalr í hverri vík; hlóð hann nú ferju sína, ok er hann var búinn, hèlt hann frá landi, ok voru þau 2 á skipi, Grímr ok Lopthæna, tók hann þá til listar þeirrar, er haft hafði Ketill hængr, faðir hans, ok aðrir Hrafnistumenn, at hann dró upp segl í logni, ok rann þegar byrr á; sigldi hann þá heim í Hrafnistu, ok þóttust menn hann hafa heimtan úr helju.

3. Litlu síðarr kom Grímr í Vík austr, ok fór Lopthæna með honum; Grímhildr rèð þá náliga öllu ein austr þar. En þegar Grímr[2] kom,

[1]) stóðreyn, *D.* [2]) kendi aflsmunar ok, *b. v. E.*

lèt hann Grímhildi verða tekna ok færðan belg á höfuð henni, ok barða grjóti í hel[1], þvíat hann hafði áðr sagt Haraldi hersi, hversu farit hefði. Gjörði hann þá brullaup til Lopthænu, ok fór heim síðan í Hrafnistu; en Haraldr hersir kvæntist í þriðja sinn, ok fèkk Þorgunnar Þorradóttur[2]. Eigi höfðu þau Grímr ok Lopthæna lengi ásamt verit[3], aðr þau áttu dóttur þá, er Brynhildr hèt; hún óx upp í Hrafnistu, ok var hin fegrsta mær; unni Grímr henni ok mikit; en er hún var 12[4] ára gömul, bað hennar sá maðr, er Sörkvir hèt, ok var [Svaðason, Rauðfelssonar[5], Bárðarsonar, Þorkelssonar bundinfóta[6]; hún vildi ekki gánga með honum, ok fyri þat skorar Sörkvir Grím á hólm; Grímr játar því. Sörkvir var Sýgnskr[7] at móðurætt, ok þar átti hann búum at stýra. Á hálfsmánaðar fresti átti holmgángan at vera. Ásmundr hefir hersir heitit í Norigi; hann [rèð fyri[8] þeim bæ, er á Berurjóðri[9] heitir[10], hann var kvongaðr maðr, ok átti þann son, er Íngjaldr hèt, hann var hin fræknasti maðr, ok var laungum með Grími loðinkinna, ok var með þeim vinátta mikil, en þó var Íngjaldr þeirra eldri, en miklu sterkari var Grímr. Íngjaldr fèkk þeirrar konu, er Dagný hèt, dóttur Ásmundar, er við Gnoð[11]

1) ok brenna síðan, *b. v. E.* 2) Þórðardóttur, *B.* 3) *hèr byrjar seinna blaðsíðubrotið af C.* 4) 15, *B.* 5) Rauðnefssonar, *C.* 6) [ bróðurson Þorkels bundinnfóta, *B*; Svaðason, *E.* 7) Suðreyiskr, *C*; Sviskr, *E*; Svenskr, *Rúðbek.* 8) bjó á, *C.* 9) Bárujaðri, *B.* 10) hèt, *C.* 11) Noð, *C.*

var kendr, en systir Ólafs liðsmannakonúngs; við henni átti hann þann son, er Ásmundr hèt, er síðan var fóstbróðir Odds[1] hins víðförla, er var með Sigurði hríng á Brávelli, er öðru nafni hèt Örvar-Oddr. Í nefndan tíma kom Sörkvir til hólmsins við 12ta mann, þat voru allt berserkir; þar var Grímr þá ok kominn, ok Íngjaldr með honum ok margir Háleyskir bændr. Gengu þeir á hólm, ok átti Grímr fyrr at höggva; hann hafði sverðit Dragvandil[2], er faðir hans hafði átt. Sá hèt Þröstr, er skildi hèlt[3] Sörkvi. Grímr hjó svâ mikit hit fyrsta högg, at hann klauf skjöldinn at endilaungu, en blóðrefillinn nam vinstri öxl á Þrösti[4], ok sneiddi svâ um þvert manninn í sundr fyrir ofan mjöðmina hina hægri, ok hljóp svâ sverðit á lærit Sörkvi, at tók undan honum báða fætrna, annann fyrir ofan knè, en annann fyri neðan, ok fèll hann [dauðr niðr[5]; þeir Íngjaldr snúa nú at þeim 10, sem eptir voru, ok lèttu eigi fyrr, enn þeir voru allir drepnir[6]; þá kvað Grímr vísu:

Hèr höfum fellt
til foldar

---

[1]) Oz, *A.* [2]) Dragvendil, *C.* [3]) fyri, *b. v. C.* [4]) þresti, *C.* [5]) þá til jarðar ok þegar örendr, *C.* [6]) *istaðinn fyri þat undanfarna frá:* Asmundr hefir hersir heitit *og híngat að hefir E þannig:* Grímr kom til hólmstefnunnar í nefndan tíma, ok hafði sverðit Dragvendil, er faðir hans hafði átt. Grímr hjó svâ mikit hitt fyrsta högg, at hann slæmdi undan Sörkvi báða fætrna, annann fyri neðan knè, en annann við mjáðmar höfuð, ok var hann þegar dauðr; eptir þat drápu þeir alla hans fylgdarmenn, Sörkvis.

tírarlausa[1]
tolf[2] berserki;
þó var Sörkvir
þróttrammastr[3]
þeirra seggja,
en þröstr annarr.

[Ok enn kvað hann:
Fyrst mun ek líkja
eptir feðr mínum,
skal ei mín dóttir,
nema skör höggum[4],
nauðig gefin
neinum manni
guðvefs þella,
meðan Grímr lifir[5].

Fór Grímr nú heim eptir hólmgaunguna, [en Íngjaldr til Berurjóðrs[6]. Litlu seinna andaðist faðir hans, ok tók hann þá við öllum eignum, ok gjörðist gildr bóndi, [ok hinn mesti búrisnumaðr[7].

3. Nokkrum vetrum fyrr[8] hafði andazt Böðmóðr Framarsson, ok átti eina dóttur við Hrafnhildi, konu sinni, er Þórný[9] hèt; hennar son var Þorbjörn[10] tálkni, faðir Ketils breiðs[11], faðir[12] Þórnýjar[13], er átti Hergils[14] hnappress[15].

1) trigðalausa, *R.* 2) *hèr endar C.* 3) þroska mestr, *B*; sóknrammastr, *D.* 4) höggvist, *B* 5) *ístaðinn fyri þat frá merkinu hefir E*: Grímr kvað: fyrst mun ek leika eptir föður mínum, skal mín dóttir ei nauðig gefast, meðan Grímr lifir. 6) Bárurjóðrs, *B.* 7) *v. í B; frá fyrra merkinu* [ *v. í E.* 8) síðarr, *E.* 9) þórun, *B*; þorní, *E.* 10) þorsteinn, *D.* 11) viðbjóðs, *E.* 12) *þannig öll; likligar* föður. 13) þórunnar, *B, D.* 14) þorgils, *B.* 15) Hnappþórsson, *D.*

Hrafnhildr fór þá heim í Hrafnistu til Gríms, bróður síns. Þorkell er nefndr ágætr maðr, hann var jarl yfir Naumdælafylki; hann fór til Hrafnistu, ok bað Hrafnhildar; hún var honum gipt; þeirra son var Ketill hængr, er innibrendi Hárek ok [Hrærek Hildiríðar[1] sonu, fyri þat at þeir rægðu Þórólf, frænda hans. Eptir þat fór Ketill til Íslands, ok nam þar land[2] milli Þjórsár[3] ok Markarfljóts, ok bjó at Hofi[4]. Son hans var Hrafn, hinn fyrsti lögmaðr[5] á Íslandi; annarr son hans var Helgi, faðir Helgu, er átti Oddbjörn askasmiðr; hinn þriði var Stórólfr, faðir Orms hins sterka ok Hrafnhildar, er átti Gunnarr Baugsson; þeirra son var Hámundr, faðir Gunnars á Hlíðarenda, [en dóttir Arngunn, er átti Hróarr Túngugoði[6]; þeirra son var Hámundr hinn halti[7]. Veðrormr[8], son Vemundar hins gamla, var hersir ríkr; hann bað Brynhildar, dóttur Gríms loðinkinna; hún gekk með honum; þeirra son var Vemundr, faðir Veðrorms, er stökk fyrir Haraldi konúngi austr á Jámtaland, ok ruddu þar mörk til bygðar; hans son var Hólmfastr, en systir Veðrorms hèt Brynhildr, hennar son Grímr, er hèt eptir Grími loðinkinna. Þeir frændr Grímr ok Hólmfastr fóru í vestrvíking, ok drápu í Suðreyjum Ásbjörn jarl

1) Hræring Hildríðar, *B*; Hreiðar H., *D*. 2) öll lönd, *E*. 3) Þjósár, *B*. 4) fyrir austan Rángá, *b. v. D*. 5) lögsögumaðr, *D, E*. 6) *hèr bætir D við:* Brynhildr, dóttir Gríms, giptist ágætum manni, en Grímr varð ellidauðr í Hrafnistu. 7) *frá [ v. í B*. 8) Veðormóðr, *D*.

skerjablesa, en tóku þar at herfángi Ólöfu, konu hans, ok Arneiði, dóttur hans, ok hlaut Hólmfastr hana, ok seldi Veðrormi, frænda sínum, ok var hún þar ambátt til þess, at Ketill þrymr fèkk hennar, ok hafði hana út til Íslands; við hana eru kendir Arneiðarstaðir í Austfjörðum. Grímr fèkk Ólafar, dóttur Þórðar vagallda, er jarl hafði átta. Grímr fór til Íslands, ok nam Grímsnes allt upp til Svínavatns, ok bjó í Öndverðunesi[1] 4 vetr, en síðan at Búrfelli; hans son var Þorgils, er átti Helgu, dóttur Gests Olleifssonar[2]; þeirra synir voru þeir Þórarinn at Búrfelli ok Jörundr á Miðeingi[3]. Grímr fèll á hólmi undir Hallkelshólum fyrir Hallkatli, bróður Ketilbjarnar at Mosfelli. Grímr loðinkinni sat í Hrafnistu, sem fyrr segir; hann átti son við konu síðalla, er Oddr hèt, hann var fóstraðr hjá Íngjaldi á Berurjóðri, hann var síðan kallaðr ýmist Örvar-Oddr eðr Oddr hinn víðförli. Grímr þótti mikill maðr fyri sèr, hann var rammr at afli ok fullhugi hinn mesti, ok bjó þó mjök einn um sitt; hann varð ellidauðr maðr; ok lýkr hèr sögu Gríms loðinkinna; en hèr hefr upp Örvar-Odds sögu, ok er mikil saga[4].

1) Overðanesi, *B.* 2) Oddleifss., *B.* 3) að Opdeingi, *B.* 4) *ístaðinn fyri þat undanfarna frá:* en dóttir Arngunn, er átti Hróarr, *hefir E þannig;* Grímr bjó í Hrafnistu til elli, ok varð gamall maðr, hans son var Örvar-Oddr, ok lýkr hèr þessari sögu frá Katli hæng ok Grími loðinkinna.

# Örvar-Odds saga.

GRIMR hèt maðr, ok var kallaðr loðinkinni; því var hann svâ kallaðr, at hann var með því alinn, [en þat kom svâ til, at þá þau Ketill hængr, faðir Gríms, ok Hrafnhildr Brunadóttir gengu í eina sæng, sem fyrr er skrifat, at Bruni breiddi á þau húð eina, er hann hafði boðit til sín Finnum mörgum, ok um nóttina leit Hrafnhildr út undan húðinni, ok sá á kinn einum Finninum, en sá var allr loðinn, ok því hafði Grímr þetta merki síðan, at menn ætla at hann muni á þeirri stundu getinn hafa verit[1]. Grímr bjó í Hrafnistu; hann var auðigr at fè ok mikils ráðandi um allt Hálogaland, ok víðar annarstaðar. Hann var kvongaðr, ok hèt Lopthæna kona hans; hún var dóttir Haraldar hersis úr Vík austan. Þat var eitt sumar at Grímr bjó för sína í Vík austr eptir Harald dauðan, mág sinn, fyri því at hann átti þar miklar eignir; ok er Lopthæna verðr þess vís, þá beiðist hún at fara með honum, en Grímr segir, at þat mátti eigi vera, fyri því at þú ert kona eigi heil. Ekki læt ek mèr annat líka, segir hún, enn fara. Grímr unni henni

[1]) *v. í M.*

mikit, ok lætr hann þat eptir henni. Hún var hverri konu vænni ok betr at sèr um alla hluti, þeirra er í Norigi voru. Þeirra för var búin virðuliga. Grímr sigldi 2 skipum úr Hrafnistu austr í Vík; en er þau koma fyri sveit þá[1], er heitir á Berurjóðri, þá segir Lopthæna, at hún vill láta lægja seglin, fyri því at hún kendi sèr sóttar, ok svâ var gjört, at skipin voru at landi látin. Þar[2] bjó sá maðr, er Íngjaldr hèt, [hann var kvongaðr maðr[3], ok átti son við konu sinni, úngan at aldri, en vænan at áliti, þann er Ásmundr hèt. En er þau voru at landi komin, voru menn uppsendir til bæjar, at segja Íngjaldi, at Grímr var þar kominn við land ok kona hans. Þá lèt Íngjaldr eyki beita fyri vagnsleða, ok fór sjálfr[4] ámóti þeim, ok bauð þeim allan þann beina, sem þau þurftu, ok þau vildu þegit hafa; þá fóru þau heim til bæjar Íngjalds; síðan var Lopthænu fylgt í kvenna hús, en Grími var fylgt í skála ok skipat í öndvegi, ok engan hlut þóttist Íngjaldr fullvel gjört geta til þeirra Gríms, en Lopthænu elnaði sóttin til þess, at hún varð lèttari at sveinbarni, ok tóku konur við því, ok lètust aldregi sèt hafa jafnvænt barn. Lopthæna leit til sveinsins, ok mælti: berið hann til föður síns, hann skal nafn gefa barninu, ok svâ var gjört; var sveinninn þá vatni ausinn, ok nafn gefit, ok kallaðr Oddr. Þar var Grímr 3[5]

1) nes þat, *E.* 2) A þeim bæ, sem á Berurjóðri heitir, *E.* 3) kona hans hèt Alöf, *E.* 4) *þat undanfarna vantar í B, sem byrjar hèr.* 5) 2, *M.*

nætr; þá sagði Lopthæna, at hún var búin til ferðar, ok þá sagði Grímr Íngjaldi, at hann vill búast til burtferðar. Svâ er mèr gefit, sagði Íngjaldr, at ek vilda þiggja af yðr nokkurn virðíngar hlut; þat er makligt, sagði Grímr, ok kjós þú þèr sjálfr laun, því eigi skortir fè fram at greiða; ærit hefi ek fè, sagði Íngjaldr; þá þigg þú annat, sagði Grímr; barnfóstr vil ek bjóða þèr, sagði Íngjaldr; þat veit ek eigi, sagði Grímr, hversu Lopthænu er um þat gefit, en hún svaraði: þat ræð ek, at þiggja þat, sem svâ er vel boðit. Þá var þeim fylgt til skipa sinna, en Oddr var eptir á Berurjóðri. Þau fóru ferða sinna, til þess at þau kvomu austr í Vík, ok eru þar þá stund, sem þau þikjast þurfa. Síðan búast þau í burt þaðan, ok gaf þeim vel byri, til þess at þau kvomu fyri Berurjóðr; þá bað Grímr lægja seglin; því skulu vèr eigi fara ferðar vorrar? sagði Lopthæna; ek ætlaði, sagði Grímr, at þú mundir vilja finna son þinn. Leit ek á hann, sagði hún, er við skildum, ok þótti mèr sem hann mundi lítt renna ástaraugum til vor Hrafnistumanna[1], ok munu við fara ferð vora, sagði hún. Nú koma þau Grímr heim í Hrafnistu, ok settust at búi sínu, en Oddr vex upp at Berurjóðri ok Ásmundr; Oddr nam íþróttir þær, er mönnum var títt at kunna; Ásmundr þjónaði honum í hvívetna[2]; hann var flestum mönnum vænni

[1]) því sá hún þetta, at hún var forvitri; *b. v. E.* [2]) sífellu; *M.*

ok gjörvari at sèr. Fóstbræðralag gjörðist með þeim Oddi ok Ásmundi; í skotbökkum voru þeir hvern dag eðr á sundi. Engi komst til jafns við Odd um allar íþróttir; aldrí var Oddr at leikum sem önnur úngmenni; honum fylgdi Ásmundr ávalt. Framarr mat Íngjaldr Odd enn Ásmund í hvívetna. Skeiti lèt Oddr sèr gjöra hvern mann, er hann fann hagan; hann varðveitti þau ekki eptir, ok fóru þau um flet ok um bekki undir mönnum; margir skeindust á því, er menn komu í myrkri inn, eðr niðr settust. Sjá einn hlutr var svâ, at Oddi aflaði óvinsælda; menn töluðu um við Íngjald, at hann skyldi tala við Odd um þetta; Íngjaldr finnr Odd at máli einhvern dag; hlutr er sá einn, sagði Íngjaldr, fóstri minn! at þèr aflar óvinsælda; hverr er sá? sagði Oddr; þú varðveitir eigi skeiti þín, sem öðrum mönnum er títt, sagði Íngjaldr; þá þætti mèr þú mega gefa sakir á því, sagði Oddr, ef þú hefðir mèr nokkut fengit, at varðveita þau í; ek skal til fá, sagði Íngjaldr, þat sem þú villt; þat hygg ek, sagði Oddr, at þú munir þat ekki til fá; þat mun eigi vera, sagði Íngjaldr; hafr áttu þrèvetran, svartan at lit, sagði Oddr, hann vil ek drepa láta, ok flá belg af bæði með hornum ok klaufum; ok svâ var gjört, sem Oddr mælti fyrir, ok var honum færðr belgrinn, þá er búinn var; þar barr hann í ofan örvar sínar, ok eigi lèttir hann af, fyrr enn fullr var belgrinn, þat

var miklu fleira ok meira enn annara manna skeiti; boga fèkk hann sèr at því skapi. Svâ var Oddr búinn, at hann var í rauðum skarlaks kyrtli hvern dag, ok hafði knýtt gullhlaði at höfði sèr; örvamæli sinn hafði hann, hvar sem hann fór. Ekki vandist Oddr blótum, því hann trúði á mátt sinn ok meginn, ok þar gjörði Ásmundr eptir, en Íngjaldr var hinn mesti blótmaðr. Opt fóru þeir fóstbræðr fyri land fram, Oddr ok Ásmundr.

2. Kona[1] er nefnd Heiðr, hún var völva ok seiðkona, ok vissi fyrir óvorðna hluti af fróðleik sínum; hún fór á veizlur, ok sagði mönnum fyrir um vetrarfar ok forlög sín; hún hafði með sèr 15 sveina ok 15 meyjar; hún var á veizlu skamt í burt frá Íngjaldi. Þat var einn morginn at Íngjaldr var snemma á fótum; hann gekk þar at, sem þeir Oddr ok Ásmundr hvíldu, ok mælti: ek vil senda ykkr frá húsi í dag, sagði hann; hvert skulu við fara? sagði Oddr; þið skuluð bjóða híngat völvunni, af því at hèr er nú veizla stofnuð, sagði Íngjaldr; þá för fer ek eigi, sagði Oddr, ok kunna mikla óþökk, ef hún kemr hèr; þú skalt fara, Ásmundr! sagði Íngjaldr, því þín á ek ráð. Gjöra skal ek þann hlut nokkurn, sagði Oddr, at þèr þiki eigi betr, enn mèr þiki nú þetta. Ásmundr ferr nú, ok býðr þángat völvunni, ok hún hèt ferðinni, ok kom með allt sitt föruneyti, en Íngjaldr gekk mót henni með öllum sínum mönnum, ok bauð

[1]) Ekkja, E.

henni í skála. Þau bjuggust svâ við, at seiðr skyldi fram fara um nóttina eptir; ok er menn voru mettir, fóru þeir at sofa, en völva fór til náttfars[1] seiðs[2] með sitt lið; en Íngjaldr kom til hennar um morguninn, ok spurði, hversu at hefði borit um seiðinn; þat ætla ek, sagði hún, at ek hafa vís orðit þess, sem þèr villð vita; þá skal skipa mönnum í sæti, sagði Íngjaldr, ok hafa af þèr frèttir. Íngjaldr gekk fyrstr manna fyrir hana[3]; þat er vel, Íngjaldr! sagði hún, at þú ert hèr kominn, þat kann ek þèr at segja, at þú skalt búa hèr til elli með mikilli sæmd ok virðíngu, ok má þat vera mikill fagnaðr öllum vinum þínum. Þá gekk Íngjaldr burt, en Ásmundr þángat; vel er þat, sagði Heiðr, at þú ert hèr kominn, Ásmundr! þvíat þinn vegr ok virðíng ferr víða um heiminn, en ekki muntu við aldr togast, en þikkja þar [góðr drengr ok mikill kappi[4], sem þú ert. Síðan gekk Ásmundr til sætis síns, en alþýða fór til seiðkonunar, ok sagði hún hverjum, þat sem fyri var lagit, ok una þeir allir vel við sinn hlut. Síðan sagði hún um vetrarfar ok marga aðra þá hluti, er menn vissu eigi áðr. Íngjaldr þakkar henni sínar spásögur. Hvört hafa nú allir híngat farit, þeir sem innan hirðar[5] eru? sagði hún; ek ætla nú farit hafa nær alla, sagði Íngjaldr.

---

1) nátt *er óljóst, v. í B, D, E, M.* 2) seiðishús, *D.* 3) spákonuna, *B, M.* 4) drengja kappi, *M.* 5) hús, *B*; hurðar, *D.*

Hvat liggr þar í öðrum bekkinum? sagði völvan; feldr nokkr liggr þar, sagði Íngjaldr. Mèr þikir sem hræfist stundum, er ek lít til, sagði hún. Þá settist sá upp, er þar hafði legit, ok tók til orða ok mælti: Þat er rètt, sem þèr sýnist, at þetta er maðr, ok þar sá maðr, at þat vill, at þú þegir sem skjótast, ok fleiprir eigi um mitt ráð, þvíat ek trúi eigi því, sem þú segir. Oddr hafði einn búinn[1] sprota í hendi, ok mælti: þenna sprota mun ek færa á nasir þèr, ef þú spáir nokkru [um minn hag. Hún mælti: Þèr mun ek þó segja, en þú munt hlýða, segir hún[2]; þá varð henni hljóð[3] á munni:

Ægðu eigi mèr,
Oddr á Jaðri!
eldi skíðum[4],
þótt ýmist geipum;
saga mun sannast,
sú er segir völva,
öll veit hún manna[5]
örlög fyrir[6].
  Ferr eigi þú svâ
fjörðu breiða,
eða líðr yfir
lága[7] vâga:
Þótt sjór [yfir þik
sægjum drífi[8],

[1]) buss, *B*, *M*; stóran, *E*. [2]) *v. í B.* [3]) hljóðr, *B*. [4]) skíðu, *B*. [5]) íta, *B*. [6]) *vís. v. í M.* [7]) lánga, *B*, *D*, *M*. [8]) um þik sægjum gángi, *B*, *M*; y. þ. skrikkjum gángi, *E*.

hèr[1] skaltu brenna
á Berurjóðri.
[Skal þèr ormr granda[2]
eitr blandinn[3]
fránn[4] or fornum
Faxa hausi;
naðr[5] mun þik höggva
neðan á fæti,
þá ertu[6] fullgamall
fylkir orðinn.

Þat er þèr at segja, Oddr! sagði hún, sem þèr má gott þikja at vita, at þèr er ætlaðr aldr miklu meiri enn öðrum mönnum; þú skalt lifa 300 vetra, ok fara land af landi, ok þikja þar ávalt mestr, er þá kemr þú; því vegr þinn mun fara um heim allan, en aldrí ferr þú svâ víða, at hèr skaltu deyja á Berurjóðri; hestr stendr hèr við stall, föxóttr ok grár at lit; haus hans Faxa skal þèr at bana verða. Spá þú allra kellínga örmust um mitt ráð! sagði Oddr; hann spratt upp við, er hún mælti þetta, ok rekr sprotann á nasir henni svâ hart, at þegar lá blóð á jörðu. Takið föt mín, sagði völvan, ok vil ek fara áburt hèðan, þvíat þess hefi ek hvergi komit fyrr, at menn hafi barit á mèr. Eigi skaltu þat gjöra, sagði Íngjaldr, þvíat bætr liggja til alls, ok skaltu hèr vera 3 nætr, ok þiggja góðar gjafir. Hún þá gjafirnar, en burt fór hún af veizlunni.

---

1) þó, *B, E, M.* 2) tapa, *E.* 3) *frá [ v. í M.* 4) fram, *E;* framan, *M.* 5) naðra, *M.* 6) þú ert, *E.*

3. Eptir þetta bað Oddr Ásmund fara með sèr. Þeir taka Faxa, ok slá við hann beizli, ok leiða hann eptir sèr, unst þeir koma í eitt dalverpi; þar gjöra þeir gröf djúpa, [svâ at Oddr komst tregliga upp úr[1], en síðan drepa þeir Faxa þar í ofan, ok færir Oddr þar svâ stóra steina á ofan, ok þeir Ásmundr, sem þeir gátu mesta, ok bera sand hjá hverjum steini; haug verpa þeir þar af upp, er Faxi liggr undir; en er þeir höfðu lokit verki sínu, mælti Oddr: þat ætla ek, at þat láta ek ummælt, at tröll eiga hlut í, ef Faxi kemst upp, ok þat hygg ek, at rennt hafa ek nú þeim sköpunum, at hann verði mèr at bana. Þeir fara heim eptir þat ok til fundar við Íngjald. Skip vil ek mèr láta fá, sagði Oddr; hvert skal fara? sagði Íngjaldr; burt ætla ek hèðan, sagði Oddr, af Berurjóðri, ok koma hèr aldregi, meðan ek lifi. Þat muntu eigi gjöra vilja, sagði Íngjaldr, þvíat þat gjörir þú svâ, at mèr þikir verst, eðr hvat villtu hafa manna með þèr? Við Asmundr skulum fara tveir, sagði Oddr. Aptr vil ek at þú sendir Ásmund skjótt, sagði Íngjaldr; eigi skal hann heldr aptr koma enn ek, sagði Oddr; þat gjörir þú illa, sagði Íngjaldr; þat skal ek gjöra, er ek ætla at þèr muni verst líka, fyri þat at þú bauðt híngat völvunni, ok vissir þú at mèr þótti þat verst, sagði Oddr. Nú búast þeir til ferðar, Oddr ok Ásmundr, ok gánga á fund Íngjaldar, ok biðja

[1]) *v. í M.*

hann vel lifa, ok fara til skips, ok draga þat fram, róa síðan frá landi. Hvert skulu við fara? sagði Ásmundr; mun eigi þat ráð, sagði Oddr, at sækja heim frændr sína í Hrafnistu? En þá er þeir voru komnir út um eyjar, tók Oddr til orða: erfiðlig er för okkr, ef við skulum róa alla leið norðr til Hrafnistu; mun nú verða at vita, hvert ek hefi nokkut af ættargipt vorri; þat er mèr sagt, at Ketill hængr drægi segl upp í logni, nú skal ek þat reyna, ok draga segl upp; en þegar þeir höfðu undit seglit, þá gaf þeim byr, til þess at þeir koma til Hrafnistu snemma dags; draga upp skip sitt, ok gánga síðan til bæjar. Oddr hafði ekki fleira vopna enn mæli[1] sinn, ok hafði hann á baki, en boga í hendi; en er þeir koma at bænum, stóð þar maðr úti, ok heilsar þeim vel, er komnir eru, ok spyrr þá at nafni. Engu skiptir þik þat, sagði Oddr; þá spurði Oddr, hvört Grímr væri heima; sá sagði, at hann var heima; þá kalla þú hann út! sagði Oddr. Sá fór þá inn, ok sagði Grími, at menn voru komnir úti tveir, ok mæltu, at þú skyldir út gánga. Hví mega þeir eigi inn gánga? sagði Grímr, ok bið at þeir gángi inn! Út fór sá, ok sagði þeim slíkt, sem við hann var mælt. Þú skalt fara inn í öðru sinni, sagði Oddr, ok seg Grími, at hann komi út ok finni okkr. Sá fór, ok sagði Grími. Hvernveg er þessum mönnum farit? sagði Grímr; þeir eru vænir menn at

[1]) örvamæli, *E.*

yfirliti, ok miklir vexti! belg nokkurn mikinn hefir sá annarr á baki. Svâ segir þú frá mönnum þessum, at hèr munu komnir þeir fóstbræðr, Oddr ok Ásmundr; síðan fór Grímr út ok allir þeir, sem inni voru, ok fagna vel Oddi ok Ásmundi; býðr Grímr þeim inn með sèr í skála, ok þat þiggja þeir; en þegar þeir höfðu niðrsezt, þá spyrr Oddr at þeim frændum sínum, Guðmundi ok Sigurði, en þar var svâ frændsemi farit, at Guðmundr var bróðir Odds, en sonr Gríms ok Lopthænu, en Sigurðr var systurson Gríms; þeir voru vænir menn; þeir liggja hèr norðan undir eyjunni, ok ætla til Bjarmalands, sagði Grímr; þá vil ek finna, sagði Oddr; hitt vil ek, sagði Grímr, at þú sèrt hèr í vetr; fara verðr nú fyrst, sagði Oddr, ok hitta þá; ok þá fór Grímr með honum, til þess er þeir koma á norðanverða eyna. Þeir liggja þar á 2 skipum. Þá lèt Oddr kalla þá á land, frændr sína; þeir fagna honum vel, ok þegar sem þeir hafa spurt tíðenda, mælti Oddr: hvert hafi þið för ykkar ætlat? til Bjarmalands, sagði Guðmundr. Við Ásmundr viljum fara með ykkr, sagði Oddr, en Guðmundr hafði orð fyri þeim, ok mælti: eigi stendr þannveg af, Oddr frændi! at þú farir með okkr sumarlángt; við höfum nú áðr búna ferð okkra, ok far þú með okkr at sumri, þángat sem þú villt! Vel er þat mælt, sagði Oddr, en vera þiki mèr mega, at ek fái mèr skip at sumri, ok þurfi ekki at vera ykkar farþegi. Eigi

muntu með okkr fara at sinni, sagði Guðmundr, ok skildu at því.

4. Nú þiggr Oddr heimboðit at föður sínum, ok skipar Grímr honum hit næsta sèr í öndvegi, en Ásmundi hjá Oddi, ok var þar uppi öll ölværð af Gríms hendi; en þeir Guðmundr ok Sigurðr lágu þar undir eyjunni hálfan mánuð, svâ at þeim gaf aldrí á burt. Þat var á einni nótt, at Guðmundr lèt illa í svefni, ok ræddu menn um, at hann skyldi vekja; Sigurðr sagði, at hann skyldi njóta draums síns. Þá vaknar Guðmundr; hvat hefir þik dreymt? sagði Sigurðr; mik dreymdi þat, sagði Guðmundr, at ek þóttumst hèr liggja undir eyjunni, en ek sá uppá eyna, at hvítabjörn lá í hríng um hana, en hèr yfir skipunum uppi mættust döfin[1] ok höfuðit[2] dýrsins, en þat var grimmligt, svâ at ek hefi ekki þvílíkt sèt, þvíat fram horfðu öll hárin eptir dýrinu, ok svâ þótti mèr, sem þá ok þá mundi þat hlaupa ut á skipin, ok sökkva þeim báðum, ok þá vaknaða ek. Nú skaltu ráða drauminn, sagði hann. Þat ætla ek, sagði Sigurðr, at hann þurfi litla ráðníng, þvíat þar er þèr þótti bjarndýrit liggja svâ grimmligt, at þèr þótti öll hárin horfa fram á því, ok þú hugðir, at þat mundi sökkva skipunum, þat sè ek glögt, at þat er fylgja Odds, frænda okkar, ok mun hann vera okkr reiðr; ok mun þat vera úlfhugr sá, sem þèr þótti at

[1]) róan, *E.* [2]) hreifi, *M.*

dýrit hefði á okkr; ok þat kann ek þèr at segja, at okkr mun aldrí fyrr á burt gefa, enn hann ferr með okkr. Hann mun nú ekki fara vilja, þóat vèr bjóðum honum, sagði Guðmundr. Hvat skal þá til ráðs taka? sagði Sigurðr; þat ræð ek, sagði Guðmundr, at við gaungum á land upp, ok bjóðum honum at fara með okkr. En hversu skal þá með fara, ef hann vill ekki fara? sagði Sigurðr; þá skulu við gefa honum annat skipit; en hann fari eigi, sagði Guðmundr. Gánga þeir nú á land upp, ok finna Odd, ok bjóða honum at fara með sèr; hann kveðst þá víst eigi fara vilja. Vèr viljum nú gefa þèr annat skipit, ok far þú með oss! sagði Guðmundr. Þá skal ek fara, sagði Oddr, ok em ek nú albúinn. Þá fylgir Grímr þeim til skips; hèr eru gripir þeir, er ek vil gefa þèr, Oddr frændi! sagði Grímr, þat eru þrjár örvar, en þær eiga nafn, ok eru kallaðar Gusisnautar. Hann selr nú Oddi örvarnar; hann lítr á, ok mælti: þetta eru hinar mestu gersimar; þær voru gullifiðraðar[1], ok þær flugu sjálfar af streng ok á, ok þurfti aldrí at leita þeirra. Þessar örvar tók Ketill hængr af Gusi Finnakonúngi; þær bíta allt þat, þeim er til vísat, því at þær eru dverga smíði. Aungar gjafir hefi ek þær þegit, sagði Oddr, at mèr þætti jafnfríðar, ok þakkar hann feðr sínum, ok skiljast þeir feðgar með vináttu, ok stígr Oddr á skip, ok ræðir um at þeir muni flytjast undan eyjunni, ok

[1]) fjallaðar, E.

taka þeir til segla á skipi Odds, ok svâ gera þeir hvârirtveggju. Nú gaf þeim þegar byr, ok sigldu í einu norðr fyri Finnmörk, ok fellr þá af byrinn, ok leggja þar til hafnar, ok voru þar um nóttina, ok var þar fjöldi gamma á landi uppi. Um morguninn gánga þeir á land af skipi Guðmundar, ok renna í hvern gamma, ok ræna Finnurnar. Þær þola þetta illa, ok æpa mjök. Þeir ræða um á skipi við Odd, at þeir vilì á land gánga, en hann vill eigi leyfa þat. Þeir Guðmundr koma nu til skips um kveldit. Oddr mælti: vartu á land upp? sagði Oddr. Þat varna, sagði hann, ok hefi ek þat svâ gjört, at mèr hefi mest gaman at þótt, at græta Finnurnar, ok muntu vilja fara með mèr á morgun? Þat ferr fjarri, sagði Oddr. Þar liggja þeir 3 nætr, ok gefr þeim þá byr, ok er ekki fyrr frá þeim sagt, enn þeir koma til Bjarmalands. Þeir hèldu skipum sínum upp í á þá, er Vína heitir. Eyjar liggja margar í ánni; þeir kasta akkerum undir nesi einu, þat gekk af meginlandi. Þat sjá þeir tíðenda á land upp, at menn koma af skógi fram, ok safnast allir í einn stað. Þá mælti Oddr: hvar ætlar þú? Guðmundr! at lið þetta berist fyrir á landi? Eigi veit ek þat, sagði hann, eða hvat ætlar þu, Oddr frændi? Þat munda ek ætla, sagði hann, at hèr mundi vera blót mikit eða drukkit erfi; nú muntu, Guðmundr! gæta skipa, en Ásmundr ok ek munum gánga á land. En er

þeir koma at mörkinni, sáu þeir skála mikinn. Þá var nærsta myrkt orðit. Þeir gánga at dyrunum, ok nema þar staðar, ok sjá mörg tíðendi; mönnum var þar skipat á báða bekki; þat sáu þeir, at skaptker stóð við dyr utar; svâ var þar bjart, at hvörgi barr skugga á, nema þar sem skaptkerit stóð. Glaumr var þar mikill inn at heyra. Skilr þú hèr nokkut mál manna? sagði Oddr; eigi heldr enn fuglaklið, sagði Ásmundr; eða þikist þú nokkut af skilja? Eigi er þat síðr, sagði Oddr. Þat máttu sjá[1], at einn maðr skeinkir hèr á báða bekki, en þat gefr mèr grun um, at hann muni kunna at tala á norræna túngu; nú mun ek gánga inn, sagði Oddr, ok nema staðar þar, sem mèr þikir vænligast, en þú bíð mín hèr á meðan! Hann gengr nú inn, ok nemr staðar nær dyrum, til þess at gaungu byrlarans berr þar at. Þá finnr byrlarinn eigi fyrr, enn hann er þrifinn höndum, ok bregðr Oddr honum yfir höfuð sèr, en hann kvað við hátt, ok sagði Bjömum, at tröll hafi tekit sik. Þeir spretta nú upp, ok taka til hans öðrumegin, en Oddr ber þá með byrlaranum; en svâ lauk með þeim, at þeir Oddr ok Ásmundr höfðu með sèr byrlarann, en Bjarmar treystust eigi at ráða út eptir þeim. Þeir koma nú til skipa með byrlarann, ok setr Oddr hann í rúm hjá sèr, ok spyrr hann tíðenda, en hann þagði við. Eigi þarftu at þegja, sagði Oddr, þvíat ek veit, at þú kannt at mæla á norræna

[1]) ígegnum hurðina, *M.*

túngu. Þá mælti byrlarinn: hvers viltu spyrja mik? Oddr mælti: hve lengi hefir þú hèr verit? Nokkura vetr, sagði hann. Hvern veg hefir þèr þótt? sagði Oddr. Hèr hefi ek svâ verit, sagði byrlarinn, at mèr hefir verst þótt. Hvat segir þú til, sagði Oddr, hvat vèr munum þess gjöra, at Björmum þiki verst? Þess er vel spurt, sagði hann; haugr stendr upp með ánni Vínu, hann er gjörr af 2[1] hlutum, silfri ok moldu, þángat skal bera gaupnir silfrs eptir hvern mann þann, sem ferr af heiminum, ok svâ er hann kemr i heiminn, ok jafnmikla mold. Þat munu þèr svâ gjöra, at Björmum mun verst þikja, ef þèr farið til haugsins, ok berið fèit í burt þaðan. Oddr kallar nú á þá Guðmund ok Sigurð, ok mælti: þið skuluð fara ok skipverjar ykkrir til haugsins eptir tilvísan byrlarans. Þeir búast nú til ferðar, ok gánga á land upp, en Oddr er eptir ok gætir skipa, ok byrlarinn hjá honum.

5. Þeir fara nú þartil, er þeir koma at hauginum, ok binda sèr byrðar, fyri því at þar skorti ekki fè; en er þeir voru búnir, fara þeir til skipa. Oddr spurði, hvörsu farit hefði, en þeir lètu vel yfir, ok sögðu þar eigi skorta fèföng. Nú skulu þið, sagði Oddr, taka við byrlaranum ok geyma hann trúliga, fyri því at svâ standa augu hans á land upp, sem honum þiki eigi svâ íllt með þeim Björmum, sem hann lætr

[1]) 4, *M.*

yfir; Oddr fór nú til haugsins, en þeir varðveita skipin, Guðmundr ok Sigurðr; þeir sitja við ok sælda silfrit, en byrlarinn sitr í millum þeirra, ok eigi finna þeir fyrr, enn hann hleypr á land upp, ok hafa þeir hans ekki meira. Þat er at segja frá þeim Oddi, at þeir koma til haugsins, þá mælti Oddr: nú skulu vèr búa oss byrðir, hverr eptir sínu afli, svâ at vèr megum fulla ferð fara. Þá lýsti, er þeir fóru frá hauginum. Þeir fara þartil at birti, þá stíngr Oddr við fótum. Því ferr þú eigi? sagði Ásmundr. Ek sè[1] mannfjölda mikinn koma fram úr mörkinni, sagði Oddr. Hvat skal nú ráða taka? sagði Ásmundr. Þeir sjá nú allir mannfjöldann. Eigi er þetta allvel ákomit, sagði Oddr, fyri því at örvamæli mitt er at skipum niðri; en nú mun ek snúa aptr at mörkinni, ok höggva mèr kylfu eina með bastöxi[2] þessi, er ek hefi í hendi, en þèr skuluð [fara fram[3] í nes þat, sem gengr fram í ána; ok svâ gjöra þeir, en er hann kemr aptr, hefir hann stóra kylfu[4] í hendi. Hvat ætlar þú, sagði Ásmundr, at gegni um fjölmenni þetta? Get ek, sagði Oddr, at þeim Guðmundi muni lauss hafa orðit byrlarinn, ok hafi hann borit erendi vort til Bjarma[5], fyri því at mèr þotti sem honum þætti hèr ekki svâ íllt, sem hann lèt yfir, skulu vèr nú fylkja liði voru yfir þvert nesit; drífr nú at þeim liðit,

1) tíðendi, segir Oddr, þau oss mun óþörf vera; hvat sèr þú, segir Asmundr; ek sè, *b. v. B, M,* 2) öxi, *B*; batöxi, *M.* 3) færa fjárhlutinn, *M.* 4) klumbu, *M.* 5) bæjar, *M.*

ok kennir Oddr þar byrlarann í ferðar broddi. Oddr kastar orðum á hann, ok mælti: [því stýrir þú nú svâ hverft[1]? Byrlarinn mælti: ek vilda at því hyggja, hvat yðr líkaði bezt. Hvert vartu nú farinn? sagði Oddr. Á land upp, sagði hann, at segja Björmum tiltekjur yðar. Hversu líkar þeim nu þá? sagði Oddr. Svâ hefi ek nú túlkat fyrir yðr, sagði hann, at þeir vilja nú eiga kaupstefnu við yðr. Þat vilju vèr gjarna, sagði Oddr, þá vèr komum til skipa vorra. Eigi þikir Björmum oflaunat, þóat þeir ráði, [at því at í stað sè keypt[2]. Hverju skulu vèr kaupa? sagði Oddr. Þeir vilja kaupa við yðr vopnum, [ok gefa silfrvopn ímót járnvopnum[3]. Eigi vilju vèr þat kaup, sagði Oddr. Þá munu vèr eigast við bardaga, sagði byrlarinn. Þèr verðið því at ráða, sagði Oddr; þá segir Oddr liði sínu, at [þeir skyldu fleygja hverjum útá ána[4], sem fèlli af liði þeirra[5], því þeir munu þegar gjöra fjölkýngi í liði voru, ef þeir (ná) nokkrum þeim, sem dauðir eru. Síðan tekst með þeim bardagi, ok gengr Oddr ígegnum fylkíngar, hvar sem hann kemr at, ok fellir lið af Björmum sem stráviði[6], ok var bardagi þeirra bæði harðr ok lángr; en sá varð endir á sókn þeirra, at Bjarmar flýðu, en Oddr rekr flóttann, ok snýr síðan aptr, ok kannar lið sitt, ok hafði fátt fallit, en múgi var drepinn af landsmönnum.

1) *v. í M.* 2) kaupstefnu, *M.* 3) segir byrlarinn, *B*, *M.* 4) þèr skuluð þeim fylgja til árinnar, ok kasta á út, *M.* 5) voru, *M.* 6) *þannig D*; storðri (storð') *A*; torð, *M*; mikit, *B.*

Nú skulu vèr gjöra fjárskipti, sagði Oddr, gjörum oss nú byrðar af silfrvopnum[1]; ok svâ gjöra þeir, ok fara síðan til skipa sinna; en er þeir kvomu þar, voru þau öll íburtu, þikist Oddr nú sakna vinar í stað. Hvat skal nú til ráða taka? sagði Ásmundr. Tvennu mun þar at skipta, sagði Oddr; þeir munu hafa lagit skipin í leyni hèr undir eyjunum, elligar hafa þeir brugðizt oss meir, enn vèr ætlum. Þat mun eigi vera, sagði Ásmundr. Ek mun gjöra tilraun, sagði Oddr; hann gekk til skógar, ok tendrar eld uppi í einu stóru trè; þat logar snart, svâ at loginn stendr í lopt upp. Þessu nærst sáu þeir, at skipin fara at landi, varð þá fagnafundr með þeim frændum, ok halda þeir nú burt þaðan með herfáng sitt, ok er nu ekki sagt af þeirra ferðum, fyrr enn þeir koma við Finnmörk, ok í þat sama lægi, sem þeir höfðu fyrr í verit; en er nátta tók, vöknuðu þeir við þat, at þeir heyrðu brest mikinn í loptit upp, svâ at slíkan höfðu þeir aldrí fyrr heyrðan. Þá spurði Oddr þá Guðmund ok Sigurð, ef þeir hefðu nokkut [heyrt sagnir frá slíku[2] fyrr; ok er þeir áttu þetta með sèr at ræða, kom brestr annarr, ok var sá ekki minni; þá kom hinn þriði, ok var sá mestr. Hvat ætlar þú, Oddr! sagði Guðmundr, at þetta sæti? Oddr sagði: heyrt hefi ek sagt frá því, at veðr 2 verði senn í loptinu, ok farist ámóti, ok af þeirra sam-

[1]) vopnum í stað silfrs, *M.* [2]) sinn slíkt heyrt, *M.*

kvomu verði stórir brestir; nú skulu vèr svâ viðbúast, sem veðr nokkut íllt ok mikit muni koma. Nú færðu þeir þvergyrðínga á skipin ok aðra þá hluti, er þeir þurftu til viðbúnaðar, eptir fyrisögn Odds, ok var þat allt jafnskjótt, at þeir höfðu umbúizt, ok veðrinu laust á svâ illu, at þá rekr undan landi, ok aldrí ná þeir viðfalli[1], ok urðu einatt í austri at vera. Svâ er veðr þetta mikit, at við því þótti búit, at kefja mundi skipin undir þeim. Þá kallar Guðmundr af skipi sínu á Odd, ok mælti: hvat skal nú til ráðs taka? Eitt er nú til ráðs, sagði Oddr. Hvert er þat? sagði Guðmundr. Taka allt finnskrefit[2] ok kasta fyri borð, sagði Oddr. At hverju haldi mun þat koma þeim? sagði Gudmundr. Látum þá sjálfa Finna sjä fyri því! sagði Oddr. Þetta var gjört, at þat var allt uppbrotit finnskrefit. Þat sjá þeir þegar, at þat rak með öðru borði fram, en öðru aptr, til þess at þat kemr allt í einn bagga, þá rekr þat óðfluga ígegn veðrinu, svâ at þat er senn úr augsýn. Brátt eptir þetta sjá þeir land, en veðrit hèlzt, ok rekr þá at landinu, ok voru þá farnir flestir at liðsemd, nema þeir frændr ok Ásmundr; taka þeir nú land. Eigi er frá því sagt, hversu lengi þeir hafi úti verit; bera þeir nú af skipum. Þá ræðir Oddr um, at þeir muni uppsetja skip sín ok búa um rammliga. Síðan taka þeir til, ok gjöra sèr skála, ok er þeir höfðu því lokit, kanna þeir landit.

[1]) viðafalli, *M.* [2]) finnkrefit, *allstaðar M.*

Svâ hugðist Oddi at, sem þat mundi eyland vera. Þeir sáu, at þar skorti eigi dýr, ok þau skjóta þeir, sem þeir þurftu til atvinnu sèr. Þat var einn dag, at Oddr var farinn á skóg, at hann sá björn einn mikinn; hann skaut at honum, ok misti eigi, ok er dýrit var dauðt, lætr hann flá af því belg, síðan lætr hann setja spjálkir[1] í munn því ok [eptir endilaungu[2], hann lætr þat standa miðbreytis[3], ok horfir bessi inn á meginland. Gleði hafði Oddr mikla í eyjunni. Þat var einn aptan at þeir voru úti staddir, at þeir sjá þat til tíðenda inn á meginland, at lið safnast saman á nes eitt, því var svâ varit, at þat var bæði stórt ok smátt. Hvat ætlar þú, Oddr frændi! sagði Guðmundr, hvat lið þetta skuli? Eigi veit ek þat, sagði Oddr, en þess mun ek freysta at fara til lands, ok vita, hvat þar sè talat. Oddr kvaddi Ásmund til ferðar með sèr. Þeir gánga til sjófar, ok stíga á bát, ok róa inn undir nesit, ok halda upp árum, ok hlýða til tals manna. Nú tekr sá til orða, er þar var höfðíngi[4]: svâ er sem þèr vitið, at hèr eru komin börn nokkr í ey þá, er vèr eigum, ok gjöra oss mikinn usla, ok er ek af því híngat kominn, at ráða þeim bana, er sezt hafa í eigur[5] vorar; hríng hefi ek á hendi, hann mun ek gefa þeim, sem þeim vill ráða bana. Kona nokkr

[1]) spelkr, *B*, *M*. [2]) nú má þat standa upp, þá er svâ gángdyrt, at sjá má eptir endilaungu dýrinu fram, *M*. [3]) *þannig A*, *B*; með breytni, *D*; skála ok skipa, *b. v. M*. [4]) flokks foríngi, *B*, *E*, *M*. [5]) eignir, *M*.

gekk fram á þínginu, ok mælti: vèr erum glisgjarnar konurnar, ok því fáið mèr hrínginn! Já, sagði jötuninn: vel er til þeirrar farar fengit, er þú ferr. Nú fara þeir Oddr til þess, at þeir koma heim, ok segja þau tíðendi, sem þeir hafa heyrt; en vonum bráðara sáu þeir at kona veðr innan af meginlandi ok út til eyjarinnar. Hún var í skinnkyrtli ok mikil vexti ok illilig, svâ at þeir þóttust ekki kvikendi slíkt sèt hafa. Hún gengr at skipunum, ok tekr í báða stafnana, ok hristir þau svâ, at þeim þótti við því búit, at öll mundu í sundr brotna. Hún gengr þá upp á leið, en Oddr snýr at baki birninum[1]. Hann hafði áðr látit leggja glæðr í munn dýrinu. Hann tekr nú ör, ok skýtr fram eptir dýrinu. Hún sèr örina, er at henni flýgr, ok bregðr hún við lófanum, ok bítr eigi heldr á, enn steinn væri fyri. Þá tók Oddr at Gusisnautum, ok skýtr þeirri sem hinni fyrri. Hún bregðr fyrir öðrum lófanum, ok flýgr ígegnum hann ok í auga henni ok út um hnakkann. Hún gengr þó leið sína. Oddr skýtr hinni þriðju ör; þá bregðr hún við öðrum lófa, [ok hrækti í hann áðr[2], ok (ferr) sú jafnt ok hin fyrri, at í augat kom, ok út um hnakkann. Hún snýr nú leiðinni, ok öslar aptr til meginlands, ok segir sínar farir[3] eigi slèttar. Sitja þeir nú um kyrt í eyjunni nokkura stund.

6. Þat var enn einn aptan, þá þeir voru

[1]) henni, *M.* [2]) *v. í M.* [3]) *b. v. M*; raunir, *b. v. E.*

úti staddir hjá skála sínum, at þeir sjá, at lið safnast saman fram á nesit með hinum sama hætti ok fyrr. Þeir Oddr ok Ásmundr róa til lands, ok halda upp árum; þá tók höfðínginn til orða uppi á nesinu: þetta eru mikil undr, sagði hann, at vèr getum ekki banat börnum þessum; ek senda þángat hina göfgustu kvonu, en þeir hafa þat dýr, at þat blæs örum, ok eldar brenna úr nösum þess ok munni[1], ok þat fylgir nú með, at mik syfjar svâ, at ek verð heim at fara; ok svâ [gjöra þeir Oddr[2]. Hinn þriðja aptan sjá þeir hinn sama atburð inn á meginlandit, ok róa þeir Oddr ok Ásmundr þángat, ok hlýðast um. Hinn sami tekr enn til orða uppi á nesinu: þat er sem þèr vitið, at vèr höfum dæmt um börn þessi fyrr, ok hefir þat til lítils komit, en nú gefr mèr sýn. [Hvat sèr þú nú til tiðenda? segja fèlagar hans[3]. Þat sè ek, sagði hann, at hèr eru komin 2 börn á báti, ok hlýða til, hvat vèr tölum, ok mun ek senda þeim sendíng. Nú skulu við bregða undan sem skjótast, sagði Oddr, ok jafnskjótt fló steinn af nesinu, ok kom þar niðr, sem bátrinn hafði verit, ok þá róa þeir aptr. Þá mælti[4]

---

1) ok þat fylgir, at sú náttúra er yfir þeim, at ek fær ekki til sèt, hverir þá hafa senda híngat, *b. v. M.* 2) gjörði hann; þeir róa ok heim, Oddr ok Asmundr, *M.* 3) þá fyrir augu, er eigi er öðruvísi enn svâ, at yðr mun skjótt gamans afla, ef þèr vitið, *b. v. M.* Þá mæltu þeir enir svörtu ok enir svipljótu jötnar, er þàr stóðu uppi á bjarginu hjá honum: hvat sèr þú nú til tíðenda, *M.* 4) jötun, *b. v. M.*

höfðínginn: þetta eru mikil endemi, enn er heill bátr þeirra, ok svâ þeir sjálfir. Kasta mun ek enn öðrum steini ok hinum þriðja, en ef þeir bregða undan í hvert sinn, þá mun ek láta þá kyrra. Svâ var mikill hinn þriði steinninn, at þeir Oddr fengu mikil áföll. Síðan róa þeir [undan landi[1], en jötuninn tók til orða: heilir eru þeir enn, ok svâ bátr þeirra, en nú syfjar mik svâ, at ek má eigi vaka, ok fara jötnar nú heim. Þá mælti Oddr: nú munu við gánga, ok draga upp bát okkarn. Hvat viltu nú? sagði Ásmundr. Nú skal ek vita, hvar lið þetta eigi heima. Þeir gánga á land upp, ok koma at helli einum, ok brann þar eldr. Þeir nema þar staðar, ok sjá at tröllum er skipat á báða bekki. Þar sat dólgr í hásæti; sá var bæði mikill ok illiligr; hann [hafði hár mikit[2] ok svart sem tálknfánir, hann var nefljótr ok eygðr illa. Kona sat hit nærsta honum; frá báðum er sagt um yfirlit, er frá öðru er. Þá tekr höfðínginn til orða: nú gefr mèr sýn, ok sè ek til eyjarinnar, ok nú veit ek, hverir þar eru komnir; þat eru þeir frændr, synir Gríms loðinkinna, Oddr ok Guðmundr, þat sè ek at Finnar hafa sendt þá híngat, ok ætla þeir at vèr skyldum bana þeim, en vèr megum eigi lyktir á því gjöra, þvíat ek sè at Oddi er ætlaðr aldr miklu meiri enn öðrum mönnum. Nú mun ek gefa þeim byr burtu hèðan, jafnt slíkan sem Finnar

1) undir landit, *M.* 2) var hærðr mjök, *B*, *M.*

gáfu þeim híngat. Þá mælti Oddr fyri munni sèr: gef þú allra manna ok trölla armastr! Þat sè ek ok, at Oddr hefir örvar þær, er Gusisnautar eru kallaðar, ok því mun ek gefa honum nafn ok kalla hann Örvar-Odd. Oddr tók þá eina af þeim Gusisnautum, ok leggr á streng, ok vill launa honum byrinn, en er hann heyrði hvininn, at örin fór at honum, bregðr hann við, ok rekr sik uppá bjargit, en örin kom undir hönd konunni, ok út undan annari, en hún[1] hleypr upp við, ok flýgr á jötuninn[2], ok reytir hann. Tröllin hlaupa uppá báða bekki, ok veita sumir honum, en sumir henni. Oddr skaut annari af Gusisnautum í auga jötninum, ok fór eptir þat til skipa, ok fagna þeir bræðr þeim Oddi vel; eða hvert fórtu hit lengsta, Oddr? sagði Guðmundr. Þá kvað Oddr vísu:

Rèð ek at gánga
með Gusisnauta[3]
beggja ímillum
bjargs ok eysu[4];
laust ek í auga
einu flagði[5],
en í brjóst framan
bjarga freyju.

Þess var von, sagði Guðmundr, at þú mundir mikit afreka, er þú vart svâ lengi í burtu, eðr varð nokkut fleira til tiðenda í för þinni? Nafn var mèr gefit, sagði Oddr, ok kvað vísu:

[1]) hann, *M.* [2]) byrlann, *M.* [3]) Gusis smíði, *M.* [4]) Esju, *B.* [5]) trölli, *M.*

Þar fèkk ek heiti,
þat [ek hafa vild'ak[1],
er mik úr[2] fjöllum[3]
flögð kölluðu,
kvóðust [Oddi
Örvar skyldu[4]
byr [bráðliga
áburt gefa[5].

Byr var oss heitit áburt hèðan, ok er mèr sagt, at eigi muni minni nè hægri, enn sá er Finnar gáfu oss hingat. Þeir búa nú ferð sína hvergi óvænligar enn fyrr, ok fara síðan, ok þegar þeir koma undan landi, þá rekr á veðr slíkt sem fyrr, svâ þá keyrir í haf, ok standa einatt í austri, ok eigi lèttir því veðri, fyrr enn þeir koma í sömu höfn, sem fyrr rak þá undan landi, ok var þar þá eyðt gömmum öllum á land upp, ok þegar þeim gaf byr, sigla þeir, ok koma til Hrafnistu, þá er mikit var af vetri[6]. Grímr varð þeim feginn, ok bauð þeim heim með öllu liði sínu, ok þat þiggja þeir. Allan fjárhlut láta þeir koma í hendr Grími, ok sitja þar um vetrinn.

7. Svâ var Oddr frægr af för þessi, at engi þikir önnur slík hafa farin verit úr Norigi[7]. Gleði mikil var þar um vetrinn ok drykkj-

---

[1]) er ek vilda, *M.* [2]) í, *M; v. í B.* [3]) björgum, *M.* [4]) Örvar-Oddi vilja, *B, M.* [5]) gefa mjök bráðliga íbraut hèðan, *M; vísuna v. í E.* [6]) nótt, *M.* [7]) Má nú kalla, at úti sè fyrsti þáttr þessarar sögu, *b. v. M.*

ur miklar. En er vora tók, spurði Oddr þá frændr, hvat þeir vildu ráða sinna. Þú skalt hafa ráð fyrir oss, sögðu þeir. Í víkíng vil ek fara, sagði Oddr. Hann sagði nú Grími, at hann vill skip láta búa 4 úr landi, ok er Grímr vissi þat, hefir hann þar einn starf fyrir, ok sagði Oddi til, þá er búin voru. Nú vil ek, sagði Oddr, at þú vísir oss til víkíngs þess nokkurs, er þèr þikir við vort hæfi. Grímr mælti: Hálfdán heitir víkíngr; hann liggr austr við Elfarsker, ok hefir 30 skipa; ok er þeir voru búnir, halda þeir suðr fyri Norig, ok þegar þeir koma[1] fyrir Elfarsker, leggja þeir skip sín í lægi, en Hálfdán var þaðan skamt íburt; ok þegar er þeir Oddr höfðu tjaldat, ferr hann áburt við fá menn, ok þángat til, sem víkíngar lágu fyrir. Oddr sèr dreka mikinn í skipaliðinu. Þá kallar hann á skipin út, ok spyrr, hverr fyri þeim ræðr. Þeir spretta skörum yfir sèr: Hálfdán heitir sá, er fyri skipunum ræðr, eðr hverr spyrr at því? Sá heitir Oddr. Ertu sá Oddr, er fór til Bjarmalands? Komit hefi ek þar, sagði Oddr. Hvert er erendi þitt híngat? sagði Hálfdan. Ek vil vita, hverr okkar meiri maðr sè, sagði Oddr. Hve mörg hefir þú skip? sagði Hálfdán. Vèr höfum 3 skip, kvað Oddr, ok öll stór ok hundrað liðs á hverju, ok mun ek hèr koma á morgin til móts við þik. Sofa munu vèr fullan svefn fyri því, sagði

[1]) suðr, *b. v. B.*

Hálfdán. Íburtu rær Oddr, ok kom aptr til sinna manna, ok sagði þeim til svâbúins; nú skulu vèr vera í starfi, sagði Oddr, ok hefi ek nú ætlat eitt ráð fyrir oss; vèr skulum bera á land fjárhlut vorn, en gjöra skip vor sem lètthlöðnust, en vèr skulum höggva 2 trè á hvert skip, þau er vèr fáum stærst ok limamest, ok svâ gera þeir; ok er þeir voru búnir, mælti Oddr: ek ætla at þið, Guðmundr ok Sigurdr! skuluð gánga á annat borð drekanum; ok svâ gjöra þeir, ok róa nú at hljóðliga, en skipin lágu [fyri fram[1] á voginum. Oddr rær fram hjá drekanum, ok þá er þeir voru komnir á bæði borð, finna víkíngar eigi, fyrr enn þeir veltu viðjunum á drekann, ok fylgir maðr upp hverjum kvisti, ok berja þeim tjaldkúlur, ok riðjast þeir Oddr ok Ásmundr fast um, ok fyrr höfðu þeir ruddan drekann allt aptr at lyptíngu, enn Hálfdán komst á fætr, ok þar drápu þeir hann í lyptíngunni, ok þá gjörir Oddr þeim 2 kosti, hvort þeir vildi halda upp bardaga, eðr gánga á hönd honum, en þeir gjöra þat skjótkjörit, ok gánga til handa Oddi. Hann velr af þeim þat, er honum þótti knáligast. Drekann hafði Oddr sèr til eignar ok annat skip til, en öll önnur skip gaf hann víkíngum. Fè tók hann allt til sín. Nafn gaf hann drekanum, ok kallaði Hálfdánarnaut. Þá sigla þeir heim til Hrafnistu, ok hafa nú fengit sigr mikinn, ok eru þar um vetrinn; en er

[1]) *óglöggt í A*; rúmliga, *B*; rúmliga fyrir, *M*.

vora tekr, býr Oddr för sína úr landi; en er þeir voru búnir, spyrr Oddr föður sinn: hvar vísar þú oss nú til þess víkings, at nokkr vegr sè í? Grímr mælti: Sóti heitir víkíngr sá, er ek mun vísa yðr til; hann liggr suðr fyri Skýðu[1], hann hefir 30 skipa, ok öll stór.

8. Þeir frændr halda nú 5 skipum suðr fyri Skýðu, ok íburt frá Hrafnistu, en er á leið sumarit, spyrr Sóti til ferðar Odds, ok ferr ámóti honum dagfari ok náttfari, til þess at hvorir finna aðra. Þá hefir Sóti andviðri, ok tók hann til orða: nú munu vèr leggja skip vor, hvert út af öðru, ok mun ek leggja mínu skipi í miðju, því at ek hefi spurt, at Oddr er kappsmaðr mikill, ok ætla ek, at hann muni sigla at skipum vorum, en þá er þeir koma, ok hafa lægt segl sín, þá skulu vèr slá hríng at skipum þeirra, ok láta aldrí mannsbarn undan komast. Nú er at segja frá ætlun Odds: ek sè ráð þeirra Sóta, sagði hann, hvert þat er, þeir ætla at vèr skulum sigla at skipum þeirra. Mun eigi þat heldr óráðligt, sagði Guðmundr. Eigi skal ónýta ráð Sóta, sagði Oddr, en ráð skal ímóti koma; ek ætla, sagði hann, at sigla fyrst dreka mínum þar at, sem Sóti liggr fyri. Vèr skulum bera allt aptr um siglu, ok svâ gjöra þeir, en drekinn Hálfdánarnautr gekk geystr; hann var járni varðr allr framan um barðit, en hann gekk á kjalarhælnum[2]. Sigla ætla ek á drekann Sóta,

[1]) Skíðu, *M.* [2]) svà óð hann uppi, *b. v. B*; kjalarhælinn, ok svà veðr hann uppí, *M.*

sagði Oddr, en þèr skuluð sigla eptir, ok þætti mèr verða mega, at í sundr gengi tengsl þeirra. Nú siglir Oddr, sem drekinn má mest gánga, en Sóti finnr eigi fyrr, enn siglt er á hann upp, ok sundr gánga tengslin ímillum skipanna, en Oddr hleypr fram um siglu herklæddr ok Ásmundr. Þeir koma í opna skjöldu þeim Sóta, ok hlaupa þegar ofan í drekann, ok fyrr hafa þeir ruddan drekann ok drepit Sóta, enn þeir Guðmundr koma at. Þá gjörir Oddr víkíngum kost, hvort þeir vilja taka grið af honum, eðr halda upp bardaga, en þeir kjöru frið við Odd. Drekann tók Oddr af skipunum, en gefr þeim önnur skip. Nú sigla þeir heim til Hrafnistu með mikinn fjárhlut, ok varð Grímr þeim feginn, ok þar eru þeir um vetrinn í mikilli virðíngu. En er áleið missirin, búa þeir Oddr[1] skip úr landi, ok vandar hann nú mjök lið til ferðar með sèr. Þeim Guðmundi ok Sigurði gaf Oddr drekann Sótanaut. Allan lèt hann steina drekann Hálfdánarnaut, ok gulli lætr hann búa bæði drekahöfuðin ok veðrvitann, en er búin er ferð þeirra, gengr Oddr til fundar við Grím, föður sinn, ok mælti: nú skaltu vísa mèr til þess víkíngs, er þú veizt mestan. Þat er nú bæði, sagði Grímr, at þèr eruð miklir fyrir yðr, enda þikir yðr svâ, at ekki reisir rönd við yðr, en nú mun ek vísa yðr til þeirra 2gja víkínga, at ek veit mesta ok bezt at sèr

[1]) fimm, *B*, *M*.

um alla hluti, annarr heitir Hjálmarr hinn hugum-stóri[1], en annarr Þórðr, ok kallaðr stafngláma[2]. Hvar eru þeir, sagði Oddr, eðr hversu margt hafa þeir skipa? Þeir hafa 15 skip, sagði Grímr, ok hundrað manna á hverju. Hvar hafa þeir friðland? sagði Oddr. Hlöðverr heitir konúngr á Svíþjóð; með honum eru þeir á vetrum, en liggja á herskipum á sumrum. Ok þegar þeir eru búnir, gengu þeir, ok leiðir Grímr þá til skipa, ok skiljast þeir feðgar með miklum kærleikum.

9. Þat er at segja frá þeim Oddi, at þeir sigla úr Hrafnistu, þegar þeim gaf byr, ok er ekki sagt af ferð þeirra, fyrr enn þeir koma við Svíþjóð, þar sem eitt nes gekk af meginlandi til hafs; þar tjalda þeir yfir skipum sínum. Oddr gengr á land upp, at sjá tiðendi, en þar liggja öðrumegin undir nesinu 15 skip, en herbúðir standa á landi. Hann sèr at þar eru leikir úti hjá tjöldunum. Þar ráða þeir fyri skipum, Hjálmarr ok Þórðr. Nú gengr Oddr aptr til skipa sinna, ok segir þessi tíðendi. Guðmundr spurði, hvat þá skal til ráða taka? Nú munu vèr skipta liði voru í helmínga, sagði Oddr; þèr skulið halda skipum yðrum fram fyri nesit, ok æpa þeim heróp, sem á landi eru, en ek mun gánga á land með helmíng liðs ok fram hit efra eptir skóginum, ok skulu vèr æpa þeim annat heróp, ok má þá vera, sagði

[1]) hugstóri, *E.* [2]) stafuglámr, *E*; stafuglamma, *allstaðar M.*

hann, at þeim bregði nokkut við; mèr kemr þat í hug at þeir flýi íburt á skóga, ok þurfi vèr eigi við meira. En þat er sagt frá tiltekju þeirra Hjálmars, at þá er þeir heyrðu heróp þeirra Guðmundar, at þeir bregða sèr hvergi við[1], en er þeir heyrðu annat heróp á land upp, námu þeir stað ámeðan en er þat líðr af, leika þeir sem áðr. Nú snúa þeir aptr hvorutveggju undir nesit, ok finnast þeir Oddr ok Guðmundr. Eigi veit ek víst, sagði Oddr, hvört þessir eru svâ skelfir, sem vèr höfum hèr fundit. Hvat viltu nú ráða taka? sagði Guðmundr. Skjótt eru nú mín ráð, sagði Oddr, hèr skal ekki stelast á þessa menn; hèr munu vèr liggja í nótt undir nesinu, ok bíða hèr morguns. Þá gánga þeir á land með lið sitt allt til fundar við Hjálmar, en þegar þeir sjá víkínga á land gánga, þá herklæðast þeir, ok gánga ámót þeim Oddi. Hjálmarr spyrr, er þeir finnast, hverr fyri liði rèði. Oddr svarar: hèr eru fleiri höfðíngjar enn einn. Hvat heitir þú? sagði Hjálmarr. Ek heiti Oddr, sonr Gríms loðinkinna úr Hrafnistu. Ertu sá Oddr, at fór til Bjarmalands fyri skömmu, eðr hvert er erendi þitt híngat? Ek vil vita, sagði Oddr, hvorr okkar meiri maðr skal vera. Hve margt hefir þú skipa? sagði Hjálmarr. Ek hefi 5 skip, sagði Oddr, eðr hversu mikit lið hafi þèr? Vèr höfum 15 skip, sagði Hjálmarr. Þá er liðsmunr mikill, sagði Oddr. Hèr skulu

[1]) er á leiknum voru, *b. v. B, M.*

sitja hjá 10 skipshafnir, sagði Hjálmarr, ok skal maðr manni ámót vera. Nú búast hvorirtveggju til bardaga, ok fylkja liði sínu, ok berjast, meðan dagrinn endist. Þá er kveldar, var haldit upp friðskildi, ok spyrr Hjálmarr Odd, hversu honum þætti at hafa farit um daginn; en hann lèt vel yfir. Villtu eiga leik þenna optar? sagði Hjálmarr. Ekki ætla ek annat, sagði Oddr, fyri því at ek hefir eigi betri drengi hitta, nè harðfengari menn, ok munu vèr taka til bardaga at ljósum degi; ok var nú svâ gjört, sem Oddr mælti fyrir, ok binda menn sár sín, ok fara til herbúða um kveldit. En um morguninn eptir fylktu hvorirtveggju sínu liði til bardaga, ok berjast þann dag allan; ok er áleið daginn, var brugðit upp friðskildi. Þá spyrr Oddr, hversu Hjálmari þótti gánga orrostan um daginn; en hann lèt vel yfir. Hvort villtu, [sagði Hjálmarr[1], at við eigum þenna leik hinn þriðja daginn? [Þá skal til stáls sverfa með okkr, sagði Oddr[2]. Þá tók Þórðr til orða: er þar fjár von væn, ok mikit á skipum yðrum? Þat ferr fjarri, sagði Oddr, vèr höfum einkis fjár aflat í sumar. Þat ætla ek, sagði Þórðr, at ek hafi hvergi þess komit, at úvitrari menn hafi fundizt, enn hèr, því vèr berjumst um ekki nema kapp ok metnað. Hversu villtu þá tilhátta[3]?

[1]) Hjálmar! segir Oddr, *B.* [2]) ok sverfi þá til stáls með okkr, *B*, *M.* [3]) tilhætta, *B*; at snúa, *M.*

sagði Oddr. þikir yðr eigi þat ráð, sagði þórðr, at vèr gjörum fèlag vort? þat líkar mèr vel, sagði Oddr, en eigi veit ek, hversu Hjálmari er um þat gefit. Ek vil þau ein víkínga lög, sagði Hjálmarr, sem ek hefir áðr haft. þat veit ek, sagði Oddr, þá ek heyri þau, hversu skapfeldt mèr er um þau. þá mælti Hjálmarr: þat er fyrst at segja, at ek vil aldrí eta hrátt, nè lið mitt, því þat er margra manna siðr, at vinda vöðva í klæðum, ok kalla þat soðit, en mèr þikir þat þeirra siðr, er líkari eru vörgum enn mönnum; ek vil aldrí kaupmenn ræna, nè búkarla, meir enn svå sem ek þarf at hafa strandhögg á skipi mínu í nauðsyn; ek vil ok aldrí konur ræna, þóat vèr finnum þær á landi uppi með miklum fjárhlutum, ok eigi skal konur til skips leiða nauðugar, ok ef hún kann þat at segja, at hún fari nauðig, þá skal sá aungu fyri týna, nema lífi sínu, hvort sem hann er ríkr eðr óríkr. Góð þikja mèr lög þín, sagði Oddr, ok mun þat ekki meina[1] voru fèlagi. Ok nú gjöra þeir fèlag sitt, ok er svå sagt, at nú hafa þeir jafnmikit lið allir, sem þeir Hjálmarr höfðu, áðr þeir fundust.

10. Eptir þetta spyrr Oddr at, hvar þeir vissi þá fengjar von; en Hjálmarr svarar: á Sælund[2] veit ek liggja 5 berserki þá, sem harðfengari eru, enn flestir menn aðrir þeir, sem vèr höfum spurn af, ok heitir einn Brandr, annarr Agnarr, þriði Ásmundr, fjórði Íngjaldr, fimti Álfr; þeir eru

[1]) nema við, *B*; spilla, *M*. [2]) Sjálandi, *E*; Sjálöndum, *M*.

allir bræðr, ok hafa 6 skip, ok öll stór; eðr hversu villtu nú, Oddr! hátta til ferðum vorum? Þar vil ek at halda, sagði Oddr, sem berserkirnir eru fyri. Þeir koma nú við Sælund 15 skipum, ok spyrja þau tíðendi, at berserkirnir eru á land gengnir, at hitta frillur sínar. Þá gengr Oddr á land upp einsamann til fundar við þá; ok er þeir finnast, lýstr þar í bardaga, ok lýkr honum svâ, at hann fellir þá alla, en varð ekki sárr. En er Oddr var á land genginn, saknar Ásmundr hans, ok sagði til Hjálmars: já, sagði hann, þat mun eigi rjúfast, at Oddr muná land genginn, ok skulu vèr eigi sýslulausir ámeðan. Nú heldr Hjálmarr þángat sex skipum, sem víkíngarnir voru, ok lýstr þar í bardaga, ok var þat allt jafnsnemma, at Oddr kom af landi ofan, ok Hjálmarr hafði unnit skipin; ok nú segja hvorir öðrum tíðendin, ok hafa nú bæði aflat sèr fjár ok metnaðar. Nú býðr Hjálmarr þeim Oddi með sèr til Svíþjóðar, ok þat þiggr Oddr; en norðr fara Háleygirnir, Guðmundr ok Sigurðr, til Hrafnistu með liði sínu, en mæla mót með sèr við Elfi austr. En er þeir Hjálmarr koma í Svíþjóð, tekr Hlöðver konúngr mót þeim báðum höndum, ok sitja þeir þar um vetrinn, ok leggst þar svâ mikil virðíng á Odd, at konúngi þótti enginn hans maki fyrir alls[1] sakir; skamma stund hafði Oddr þar[2] verit, [áðr konúngr gaf honum[3] 5 bú. Konúngr átti

[1]) afls, *B*, *E*. [2]) áðr, *b. v. M.* [3]) Hjálmarr á, *M.*

dóttur eina, þá er Íngibjörg hèt; hún var hverri konu vænni, ok bezt at sèr um allar íþróttir, þær er kvennmann mátti fríða[1]. Oddr spurði Hjálmar jafnan, hverju þat sætti, at hann bæði ekki Íngibjargar: fyri því at ek sè, at hugir ykkrir falla saman. Ek hefi beðit hennar, sagði hann, en konúngr vill eigi gipta þeim manni dóttur sína, er eigi berr konúngs nafn. Þá skulu við draga saman her at sumri, sagði Oddr, ok gjörum konúngi 2 kosti, annathvort at berjast við okkr, eðr gefa þèr dóttur sína. Eigi veit[2] ek þat, sagði Hjálmarr, því ek hefi lengi haft hèr friðland. Sitja þeir nú þar um kyrt um vetrinn; en um vorit halda þeir í hernað, þegar þeir voru búnir.

11. Nú er ekki sagt af ferðum þeirra, fyrr enn þeir finnast við Gautelfi, ok leggja þeir nú í umræðu með sèr, hvert nú skal halda um sumarit; en Oddr sagðist fúsastr at halda vestr um haf. Þeir hafa nú 20 skip, ok stýrir Oddr drekanum Hálfdánarnaut. Þeir koma við Skotland, ok gjöra þar upprásir, herja ok brenna hvervetna, þar er þeir koma, ok eigi lètta þeir, fyrr enn þeir skattgilda landit; þaðan fara þeir til Orkneyja, ok leggja þær undir sik, ok sitja þar um vetrinn. En um vorit fara þeir til Írlands, ok herja þar, bæði með sjónum ok upp á landit; þess fór Oddr hvergi, at eigi fylgdi Ásmundr honum; en þar flýðu undan bæði á merkr ok skóga börn ok konur ok karlar, en fálu fjárhlut

1) prýða, *E.* 2) vil, *M.*

sinn ok sjálfa sik. Þat var einn dag, at þeir Oddr ok Ásmundr voru tveir saman staddir á landi uppi. Oddr var svâ búinn, at hann hafði örvamæli sinn á baki sèr, en boga í hendi, ok vildu leita manna nokkura, ef þeir fyndi. Nú finnr Oddr eigi fyrr, enn strengr gellr við, ok flýgr ör af skógi, ok nemr eigi fyrr staðar, enn hún kemr at Ásmundi, ok fèll hann við, ok dó skjótt; þetta þótti Oddi svâ mikil tíðendi ok ill, at hann þikist aldrí slíkan skaða beðit hafa á sinni æfi. Hann gengr nú á land upp, en Ásmundr lá þar eptir, ok er Oddr svâ í illum hug, at hann ætlar sèr ekki annat, enn gjöra Írum allt þat íllt, er honum kemr í hug. Hann kom nú at rjóðri einu, ok sèr þar fjölda mikinn, bæði konur ok karla; hann sèr mann standa upp í guðvefjar kyrtli, ok hafði boga í hendi, en örvarnar stóðu í vellinum hjá honum; þat þikir Oddi at vísu mega gánga, at hann muni þar eptir hefndum eiga at leita, þar sem sá maðr er; því tekr hann ör eina af Gusisnautum, ok leggr á streng, ok skýtr at þessum manni; kom sú á hann miðjan, ok fèll hann þegar dauðr niðr. Nú skýtr hann hverri at annari, svâ hann drap þar 3 menn aðra; ok nú flýði liðit á skóga; en Oddr er svâ í illum hug við Íra, at hann ætlar at vinna þeim allt þat íllt, er hann megi orka. Hann gengr nú eptir skógarbraut einni mikilli; hann kippir nú upp hverjum runni með rótum, þeim sem fyrir honum verðr; hann kippir þeim

runni upp einum, er lausari var fyrir enn aðrir, þar sèr hann hurð undir, ok kippir henni upp, ok gengr þar niðr í jörð; þar finnr hann 4 konur[1] í jarðhúsinu, ok var ein miklu vænst; hann þrífr þegar í hönd henni, ok vill kippa henni úr húsinu. Hún tók þá til orða: láttu mik lausa, Oddr! sagði hún. Hvat tröll veiztu til þess, sagði hann, hvort ek heiti Oddr eðr annann veg? Ek vissa þat, sagði hún, þegar þú komt híngat, hverr þú vart, ok svâ veit ek, at Hjálmar er með þèr, ok skal ek kunna at segja honum, ef ek fer nauðig til skipanna. Eigi skaltu fara at síðr, sagði Oddr. Nú taka þær konurnar til hennar, ok vilja halda henni, en hún biðr þær hætta; ek mun kaupa at þèr, sagði hún, at þú látir mik fara í friði, þvíat mik skortir eigi fè. Fjarri ferr, at ek vilja fè þitt, sagði Oddr, því mik skortir eigi gull nè silfr. Þá mun ek láta gjöra þèr skyrtu, sagði hún. Þat er enn svâ, sagði Oddr, at ek á nógar skyrtur eðr skyrtugjörðir. Kost muntu eiga, sagði hún, ok eigi þvílíkrar, sem ek mun láta gjöra, þvíat hún skal saumuð með gull, en gjör úr silfri[2], ek mun láta fylgja þá kosti skyrtunni, at þú munt eigi eiga þvílíkrar kosti áðr. Lát mik heyra þá! sagði Oddr. Þik skal aldrí kala í henni, hvorki á sjó nè á landi; þik skal eigi sund mæða, ok eigi skal þèr eldr granda, ok eigi skal þik húngr sækja, ok eigi skulu þik járn bíta, ok við öllum hlut-

[1]) 3 k., M. [2]) silki, M.

um mun ek hana gjöra, nema við einum. Hverr er sá hinn eini? sagði Oddr. Þik munu járn bíta sagði hún, ef þú ert á flótta, þóttú sèrt í skyrtunni. [Annat vilda ek optar vinna í orrostum, enn flýja, sagði Oddr[1], eðr hvenær skal hún gjör? At öðru sumri, sagði hún, jafnt í þat mund dags, sem nú er, ok er nú sól í suðri, þá skulu við hèr finnast í þessu sama rjóðri. Hvat kemr þèr í hug, sagði Oddr, ef þú efnir eigi þetta, hvern kost ek mun gjöra yðr Írum þá, svâ sem ek á þeim íllt at launa, er þeir hafa feldan Ásmund? Þikist þú enn eigi hafa hefnt hans, sagði hún, þar sem þú hefir drepit föður minn ok bræðr mína 3? Alls ekki þiki mèr hans hefnt at heldr, sagði Oddr. Þetta verðr nú kaup þeirra, sem þau höfðu stofnat, ok skiljast at því. Fór Oddr nú þartil, at Ásmundr lá, tekr hann nú upp, ok leggr á bak sèr, ok gengr svâ búinn til sjófar. Þá var Hjálmarr kominn á land með liði sínu öllu, ok ætlar at leita at Oddi. Þeir finnast skamt frá skipum, ok spyrr Hjálmarr tíðenda, en Oddr sagði honum. Hefir þú nokkut hefnt hans? sagði Hjálmarr. Þá varð Oddi ljóð á munni:

[Rann ek at víðri
vagnslóð götu[2],
[áðr enn strengvölum[3]

---

[1]) Þat mæla ek um, sagði Oddr, at þessir hlutir fylgi aungir skyrtunni, ef ek kem á flótta, *B*, *M*. [2]) Fann ek at við vagns slóð-götu, *R*. [3]) unst ek strenghvölum, *M*.

striðum mættak;
munda ek Ásmund
auði mínum
aptr ódáinn
öllum kaupa.

Hvat skal nú til ráða taka? sagði Hjálmarr: herja muntu nú vilja, ok gjöra hèr hvervetna íllt. Þat ferr nú fjarri, sagði Oddr, því ek vil nú áburt sem skjótast; þetta undruðust víkíngar mjök; en Hjálmarr kvað svâ vera skyldu, sem Oddr vildi. Þeir verpa þar haug eptir Ásmund. Svâ láta víkíngarnir illa yfir þessu, at þegar þeir firnast[1] Odd augum, þá leggja þeir ámælisorð á bak honum; en hann lèt sem hann vissi þat eigi. Þeir sigla nú vestan til þess, at þeir koma við Hlèsey[2]; þar liggr fyri jarl sá, sem eigi[3] er nefndr, ok hefir 30[4] skipa. Þeir mæla þegar til bardaga, ok var þar þegar hörð sókn. Þá rak Oddr af sèr bleyðiorðit, þat sem víkíngar lögðu á hönd honum á Írlandi. Þar fengu þeir Oddr ok Hjálmarr sigr í þessum bardaga. Þaðan halda þeir til Danmerkr, ok spyrja þar þau tíðendi, at lið væri gjört fyri þá, at hefna þeirra 5 berserkja, er þeir feldu, áðr þeir færi vestr til Írlands[5]; 2 jarlar hafa fyrirráðit liðinu, ok lýkr svâ fundi þeirra, at þeir fella þá báða, en skattgilda landit.

12. Nú skilja þeir lið sitt, ok sigla þeir Guðmundr ok Sigurðr norðr til Hrafnistu, ok setj-

1) firra, *B*, *E*, *M*. 2) Hlessey, *B*. 3) Vandráðr, *E*; Hergautr, *R*. 4) hálfan þriðja tug, *M*. 5) Englands, *B*.

ast þeir þar at kyrðum, ok vilja lètta hernaði; en Oddr sitr eptir í Danmörku um vetrinn; en Hjálmarr fór til Svíþjóðar með sínu liði, ok mæla mót með sèr austr á Skáney um vorit, ok sitja nú um kyrt hvorirtveggju þann vetr. En er vor kom, halda þeir Hjálmarr austan ok Þórðr stafnglamr í þat mund, sem mælt var til móts við þá. Er þeir finnast, þá spyrr Hjálmarr, hvert Oddr vill halda um sumarit; en hann sagði, at hann vill til Írlands. Eigi vildir þú þar herja í fyrra sumar, sagði Hjálmarr. Hvernin sem þat var, sagði hann, þá skal nú þángat fara í sumar. Sigla þeir nú úr landi, ok gaf þeim vel byri, þartil at þeir koma við Írland. Þá mælti Oddr: nú munu vèr tjalda hèr, en ek mun gánga á land upp einsamann. Ek mun fylgja þèr, sagði Hjálmarr. Einn vil ek fara, sagði Oddr, því ek á hèr mælt mót við konur nokkurar í skóginum. Oddr fór nú þartil, at hann kemr í þat sama rjóðr, sem þau Álfvör höfðu sammælzt, ok var hún þá eigi kominn. Hann fyllist nú þegar upp mikillar reiði við þá Íra, ok ætlar þegar á land upp, ok herja slíkt allt, er hann má. En er hann hefir farit um hríð, heyrir hann, at vagnar gánga ímót honum. Þar finnast þau Álfvör, ok heilsar hún honum fyrri: nú vil ek, at þú sèrt mèr eigi reiðr, þóat ek hafi seinni orðit, enn ek kvað á. Er nú búin skyrtan? sagði Oddr. Eigi trauðar þat, sagði hún, ok skaltu nú setjast niðr hjá mèr, ok vil ek sjá, hvernin þèr sami skyrtan;

ok svâ gjörir hann, tekr við, ok rekr ísundr, ok ferr í síðan, ok var hún honum hæfiliga mikil at öllum hlutum. Hvort fylgja nú allir kostir skyrtunni, sagði Oddr, þeir sem ákveðnir voru? Svâ er þat, sagði hún. Hvernin er, sagði Oddr, hvort hefir þú ein gjört góðgrip þenna? Þá varð henni ljóð á munni:

Serkinn frá ek [í Sogni[1]
ok í[2] sjö[3] stöðum[4] gjörvan,
ermr[5] á Íralandi,
önnur norðr með Finnum;
slógu Saxa meyjar,
en Suðreyskar spunnu,
vófu Valskar brúðir[6],
varp Óþjóðans[7] móðir.

Þá varð (Oddi) ljóð á munni:

Varat[8] sem brynja,
eða bláir hríngar,
ísköld[9] um mik
ofan[10] fèlli,
[þá er um síður[11]
silkiskyrta,
gulli saumuð,
gekk[12] fast ofin[13].

Hversu líkar þèr nú skyrtan? sagði hún? en hann lèt vel yfir. Nú skaltu kjósa þèr laun fyri skyrtu-

1) úr silfri, *B*, *E*; Serk hefir ek hèr or silfri (silki), *M*. 2) *v. í E*. 3) sex, *M*. 4) hlutum, *E*. 5) var, *b. v. B*, *M*. 6) drósir, *E*, *M*. 7) Oþjóðins, *B*. 8) var, *E*. 9) verðr köld, *M*. 10) áðan, *B*, *E*, *M*. 11) þó er ei síðr, *E*. 12) grimðar, *E*. 13) ofan, *B*, *M*.

gjörðina, sagði Oddr. Svâ er hèr herskátt[1], sagði hún, síðan faðir minn var feldr, at við því er búit, at landit gángi undan mèr; því kýs ek þau launin, at þèr sitið hèr 3 vetr. Þá munu við kaupa fleira, sagði Oddr, ok skaltu þat tilvinna, at gánga með mèr, ok vera mín eiginkona. Manngjarnliga mun þèr mælt þikja, sagði hún, ok skal þetta kjósa. Þá litast Oddr um, ok sèr skamt frá sèr riðul manna; hann spyrr, hvort þat lið sè sett til höfuðs honum. Fjarri ferr því, sagði hún: þessir menn skulu fylla flokk þinn til skipa, ok skaltu nú fara með meira sóma enn hit fyrra sumar. Snýr hann nú til skipa ofan, ok lið þetta með honum, ok hittast þeir Hjálmarr í tjöldum sínum. Oddr biðr nú Hjálmar, at hann sitì þar þessa 3 vetr, ok því játar hann[2]; fær Oddr nú Álfvarar; en á sumrum liggja þeir á herskipum, ok drepa víkínga þá, er þángat herjuðu. Ok er þeir höfðu þar setit slíka stund, sem ákveðit var, höfðu þeir eytt víkíngum öllum, bæði nærri ok fjarri á Írlandi, sumir voru drepnir, en sumir stukku undan. Þá var Oddi svâ leitt orðit, at vera þar, at ekki stoðar, at letja hann. Mey hafa þau Álfvör ok Oddr getit sín ámillum, ok er sú Ragnhildr nefnd; þau eiga um þat at ræða, at Oddr vill hafa hana með sèr, en Álfvör vill eigi þat. Þar kemr, at Hjálmarr skal þessu skipa, ok vill hann,

[1]) *þannig hin*; skátt, *A.* [2]) er nù endaðr annarr þáttr sögu þessarar, *b. v. M.*

at meyin vaxi upp með móður sinni. En er þeir voru búnir, halda þeir áburt, ok koma við England; þeir hafa spurt, at þar liggr víkíngr sá, er Skolli hèt, ok hafði 40 skipa[1]. Ok er þeir hafa lagt í lægi, stígr Oddr á bát, ok vill finna Skolla at máli. En er þeir finnast, spyrr hann Odd, hvert erendi þeirra væri þángat til lands. Ek ætla at eiga bardaga við þik, sagði Oddr. Hvat áttu mèr íllt at inna? sagði Skolli. Ekki, sagði Oddr, nema ek vil hafa fè þitt ok líf, fyri þat at þú herjar á konúng þann, er hèr ræðr fyrir[2]; en hann hèt Játmundr[3]. Ertu sá Oddr, sagði Skolli, er fór til Bjarmalands fyri laungu? Sá er maðr hinn sami, sagði Oddr. Ekki er ek svâ dulinn at mèr, sagði Skolli, at ek ætla at halda til jafns við þik, nú muntu vilja vita, því ek herja á Játmund konúng. Vel má þat, sagði Oddr. Þessi konúngr drap föður minn hèr frá landi ok marga frændr mína, en síðan settist hann í ríkit; en ek get nú stundum unnit helmíng af landinu, en stundum þriðjúng; nú þætti mèr yðr meiri frami, at snúast í lið með mèr, ok dræpu vèr Játmund konúng, en tækum ríkit undir oss, þvíat ek mun þetta vitnum binda. Þá skaltu, sagði Oddr, fá þèr 8 bændr ofan af landi til eiðafulltíngs. Svâ skal vera, sagði Skolli. Nú fór Oddr til skipa

1) á vatni, *b. v. M.* 2) Englandi, *b. v. B, E.* 3) Hverr Oddr ertu? sagði Skolli, ertu ferr svâ geystr at máli við mik? Hann sagði honum et sanna, *b. v. M.*

sinna, ok finnr Hjálmar, ok sagði honum, at ef svâ gengr, sem Skolli hafði talat, at þeir mundu snúast í lið með honum. Sofa þeir nú af um nóttina. En um morguninn gánga þeir á land upp með öllu liði sínu. Þá hafði Skolli þat atsýst um nóttina, at hann var kominn af landi ofan með bændrna, ok unnu þeir honum eiða. Eptir þat slá þeir saman liðinu, ok gánga á land upp, ok fara herskildi yfir, brenna allt ok bæla, þar er þeir koma; en landslýðrinn flýr undan, ok til fundar við konúng. En á sunnanverðu landinu finnast þeir, ok lýstr þar þegar í bardaga með þeim, ok börðust 3 daga; en svâ lauk, at þar fèll Játmundr konúngr. En þeir Oddr leggja landit undir sik, ok sitja þar um vetrinn. En um vorit býðr Skolli, at gefa þeim landit; en Oddr vill eigi þiggja: en þat ræð ek, at þú bjóðir Hjálmari; en Hjálmarr vill eigi. Þat ræð ek þá, sagði Oddr, at við gefum Skolla landit, ok hann þiggr, ok mælti svâ, at þeir skyldu þar vera ávalt, er þeir vildu, hvort sem væri vetr eðr sumar. Þeir búa nú 20 skip úr landi, ok er nú ekki sagt af þeirra ferð, fyrr enn þeir koma suðr fyri Skýðu.

13. Konúngar 2 eru nefndir, hèt annarr Illöðver, en annarr Haki[1]; þeir liggja þar fyri með 30 skipa. En er þeir Oddr höfðu lagit skip sín undir land, róa at þeim 10 skip[2]; ok er þeir finnast, eru þar engin orða áköst, þvíat þegar lýstr

[1]) er eigi nefndr, *M.* [2]) undan Skýðu, *b, v. B, E.*

í bardaga með þeim. Þeir Oddr höfðu 20 skip; þar eiga þeir svâ harða atlögu, at Oddr hafði þar trautt komit, at honum hafi harðfengara fyri þótt; en svâ lauk þeirri sókn, at þeir unnu þau 10 skip. Þá tók Oddr til orða: allmjök hafa þessir ægðir[1] verit í frásögnum. Hyggr þú þat? sagði Hjálmarr, þetta voru hlaupamenn þeirra, er sendir voru til fundar við oss. En er þeir höfðu litla stund hvílzt, þá róa þar at þeim 20 skip[2] undan landinu, ok þegar lýstr þar í svâ harðan bardaga ok ákafan, at þeir Oddr höfðu þar hvergi komit, at þeir hefði þvílíka menn fyri fundit, hvorki á sjó nè á landi; en svâ lýkr þeirra bardaga, at báðir konúngar falla ok allt lið þeirra; enda er svâ sagt, at þeir Oddr ok Hjálmarr hefði þá eigi meira lið, enn þeir sigla burt á einum aski, ok koma við sker þau, er Elfarsker heita; ínn í þau sker gánga vogar, er kallaðir eru Trönuvogar; þar sáu þeir liggja 2 skip, ok var svörtu tjaldat yfir þeim báðum; þetta var öndvert sumar. Nú vilik, sagði Hjálmarr, at vèr gjörum eigi vart við ferð vora, fyri því at víkíngar liggja kyrrir undir tjöldum. Þat má ek eigi nýta, sagði Oddr, at hafa eigi orð við menn þá, sem ek hitti á leið minni. Nú kallar Oddr, ok spyrr, hverr skipunum átti at ráða. Maðr sprettr skörum yfir sèr, ok svarar: Ögmundr heitir sá. Hvat Ögmundr ertu? sagði Oddr. Hvar hefir

1) ýktir, *B.* 2) 10 s., *B.*

þú þess verit, at þú hefir eigi heyrt getit Ögmundar Eyþjófsbana? sagði skipamaðrinn. Eigi hefik heyrt þín getit, sagði Oddr, ok aldrí hefik sèt jafnilliligan mann, sem þú ert. Svâ var sagt frá yfirlitum þessa manns, at hann var svartr á hárs lit, ok hèkk flóki ofan fyrir andlitit, þar sem topprinn skyldi vera, en alls ekki var at sjá til andlitsins, nema tennr ok augu; þá hefir hann átta menn með sèr, er þannig voru í yfirbragði: þá bitu engi járn; þeir voru líkari jötnum enn mönnum fyri vaxtar sakir ok ilsku. Þá tók Ögmundr til orða: hverr er sjá maðr, at mik lýtir svâ? Sá heitir Oddr, sagði hann. Ertu sá Oddr, sagði Ögmundr, at fór til Bjarmalands fyri laungu. Sá er maðrinn, sagði Oddr, er þar hefir komit. Þá er vænt um, sagði Ögmundr, þvíat ek hefi þín leitat mestan hluta æfi minnar. Hvat hefir þú nú mèr hugat? sagði Oddr. Hvort villtu berjast á sjó eða landi? sagði Ögmundr. Á sjó vílik berjast, sagði Oddr. Þá taka þeir Ögmundr af sèr tjöldin. En þeir Hjálmarr búast við í öðrum stað, ok bera grjót á skip sitt. Ok er þeir voru búnir, hvorirtveggju, tekst þar harðr bardagi, ok leggja borð við borð. Þeir áttu orrostu harða ok lánga; en er þat hafði gengit um hríð, bregðr Ögmundr upp friðskildi, ok spyrr Odd, hversu honum þætti at fara. Hann sagði, at honum þótti illa atfara. Því sætir þat? sagði Ögmundr. Þvíat ek hefir ávalt áðr við menn bar-

izt, en nú þikjumst ek eiga við fjandr, sagði Oddr; ek hjó á háls þèr áðan, sem mèr var hægast með sverði því, sem ek hèlt á, ok tók ekki á[1]. Ögmundr svarar: þat mun mæla mega hvorr okkar við annann, at hèr sè eigi síðr átt við tröll enn menn; ek hjó á háls þèr, sem mèr var hægast, ok hafðik þat sverð, sem aldrí hefir í höggi stað numizt fyrr, ok beit ekki, eðr hvort villtu nú, at vèr berjumst lengr? sagði Ögmundr, eðr villtu at við skiljum, þvíat ek kann at segja þèr, hve fara mun bardagi vor: hèr munu falla þeir fóstbræðr[2] Hjálmarr ok þórðr, ok lið þitt allt, þá munu ok falla allir kappar mínir, ok munu við 2 uppi standa; en ef við berjumst til þrautar[3], þá mun ek falla fyri þèr, sagði Ögmundr. Eiga skal leik þenna þángat til, sagði Oddr, at fellt er lið vort allt ok þitt. Leggja þeir nú saman randir í annat sinn, ok berjast, þartil at þeir standa 3 uppi, þórðr, Hjálmarr ok Oddr; þeir Ögmundr standa ok þá upp 9. Hann tók þá til orða: villtu nú, Oddr! at við skiljum? því nú kalla ek jafnvegit, fyri því at svâ mun fara, sem ek sagða þèr, en þèr er ætlaðr aldr miklu meiri enn öðrum mönnum; þú hefir ok skyrtu þá, at þèr má ekki granda. því betr þiki mèr, sagði Oddr, sem við skiljum fyrr, ef þú leggr eigi bleyðiorð á bak mèr. því mun nú eigi gott at skilja, sagði Ögmundr, því nú

[1]) heldr enn ek hrökti tág, *b. v. B.* [2]) *v. í B, M.* [3]) endimarka, *M.*

kalla ek jafnvegit. Oddr sagðist vilja burt úr vogunum, ok svâ gjörðu þeir, ok lögðu undir [hólm nokkurn[1]. Oddr sagði, at þá lægi þrenn verk fyrir höndum; þat eitt, at fara á skóg ok skjóta dýr, annat, at gæta skips; ek mun eld kveikja, sagði Hjálmarr, [ok búa til búðarvörð[2]. Oddr ferr nú á skóg, en Þórðr geymdi skips, en er þeir komu aptr, var Þórðr horfinn. Þeir fara nú ok leita hans; þeir finna bátinn, þar sem hann var festr; þeir leita nú Þórðar, ok finna hann í bjargskoru einni, sitr hann þar, ok er örendr. Þetta er svâ illr atburðr, sagði Oddr, at við höfum eigi slíkan skaða beðit, síðan Ásmundr lèzt. Þeir leita nú, hvat honum hefir at bana orðit, ok finna, at undir annari hendinni stendr spjót, en fjöðrin tók út undir annari. Þat mun hinum illa Ögmundi þótt hafa, sagði Oddr, at eigi hafi jafnvegit verit með oss; skulu við nú þegar leggja útí vogana at leita þeirra, ok svâ gjörðu þeir, ok var Ögmundr þá allr íburtu. Þeir leituðu hans viku fulla ok fasta um sker ok um [skóga, eyjar ok annes[3], ok finna hann hvergi, nè frètta til hans. Þeir halda nú þángat, sem Þórðr er, ok færa hann til Svíþjóðar, ok verpa þar haug eptir hann. Síðan fara þeir heim til Uppsala, ok segja konúngi þessi tíðendi. Konúngr tók við þeim báð-

[1]) annes eða ey, *M.* [2]) en þú, Oddr! skalt afla búðar verðar, *M.* [3]) hólma, *M.*

um höndum, ok settust þeir um kyrt, en at sumarmagni bauð konúngr, at þeir sitì þar, ok mun ek fá ykkr skip ok lið fyri land fram, svâ þið megið skemta ykkr.

14. Þat er nú af þeim Oddi at segja, at þeir búa 2 skip, ok hafa 40 manna á hvoru skipi. Þeir sigla nú[1] fyri land fram. Svâ berr til at veðr bægir þeim, ok halda þeir at ey einni, er heitir Sámsey. Þar eru vogar þeir, er heita Munarvogar[2]. Þeir leggja skip sín í lægi, ok tjalda yfir sèr; en þat hefir atgengit um daginn á skipi Odds, at [húsasnotra hefir ísundr gengit[3]. En er morgun kemr, gánga þeir á land upp, Oddr ok Hjálmarr[4], at höggva sèr efnitrè. Hjálmarr var svâ vanr at gánga, at hann hafði öll herklæði sín, þau sem hann hafði í bardögum. Oddr hafði eptirlátit örvamæli sitt[5] at skipum niðri, en bæði hafði hann skyrtu sína dag ok nátt. Allt lið þeirra var í svefni. Þeir finna eigi fyrr enn víkíngar koma at þeim, ok er sá Ángantýr nefndr, er fyri þeim var. Þeir voru 12 saman, ok voru allir bræðr. Þeir hafa aldrí fleira lið, ok höfðu þá farit víða um heim, ok fengit hvergi viðnám. Nú koma þeir at, þar er skip þeirra Odds ok Hjálmars voru. Þeir hlaupa á þá með bardaga, ok gengr þar skjótt saga frá, at þeir drepa þar hvert mannsbarn, er á skip-

[1]) hafsiglíngar *b. v. B, M.* [2]) Minnivogar, *allstaðar E.* [3]) hnísa hefir gengit af, *M.* [4]) í sólarroð, *b. v. M.* [5]) ok boga, *b. v. M.*

unum var. Þá taka þeir til orða, bræðr, ok segja svâ: þat er þó um at ræða, at eigi hefir Arngrímr, faðir vor, í annat sinn logit meir at oss, enn þá hann sagði oss þessa menn harða ok mikla víkínga, svâ at ekki reisti rönd við, en vèr höfum hèr svâ komit, at allir hafa verst atborit sik, ok sízt dugat; ok förum heim ok drepum skítkarlinn, föður vorn, ok hafi hann þat fyri lýgi sína! Þat et annathvort, [sögðu sumir[1], at þeir Oddr ok Hjálmarr hafa mest ægðir verit, eðr hitt ella, at þeir munu vera gengnir á land upp, er veðr er gott. Nú munu vèr gánga á land upp, ok leita þeirra, heldr enn at fara aptr at óreyndu. Þeir gjöra nú svâ, 12 bræðr, ok kemr nú á þá berserksgángr, ok fara grenjandi. Þá kom ok berserksgángr á Ángantýr, en þat hafði aldrí fyrri orðit. Þetta stenzt á, ok þeir Oddr gánga ofan ok Hjálmarr frá mörkinni. Nú nemr Oddr stað, ok stíngr við fótum. Hjálmarr spyrr, hvat honum sè. Oddr mælti: berr fyri mik læti kynlig; mèr þikir stundum, sem griðúngar gjalli, eðr hundar ýli[2], en stundum er því líkt, sem grenjat sè, eðr veiztu nokkut þá menn, at þann veg sè til náttúru, at slík læti hafi? Já, sagði Hjálmarr, veit ek þá 12 bræðr. Kanntu nöfn þeirra? sagði Oddr. Þá varð Hjálmari ljóð á munni:

Hervarðr ok Hjörvarðr,

---

[1]) sagði Angantýr, *M.* [2]) eyli, *M.*

Hrani, Ángantýr,
Bíldr ok Bagi[1],
Barri[2] ok Tóki,
Tindr ok Tyrfíngr,
tveir Haddíngjar[3];
þeir[4] í Bólm austr
bornir[5] voru[6],
Arngríms synir
ok Eyfuru.
Þá frá ek manna
meinúðgasta
ok ógjarnasta
gott at vinna;
þeir eru [berserkir
böls of[7] fyldir,
tvö skip hruðu
tryggra manna.

Þá sèr Oddr, hvar berserkirnir fara, ok varð honum ljóð á munni:

Menn sè ek gánga
frá Munarvogum,
gunnar gjarna
í grám serkjum;
þeir hafa reiðir
rómu háða,
eru okkar skip
auð á ströndu.

---

1) Bragi, *E*, *R*; Bófi, *M*. 2) Berri, *B*; Bölverkr, *E*; Bölvi, *R*; Barr, *M*. 3) Haddúngar, *R*. 4) er, *b. v. M*. 5) aldir, *M*. 6) verstir, R. 7) berserks böli upp-, *E*, *R*.

Þá mælti Oddr: þetta kemr eigi vel við, sagði hann, þvíat örvamæli mitt ok bogi lá eptir við skip niðri, en ek hefi bastöxi[1] eina í hendi. Oddr kvað þá stöku[2] eina:

[Nú er[3] (mèr) ótti
einu sinni,
er[4] þeir grenjandi
gánga[5] af öskum,
ok emjandi
í ey stigu,
þá frá ek firða
fláráðasta
ok örvasta[6]
íllt at vinna.

Oddr gengr nú aptr í mörkina, ok höggr sèr kylfu eina, en Hjálmarr bíðr þar eptir, ok er hann kemr at ofan, þá koma þeir at neðan, berserkirnir[7]. Þá varð Ángantýr[8] ljóð á munni:

Ið eruð halir
harðir komnir,

---

[1]) batöxi, *M.* [2]) stuku, *M.* [3]) þá var, *M.* [4]) *þannig M*; cf, *A ok hin.* [5]) gengu, *M.* [6]) ótrauðasta, *M.* [7]) þá kvað Hjálmarr þetta:

Hliðu vèr    við skulum í aptan
fyrir hjaldi viðum,    Oðin gista,
þótt okkr aldrei    tveir fóstbræðr,
at hallt þikki;    en þeir tólf lifa.

Þá segir Oddr:

Ansa mun ek    Oðin gista
einu því orði,    tólf berserkir,
þeir skulu í aptan    en við tveir lifa, *b. v. M.*

[8]) svâ sem hann kemr, ok hefir heyrt Hjálmar, ok þótti kenna æðru nokkut, *b. v. M.*

seggir[1] úr hlunnviði!
fallnir eru ykkrir
förunautar,
[ok farið í höll Viðris[2]!

Þá kvað Oddr:

[Hèr eru rekkar
reiðir[3] komnir[4],
tírar lausir,
[af trè skipum,
traustir drengir[5],
[ok eru[6] tólf saman;
einn skal við einn
orrostu heyja[7]
hvatra drengja,
nema hugr bili[8].

Hverìr eru þessir menn, sagði Oddr, at vèr höfum hèr hitta? Maðr heitir Ángantýr, sögðu hinir, sá er fyri liði ræðr; vèr erum 12 bræðr, synir Arngríms jarls ok Eyfuru austan af Flæmíngjalandi[9]; en hverr spyrr at því? sagði Ángantýr. Hèr heitir annarr Oddr, sonr Gríms loðinkinna, en annarr heitir Hjálmarr hinn hugum-stóri. Þá er vel á móti, sagði Ángantýr, fyri því at ykkar höfu við víða leitat. Hafið þèr nökkut komit til skipa vorra? sagði Oddr. Kvomu vèr þar, sagði Ángantýr, ok er þar allt

---

1) Eruð heilir komnir, *B*; Ið eruð halir reyndir, segir hann, komnir, *M*. 2) *v. í M*. 3) þið eroð halir harðir, *B*; þ. e. h. reiðir, *M*. 4) *v. í M*. 5) *v. í B, M*. 6) fara, *M*. 7) eiga, *M*. 8) *þessar 2 vísur v. í E*. 9) dóttursynir Svafrlama jarls *b. v. M*.

unnit oss til handa. Hversu ætlið þið nú þá til, sagði Hjálmarr, um fund vorn? Ek ætla, sagði Ángantýr, sem þið mæltuð til áðan, at hèr skal (einn) við einn eiga, ok ætla ek mèr Odd, fyri því at þú hefir skyrtu þá, at þèr er því fyrir heitit, at þik skuli engi járn bíta, en ek hefi sverð þat, er Tyrfíngr heitir, ok dvergar smíðuðu, ok hètu, at hvergi skyldi í höggi stað nema, hvort fyrir eru járn eðr steinar. Hèr er skipt í helmínga liði, ok fara sjö í annann stað, en ek við fimta mann, [þat er líkt látit, ek einn ok Haddíngar tveir; þá kemr einn ímóti Tyrfíngi[1]. Þá tekr Hjálmarr til orða: ek vil berjast við Ángantýr, þvíat ek hefi brynju þá, er ek hefir aldrí sár í fengit, hún er sett ferföldum hríngum. Þá gjörir þú illa, sagði Oddr, því okkr mun hlýða, ef ek berjumst við Ángantýr, en víst ei ella. Hvernin sem ferr, sagði Hjálmarr, þá skal ek ráða. Þá mælti Ángantýr: þat vil ek, sagði Ángantýr, ef nökkr vor kemst áburt hèðan, þá skal enginn annann ræna at vopnum, ek vil hafa Tyrfíng í haug með mèr, þótt ek deyja; svâ skal Oddr hafa skyrtu sína ok skeyti, en Hjálmarr brynju sína; ok svâ skilja þeir, at þeir skulu verpa haug eptir aðra, er lifa. Nú gánga þeir fyrst fram, Haddíngjar tveir, en Oddr lýstr sitt kylfuhögg hvorn þeirra, ok þurfa þeir ekki fleiri. Þá

[1]) Haddíngjar tveir voru jafnir látnir ok Angantýr einn, *M.*

rís upp hverr eptir annann, þeir er við Odd skyldu eiga, ok svâ lýkr, at hann drepr þá alla, er honum voru ætlaðir. Nú tekr Oddr hvíld. Þá stendr Hjálmarr upp, ok þar einnhverr ámót; varð skamt viðskipti þeirra, áðr hann fellr. Þá rís upp annarr, hinn þriðí ok fjórði. Þá rís upp Ángantýr, ok eiga þeir harðan ok lángan atgáng, en svâ lýkr at Ángantýr fellr fyrir Hjálmari. Þá gekk Hjálmarr at þúfu einni, ok sezt niðr, ok hnýgr at upp. Oddr gengr at honum, ok kvað vísu:

Hvat er þèr[1], Hjálmar!
hefir þú lit brugðit,
[þik kveð ek mæða
miklar undir,
hjálmr er þinn högginn,
en á hlið brynja,
nú kveð ek fjörvi
um farit þínu[2];

ok hefir nú sannazt þat, ek sagði þèr, at okkr mundi ei hlýða, ef þú berðist við Ángantýr. Eigi er undir því, sagði Hjálmarr, deyja skal hverr um sinn, ok kvað þetta:

Sár hefi ek sextán,
slitna brynju,
svart er mèr fyri sjónum,
[sè ek ei[3] at[4] gánga;
hneit mèr við hjarta

1) nú, *M.* 2) *v. í M.* 3) sek-at ek, *B*; seinkaða ek, *M.*
4) *v. í M.*

hjör Ángantýrs,
hvass blóðrefill
herðr í eitri.

Nú hefik þann skaða beðit, sagði Oddr, at ek mun aldrí bætr bíða, meðan ek lifi, ok hefir nú illa gefizt þrá þitt, ok mundu vèr hèr mikinn sigr fengit hafa, ef ek hefði ráðit. Nú skaltu setjast niðr, sagði Hjálmarr, ok vil ek kveða ljóð nökkr, ok senda heim til Svíþjóðar. Hann kvað nú þetta:

Fregna[1] eigi þat
á fold konur,
at ek höggum
hlífast gjörði[2],
[hlær eigi[3] at því,
at ek hlíða gjörði[4]
snót[5] svinnhuguð
[Sigtúnum í[6].
Hvarf ek frá fögrum
fljóða saungvi,
ótrauðr gamans,
út[7] með Sóta;
för skundaðek[8]
ok fór[9] í lið
hinsta[10] sinni[11]
frá hollvinum[12].

---

1) fregni, *B.* 2) lèta, *M.* 3) hlæja man, *R.* 4) vilda, *B.* 5) þóat, *M.* 6) sigraðan spyrl, *M.* 7) á trè, *M.* 8) *þannig* M; smiðgað ek *eða* snúðgað ek, *A*, *B*; snúðuga, *R.* 9) *þannig* *B*; fórk, M; fèkk, *A*, *E*, *R.* 10) *þannig* *B*; fyrsta, *A*; mesta, *E*, *R*; seinsta, M. 11) liðsinni, *E*, *R.* 12) hugsvinnum, *E*; húsvinum, *R.*

Leiddi mik en hvíta
hilmis dóttir
á Agnafit
utanverða;
saga mun sannast,
[er hún[1] sagði mèr,
at ek aptr koma
eigi mundi.

Hvarf ek frá úngri
Íngibjörgu,
skjótt rèðum[2] þat,
á skapa[3] dægri;
sá mun fljóði
fastnæmr tregi,
[at hún síðan mik
sèr[4] aldregi.

Berr þú til sýnis,
sá er minn vili,
[hjálm ok[5] brynju
í höll konúngs;
hugr mun gángast
hilmis dóttur,
er hún höggna sèr
hlíf fyri brjósti.

Átta ek á foldu
fimm ból[6] saman,

---

1) *þannig B, M;* sú er, *A.* 2) rèð ek um, *B, E, R.* 3) skarra, *E, R.* 4) er við síðan sjáumst, *M.* 5) Hjálmars, *M.* 6) bú, *E, M, R.*

en ek unda þó[1]
[eigi á landi[2],
nú verð ek liggja
lítt megandi,
sverði undaðr[3],
Sámseyju í.
Drag þú mèr af hendi
hríng enn rauða,
[ok fær[4] [hinni úngu[5]
Íngibjörgu;
sá mun henni[6]
hjartnæmr[7] tregi,
[at[8] hún síðan mik
sèr[9] aldregi.
Sè ek hvar sitja
Sigtúnum á[10]
fljóð þau er löttu[11]
farar mik þannig[12];
gleðr eigi Hjálmarr[13]
í höll konúngs
öl nè rekkar[14]
aldrí[15] síðan.

Nú vilik ok, at þú berir kveðju mína öllum bekkjunautum okkrum, ok munik nefna þá á nafn[16]:

---

1) *þannig E, R*; því, *A, B, D.* 2) *þannig E, R;* eigi láði, *A, B;* at lítt ráði, *M.* 3) sundraðr, *M.* 4) færðu, *M.* 5) hann úngri, *E, R.* 6) fljóði, *E, R.* 7) fastnæmr, *E, R*; hugfastr, *M* 8) *þannig B, E, R;* ef, *A.* 9) er við síðan sjáumst, *M.* 10) í, *E, R.* 11) litu, *E, R.* 12) þar veg, *E, R;* paðan, *M.* 13) mik, *M.* 14) ríki, *M;* rekka, *B.* 15) um aldr, *M.* 16) alla 70 manna, *b. v. M, sem sleppir nafna vísunum.*

Drukku vèr ok dæmdum
dægurt margt saman
Álfr ok Atli
Eymundr[1], Trani,
Gissur, Gláma,
Guðvarðr, Starri,
Steinkell, Stikill,
Stórólfr[2], Vífill.
Hrafn ok Helgi,
Hlöðver, Ígull,
Steinn ok Kári,
Styrr ok Áli,
Össur, Agnarr[3],
Ormr ok Trandill,
Gylfri[4] ok[5] Gauti[6],
Gjafarr ok Rakknarr[7].
Fjölmundr[8], Fjalarr,
Frosti ok Beinir,
Tindr ok Tyrfíngr,
tveir Haddíngjar[9],
Valbjörn, Víkarr,
Vemundr, Flosi,
Geirbrandr, Goti[10],
Guttormr, Snerill.
Styrr ok Ari,
Steinn ok Kári,
Vöttr, Veseti[11]
Vemundr[12], Hnefi;

1) Eyvindr, *B, E, R.* 2) Steinólfr, *E, R.* 3) Ögur, *B, E, R.* 4) *eða* Gylfi, *A, B.* 5) í, *R.* 6) Götu, *R.* 7) Ragnarr, *R.* 8) Fjölviðr, *B.* 9) Haddúngar, *R.* 10) Gauti, *E, R.* 11) Viðsetr, 12) Vermundr, *R.*

vèr á einn bekk
allir sátum
[teitir ok reifir[1];
því em ek trauðr flugar.
Svarfraði[2], Sigvaldi,
Sæbjörn[3] ok Kolr,
Þráinn ok Þjóstólfr,
Þórálfr ok Svalr[4],
Hrappr[5] ok Haddíngr,
Húnfastr, Knúi[6],
Óttarr, Egill
með Íngvari.

Nú vil ek þess biðja þik, sagði Hjálmarr við Odd, at þú látir mik eigi verða [lagðan í haug[7] hjá svâ illum vættum, sem berserkirnir eru, fyri því ek þikjumst miklu betr at mèr enn þeir. Þetta vilik veita þèr, sagði Oddr, sem þú beiðir, því nú þiki mèr, sem fast dragi at þèr. Nú skaltu draga hrínginn af hendi mèr, sagði Hjálmarr, ok færa Íngibjörgu, ok seg henni, at ek senda henni hann á deyjanda degi. Nú verðr Hjálmari hljóð á munni:

Drekkr með jöfri
jarla mengi
öl glaðliga
at[8] Uppsölum;
mæðir marga

1) Teitr ok Refr, *R*, 2) Svarfandi, *B*; Snarfari, *E*, *R*. 3) Snæbjörn, *R*. 4) Snati, *R*. 5) Hrafn, *E*, *R*. 6) Beini, *B*; Bendir, *E*, *R*. 7) staddan, M. 8) *þannig hin*; af, *A*.

munngát fíra,
en mik eggjar spor
í eyju þjá[1].
Hrafn flýgr sunnan
af háheiði[2],
ok er eptir þar
örn í sinni,
þeim gefik erni
efstum bráðir,
sá mun á blóði
bergja mínu[3].

Ok eptir þat dó Hjálmarr. Oddr dró þá saman berserkina í eina kös, ok sveigði þar at utan viðu. Þat var skamt frá sjó; þar leggr hann hjá þeim vopn þeirra ok klæði, rænandi þá aungum hlut; síðan bar (hann) þá at utan torf, ok eys eptir þat sandi. Síðan tekr hann Hjálmar, ok leggr á bak sèr, gengr til sjófar ofan, ok lætr hann niðr á ströndinni, en hann gengr útá skipin, berr þá á land hvern mann, er fallit hafði, ok verpr þar annann haug eptir lið sitt, ok er þat sagt af þeim mönnum, er þar hafa komit, at enn sjái þess merki í dag, er Oddr gjörði þá.

15. Eptir þetta leggr Oddr Hjálmar á skip út, ok flyzt undan landi. Þá verðr Oddr at taka til íþróttar sinnar, þeirrar er honum var lèð, dregr segl upp í logni, ok siglir heim til Sví-

1) þessari, *E, R.* 2) Hám meiði, *B*; Hamheiði, *R.* 3) *vísuna v. í M.*

þjóðar með Hjálmar dauðan. Hann tók þar land, sem hann kaus á. Hann dregr upp skip sitt, en leggr Hjálmar á bak sèr, ok gengr heim til Uppsala með hann, ok lætr hann niðr fyrir hallardyrum. Hann gengr inn í höllina, ok hefir brynju Hjálmars í hendi sèr, ok svâ hjálm hans, ok leggr niðr á hallargólfit fyri konúngi, ok sagði honum tíðendi, þau sem gjörzt höfðu. Síðan gekk hann þángat, er Íngibjörg sat í stóli. Hún saumaði Hjálmari skyrtu. Hèr er hríngr, sagði Oddr, at Hjálmarr sendi þèr á deyjanda degi, ok kveðju sína með. Hún tekr við hríngnum, ok lítr á, en svarar aungu. Hún hnígr þá aptr í stólsbrúðunum, ok deyr þegar. Þá skellir Oddr upp, ok hlær, ok mælti þetta við: eigi er þat fleira um hríð, at vel hefir at farit, þá skal því fagna; nú skulu þau njótast dauð, er þau máttu eigi lífs. Oddr tekr hana upp, ok berr hana í faðm sèr, ok leggr í faðm Hjálmari fyrir hallardyrum, ok gjörir menn inní höllina eptir konúngi, ok bað hann sjá, hversu hann hafði umbúit[1]. Eptir þetta fagnar konúngr honum vel, ok setr Odd í hásæti hjá sèr. En þegar hann hafði hvíld tekit, þá sagði konúngr, at hann vill láta at erfi fá eptir þau Hjálmar ok Íngibjörgu, [ok verpa haug eptir þau. Konúngr lætr svâ alla hluti gjöra, sem Oddr sagði fyri[2]. Þá er fram borinn hjálmr ok brynja, er Hjálmarr hafði átt, ok

1) konúngr kom, ok sèr þat; voru þau grafin ok bæði saman, *b v. M.* 2) *v. í M.*

þikir mönnum mikils verdt um afrek hans, [ok hve mikit honum hafði til fjörs verit, ok nú eru þau lagin bæði í einn haug; gengu allir menn at sjá þetta þrekvirki, ok lèt Oddr þetta gjöra með mikilli virðíngu[1]. Nú sitr Oddr í kyrðum þann vetr með Hlöðveri konúngi, en um vorit fær konúngr honum lið ok 10 skip, ok nú ferr Oddr um sumarit at leita Ögmundar Eyþjófsbana á nýrra leik, ok fann hann hvergi.

16. Svâ bar til um haustit, at Oddr kom[2] til Gautlands, þar spyrr hann til víkíngs þess, er Sæmundr[3] heitir. Honum var sagt frá, at hann var torsóttari enn aðrir menn; hann hafði hálfan sètta tug skipa. Þar komu þeir Oddr með 10 skip, ok þegar er þeir finnast, þá lýstr þar í bardaga svâ lángan ok harðan, at eigi skorti; en svâ lauk um kveldit, at hroðin eru öll skip fyrir Oddi, ok hann stóð upp einn manna. Þá stökkr Oddr fyri borð, er náliga er myrkt orðit; þat sèr einn maðr, at hann leggst frá skipunum; hann þreif upp gaflak eitt, ok skutu þeir eptir honum; þat kemr í kálfa Odds, svâ at í beini stóð. Honum kemr í hug, hvar hann var staddr, at hann mundi á flótta kominn vera; hann lagðist þá aptr at skipunum, en víkíngarnir sáu Odd, ok kippa honum upp í skipit. Sæmundr[4] bað þá láta koma fjötr

[1]) með mikilli vegsemð var umbúit leiði þeirra Hjálmars ok Ingibjargar eptir skipan Odds, ok hættir nú at segja frá Hjálmari, *M.* [2]) austr, *b. v. M.* [3]) Sæundr, *M.* [4]) Sæundr, *hèr, A.*

á fætr honum, bogastreng á hendr. Svâ var gjört, sem hann mælti fyri. Nú sitr Oddr í fjötrunum, ok (eru) fengnir til 12 menn at vaka yfir honum, en Sæmundr lætr sik flytja til lands, ok lætr tjalda yfir sèr. Þá mælti Oddr við þá, er til voru fengnir at vaka yfir honum: hvort villð þèr, at ek skemta, eða villð þèr skemta, er svâ er daufligt? Oss þætti, sagði sá er fyri þeim er, sem þèr sè lítt til gamans hagat; þú ert í fjötrum, en ætlaðr til dráps á morgun. Ekki kvíði ek því, sagði Oddr; deyja skal hverr um sinn. Þat kjósu vèr þá, at þú skemtir, segja þeir. Hann kveðr þeim kvæði, ok lèttir eigi fyrr, enn þeir eru sofnaðir allir. Þá fór Oddr þángat til, er öx lá á þiljunum; hann getr snúit henni svâ, at eggin horfir upp; þá snýr hann þar við herðunum, en gnýr við höndunum, til þess, er hann varð lauss; þá hefir hann hendr at fjötrinum, ok færir hann af sèr; ok sem hann er lauss, þikir honum skör rýmra. Nú gengr hann þángat, er þeir sofa, ok stíngr á þeim öxarskaptinu, ok bað þá vakna, því þèr sofið sem snápar, en bandínginn er lauss orðinn. Síðan drap hann þá alla, tekr síðan örvamæli sitt, ok stígr á bát, ok flyzt til lands. Síðan gengr hann til skógar, ok dregr gaflakit úr fæti sèr, ok bindr um sár sitt. Nú er at segja frá Sæmundi, at hann vaknar í tjaldinu, ok gjörir menn út til skipanna, þar er varðmennirnir voru, ok var

Oddr íburtu, en drepnir allir varðmennirnir, ok þikjast þeir sakna vinar í stað, ok segja Sæmundi þessi tíðendi, ok ferr hann nú hvervetna um Gautland, at leita Odds, en Oddr ferr í öðrum stað, at leita Sæmundar. Þat verðr einn morginn snemma, at Oddr kemr fram úr mörkinni, hann sèr tjöld Sæmundar á landi, en skipin flutu á höfninni. Hann snýr aptr í mörkina, ok höggr sèr kylfu eina, gengr síðan ofan at tjaldinu, ok fellir þat ofan á Sæmund ok hans menn, drepr hann þar Sæmund ok þá 15[1] saman. Síðan gjörir hann þeim tvo kosti, er á skipunum voru, at þeir skulu gánga á hönd honum, ok gjörist hann höfðíngi þeirra, ok þann kjósa þeir. Siglir Oddr nú heim til Svíþjóðar, ok hefir þó lítit lið, ok sitr þar þann vetr.

17. Þá gjörir Oddr sendimenn norðr til Hrafnistu, ok biðr þá liðs frændr sína, at þeir kæmi norðan um vorit, Guðmundr ok Sigurðr. Þeir verða vel við, ok fara til fundar við Odd, ok er þeir finnast, verðr þar fagnafundr. Nú búa þeir skip sín úr landi, ok halda suðr [í lönd[2], ok þar sem grunnsæfi var mikit, fyri því at þángat hafði Oddr áðr sízt haldit. Herja þeir nú suðr um Valland, Frakkland ok Helsíngjaland[3]; þar reka þeir mikinn hernað. Er nú ekki sagt af ferð þeirra, fyrr enn þeir brjóta skipin við eitthvert land. Þar gánga þeir á land með lið

1) 12, *M.* 2) fyri land, *M.* 3) Flæmíngjaland, *B*; *v.* í *M.*

sitt. Sem þeir kvomu á landit, þá sáu þeir hús fyri sèr; þat var nökkut með öðrum hætti gjört, enn þau er þeir höfðu áðr sèt. Þángat gengu þeir til hússins. Þat var gjört af steini ok opit. Oddr mælti: hvat ætlar þú, Sigurðr! hvat hús þetta muni vera, er vèr erum atkomnir? Eigi má ek þat vita, sagði hann; en hvat ætlar þú, Oddr frændi? Eigi veit ek, sagði hann, en þess get ek, at menn byggi húsit, ok munu híngat vitja, ok skulu vèr ekki inngánga at svâ búnu. Þeir setjast niðr í einhverjum stað úti hjá húsinu, en er stund leið, sjá þeir at menn drífa til hússins, ok þat með, at þar fylgja læti, þau er þeir hafa aldrí þvílík heyrt. Þat ætla ek, sagði Oddr, at hèr sè [allkynligir menn[1] á þessu landi, skal hèr nú bíða, til þess, er menn gánga frá húsinu. Þát fór, svâ sem Oddr gat, at þetta líðr af, ok drífa menn frá húsinu. Einn af liði þeirra landsmanna gengr þángat, sem þeir Oddr sátu, ok mælti: hverir eru þessir? Oddr segir honum et sanna, eðr hvat land er þat, er vèr erum á komnir? Sá sagði, at þat heitir Aqvítanía, en hvat táknar hús þetta, er þèr hafið at staðit um stund? Þetta köllu vèr ýmist musteri eða kirkju; en hvat látum er þat, er þèr hafið haft? Þat köllu vèr tíðagjörð, sagði landsmaðr; en hvèrn veg er farit um ráð yðvart, ok hvórt eruð þèr heiðnir

[1]) allkynligr háttr, *M.*

til lykta. Oddr svarar: vèr vitum alls ekki til annarar trúar, enn vèr trúum á mátt vorn ok megin, [en ekki trúum vèr á[1] Óðin[2], eðr hverja trú hafi þèr? Landsmaðr sagði: vèr trúum á þann, er skapat hefir himin ok jörð, sjóinn, sól ok túngl. Oddr mælti: sá mun mikill, er þetta hefir allt smíðat, þat hyggjumst ek skilja. Nú var þeim Oddi fylgt til herbergis. Þar eru þeir Oddr vikur nokkrar, ok eiga málstefnur við landsmenn. Þeir leita eptir við þá Odd, ef þeir vildu taka við trú, ok þar kom at þeir Guðmundr ok Sigurðr tóku trú, [var þá leitat eptir við Odd, ef hann vildi við trú taka. Hann kveðst mundu gjöra þeim á því kost: ek mun taka sið yðvarn, en hátta mèr þó at sömu sem áðr; ek mun hvorki blóta Þór nè Óðin eðr önnur skurðgoð, en ek á ekki skap til, at vera á þessu landi, því mun ek flakka land af landi, ok vera stundum með heiðnum mönnum, en stundum með kristnum; er þat þó afráðit, at Oddr er skírðr[3]; eru þeir þar um hríð. Eitt sinn leitar Oddr eptir við þá Guðmund ok Sigurð, ef þeir vildi fara áburt. Þeir segja: hèr höfu vèr svâ verit, at oss hefir bezt þótt. Þá er hèr tveimr tveggja hugr, sagði Oddr, at ek hefir hèr svâ verit, at mèr hefir leiðast orðit. Sem hann fær ekki leyfi af frændum sínum, leynist hann íburt einsam-

[1]) þór eða, *b. v. B.* [2]) *frá* [ *v. í M.* [3]) Oddr tók ok við trú, ok vildi þó ráða högum sínum, sem honum líkaði, *M.*

ann, en þeir eru eptir með öllu liðinu. Ok sem hann kemr burt frá borginni, sèr hann fara mikinn flokk manna ámóti sèr. Þar ríðr einn maðr, en aðrir gánga. Þetta lið var skrautliga búit, ok var engi maðr vopnaðr. Oddr stóð hjá götunni, en liðit ferr hjá honum, ok mæla hvorigir við aðra. Þá sèr Oddr, hvar hlaupa 4 menn; þeir höfðu allir skálmir í höndum; þeir hlaupa at þeim manni, er reið[1], ok höggva af honum höfuðit[2]. Síðan hlaupa þeir aptr hjá Oddi hina sömu leið, ok hefir einn í hendi höfuðit af þeim manni, er drepinn var. Þat þikist Oddr vita, at þetta muni harðla íllt verk, er þessir menn hafa unnit. Nú hleypr Oddr eptir þeim, ok eltir þá, en þeir hlaupa undan til skógar, ok þar í jörð niðr í jarðhús nökkut. Oddr hleypr eptir þeim í jarðhúsit; þar veita þeir viðnám, en Oddr sækir at þeim; eigi lèttir hann fyrr, enn hann drepr þá alla. Síðan tekr hann höfuð af þeim, ok hnýtir saman hárin, gengr út síðan, ok hefir með sèr höfuðin, ok svâ þat höfuð, er þeir höfðu þángat haft. Oddr ferr nú aptr til borgarinnar. Þá voru hinir komnir til kirkju með lík þess, er drepinn var. Oddr kastar þá inní musterit höfðunum, ok mælti: þar er nú höfuðit af þeim, er drepinn var fyrir yðr, ok hefik hefnt hans. Þeim þótti mikils um þetta vert, er Oddr hafði unnit. Oddr

[1]) ok reka hann af baki, *b. v. M.* [2]) en lið hans lèt slota hendr niðr með síðu, ok höfðust ekki at, *b. v. M.*

spurði, hvat manna þat hafði verit, er hann hafði hefnt. Þeir sögðu, at þessi maðr var biskup þeirra. Oddr mælti: þá mun þetta betr unnit enn eigi. Svâ hafa þeir nú á Oddi mikla vörðu, at þeir vilja at aungum kosti, at hann fari áburt. En svâ sem honum hafði áðr leitt orðit, at vera þar, þá jók nú stóru við, er hann fann at þeir hèldu vörðu á honum, ok sitr nú um þat eitt, at komast íburtu. Þar kom enn, at hann leynist áburtu á einni nótt. Hann ferr nú land af landi, ok kemr umsíðir út[1] til Jórdanar. Þar fór hann af öllum klæðum ok skyrtu sinni. Síðan ferr hann í ána, ok þvær sèr, sem honum líkar. Þá ferr hann af ánni, ok í skyrtu sína, ok hèlt hún öllum kostum sínum sem áðr. Nú ferr hann þaðan áburt, ok hefir örfamæli sinn á baki sèr. [Þá ferr hann enn land af landi. Þar kemr nú ráði hans, at hann verðr svâ staddr á mörkum úti, at hann hefir ekki annat til atvinnu, enn hann skýtr dýr til matar sèr eðr fugla, ok ferr svâ fram um hríð[2].

18. Svâ er sagt at Oddr gekk einn dag fram á björg nökkr ok gljúfr stór, þar sem móða mikil fèll í straumum með miklum hávaða. Hann hugði at, ef nökkr mætti yfirkomast, ok sá hann þat hvergi. Hann sezt nú niðr,

[1]) um haf; eigi nemr hann fyrr staðar, enn hann kemr út, *b. v. M.* [2]) skýtr hann dýr ok fugla til matar sèr, næfrum spennir hann sik uppi ok niðri, *M.*

ok sem hann hafði eigi lengi þar verit, er hann gripinn upp voveifliga; var þar kominn gammr atfljúgandi, ok hremdi Odd með klóm sínum svâ hart, at hann gat aungri vörn ímóti komit. Þetta kvikendi fló með Odd yfir mörg lönd ok höf; en umsíðir flýgr gammrinn at flugabjörgum, ok settist í eina tó, er var í björgunum. Voru þar fyrir úngar þessa kvikendis. Hann lèt nú Odd lausan, ok var hann heill ok ósakaðr, þvíat honum hlífði skyrta hans, bæði við klóm þessa gamms, ok öllu því sem áðr hefir sagt verit. Nú er Oddr hjá úngum gammsins í bælinu; var þar hátt bjarg fyrir ofan, en flugsjór var undir niðri, mátti Oddr með aungum hætti áburt komast, nema láta fallast ofan á sjóinn, ok hætta svâ lífi sínu; landtaka var ok hvergi nær, þvíat hann sá fyrir hvornigan enda á björgunum. Úngarnir voru lítt stálpaðir. Gammrinn var sjaldan heima í bælinu, ok leitaði hann jafnan matfánga. Oddr múlbindr nú úngana, en felr sik í bjargskorunni hjá bælinu Gammrinn berr at þess fleiri fiska[1] ok fugla ok mannahold, ok af allskonar dýrum ok fènaði. Þar kemr umsíðir, at hann berr þángat soðit kjöt. En þegar gammrinn ferr íburtu, tekr Oddr til matar, en felr sik þess ámilli. Einn dag sèr Oddr at jötun mikill rær á steinnökkva þángat at bælinu; hann er hátalaðr[2], ok mælti: illr fugl er þat, sem hèr á bæli, þvíat hann

[1]) hvali, *b. v. B.* [2]) dimmhljóðr, *B.*

venst á, dag eptir dag, at stela burt kjöti mínu nýsoðnu, skal ek nú leita við at hefna honum nökkru; ætlaði ek þá annat, er ek tók yxnin frá[1] konúngi, enn fugl þessi skyldi hafa þau. Oddr stendr þá upp, ok drepr úngana, en kallar á jötuninn: hèr er allt þat, er þú leitar at, ok hefir ek varðveitt þat. Jötuninn gengr upp í bælit, ok tekr kjöt sitt, ok berr á nökkvann. Jötuninn mælti: hvar er kögrbarn, er ek sá hèr, gángi þat fram óhrætt, ok fari með mèr! Oddr sýnir sik nú, ok tók jötuninn hann, ok lèt útí nökkvann. Hann mælti þá: hversu skulu við drepa þessa meinvætti? Oddr svarar: tak þú eld, ok legg í bælit, ok er gammrinn kemr aptr, þætti mèr vera mega, at hann flýgi svâ nær, at eldrinn hlypi í fiðrit, ok munu við þá fá sigrat hann. Þetta fór eptir því sem Oddr gat, ok unnu þeir gamminn. Oddr hjó af honum nef ok klær, ok hafði með sèr, ok stígr útá nökkvann, ok rær jötuninn áburtu. Oddr spyrr hann at nafni, en hann kveðst Hildir heita, ok vera risi einn af Risalandi, ok eiga konu þá, er Hildiríðr heitir, ok með henni eina dóttur, er Hildigunn heitir; svâ á ek son, er Goðmundr heitir, ok var fæddr í gær. Vèr erum 3 bræðr, heitir einn Úlfr, en annarr Ylfíngr, höfu vèr sett þíng at sumri, ok skal sá vera konúngr af oss yfir Risalandi, er mest þrekvirki hefir unnit ok ólmastan hund á, ok skal þar etja á þínginu.

[1]) *Ermenrek, b. v. B.*

Oddr mælti: hvat hyggr þú, hverr yðvar þat muni hljóta, at verða konúngr. Hildir svarar: víst þiki mèr, at þeir muni þat hljóta, þvíat ek hefir alla æfi sízt verit af oss, ok svâ mun enn vera. Oddr mælti: hvort mundir þú kjósa, hvat þinn hagr yrði um þetta mál. Hildir svarar: þat kjöra ek, at verða konúngr, en þat er þó harðla ólíkligt, þvíat Úlfr á þann varg, at hvervetna er grimmari, ok enginn hundr þolir við hann at bítast; Úlfr hefir drepit þat dýr, er tígris heitir, ok hefir þar til vitnisburðar höfuð dýrsins; en Ylfíngr, bróðir minn, er þó torveldari, þvíat hann hefir þann hvítabjörn, at aungu eyrir; Ylfíngr hefir ok drepit dýr þat, er unikorníus heitir, en ek hefir eigi þvílík verk at sýna hèr ímót, ok aungan hund þann at við þeim megi. Vel þiki mèr þú segja, sagði Oddr, en fást mundi hèr mega nökkr ráð til, þau at dygði, ef maðr væri velviljaðr. Hildir mælti: ekki barn jafnlítit hefik fundit hortigra enn þik, nè ráðugra, því mèr þikir svâ mega at kveða, at þú sèrt ekki nema vitit eitt, ok þiki mèr í þèr hin mesta gersemi, hversu kofrmálugr[1] þú ert, ok skal ek færa þik Hildigunni, dóttur minni, ok skal hún hafa þik fyri leiku, ok fóstra þik, ok fæða þik upp jafnfram Goðmundi, syni mínum. Eptir þat settist Hildir til ára, ok rèri heim til Risalands, ok þótti Odda fádæmi, hversu nökkvinn gekk. En er hann kom heim,

[1]) kopmálugr, *B.*

sýndi hann barn þat, er hann hafði fundit, ok biðr dóttur sína gæta sem síns barns, ok eigi verr. En er Hildigunn tók við Oddi, ok hann stóð hjá henni, tók hann henni tæpt í mitt lær, en þó hafði Hildir allan vöxt yfir hana, eptir því sem karlmanni heyrði. En er Hildigunn tók Odd upp, ok setti hann í knè sèr, þá snèri hún honum fyri[1] sèr, ok mælti:

Tuttr litli,
ok toppr fyri nefi?
meiri var Goðmundr
í gær borinn.

Hún leggr hann þá í vöggu hjá risabarninu, ok kvað yfir þeim barngælur, ok gjörði vel við hann, en er henni þótti hann óspakr í vöggunni, lagði hún hann í sæng hjá sèr, ok vafðist utan at honum, ok kom þá svâ, at Oddr lèk allt þat, er lysti; gjörðist þá harðla vel með þeim; sagði Oddr henni þá, at hann væri ekki barn, þótt hann sè minni enn þeir menn, er þar eru fæddir. En því fólki er svâ háttat, at þat er miklu stærra ok sterkara, enn nokkr kind önnr; vænni eru þeir ok enn flestir menn aðrir, ok ekki vitrari. Þar er Oddr um vetrinn, en um vorit spurði hann Hildi, hversu góðr hann mundi þeim manni, er honum vísaði til hunds þess, er afbæri hundum bræðra hans. Hildir svarar: allgóðr skylda ek þeim, eða kanntu nökkut til þess at vísa? Oddr mælti: vísa má ek þèr þar til,

1) við, *B.*

en þú skalt sjálfr taka hann. Hildir svarar: ek skal ná honum, en þú kom honum í augsýn mèr. Oddr mælti: þat dýr liggr í Vargeyjum, er kallaðr er híðbjörn; sú er náttúra á honum, at hann liggr allan vetr í dái, en at sumri stendr hann upp, ok er þá svâ gráðugr ok grimmr, at hann eyrir hvorki fè nè mönnum, ok engu því sem fyrir honum verðr. Nú þætti mèr von, at þetta dýr mundi sigra hunda bræðra þinna. Hildir mælti: fylgdu mèr til hunds þessa, ok ef hann reynist svâ, sem þú segir, þá skal þèr þat góðu launa, þá eð ek kem í ríki mitt. Síðan búast þeir til ferðar. Þá mælti Hildigunn við Odd: aptr muntu ætla úr (för) þessari. Hann kveðst þat eigi víst vita. Um þat væri mèr þó meira, sagði hún, þvíat ek ann þèr mikit, þóat þú sèrt lítill; þarf ok eigi við þat at dyljast, at ek er með barni, þó þat mætti ólíkligra þikja, at þú værir til þeirra hluta færr, svâ lítill ok auðvirðiligr sem þú ert at sjá, er þar þó enginn í tígi til, nema þú, at vera faðir at barni því, er ek geng með. En þóat ek þættumst ekki mega af þèr sjá sakir ástríkis, þá vil ek þó ekki meina þèr at fara, hvert þú villt, þar ek sè at þú átt ekki eðli til, at vera hèr til lengdar hjá oss, en efast þú ekki í því, at þú kæmist hèðan aldrí, nema ek vildi. Nú vil ek heldr bera harm ok áhyggju ok morna hèr ok þorna, þann veg sem auðnar, heldr enn þú sèrt eigi í þeim stöðum, sem þèr þikir gott; en hvern veg villtu, at ek

breyta við barn okkart? Þú skalt, segir Oddr: senda mèr, ef þat er sveinn, þá hann er 10 vetra gamall, þvíat ek vænti, at mannskapr muni í verða; en ef þat er stúlka, þá fæðist hún hèr upp, ok sjá þú ráð fyrir henni, þvíat ek mun þar aungan gaum at gefa. Þú skalt enn öllu þessu ráða, sem öllu öðru, sagði hún, okkar í milli, enda far þú nú heill ok vel! Grætr hún þá sáran, en Oddr ferr á skip. Hildir sezt til ára; Odda þikir þat seinligt, at sækja með árum, þvíat leiðin var laung. Tekr hann þá til íþróttar þeirrar, sem þeim Hrafnistumönnum var gefin; hann dregr segl upp, ok kom þegar byr á, ok sigla þá fram með landinu, ok eigi lengi, áðr Hildir hleypr upp fálmandi á nökkvanum ok at Odda, þrífr til hans, ok rekr hann undir sik, ok mælti: drepa mun ek þik, ef þú lætr eigi af gjörníngum þessum, sem þú hefir í frammi, þvíat öll lönd ok fjöll hlaupa, sem þau sè ær, en skipit mun sökkva undir okkr. Oddr mælti: eigi skaltu þetta hugsa, þvíat þik sundlar, er þú ert ekki vanr at sigla; nú láttu mik uppstanda, ok muntu reyna þá, at ek segi satt. Hann gjörði, sem Oddr beiddi. Oddr fellir nú seglit; voru þá þegar kyrr lönd ok fjöll. Oddr bað hann eigi undrast, þóat honum sýndist svâ optar, ef þeir sigldi, ok kvað þegar mega stöðva, er hann vildi. Hildir lèt sèr nú segjast, hvat Oddr mælti, ok skildi nú, at þessi ferð var skjótari enn at róa; dregr Oddr þá segl upp ok siglir,

ok er Hildir nú kyrr. Er nú ekki afsagt þeirra ferð, fyrr enn þeir koma í Vargeyjar, ok gánga þar á land. Þar var urð stór, bað Oddr Hildi seilast inní urðina, ok vita ef hann fengi nökkut. Hann gjörði svâ, at hann seilist í urðina upp allt til axlar, ok mælti: [eigi er hèr nökkut af kart inni[1], ok mun ek taka á mik róðrar hanzka minn, ok svâ gjörði hann, ok dró síðan út björninn at hlustunum. Oddr mælti: nú skaltu fara með hund þenna, svâ sem ek mælti, haf hann heim með þèr, ok lát aldrí lausan, fyrr enn á þínginu, þá er þèr etlð hundunum; þú skalt ekki gefa honum fyri sumar, ok lát hann vera einn í húsi, ok seg aungum til, at þú hafir fengit hann, en sumardaginn fyrsta skaltu etja honum við hundana bræðra þinna, en ef hann dugir ekki, þá kom þú at öðru sumri í þenna stað, mun ek þá gefa til annat ráð, ef eigi dugir þetta. Víða hafði Hildir fengit benjar á höndunum; hann mælti: þat skilik til við þik, Oddr! at þú komir í þenna stað annat vor í þetta mund. Oddr játaði því. Hildir ferr nú heim með dýrit, ok háttar svâ öllu, sem Oddr mælti fyrir, en Oddr snýr annann veg, ok er ekki sagt af hans athöfnum nè afreksverkum, fyrr enn annat vor kemr hann í þann stað, sem þeir sammæltust á, ok kemr Oddr fyrri, ok ferr í skóg þaðan skamt ífrá, ok vill eigi láta Hildir sjá sik, þvíat hann vill nú ekki hætta til fundar við

[1]) *þannig A, B;* hèr er nokkut kvikt inni, *E.*

hann, þikist vita at hann mun hefna vilja, ef eigi hefir allt eptir því farit, sem hann hafði sagt honum; ok eigi miklu síðarr heyrir hann áraglamm, ok sèr at þar ferr Hildir, ok gengr á land upp, ok hefir í hendi ketil af silfri fullan, en í annari kistur tvær mjök þúngar. Ok sem hann kom í þann stað, sem þeir höfðu ákveðit, þá beið hann þar nökkura stund, ok kom Oddr eigi. Þá mælti risi: illa er nú, Oddr fóstri! at þú kemr eigi, en fyri því at ek á eigi tóm til at dveljast hèr lengi, fyri því at ríki mitt er geymslulaust, meðan ek er frá, þá vilik hèr láta kistur þessar, þær eru fullar af gulli, ok ketil fullan af silfri; skaltu eiga þetta fè, þóat þú komir seinna til, munik leggja yfir hellustein, at eigi feykivindr, en ef þú sèr eigi þat, legg ek ofan þessa gripi, þat er sverð, hjálmr ok skjöldr; en ef þú ert nökkr nær, svâ þú megir heyra orð mín, þá vil ek segja þèr, at ek varð konúngr yfir bræðrum mínum, ok ek átta hund miklu ólmastan, því at hann beit til dauðs hvorutveggja hund bræðra minna ok marga menn þeirra, er duga vildu hundunum. Ek bar fram nef ok klær af gamminum, ok þótti þat miklu meira þrekvirki, enn þat er bræðr mínir höfðu unnit; er ek nú einn konúngr yfir landi því, er við bræðr áttum. Nú mun ek íburt fara, ok heim til ríkis míns; komir þú á minn fund, þá skal ek ekki forverkum við þik gjöra, þat sem vel er; vilik ok þat segja þèr, at Hildigunn, dóttir mín, hefir

fædt svein þann, er Vignir heitir, er hún segir at þú eigir með henni, skal ek hann uppfæða með allri virkt; íþróttir skal ek honum kenna, ok allt við hann gjöra, sem ek eigi sjálfr, ok uppfæða, til þess at hann er 10 vetra, ok þá þèr senda, eptir því sem þú hefir við hana sjálfa ráð fyri gjört. Síðan rær hann áburt á nökkva sínum; ok þegar hann var áburtu, stendr Oddr upp, ok gengr þar til, sem fè var undir hellunni, ok var þat svâ mikit bjarg, at margir menn máttu hvergi hræra, náir Oddr því einu fè, sem ofan liggr á hellunni, var þat þó mikit fè. At þessu fengnu, sem nú var frásagt, gengr Oddr á merkr ok skóga.

19. Þat var einn dag, at Oddr gekk fram úr mörkum, hann var þá móðr mjök, ok settist niðr undir eina eik. Hann sá þá, hvar maðr gekk, hann var í bláflekkóttri heklu, upphéfa skó, ok reyrs sprota í hendi; hann hafði gullfjallaða glófa, meðalmaðr á vöxt, ok kurteisligr at sjá; hann lèt síga hattinn fyrir andlitit. Hann hafði stóra kampa ok sítt skegg, rautt hvortveggja; hann snýr fram at Oddi, þar er hann sitr, ok heilsar honum með nafni. Oddr tók honum vel, ok spyrr, hverr hann væri. Hann kveðst Grani heita, ok kallaðr Rauðgrani; þekkir ek þik gjörla, Örvar-Oddr! sagði hann, þikir mèr gott til þín at spyrja, þar sem þú ert hinn mesti garpr ok afreksmaðr, en þó hefir þú nú mannfátt, ok ferr þú nú heldr óríkmannliga, ok er þat þó illa um slíkan mann, at þèr skal svâ harka. Lengi hefir nú

þó svâ gengit, sagði Oddr, at ek hefir ekki átt fyri mönnum at ráða. Villtu nú binda fóstbræðralag við mik? sagði Rauðgrani. Vant er því at neita, sem vel er boðit, sagði Oddr, ok mun ek þann upptaka. Eigi muntu enn auðnulauss til þrautar, sagði Rauðgrani, nú vil ek segja þèr, at hèr liggja kappar tveir við land, ok hafa 12 skip, þeir eru fóstbræðr mínir, annarr þeirra er kynjaðr úr Danmörk, ok heitir Garðarr, en annarr Sírnir, ok kynjaðr úr Gautlandi; aungva veit ek nú meiri garpa fyrir hèðan hafit, ok betr at sèr um flesta hluti, ok þar skal ek koma þèr í fóstbræðralag við þá, ok þó skaltu mestu ráða af oss öllum, en mín ráð munu oss þó hallkvæmust vera, en hvert mundir þú halda vilja, ef þetta gengi svâ til, sem ek hefi nú talat? Þat er mèr jafnan í hug, at ek vilda finna Ögmund Eyþjófsbana, er Flóki er kallaðr öðru nafni. Hættu! hættu! sagði Rauðgrani, ok mæl þat eigi, þvíat þar er ekki við mann um at eiga, sem Ögmundr er, ok ef þú finnr Ögmund í annann tíma, þá muntu fá af honum miklu verra enn fyrr, ok settu aldrí hug þinn til þess, at finna hann lengr. Oddr svarar: hitt vilda ek, at ek gæta hefnt Þorðar, fóstbróður míns, ok aldrí skal ek uppgefa, fyrr enn ek get hann fundit, ef mèr verðr þess auðit. Villtu at ek segi þèr, kvað Rauðgrani, hversu Ögmundr er til kominn, ok get ek at þèr þiki þá engi von, at hann verði unninn af menskum mönn-

um, ef þú veizt allan hans uppruna; en þat er þar fyrst af at segja, at Hárekr hèt konúngr, er rèð fyri Bjarmalandi, þá er þú fórt þángat herferð, eptir því sem þú veizt, hvern skaða er þú gjörðir [þá Björmum. En er þú vart íburtu farinn, þóttust Bjarmar hafa raun íllt af fengit, ok vildu gjarnan hefna, ef þeir gæti. Var þat þá tiltekja þeirra, at þeir fengu eina gýgi undan fossi stórum galdra fulla ok gjörnínga, ok lögðu í sæng hjá Háreki konúngi, ok við henni átti hann son, sá var [vatni ausinn, ok[1] nafn gefit ok kallaðr Ögmundr. Flestum menskum mönnum var hann ólíkr þegar á únga aldri, sem von var sakir móðernis hans, en faðir hans var þó hinn mesti blótmaðr. Þegar eð Ögmundr var þrèvetr, var hann sendr á Finnmörk, ok nam hann þar allskyns galdra ok gjörnínga, ok þá er hann var í því fullnuma, fór hann heim til Bjarmalands, var hann þá 7 vetra, ok svâ stór sem fullrosknir menn, rammr at afli ok illr viðrskiptis. Ekki hafði hann batnat yfirlits hjá Finnunum, því at hann var þá bæði svartr ok blár, en hárit sítt ok svart, ok hèkk flóki ofan fyrir augun, þat er topprinn skyldi heita, var hann þá kallaðr Ögmundr flóki; ætluðu Bjarmar þá at senda hann til móts við þik, ok at drepa þik; þó þóttust þeir vita, at mikils mundi viðþurfa, áðr enn þèr yrði í hel komit; var þat þá enn tiltæki þeirra, at þeir lètu seiða at Ögmundi, svâ at hann skyldi

[1]) v. í B.

engi járn bíta atkvæðalaus. Þvínæst blótuðu þeir hann, ok trýldu hann svâ, at hann var aungum menskum manni líkr. Eyþjófr hèt víkíngr einn, hann var enn mesti berserkr ok höfuðhetja, svâ at eigi þótti nökkr garpr meiri enn hann, ok hafði hann aldrí færri skip í hernaði enn 18; hann sat hvergi at landi, ok lá úti á sæ-trjám vetr ok varmt sumar; allt var við hann hrætt, hvar sem hann fór. Hann vann Bjarmaland, ok skattgildi; þá hafði Ögmundr fengit sèr átta fylgdarmenn, þeir voru allir í flókastökkum, ok beit á aungan járn. Þeir hètu svâ: Hákr ok Hakí, Tindr ok Tóki, Finnr ok Fjösni, Tjösni ok Torfi. Síðan leggr Ögmundr fèlag sitt við Eyþjóf, ok hèldu þeir báðir samt í hernað. Þá var Ögmundr 10 vetra. Hann var með Eyþjófi 5 vetr, lagði Eyþjófr við hann ástfóstr svâ mikit, at hann mátti ekki ímóti honum láta, ok fyrir hans skuld gaf hann upp Háreki konúngi alla skatta af Bjarmalandi. Eigi launaði Ögmundr Eyþjófi betr enn svâ, at hann drap hann sofanda í sæng sinni, ok myrti hann síðan; var honum þetta því hægt at gjöra, at Eyþjófr hafði lagt hann í sömu sæng hjá sèr, ok aungan hlut ímóti honum látit, ok ætlaði hann gjöra sèr hann at óskasyni. Síðan skildi hann við menn Eyþjófs, ok fóru þeir þángat, sem þeim líkaði, en Ögmundr hafði 2 skip alskipuð. Var hann þaðan af kallaðr Ögmundr Eyþjófsbani. Ok þat sama sumar börðuzt þèr í Trönuvogum; ok var

Ögmundr þá 12[1] vetra, undi hann illa við, at hann hafði aungri hefnd framkomit við þik, ok því myrti hann Þórð stafnglám, fóstbróður þinn. Síðan fór hann at hitta gýgina[2], móður sína, er Grímhildr var kölluð, meðan hún var hjá mönnum; en þá var hún orðin at finngálkni; er hún maðr at sjá upp til höfuðsins, en dýr niðr, ok hefir furðuliga stórar klær ok geysiligan hala, svâ at þar með drepr hún bæði menn ok fènað, dýr ok dreka. Ögmundr herti þá á hana, at hún skyldi fyrikoma þèr, ok nú hefir hún lagzt á skóga með dýrum, ok er komin norðan[3] á England, ok leitar at þèr. Nú hefik sagt þèr hit ljósasta af Ögmundi. Þá mælti Oddr: þat þiki mèr von, at flestum mönnum veiti þúngt við hann, ef hann er slíkr, sem þú segir; en þó fýsir mik at finna hann. Verri er hann þó, sagði Rauðgrani, enn ek hefi sagt hann, því at hann má heldr kallast andi enn maðr, svâ at ek hygg at hann verði eigi af mönnum drepinn, en förum við til skipa fyrst! ok svâ gjörðu þeir; ok er þeir koma til sjófar, sá Oddr þar mörg skip fljóta, gengu þeir nú útá skipin, sá Oddr þar 2 menn, þá er af báru af öllum. Þeir stóðu upp ámóti Rauðgrana, ok heilsuðu þar fóstbróður sínum. Hann settist niðr ámillum þeirra, ok[4] bað Odd sitja. Rauðgrani mælti: hèr er kominn maðr sá, er þið fóstbræðr munuð hafa heyrt getit, er Oddr

[1]) 15, *B.* [2]) Gýðu, *B.* [3]) norðr, *E.* [4]) Sirnir, *B.*

heitir, ok er kallaðr Örvar-Oddr, ok vilik at at hann verði fóstbróðir vor; skal hann ok einn mestu ráða af oss, þvíat hann er vanastr hernaði. Sírnir svarar: er þetta Oddr sá, sem fór til Bjarmalands? Satt er þat, sagði Rauðgrani. Mèr þikir þá, sagði Sírnir, oss í veitt, at hann sè vor fóstbróðir. Fullvel líkar mèr þat, sagði Garðarr; binda þeir þetta með fastmælum. Þá spyrr Rauðgrani, hvert Oddr ætli at halda. Förum fyrst, sagði Oddr, vestr á við til Englands! Svá gjörðu þeir, at þeir sigla þartil, at þeir koma við land; tjölduðu þeir þá yfir skipum sínum, ok lágu þar nökkura stund.

20. Þat var einn veðrdag góðan, at þeir Sírnir ok Garðarr fóru á land, at skemta sèr, ok margir menn með þeim, en Oddr var við skip niðri. Rauðgrani sást þá ekki. Veðr var furðu heitt, ok fóru þeir fóstbræðr af klæðum ok á sund við vatn eitt. Þar var skógr nærri. Flestir voru menn þeirra at nökkurri skemtan. En er áleið daginn, sá þeir at dýr eitt furðu stórt kom fram úr skóginum; þat hafði mannshöfuð ok geysi stórar vígtennr; hali þess var bæði lángr ok digr, klærnar furðuliga stórar; sitt sverð hafði þat í hvörri kló, þau voru bæði björt ok stór. Þegar er þetta finngálkn kemr fram at mönnum, þá emjar þat ógrliga hátt, ok drap þegar 5 menn í fyrsta atvígi. Þá hjó hún með hverju sverði, en hinn þriðja beit hún með tönnunum, tvo sló hún með halanum, ok alla

til dauðs. Innan lítils tíma hafði hún drepit 60 manna. Þá var Garðarr klæddr, ok snarar þegar fram ímóti finngálkninu, ok höggr þegar með sverði til þess svâ hart, at sverðit hrýtr úr annari klónni ok út á vatnit; en hún höggr annari til Garðars með sverðinu, svâ at hann fèll þegar til jarðar, hljóp hún þá ofan á hann; í því kom Sírnir at með sverð þat brugðit, er Sniðill hèt, allra sverða bezt, svâ hvergi nam í höggi stað. Hann hjó til dýrsins ok af því annat sverðit, ok útá vatnit. Í því sló finngálknit hann undir sik, svâ at hann var þegar í óviti. Menn þeir, sem undan kvomust, hlupu til skipa, ok segja Oddi fall þeirra fóstbræðra ok margra manna annara, segja ok at eigi mætti við þá óvætti eiga, ok skaltu, Oddr! segja þeir, halda þegar í stað frá landi, ok forðum oss sem skjótast! Skömm mikil er þat, sagði Oddr, ef vèr skulum svâ íburt fara, at ek hefna ekki þeirra fóstbræðra, svâ vaskir menn sem þeir voru, ok skal þat aldrí! Tekr hann þá örvamæli sinn, ok gengr á land; ok er hann var skammt kominn, heyrðu þeir ógrlig læti. Litlu síðar sèr Oddr, hvar finngálknit ferr. Hann leggr þá eina af Gusisnautum á streng, ok skýtr í augat á dýrinu, ok út um hnakkann. Finngálknit gekk þá svâ hart at honum, at Oddr kom eigi boganum við; færði þat þá báðar klærnar í bríngu honum svâ hart, at honum var búit við at falla á bak aptr, en skyrtan dugði þá sem optar, svâ at klærnar

grönduðu ekki Oddi. Hann brá þá sverðinu, er hann var girðr með, bæði skjótt ok hart, ok hjó úr dýrinu halann, er þat ætlaði at slá hann með, en annari hendi hèlt hann því frá sèr, svâ þat náði ekki at bíta hann; en er þat hafði mist halann, rann þat til skógar grenjandi. Þá skaut Oddr annari Gusisnaut, hún kom aptan á bak dýrinu, ok smó fram í hjartat, ok út um brjóstit, fèll þá finngálknit til jarðar; hlaupa þá þar menn margir at dýrinu, ok lömdu ok hjuggu, er hvergi höfðu áðr þorat nær at koma; var dýrit þá með öllu dautt. Síðan lèt Oddr brenna dýrit, en færa þá fóstbræðr til skipa, ok græða. Síðan hèldu þeir áburt þaðan, ok sátu í Danmörk um vetrinn. Lágu þeir þá mörg sumur í hernaði, ok herjuðu um Svíþjóð, Saxland, Frakkland ok Flæmíngjaland, þartil at þeim Sírni ok Garðar leiddist hernaðr, ok settust at ríkjum sínum. Rauðgrani fylgir þeim, því at hann hafði komit af landi ofan, þá þeir voru búnir at sigla, eptir er Oddr hafði unnit finngálknit, ok sjaldan var Rauðgrani þá viðstaddr, er nökkurar mannraunir voru í, en hinn öruggasti[1] var hann, þá er þess þurfti við, ok latti sjaldan stórvirkja.

21. Nú leggr Oddr í hernað, ok hafði 3 skip vel skipuð; fór hann enn af nýju, at leita Ögmundar Eyþjófsbana; voru nú liðnir 10 vetr, síðan at Oddr fór af Risalandi. Þat var eitt kveld at Oddr lá við annes eitt, ok hafði tjald

[1]) ráðugasti, *B.*

á landi. Hann sèr, hvar maðr rær einn á skútu, sá sótti knáliga róðrinn, enda var hann furðu stór at sjá. Hann rær svâ hart at skipum Odds, at hvervetna brotnaði þat er fyri varð. Síðan gengr hann á land, ok þángat sem tjöldin voru, ok spyrr, hverr fyri skipunum rèði. Oddr sagði til sín, eðr hverr ertu? Hann kveðst Vignir heita, eðr ertu Oddr sá, er fór til Bjarmalands? Satt er þat, sagði Oddr. Hèr kann ek ekki um at tala, sagði Vignir. Því svâ? sagði Oddr. Því, sagði Vignir, at ek kann varla at ætla, at þú sèrt faðir at mèr, svâ lítill ok smáskítligr sem mèr sýnist þú vera. Hver er móðir at þèr? sagði Oddr, eðr hversu gamall ertu? Hildigunn heitir móðir mín, sagði Vignir, var ek fæddr upp á Risalandi, ok þar hefik uppvaxit, en nú em ek 10 vetra gamall; sagði hún mèr, at Örvar-Oddr væri faðir at mèr, ok hugða ek, at vera mundi hinn röskvasti maðr, en nú sè ek, at þú ert et mesta vesalmenni at sjá, ok svâ muntu at reyna. Oddr sagði: ætlar þú at þú munir miklu fleiri eðr meiri afreksverk vinna, enn ek hefi unnit? en við mun ek gánga frændsemi við þik, ok vert velkominn með mèr! Þat mun ek ok þiggja, sagði Vignir, ok þiki mèr þó hin mesta lítilmenska, at vera í bland við þik ok menn þína, þvíat mèr þikja þeir náliga líkari möðkum enn mönnum, enda þikir mèr allíkligt, at ek muni vinna meiri þrekvirki enn þú, ef ek lifi lengi. Oddr bað hann ekki forsmá menn sína. Um morg-

uninn bjuggust þeir til at sigla. Þá spyrr Vignir, hvert Oddr vildi halda. Hann kveðst vildu leita at Ögmundi Eyþjófsbana. Af honum fær þú ekki gott, þóttú finnir hann, sagði Vignir, þvíat hann er et mesta tröll ok óvættr, er skapast hefir í norðrálfu heimsins. Eigi mun þat satt, sagði Oddr, þar er þú frýðir mèr um vöxt ok afl ok mönnum mínum, at þú æðrist nú svâ, at þú þorir eigi at sjá nè finna Ögmund flóka. Eigi þarftu, sagði Vignir, at frýa mèr svâ hugar, en þessi þín orð skal ek launa þèr nökkurn tíma, svâ þikir þá eigi betr enn mèr nú; en segja mun ek þèr til, hvar Ögmundr er; hann er kominn í fjörð þann, er Skuggi heitir, hann er í Hellulands óbygðum, ok þeir 9 saman, hann ok flókadrengir hans; er hann því þar kominn, at hann hirðir ekki þik at finna; nú máttu sækja hann heim, ef þú villt, ok vita, hversu eð gengr. Oddr sagði svâ skyldu vera. Síðan sigla þeir þartil er þeir kvomu í Grænlands haf, snúa þá suðr ok vestr fyri landit. Þá mælti Vignir: nú skal ek sigla fyri skipi mínu í dag, en þèr haldið þar eptir! Oddr bað hann ráða; Vignir var þá skipstjórnarmaðr. Þeir sjá um daginn, hvar klettar 2 koma upp úr hafinu. Oddr undrast þat mjök; þar sigldu þeir ámillum klettanna. En er áleið daginn, sáu þeir ey mikla. Oddr bað þar atleggja. Vignir spurði, hvat því skyldi. Oddr bað 5 menn gánga á land, ok leita at vatni. Vignir kvað þess aunga þörf, ok sagði aungva

af sínu skipi fara skyldu. En er menn Odds kvomu á eyna, höfðu þeir litla stund þar verit, áðr eyin sökk, ok druknuðu þeir allir. Lýngi var vaxin ey sjá ofan. Ekki sáu þeir hana síðan upp koma. Horfnir voru ok klettarnir, þegar þeir sáu til. Oddr undrast þetta mjök, ok spurði Vigni, hverju þetta sætti. Vignir sagði: rètt þiki mèr þèr fara vit eptir vexti, nú mun ek segja þèr, at þetta eru sjóskrímsl tvö; heitir annat hafgufa, en annat lýngbakr; er hann mestr allra hvala í heiminum, en hafgufa er mest skrímsl skapat í sjónum; er þat hennar náttúra, at hún gleypir bæði menn ok skip ok hvali ok allt þat hún náir; hún erí kafi, svâ at dægrum skiptir, ok þá hún skýtr upp höfði sínu ok nösum, þá er þat aldrí skemmr enn sjófarfall, at hún er uppi. Nú var þat leiðar sundit, er vèr fórum ámillum kjapta hennar, en nasir hennar ok hinn neðri kjaptrinn voru klettar þeir, er yðr sýndist í hafinu; en lýngbakr var ey sjá, er niðrsökk; en Ögmundr flóki hefir sent þessi kvikendi ímóti þèr með fjölkýngi sinni, til þess at bana þèr ok öllum mönnum þínum; hugði hann, at svâ skyldi hafa farit fleiri, sem þeir at nú druknuðu, en hann ætlaði at hafgufan skyldi hafa gleypt oss alla. Nú siglda ek því í gin hennar, at ek vissa at hún var nýkomin upp. Nú höfu vèr getat sèt við þessum vèlum Ögmundar, en þó er þat mín hyggja, at af honum hljótir þú verst allra manna. Á þat mun nú verða at hætta, sagði Oddr.

22. Sigla þeir nú þartil at þeir koma til Hellulands, ok leggja inn á fjörðinn Skugga. En er þeir eru landfastir orðnir, gánga þeir feðgar á land, ok þartil sem þeir sjá, hvar virki stendr, ok sýnist þeim þat harðla rammgjört. Flóki gekk þá út á virkisarminn, ok hans fèlagar. Ögmundr heilsar þá Oddi blíðliga, ok frètti at erendum. Eigi þarftu at því at spyrja, sagði Oddr, þvíat ek vil hafa líf þitt. Hitt er ráð, sagði Ögmundr, at við sættumst heilum sáttum. Nei, sagði Oddr, þat skal verða aldrí, þvíat hitt var mèr í hug, þá er þú drapt ok myrtir Þórð stafnglám, fóstbróður minn, ok níddist á honum. Því gjörða ek þat, sagði Ögmundr, at mèr þótti eigi áðr jafnvegit, en nú þóttú hafir mik fundit, getr þú aldrí mik unnit, meðan ek em í virkinu, en nú býð ek þèr, at þið feðgar berist tveir við oss kumpána, ella munu vèr í virkinu fyrimælast. Þat skal vera, sagði Oddr, ok skal ek berjast við þik, Ögmundr! en Vignir við kumpána þína. Þat skal eigi vera, sagði Vignir, skal ek nú launa þèr frýuorðit þat, er þú lagðir mèr í fyrsta tíma, at við fundumst, at ek munda eigi þora at finna Ögmund. Þessa skiptis munu við iðrast síðar, sagði Oddr, þóat þú ráðir nú at sinni. Taka þeir síðan at berjast; var þat nær sjó; var þar harðr atgángr, sem þeir Ögmundr ok Vignir gengust at, þvíat hvortveggi þeirra var rammr at afli, ok hinir vopnfimustu. En svâ gekk Vignir hart at Ög-

mundi, at hann stökk norðr með sjófarhömrunum, en Vignir hljóp eptir, allt þartil er Ögmundr hljóp ofan fyrir hamrana í tó eina, en Vignir þegar eptir; þar var fertugt ofan. Þá tóku þeir til, ok glímdu með miklum atgángi ok ómannligum, þvíat þeir ruddu upp jörðu ok grjóti sem lausri mjöllu[1]. Nú er þar til at taka, sem Oddr er; hann hafði kylfu stóra í hendi, þvíat aungan Flóka drengja bitu járn; lamdi hann þá hart með kylfunni, svâ at á lítilli stundu hafði hann drepit þá alla, sem hann átti við, ok var hann lítt móðr, en ekki sárr, olli því skyrta hans. Þá fýsir Odd at leita at Vigni, ok vita hvat af honum mun orðit; gengr hann þá fram með hömrunum, þartil at hann kemr þar at uppi yfir, sem þeir Vignir ok Ögmundr höfðu atgengizt, ok í því brá Ögmundr Vigni, svâ at hann fèll, ok þegar jafnskjótt greyfðist hann niðr at honum, ok beit sundr í honum barkann, lèt Vignir svâ líf sitt. Þá sýn sagðist Oddr svâ sèt hafa, at honum hafi verst þótt, ok mest viðbrugðit. Ögmundr mælti þá: nú þætti mèr þèr, Oddr! betra hafa verit, at við hefðum sæzt, sem ek bauð, þvíat nú hefir þú fengit þann mannskaða af mèr, at þú munt aldrí bætr bíða, þar sem Vignir er dauðr, son þinn, sá maðr at ek hygg fræknastan ok sterkastan orðit hafa á Norðrlöndum, þvíat hann var nú 10 vetra gamall, ok hefði hann mik yfirunnit, ef ek væri alþýðligr

[1] moldu, B.

maðr, en nú em ek eigi síðr andi enn maðr, en svâ hefir hann hart kreist búk minn, at hann hefir náliga brotit í mèr hvert bein, svâ at þau skrapa öll innan í skinninu, svâ at ek væra dauðr, ef ek hefði eðli til þess; en engan mann hræðumst ek í veröldunni nema þik, ok af þèr mun ek nökkut íllt hljóta, hvort þat verðr fyrr eðr síðar, enda áttu nú þín í at hefna! Oddr varð þá ógrliga reiðr, ok stökk hann þegar ofan fyrir hamrana, ok kom standandi niðr í tóna. Ögmundr brá þá skjótt við, ok skeypti sèr ofan fyrir hamrana í sjóinn at höfðinu, svâ hvítfysti upp ámóti. Ekki kom Ögmundr upp síðan, svâ Oddr gæti þat sèt. Síðan skildu þeir Ögmundr í því sinni, ok undi Oddr við hit versta, ok fór hann síðan til skipa sinna, ok lagði áburt, ok hèlt til Danmerkr, ok fann þar Garðar, fóstbróður sinn, ok tók hann við honum harðla vel.

23. Oddr sat í Danmörk þann vetr, en at vori lögðu þeir Garðarr í hernað, ok gjörðu orð Sírni til Gautlands; fór hann til móts við þá, ok var Rauðgrani þar í ferð. Rauðgrani spurði Odd, hvert hann vildi á halda. Hann kveðst vilja leita Ögmundar Eyþjófsbana, ok vita ef hann gæti fundit hann. Rètt þikir mèr þèr fara sem klárnum, sagði Rauðgrani, hann sækir þángat mest, sem hann er kvaldastr, enda sækir þú eptir Ögmundi, en fær af honum í hvert sinn, er þið finnizt, bæði skömm ok

skaða, ok ekki þarftu þat at ætla, at Ögmundr hafi batnat, síðan þið skilduð; en segja má ek þèr, hvar hann er niðrkominn, ef þèr er forvitni á því: austr er hann kominn til Geirröðar jötuns í Geirröðargarða, ok hefir fengit Geirríðar, dóttur hans, ok eru þau bæði hin mestu tröll, ok let ek þik at fara þángat. Oddr kveðst fara skyldu eigi at síðr. Síðan bjugg-ust þeir allir fóstbræðr í Austrveg, ok er þeir kvomu austr at Geirröðargörðum, þá sáu þeir, hvar maðr var á báti, ok sat tilfiskjar. Þat var Ögmundr Eyþjófsbani reyndar; hann hafði yfir sèr loðkápu. En þá er þeir Oddr skildu, fór Ögmundr í Austrveg, ok gjörðist mágr Geirröðar jötuns, ok skattgildi alla konúnga í Austrvegi á þann máta, at þeir skyldu allir senda honum á 12 mánuðum hverjum kampinn efra ok neðra af sjálfum sèr. Þaraf hafði Ögmundr látit gjöra sèr þá sömu kápu, er þá hafði hann. Þeir Oddr lögðu þá at bátinum, en Ögmundr hèlt undan, rèri hann þá heldr sterkliga. Þeir fóstbræðr hlupu þá allir á eitt skip, ok rèru eptir honum heldr rammliga, ok tóku tveir hverja ár, en svâ rèri Flóki sterkliga, at hvorki dró með þeim sundr nè saman, ok allt þartil at þeir kvomu at landi. Þá hljóp Ögmundr á land, ok skildi við bát sinn í flæðarmáli. Oddr var skjótastr á land af sínum mönnum, ok þar næst Sírnir, ok hlaupa báðir eptir Ögmundi. En er Ögmundr sèr, at þeir muni finnast, þá mælti hann, ok kvað vísu:

Beiði ek Geirröð
með goða hylli
kappa hinn stærsta[1]
koma mèr at bjarga,
ok beðju mína
beint sem áðra,
því at nú þarf ek allra
þeirra gengis.

Þá sannast hit fornkveðna, at þar var örg vættr, ems hún var nefnd. Kom Geirröðr þar með allt sitt fólk, voru þau fimtígir saman at tölu. Þá kom Garðarr ok menn þeirra Odds eptir, slær þá í enn harðasta bardaga. Var Geirröðr heldr stórhöggr, svâ at hann hafði á lítilli stundu drepit 15 menn fyrir Oddi. Oddr leitaði þá at Gusisnautum; tók hann þá Hremsu, ok lagði hana á streng, ok skaut. Hún kom fyri brjóst Geirröði, ok út um herðarnar; áfram gekk Geirröðr við skotit, ok varð 3gja manna bani, áðr enn hann fèll dauðr at jörðu. Geirríðr var ok mannskæð, því at hún drap á lítilli stundu átjan[2] menn. Þá snèri Garðarr ámóti henni, ok átti við hana höggvaviðskipti, en svâ lauk með þeim, at Garðarr hnè dauðr at velli. En er Oddr sá þat, varð hann reiðr ákafliga; lagði hann þá Gusisnaut á streng, ok skaut henni undir höndina hægri á Geirríði, ok út um hina vinstri. Ekki sáu þeir hana gefa sik við þat; óð hún þá fram í fylkínguna, ok drap 5 menn.

[1]) sterka, E. [2]) 15, B.

þá skaut Oddr annari Gusisnaut; hún kom í smáþarmana á Geirríði, ok út um lendarnar á henni; dó hún þá litlu síðar. Ögmundr var ok eigi ruðulítill í bardaganum; því at hann hafði drepit á lítilli stundu 30 manna, áðr Sírnir snýr ímóti honum, ok eigast þeir við harðan atgáng, ok bárust skjótt sár á Sírni. Litlu síðar sèr Oddr, at Sírnir hrökk fyrir Ögmundi, snýr hann því þángat til, en er Ögmundr sá þat, snýr hann á flótta, ok hleypr heldr rammliga, en þeir Sírnir ok Oddr eptir, fara þá hvorir, sem mest geta. Ögmundr var í kápu sinni hinni góðu, en er samandró með þeim, kastar Ögmundr kápunni, ok kvað vísu:

Nú mun ek kasta verða[1]
kápu minni,
þeirri er gjör var
af grön jöfra,
en hlaðbúin
á hliðar báðar,
mun ek hennar mjök móðr
missa verða.

Þeir elta mik
allsýsliga[2],
Oddr ok Sírnir,
orrostu ífrá[3].

En svâ sem Ögmundr var lèttbúnari, dró hann undan. Oddr herti sik þá, ok varð hann fljótari enn Sírnir; ok er Ögmundr sá þat, snýr

[1]) *v. í B.* [2]) alltómliga, *B.* [3]) *seinustu stukuna v. í B.*

hann ámóti honum, ok ráðast þeir á; var þeirra glíma ok atgángr bæði harðr ok lángr, þvíat Oddr hafði ekki afl við Ögmund, en eigi kom hann honum af fótunum. Þá kom Sírnir at með brugðit sverðit Sniðil, ok ætlaði þegar at höggva til Ögmundar, en er hann sá þat, brá hann Oddi fyrir höggit. Þá heftir Sírnir sik; fór svâ jafnan, at Ögmundr hafði Odd fyri skjöldinn, ok því varð ekki af tilræðum Sírnis, en þóat á Odd kæmi, varð hann ekki sárr sakir skyrtu sinnar hinnar góðu. Þat var einn tíma, at Oddr stakk báðum fótum í einn jarðfastan stein, ok gekk svâ hárt á, at Ögmundi var búit at kikna við. Í því hjó Sírnir til Ögmundar, þá varð honum eigi ráðrúm til, at skjóta Oddi fyrir höggit. Þat högg kemr aptan á þjóhnappana, ok tók Sniðill þá slíkt, er hann nam; hjó Sírnir þá svâ mikinn hlut úr kríkum Ögmundar, at enginn hestr dregr meira. Við þat bregðr Ögmundi svâ, at hann fór þar þá niðr, sem hann var kominn. Oddr greip þá báðum höndum í skegg honum með svâ miklu afli, at hann reif þat allt af honum ok skeggstaðinn niðr at beini, ok þar með alla ásjónuna með báðum vángafyllunum, ok svâ gekk upp um ennit ok aptr á miðjan haus, ok þar skildi með því, at svörðrinn slitnaði, en Oddr hafði þat, er hann hèlt. Jörðin luktist saman fyrir ofan höfuðit á Ögmundi, ok skildi svâ með þeim. Fara þeir Oddr ok Sírnir til skipa sinna, ok höfðu fengit

mikinn mannskaða; var Oddi þat hinn mesti harmr, at hann hafði mist Garðar, fóstbróður sinn. Rauðgrani var ok horfinn, svâ at þeir Oddr ok Sírnir vissu aldrí, hvat af honum varð, þegar þeir fundu Ögmund á bátinum; var þá enn sem optar, at hann hafði sik sjaldan í mannhættu, en var hinn harðasti í öllum tillögum. Ekki sáu þeir fóstbræðr Rauðgrana síðan, svâ at getit sè, þikir mönnum sem Óðinn muni þat verit hafa reyndar. Hèldu þeir fóstbræðr áburtu, ok þikir mönnum Oddr enn eigi gott hafa fengit af Ögmundi, mist Garðar, fóstbróður sinn, hinn röskvasta mann er verit hefir, enda hafði Oddr ok þeir miklu orkat í drápi óvætta þeirra, sem verit höfðu með Ögmundi, bæði nú ok fyrri. Hafði Geirríðr átt son eptir við Ögmund Eyþjófsbana, er Svartr hèt; hann var þá þrèvetr, er hèr var komit sögunni; hann var mikill ok líkligr til þess at illr maðr mundi af honum skapast.

24. En er Oddr kom heim til Gautlands með fóstbróður sínum, bauð Sírnir honum þar at sitja um vetrinn. Þat þektist Oddr, ok er á leið vetrinn, ógladdist hann fast; kvomu honum þá í hug harmar sínir, þeir er hann hafði fengit af Ögmundi flóka; þó hugsast honum svâ til, at hann mun eigi hætta lengr fóstbróður sínum til at berjast við Ögmund, því at hann þóttist þar stóra skaða hafa affengit. Verðr þat

þá hans ráð, at leynast íburt einn á náttarþeli, ferr hann þá at flutníngum, þar sem þeirra þarf við, en stundum ferr hann um merkr ok skóga, ok ratar hann harðla stóra fjallvegu; hann hefir þá örvamæli sinn á baki sèr; ferr hann nú víða um lönd, ok kemr svâ ráði hans, at hann hafði þat eitt til atvinnu sèr, er hann skaut fugla fyri sik. Hann spennir þá at sèr um bol ok fætr næfrum. Síðan gjörir hann sèr næfrahött mikinn á höfuð sèr; er hann ekki öðrum mönnum líkr, meiri miklu enn allir menn aðrir, er hann er allr þakinn næfrum[1]. [Nú er ekki[2] sagt frá honum fyrr enn[3] hann kemr úr mörkuni fram, ok sèr hann, at hèruð hefjast upp fyrir honum. Hann sèr at þar stendr einn bær mikill, en þar var annarr bær skamt frá. Þat kom honum í hug at hann mundi snúa á hinn minna bæinn; þat hafði hann aldrí fyrr freistat. Hann gengr þar at dyrum. Þar var maðr fyri dyrum, ok klauf skíð; sá var lítill vexti, ok hvítr fyrir hærum. Hann heilsar þeim vel, er kominn var, ok spurði karl hann at nafni. Næframaðr heiti ek, sagði hann, en hvat heitir þú? en hann nefnist Jólfr. Hèr muntu vera vilja í nótt, sagði karl. Þat skal þiggja, sagði Næframaðr. Nú fylgir karl honum í stofu, ok sitr þar kerlíng ein á stóli. Hèr er gestr, kvað

[1]) *Það undanfarna frá 19 kap. byrjun v. í M.* [2]) *Hèr vantar blað í B.* [3]) Svâ liggr hann úti lengi únst, *M.*

karl, at þú skalt við sæma, er ek á margt at annast. Kerlíng veinaði mjök, ok kvað þat opt, at hann byði mönnum gistíng, en ekki er til fram at bera. Nú gengr karl áburt, en þau kerlíng sitja tvö eptir. Ok um kveldit er Jólfr kom inn, er borð sett fyri þá, ok kom fram diskr, en þeim megin sem Næframaðr sat, þá leggr hann fram kníf góðan. Hólkar voru tveir á knífnum, annarr úr gulli, en annarr úr silfri. En er Jólfr sèr þat, þá seilist hann til knífsins, ok lítr á. Þú hefir góðan kníf, fèlagi! sagði karl, eða hversu komstu at gersemi þessi? Næframaðr mælti: þá ek var á únga aldri, brendum vèr salt eigi allfáir saman, at þar rak skip at landinu, sem vèr vorum. Þeir brutu skip sitt í spón, ok rak upp mennina, ok voru máttlitlir, ok gjörðu nær skjótt um við þá, ok hlaut ek kníf þenna í mitt hlutskipti, en ef svâ vel væri, at þèr, karl! þætti nökkuru nýtr, þá mun ek gefa þèr knífinn. Gefðu allra manna heilastr, sagði karl, ok sýnir nú kerlíngu sinni knífinn. Hèr er á at sjá, sagði hann, ok er sjá knífrinn engu verri, enn sá er [ek átta fyrr[1]. Eptir þat taka þau til fæðu, ok síðan var Næframanni fylgt til svefns, ok svófu af þá nótt, ok vaknaði Næframaðr ekki fyrr, enn Jólfr var íburtu, ok kalt var rúm hans. Þá tók hann til orða: mun eigi ráð at standa upp, ok fara áburt ok leita sèr

[1]) konúngr á heima, *M.*

dagverðar annarstaðar. Kerlíng sagði, at karl vill, at hann bíði hans heima. Þat var nær miðjum degi at karl kom heim, enda var Næframaðr þá á fótum. Þá voru borð framsett; þar kom fram diskr á borðit, en þeim megin, sem karl sat, þá leggr hann fram steinörvar 3 hjá diskinum. Þat voru svâ stór skeyti ok fögur, at Næframaðr þóttist aldrí sèt hafa vænni þesskyns skeyti. Hann tekr upp, ok lítr á; þetta skeyti er vel smíðat, sagði hann. Væri svâ vel, sagði karl, at þèr þætti vel gjört, þá vil ek gefa þèr. Næframaðr brosti at, ok mælti: eigi veit ek, at ek muna þurfa at bera eptir mèr steinörvar þessar. Þat veiztu aldrí, Oddr! sagði karl, hvenær þú þarft þeirra við; veit ek at þú heitir Örvar-Oddr, ok ert son Gríms loðinkinna norðan úr Hrafnistu. Þat veit ek ok, at þú hefir örvar 3, er kallaðar eru Gusisnautar, en þat mun þèr kynligt þikja, ef þú kemr þar eitthvert sinn, ef þèr duga ekki Gusisnautar, at þèr dugi steinörvar þessar. Þar er þú veizt, at ek heiti Oddr, ok segir þèr engi, ok svâ þat, at ek hefi örvar þær, er Gusisnautar heita, þá má vera, segir Oddr, at þú vitir þat, sem þú segir fyri; skal ek víst þiggja örvarnar, ok lèt koma í örvamæli sinn. Hvat segir þú til þess, karl! sagði Oddr, ræðr konúngr fyri landi þessu? Já, sagði karl, ok heitir hann Herrauðr. Hvat er göfugra manna með honum? sagði Oddr. Þar eru 2 menn, sagði karl, ok heitir annarr Sigurðr, en annarr Sjólfr;

þeir eru öndvegishöldar konúngs ok hinir mestu bardagamenn. Hvat (á) konúngr barna? sagði Oddr. Hann á eina dóttur væna, er Silkisif heitir. Er hún væn kona? sagði Oddr. Já, sagði karl, engi er önnur jafnfríð í Garðaríki ok víðar annarstaðar. Hvat ætlar þú, karl! sagði Oddr, hversu þeir taki við mèr, ef ek kem þar, ok skaltu ekki segja, hverr ek em. Halda mun ek mega munni mínum, sagði karl. Þeir fara nú til konúngs hallar, þá setr karl við fætr, ok vill eigi gánga lengra. Því setr þú nû fætr við? sagði Oddr. Því, sagði karl, [at ek er færðr í fjötr[1], ef ek kem hèr inn, ok verð ek því fegnastr, at ek komumst íburt. Já, sagði Næframaðr, við skulum ryðjast at báðir saman, ok má ek ekki annat, enn þú farir (með), ok þrífr nú til hans. Síðan gánga þeir inní höllina. Sem hirðmenn konúngs sjá karl, þyrpast þeir at honum, en Næframaðr styðr hann, svâ at þeir hrjóta af strengjum[2]. Nú hörfa þeir innar eptir höllinni, til þess at þeir koma fyri konúng. Karl kvaddi vel konúng. Konúngr tók því vel; þá spyrr konúngr, hvern hann leiddi þar eptir sèr. Eigi má ek þat vita, sagði karl, ok verðr hann þat sjálfr at segja, hverr hann er. Ek heiti Næframaðr, sagði hann. [Hverr ertu, fèlagi[3]! sagði konúngr. Þat veit ek[4], sagði hann,

[1]) *þannig D;* rokuð, *A;* þrældôm, *E; í stað þess frâ [ hefir M:* ávalt, er ek kem hèr inn, þá er mèr nokkut illt gert. Ek mun styðja þik, sagði Næframaðr, ok Næframaðr rèð þessu. [2]) *þannig A;* allir, *M.* [3]) Hvar ertu fæðíngi, *M.* [4]) eigi, en litt veit ek, *b. v. M.*

at ek er hvívetna eldri, ok er hvorki vitit nè minnit heima hjá mèr, ok hefik lengi legit úti á mörkum nær alla æfi mína, en bráð eru brautíngja erendi, konúngr! ek vil biðja þik veturvistar. Konúngr svarar: ertu at nökkuru íþróttamaðr? Þat ferr fjarri, sagði[1] hann, þvíat ek em óliprari enn aðrir menn. Nennir þú nökkuru? sagði konúngr. Ek kann ekki at vinna, enda nennek ekki at vinna, sagði Næframaðr. Þá horfir allóvænt, sagði konúngr, fyri því at ek hefi þess heitstrengt, at taka við þeim einum mönnum, at þeir sè at nökkuru íþróttamenn. Aldrí kann ek einn hlut at gjöra, sagði Næframaðr, þann öðrum sè gagn at. Kunna muntu at draga saman dýr, ef menn skjóta, sagði konúngr. Þá má vera, at ek fara til þess eitthvert sinn. Hvar vísar þú mèr til sætis? sagði Næframaðr. Þú skalt sitja utar hinum óæðra megin, þar sem mætast þrælar ok frelsíngjar. Nú fylgir Næframaðr karli út, ok snýr eptir þat til sætis, þar sem honum var vísat. Þar sátu fyri bræðr tveir; hèt annarr Óttarr, en annarr Íngjaldr. [Far híngat, fèlagi! segja þeir, ok skaltu sitja ímillum okkar; ok þat þiggr hann. Þar leggst á sitt knè honum hvorr þeirra, ok spyrja af hverju landi, er þeim kom í hug, en ekki vita menn til, hvat þeir töluðu. Hann festi upp á tjaldsnagla örvamæli sinn yfir sik, en staflurk undir fæti sèr. Jafnan biðja þeir hann,

[1]) *hèr byrjar aptr B.*

at þeir skyldu hirða belginn, ok þikir hann vera óhræsi mikit, en hann kvað eigi nær skyldu fara, at hann skyldu áburt borinn frá honum; ok þess gekk hann hvergi, at hann hefði hann eigi með sèr. Þeir bjóða honum at kaupa at honum, at hann láti af höndum næfrarnar, ok munu vèr gefa þèr til góð klæði, segja þeir. Eigi má svâ vera, sagði hann, þvíat ek hefi aldrí önnur borit, enda skal eigi önnur hafa, meðan lífit er.

25. Nú sitr Næframaðr þar, ok drekkr jafnan lítit um kveldin, ok leggst snemma niðr[1]. Svâ ferr fram, þartil er menn skulu fara á dýraveiðarnar; [þat var um haustit. Nú tekr Íngjaldr til orða um aptaninn, at þar væri undir, at vèr værum snemma á fótum á morgin. Hvat skal þá? sagði Næframaðr. Nú segir Íngjaldr, at fara skal á veiðar. Síðan leggjast þeir niðr um kveldit, en[2] um morguninn standa þeir upp bræðr, ok kalla at Næframanni, ok geta víst eigi vakit hann, svâ sefr hann fast, ok vaknar hann ekki, fyrr enn hverr maðr var áburtu, sá er á veiðar vildi fara. Næframaðr tók til orða: hvat er nú, hvort eru menn búnir? Íngjaldr svarar: búnir! sagði hann, heldr er hverr maðr áburtu, ok höfum vèr þik vakit í allan morgin, ok munu vèr aldrí fá dýr skotit í dag. Þá mælti Næframaðr: hvort eru þeir allmiklir íþróttamenn, Sjólfr ok Sigurðr, um alla

[1]) þeir spyrja hann tíðenda af ýmsum löndum; aðrir menn vita eigi, hvat þeir tala, *M.* [2]) *v. í M.*

hluti. Þá sæi þat, sagði Íngjaldr, ef nökkr lèki ímóti þeim. Þeir koma nú í fjallit, ok hlaupa dýr hjá þeim, ok draga þeir upp boga sína, bræðr, ok er þeir skyldu freista at skjóta dýrin, þá hæfðu þeir aldrí eitt dýr. Þá mælti Næframaðr: aldrí hefi ek sèt, sagði hann, jafn óliðliga atfarit, sem þið farið at, eða því getið þið svâ ófimliga atfarit at þessu. Þeir segja: þat höfum vèr sagt þèr, at við værum óliprari enn aðrir menn, en orðit aldrí búnir í morgin, ok höfum þat nú dýranna, er aðrir hafa áðr [æst upp ok fælt[1]. Næframaðr mælti þá: eigi kann ek þat at sjá, at ek mega ófimligar atfara, ok látið híngat bogann, ok vil ek reyna. Þeir gjöra nú svâ, hann dregr upp bogann, ok ræða þeir um, at hann skuli eigi brjóta, en hann dró örina fyrir odd, ok rykkir í sundr boganum í 2 hluti. Nú hefir þú gjört illa, segja þeir, ok er okkr þetta mein mikit; er nú örvænt, at vèr munum aldrí dýr fá skotit í degi. Eigi hefir nú vænliga tiltekizt, segir hann, eða hversu líkligr þikir yðr stafr minn til boga, eða er ykkr nokkur forvitni á at vita, hvat í belg mínum er. Já, segja þeir, þar er okkr allmikil forvitni á. Þá skulu þið breiða niðr skikkjur ykkrar, ok mun ek steypa úr því, er í er. Svâ gjöra þeir, en hann steypir því niðr á skikkjurnar, er í var. Síðan bregðr hann upp boga sinn, ok leggr ör á streng, ok skýtr fram yfir höfuð þeim mönnum öllum, er á veið-

[1]) niðrfellt, B.

inni voru. Svâ lætr hann um daginn, sem þat eitt sè, at skjóta dýr þau, er fara fyri þeim Sigurði ok Sjólfi. Hann skýtr öllum skeytum sínum nema sex örvum, steinörvum karls ok Gusisnautum; misti hann aldrí dýrs um daginn; en þeir hlaupa hjá honum bræðr, ok þótti þeim mikit gaman at sjá þat, er hann skaut. En um kveldit, er menn kvomu heim, þá voru hvers manns skeyti fram borin á borð fyri konúng, ok hefir hverr maðr markat sín skeyti, ok skal konúngr sjá, hversu mörgum dýrum hverr hefir at bana orðit um daginn. Nú mæltu þeir bræðr: far þú inn-ar, Næframaðr! eptir skeyti þínu, þat mun vera lagt á borð fyri konúng. Farið þið, sagði hann, ok eignið ykkr skeytit! Þat tjáir okkr ekki, segja þeir, þvíat konúngr veit íþróttir okkrar, at vèr kunnum síðr at skjóta enn aðrir menn. Þá skulu vèr fara allir saman, sagði hann. Nú gánga þeir innar fyri konúng, nú tók Næframaðr til orða: hèr eru skeyti þau, er vèr munum eigna oss, fèlagar. Konúngr leit við honum, ok mælti: bogmaðr ertu mikill. Já, herra! sagði hann, því hefi ek helzt vanizt, at skjóta dýr ok fugla til matar mèr, ok eptir þat gánga menn í sæti sín. Nú líða stundir[1].

26. Þat var einhvern aptan, þá er konúngr er útgenginn til svefns, at þeir rísa upp, Sigurðr ok Sjólfr, ok gengu með sitt horn hvorr þeirra, ok bjóða þeim at drekka bræðrum, Óttari ok Íngjaldi,

[1] *frásögnin í M er öll styttri í þessum kapítula.*

ok báðu þá at taka við ok drekka af; ok er þeir höfðu afdrukkit, þá kvomu þeir með önnur 2, ok taka þeir við ok drekka. Þá mælti Sjólfr: liggr sá ávalt, fèlagi ykkarr? Já! segja þeir, þat þikir honum vænligra, enn at drekka frá sèr vit allt, sem vèr gjörum. Þá mælti Sjólfr: hvert er hann allvel skotfær? Já! segja þeir, þat er honum jafnvel gefit sem annat. Hvort mun hann skjóta jafnlángt sem við báðir? sagði Sjólfr. Þat ætlum vèr, segja þeir, at hann muni miklu lengra skjóta ok gegnara. Hèr skulu vèr veðja um, sagði Sjólfr, ok skulu við leggja við hríng þann, er vegr hálfa mörk, en þið skuluð leggja við 2 hrínga jafn þúnga. Svâ er þar fyrimælt, at konúngr skal þar vera ok dóttir hans, ok sjá á skot þeirra, ok skulu þau taka við hríngunum áðr, ok fá þeim, er eigandi verða, ok veðja þeir síðan; sofa þeir af nóttina. En um morgininn, er þeir vakna bræðr, þá kemr þeim í hug, at eigi væri allsvinnlig veðjan þeirra orðin, en þat verðr þeim fyrir, at þeir segja Næframanni. Allóvænliga þikir mèr veðjat vera, sagði hann, af því þóat ek fái skotit dýr, þá er þat lítit mark, hjá því sem at keppa við þvílíka bogmenn; en þó mun ek freista alls, er þið hafið fè ykkart viðlagt. Nú taka menn til drykkju, ok eptir drykkjumálit gánga menn út, ok vill konúngr nú sjá skotit. Nú gengr Sigurðr fram, ok skýtr, sem hann má lengst, ok er þar settr niðr staur, ok þar gengr Sjólfr til, er stikat er. Þá er niðr-

sett spjótskapt, ok sett á ofan gulltafla, ok skýtr Sjólfr þar ofan af töfluna, ok þikir öllum nú vel skotit, ok segja at Næframaðr muni eigi þurfa við at leita. Opt gefr óvænum happ, sagði Næframaðr, ok skal at vísu áleita. Nú gengr Næframaðr til, ok skýtr með einni ör, ok stendr þar sem Sigurðr hafði staðit. Hann skýtr í lopt upp, svâ at örina fal lengi, en þó kemr hún þar niðr, sem taflan stendr, ok ofan í miðja töfluna, ok svâ í spjótskaptit, at hún þokaði aunganvegin við. Svâ vel sem skotit var hit fyrra sinn, segir konúngr, þá er nú miklu betr skotit, ok þat má ek segja, at aldregi hefi ek sèt jafnvel skotit. Nú tekr Næframaðr ör aðra, ok skýtr svâ lángt, at engi sèr fyrir enda, hvar niðr kemr, ok er þat nú einmælt, at unninn sè leikrinn. Eptir þat gánga menn heim, ok taka þeir bræðr við hrínginum. Þeir færa hann Næframanni; hann kveðst eigi vilja hafa fè þeirra at svâ búnu. Nú líða nökkrir dagar; ok var þat enn eitt kveld, sem konúngr er útgenginn, at þeir Sigurðr ok Sjólfr gánga með sitt horn hvorr þeirra, ok bjóða þeim Óttari ok Íngjaldi. Þeir drekka af síðan. Færa þeir þeim önnur 2. Þá mælti Sjólfr: enn liggr Næframaðr, ok drekkr ekki. Hann mun betr siðaðr en þú um allt, sagði Íngjaldr. Hitt get ek meir til, sagði Sjólfr, at hann muni sjaldan verit hafa í samsæti við dugandismenn, ok mun hann optar hafa legit úti á mörkum ok skógum með fátæki, eðr hvort mun hann syndr

vel? Við ætlum honum flesta hluti jafngefna, þá sem til íþrótta eru, segja þeir, ok ætlum við hann syndan hlýtar vel. Hvort mun hann betr syndr einn enn vèr báðir? Þat ætlum vèr, at hann sè betr syndr, sagði Óttarr. Hèr skulu við veðja um, sagði Sjólfr, ok munu við leggja við þann hríng, er vegr mörk, en þit skuluð leggja við 2 hrínga, er vegi hálfa mörk hvorr. Nú er svâ fyrimælt, at konúngr ok dóttir hans skal sjá á sund þeirra; ok er at öllu svâ fyrimælt sem hit fyrra sinn. Þeir sofa af um nóttina. En um morguninn er þeir vakna, ferr um bekki veðjun þeirra. Hvat er hjalat? sagði Næframaðr, hvort hafi þið enn veðjat nökkut í gærkveldi? Já! segja þeir, ok segja nú honum, hversu veðjat var. Nú þiki mèr allóvænt horfa, sagði Næframaðr, fyri því at ek er alls ekki syndr, ok kunna ek eigi upphald, þá er ek gjörða mèr títt um, en nú kom ek aldrí á kalt vatn lángliga, en lagt við of fjár. Já, segja þeir, eigi þarftu at reyna, nema þú vilir, varðar eigi, þóat vèr gjöldum heimsku okkarar. Þat skal aldrí verða, sagði Næframaðr, at ek freista eigi, þar sem þið leggið á mik virðíng mikla, ok skal konúngr sjá ok Silkisif, at ek mun fyri víst til sundsins gánga við þá. Nú er konúngi sagt ok dóttur hans, ok gánga menn nú til vatnsins, ok var þat mikit ok skamt íburtu. En er þeir koma til vatnsins, sezt konúngr niðr, ok liðit með honum, en þeir fara á sund í klæðum sínum, en

Næframaðr í þeim búníngi, sem hann var vanr. Þeir leggjast at honum, þegar þeir koma frá landi[1], ok færa hann í kaf undir sik, ok hèldu honum lengi niðri. Þar kom at þeir lètu hann upp, ok taka þeir hvíld. Þeir leggjast ámóti honum í annat sinn. Hann seildist til þeirra, ok tekr sinni hendi hvorn þeirra, ok rak þá í kaf, ok heldr þeim svâ lengi niðri, at örvænt þótti at þeir mundu uppkoma. Hann ætlar þeim skamma hvíld, ok tekr þá í annat sinn, ok færir þá niðr, ok í þriðja sinn, ok heldr þeim svâ lengi niðri, at aungir ætluðu at þeir mundu lífs upp koma. En þat varð enn, at þeir koma upp allir, ok stökk þá blóð úr nösum hvorutveggja þeirra öndvegishölda konúngs, ok voru þeir ekki sjálfbjarga til lands. Þá tók Næframaðr þá, ok kastar þeim uppá land. Síðan gekk hann á sund, ok lèk marga leika, þá sem mönnum var títt at leika á sundi. En um kveldit gekk hann á land ok til fundar við konúng; ok nú spyrr konúngr: hvort ertu ekki öðrum mönnum líkr um íþrottir, bæði um skot ok sund. Sènar eru nú allar mínar íþróttir, er þessar eru, sagði Næframaðr; ek heiti Oddr, ef þú villt þat vita, en ek kann eigi greina fyri þèr um kyn mitt. Nú fèkk Silkisif honum hríngana. Síðan gánga menn heim. Þá mæltu þeir, at Oddr skuli hafa hríngana alla, en hann vill eigi þat,

[1]) *Þat undanfarna frá byrjan kapitulans er allt með öðrum orðum ok styttra í M, sem öldúngis sleppir við málinu um skotin.*

ok skulu þið hafa þá sjálfir. Nú ferr svâ fram nökkra hríð, ok eigi lánga; er konúngr um þetta mál mjök hugsjúkr, hverr sá maðr muni vera, er þar var með honum.

27. Maðr er nefndr Hárekr, er þar var með konúngi; hann hafði mikla virðíng af konúngi; hann var gamall maðr. Hann fóstraði konúngsdóttur. Jafnan hjalaði konúngr við hann um þetta mál, en hann kveðst eigi vita, ok sagði svâ, at honum leizt þat líkligt, at maðr sjá mundi vera stórrar ættar. Þat var eitt kveld, þá er konúngr var til svefns farinn, at þeir Sjólfr ok Sigurðr gánga utar fyri þá bræðr, ok færa þeim horn 2, ok drukku þeir af þeim. Þá tók Sjólfr til orða: liggr Oddr hinn mikli? Já, segja þeir, þat er svinnligra, enn at drekka frá sèr vitit allt, sem vèr gjörum. Þat mun valda at hann mun vanari vera, at liggja úti á [mörkum eða vötnum[1], enn at drekka með góðum mönnum, eða hvort mun hann mikill drykkjumaðr? Já, segja þeir. Hvort mun hann meiri drykkjumaðr einn, enn við báðir? sagði Sjólfr. Þat ætlum við, sagði Óttarr, at hann drekki miklu meira. Hèr skulu vèr veðia um, sagði Sjólfr, ok munu við leggja við hríng þann, er stendr 12 aura, en þið skuluð leggja við höfuð ykkr. Þetta mál festa þeir með sèr, sem hin fyrri. Nú spyrr Oddr um morguninn, hvat talat væri. Þeir segja honum. Nú hafi þið svâ heimsk-

[1]) skógum, *M.*

liga veðjat, sagði Oddr, at miklu hafi þið nú viðaukit um þær, er fyrri voru, en lagt hèr við höfuð ykkr, en eigi er víst, at ek sè því meiri flögum, sem ek er meiri vexti enn aðrir menn, en ek skal eigi at síðr tilráða drykkjunnar við þá. Síðan er sagt konúngi, at hann vill tilráða drykkjunnar, ok skal konúngsdóttir hjásitja, ok Hárekr, fóstri hennar. Nú gánga þeir Sigurðr ok Sjólfr utar fyrir Odd. Þar er horn, sagði Sigurðr, ok varð honum ljóð á munni:

Oddr! klauftu[1] eigi
at orrostu,
hrökk[2] hjálmat lið,
Hamdis skyrtur[3],
guðr geisaði,
gekk eldr[4] um[5] bæ,
þá er á Vindum[6]
vo sigr konúngr.

Sjólfr færir honum annat horn, ok biðr hann afdrekka, ok kvað vísu:

Oddr! vartu eigi
at eggroði,
þá seggi alvalds
svelta lètum;
bar ek sár þaðan
sex ok átta,
en þú með bæjum
bat þèr matar.

---

[1]) komtu, *M.* [2]) hrauð þar, *M.* [3]) skyrtum, *M.* [4]) glóð, *M.* [5]) í, *B*, *M.* [6]) óvinum, *M.*

Síðan gánga þeir til sætis síns, en Oddr reis upp, ok gekk fyri Sigurð, ok færir honum horn, en annat Sjólfi, ok kvað sína vísu til hvórs þeirra, áðr hann gekk íburtu:

Þið skuluð hlýða
hróðri mínum,
Sigurðr ok Sjólfr,
sessunautar!
ykkr [á ek[1] gjalda
greypan verka,
hróðr harðsnúinn
huglausum tveim.
Þú látt, Sjólfr!
[í soðgólfi[2]
dáðavanr
[ok dýrs[3] hugar;
[en ek út á[4]
Aqvítanía
fjóra menn
fjörvi nærndak[5].

Þeir drukku af hornunum, en Oddr gekk at sitja. Síðan gánga þeir enn fyrir Odd, ok selr Sjólfr honum horn, ok kvað vísu;

Þú hefir, Oddr! [farit
með öbnösum[6],
ok bitlínga
[borit frá porti[7];

[1]) er at, *B.* [2]) soðgólfi á, *M.* [3]) ódjarfs, *M.* [4]) þá er ek einn út í, *M.* [5]) rænta, *M.* [6]) þegit ölmusu, *M.* [7]) beðit of borði, *M.*

en ek einn
af Ygsfjalli[1]
högginn skjöld
í hendi bar.

Sigurðr færir honum annat horn, ok kvað þetta:

Oddr! vart eigi
út með Grikkjum[2],
þá er á Serkjum
sverð vor[3] ruðum;
gjörðum háfan
[hljóm ísarna[4];
fèllu firðar
í fólkroði[5]!

Nú drekkr Oddr af hornunum, en þeir gengu at sitja, síðan rís Oddr upp, ok gekk með sitt horn at hvorum þeirra, ok kvað þetta:

Slóttu[6] við meyjar
málþíng, Sjólfr[7]!
meðan [loga lètum[8]
[leika um kynni[9];
unnum harðan
Haddíng[10] drepinn,
þá[11] Ölvi var[12]
aldrs[13] um synjat.
Þú látt, Sigurðr[14]!

1) Yggsfjalli, *B*; Yngsfjalli, *M.* 2) Girkkjum, *M.* 3) vèr, *B.* 4) *þannig B;* hljóm stáljárna, *A;* hljám af sverðum, *M.* 5) fólkravði, *M.* 6) sótti, *M.* 7) saman, *b. v. M.* 8) svíra hjöggum, *M.* 9) l. of kynnum, *B, v. M.* 10) Hundíng, *B, M.* 11) ok, *M.* 12) *v. í M.* 13) aldr, *M.* 14) Sjólfr, *M.*

í sal meyja,
meðan við Bjarma
börðumst tvisvar[1];
háðum hildi
hauksnarliga[2],
en þú [seggr í sal[3]
svaft undir blæju!

Nú gekk Oddr at sitja, en þeir drukku af hornunum, [ok þótti mönnum þetta mikil skemtan, ok gáfu allir hljóð til þessa[4]. Eptir þat gengu þeir fyrir Odd, ok færa honum horn; þá kvað Sjólfr:

Oddr! vartu eigi
á Atansfjalli[5],
þá er fenloga[6]
fengit höfðum;
vèr[7] berserki
binda[8] gjörðum[9],
þá var af kappi[10]
konúngs [lið drepit[11].

Nú drekkr Oddr af hornunum, en þeir setjast niðr. Oddr færir þeim horn, ok kvað þetta:

Sjólfr[12]! vartu eigi,
þar er sjá máttum[13]
brynjur manna
blóði þvegnar;

1) tysvar, *M.* 2) harðsnarliga, *B;* höggsnarliga, *M.* 3) Sigurðr, *M.* 4) *v. í M.* 5) Atalsfjalli, *M.* 6) fenlögu, *B.* 7) þá er, *M.* 8) brytja, *M.* 9) knáttum, *B;* knáðum, *M.* 10) köppum, *M.* 11) sonr drepinn, *M.* 12) Sigurðr, *B.* 13) mátti, *M.*

hrukku oddar
í hríngserkjum[1],
en þú höll konúngs
heldr[2] kannaðir.
Sigurðr[3]! vartu eigi
þar er [sex hruðum[4]
hábyrðuð[5] skip[6]
fyrir Hauknesi[7];
vartu ok[8] eigi
vestr með Skolla,
þá er Englagram
[aldri næmdum[9].

Oddr settist nú niðr, en þeir færa honum horn, ok fylgir engi kveðskapr. Hann drekkr af, en þeir setjast niðr; ok nú færir Oddr þeim horn, ok kvað þetta:

Sjólfr! vartu eigi,
þar er sverð ruðum
[hvöss á jarli[10]
fyrir Hlèseyju[11];
[en þú[12] hallaðist[13]
heima ámilli,
kynmálasamr[14],
kálfs ok þýjar.

1) járnserkjum, *B*; hillserkjum, *M*. 2) höldr, *M*. 3) Sjólfr, *B*. 4) söx ruðum, *M*. 5) hábrynjuð, *B*; harðla, *M*. 6) snarla, *M*. 7) Hvarfsnesi, *B*; Haugnesi, *M*. 8) *v. í M*. 9) aldr námum, *M*; *þær fyrifarandi vísur í þessum kap. v. í E*. 10) höss á skeiðum, *M*. 11) Hleyseyjum, *M*. 12) *þannig B*; þóttu, *A*, *E*; heldr, *M*. 13) hnallaðir þú, *M*. 14) kynmælasamr, *M*.

Sigurðr! vartu eigi
er[1] á Sælundi[2] feldak
bræðr [í böð harða[3],
Brand ok Agnar,
Ásmund, Íngjald,
Álfr var hinn fimti;
en þú heima látt
í höll konúngs,
skrökmálasamr,
skauð[4] hernumin!

Nú gengr hann at sitja, en þeir standa upp, ok færa honum horn. Oddr drakk af þeim báðum. Síðan færir hann þeim horn, ok kvað þetta:

Sjólfr! vartu eigi
suðr á Skýðu[5],
þar er konúngar[6]
knúðu hjálma[7];
óðum dreyra,
svâ at í[8] ökla tók,
víg [vakta ek[9],
vartu eigi þar!

Sigurðr! vartu eigi
í Svía skerjum
þá er Hálfdáni
heiptir guldum;
urðu randir
röggmiklaðar[10],

1) *v. í M.* 2) Sælundi þar er, *M.* 3) mjök böllharða, *M.* 4) skuð, *M.* 5) Skíði, *B*; Skeiði, *M.* 6) kappar, *M.* 7) hildi, *M.* 8) *v. í M.* 9) vo ek mörg ok, *M.* 10) raun mjök lagðar, *M.*

sverðum skornar[1],
en hann sjálfr drepinn[2]!

Nú sezt Oddr niðr, en þeir færa honum hornin, ok drekkr hann af, en þeir fara at sitja; þá færir Oddr þeim horn, ok kvað:

Hèldum aski
[í Elfarsund[3],
teitir ok reifir
at[4] Trönuvogum;
þar lá[5] Ögmundr
Eyþjófsbani,
trauðastr flugar,
á tveim skipum.
[Þá lètu[6] vèr
[lýði barða[7]
hörðu grjóti
ok hvössum[8] sverðum;
þrír lifðu vèr
en þeir níu[9];
[hrókr hernuminn[10]!
[því þegir þú[11] nú?

Þá gengr Oddr til sætis, en þeir færa honum horn. Hann drekkr af þeim, ok færir þeim önnur, ok kvað þetta:

Sigurðr[12]! vartu eigi
í Sámseyju,

1) skífðar, *M.* 2) *þær 2 undanf. vísur v. í E.* 3) í Elfarsker, *B*; Enskra sunda, *M.* 4) í, *M.* 5) fyrir, *b. v. M.* 6) þar lèkum, *M.* 7) lindi börðu, *B*; lindi hjörva, *M.* 8) hössum, *M.* 9) átta, *B.* 10) hrottar hernumnir, *M.* 11) hví þegið þið, *M.* 12) Sjólfr, *M.*

þá er við Hjörvarð
höggum skipti ek;
tveir voru við,
en þeir tólf saman;
sigr hafða ek[1],
saztu kyrr meðan.
Gekk ek um Gautland
í grimmum hug
sex dægr í samt,
áðr enn Sæund[2] fyndak;
knátta ek þeirra,
áðr enn þaðan færum,
atján[3] lýða[4]
[aldri næmda[5].
En þú geisaðir[6],
gárúngr vesæll!
síð um aptan
til sængr þýjar[7].

Þá varð óp mikit í höllinni af þessu, er Oddr hafði kveðit, ok drekka þeir af hornum sínum; en Oddr sezt niðr. Konúngsmenn[8] hlýða skemtan þeirra. Enn færa þeir Oddi hornin, ok vinnr hann skjótt um þau bæði. Eptir þat rís Oddr upp, ok gengr fyri þá, ok þikist vita, at nú sígr at þeim drykkrinn, ok alltsaman at þeir voru fyri lagðir í skáldskapnum; hann selr þeim hornin, ok kvað þetta:

---

[1]) þó, *M.* [2]) sjö, *R.* [3]) fimtán, *B*, *M.* [4]) manna, *M.* [5]) fjörvi ráða, *B*, *M.* [6]) gnagaðir, *M.* [7]) þinnar, *B*, *E.* [8]) konúngr bað menn, *B*; en Silkisif bað menn, *M.*

þið munuð hvergi
hæfir þikja,
Sigurðr ok Sjólfr!
í sveit[1] konúngs,
ef ek Hjálmars get
hins hugum-stóra,
þess er snarpligast
sverði beitti.
Gekk snarpr[2] þórðr
fyri skjöldu fram[3],
hvar[4] er orrostu
eiga skyldum;
hann lèt Hálfdán
hníga at velli,
fræknan stilli,
ok hans fylgjara[5].
Voru við Ásmundr
opt í bernsku
fóstbræðr [saman
báðir litlir[6];
bar ek [stundar opt[7],
staung darraðar[8],
þar sem konúngar
kappi deildu.
Hefik á Saxa
ok á Svía herjat,

[1]) höll, *M.* [2]) snarpligast, *M.* [3]) *v. í M.* [4]) hvârgi, *M.* [5]) *vísuna v. í E.* [6]) s. b. litnir, *M*; tveir fullvel saman, *B.* [7]) *þannig B;* fyri stilli, *M*; *v. í A.* [8]) bar ek staung darraðar döglíngs lengi, *E.*

íra ok á Engla
ok endr[1] Skota,
[Frísa ok[2] Frakka
ok á Flæmíngja,
þeim hefik öllum
óþarfr verit.
Nú hefik dýra
drengi talda[3],
þá er forðum mèr
fylgdu úti;
munu[4] aungvir[5]
verða[6] síðan
frægri firðar[7]
í fólkroði.
Nú hefik vorar
iðnir taldar,
þær er forðum vèr
framdar höfðum;
aptr [gengu vèr[8]
til öndvegis,
sigri gæddir[9];
látum Sjólf mæla!

Eptir þetta settist Oddr í sæti sitt, en þeir bræðr fèllu þar sofnir niðr, ok varð nú ekki af þeim meira um drykkjuna, en Oddr drekkr lengi, ok eptir þat leggjast menn niðr, ok sváfu af nóttina, en um morguninn, er konúngr kom

[1]) einninn, *M.* [2]) fúss á, *M.* [3]) lifða, *M.* [4]) því munu, *M.* [5]) víst eigi, *B.* [6]) æðri, *M.* [7]) drengir, *B*, *M.* [8]) geng ek nú, *M.* [9]) fenginn, *M.*

í hásæti, þá hefir Oddr úti verit staddr, ok þeir fèlagar hans. Hann gengr at vatni einu, ok þvær sèr; þeir bræðr sjá, at rifnuð[1] var næfra stúkan[2] á hendi hans annari, ok kom þar fram ermr rauð ok gullhríngr á armi ekki mjósleginn, ok síðan rífa þeir af honum allar næfrarnar. Hann brauzt ekki við þessu, en hann er svâ búinn undir, at hann er í skarlazkyrtli rauðum hlaðbúnum, en hár lá á herðum niðr. Hann hafði knýtt gullhlaði um höfuð sèr, ok var allra manna vænstr. Þeir tóku í hendr honum, ok leiddu hann inní höllina fyrir hásæti konúngs, ok segja svâ: þat ætlum vèr, at vèr vitum eigi allgjörla, hvern vèr höfum hèr í fóstri haft. Svâ má vera, sagði konúngr, eðr hverr er þessi maðr, er svâ hefir dulizt fyrir oss? Nú heiti ek Oddr, sem ek sagða yðr fyri laungu, sonr Gríms loðinkinna norðan úr Norígi. Ertu eigi sá Oddr, er fór til Bjarmalands fyri laungu? (sagði konúngr). Sá er maðrinn, er þar hefir komit, (sagði Oddr). Þá er eigi kynligt, at öndvegishöldum mínum fèlli þúngt við þik um íþróttirnar. Nú stendr konúngr upp ímóti honum, ok fagnar Oddi vel, ok býðr honum í hásæti hjá sèr. Þat mun ek eigi þiggja þvíat eins, nema vèr förum allir fèlagar. Þat er nú sagt, at þeir færa nú sæti sín, ok sitr Oddr hit næsta konúngi, en Hárekr færir [bygð sína[3] fram á stól fyri konúng. Konúngr leggr

[1]) rofnuð, *B.* [2]) stúkarau, *B.* [3]) á aðra hönd konúngsdóttur, *b. v. M*; sæti sitt, *B*; sinn sess, *M.*

svâ mikla virðíng á Odd, at aungan mann mat hann meira enn hann.

28. Jafnan berr saman tal þeirra Odds ok Háreks; þá spyrr Oddr, hvort menn biðja ekki konúngs dóttur. Eigi er þat traust, sagði hann, þeir hafa beðit hennar öndvegishöldarnir til handa sèr. Hversu svarar hann því máli? sagði Oddr. Á hefir hann gjört þeim[1], sagði hann. Lát mik heyra þann kost! sagði Oddr. Konúngr á skatt at heimta af landi því, er Bjálka[2] heitir; þar ræðr fyri sá konúngr, er Álfr heitir, ok kallaðr Bjálki; hann er kvongaðr; kona hans heitir Gyðja; hún er mikill blótmaðr, ok bæði þau; þau eiga son saman, ok heitir Víðgripr; svâ eru þau fjölkunnug, at þau festa saman stóð ok stjörnur. Þar á konúngr skatt at heimta, ok hafa lengi niðri legit; mælti konúngr þat til, ef hann skyldi gipta þeim dóttur sína, at þeir skyldu heimta skatt af landinu, en þat nam við, at þeir mæltu til svâ mikils liðs úr landinu, at konúngr þóttist berr fyrir hermönnum, er á gánga ríkit. Svâ þiki mèr, sagði Oddr, at annathvort mun vera, at skattrinn mun aldrí heimtr verða, eða endast mun ella, þó minna lið sè til haft, eðr hvat ætlar þú, hvort konúngr mun vilja gjöra mèr þvílíka kosti sem öðrum, ef ek get heimt skattinn? sagði Oddr. Vitr maðr er konúngr, sagði Hárekr, ok get ek, at sjá þikist hann þann mun, er yðvarr er um

[1]) kosti, *b. v. M.* [2]) Bjálkaland, *B, M.*

ráðakostinn; ok er nu þetta mál birt fyri konúngi; en hvort sem rætt er um þetta fleira eða færra, þá urðu þau málalok, at Oddr skyldi fara för þessa, at heimta skattinn, ok ef hann kemr fram ferðinni, ok fær skattinn, þá skal hann eignast konúngsdóttur, ok er honum heitit konunni við margra manna vitni. Nú býst Oddr til ferðar, ok er nú lið saman dregit, sem hann vill hafa, ok er hann er búinn, þá leiðir konúngr hann á götu; þeir skyldu landveg fara. Hèr er gripr sá, sagði konúngr, at ek vil gefa þèr; hvat er þat? sagði Oddr; þat er skjaldmær, er lengi hefir mèr fylgt, sagði konúngr, ok verit brjóst fyri mèr í hverjum bardaga. Oddr brosti, ok mælti: þar hefik hvergi komit, at konur hafi verit brjóst fyri mèr, en þó skal þetta þiggja, alls at þú þikist vel bjóða. Þeir konúngr ok Oddr skilja nú, ok ferr Oddr til þess, at hann kom at feni einu miklu, ok skopar at skeið, ok hleypr yfir fenit. Skjaldmærin var hit næsta honum, ok varð henni bilt, er hún kom at feninu. Þá spyrr Oddr: því hljóptu eigi eptir mèr? [Því ek var eigi búin, sagði hún; ja! sagði hann, vertu nú þá búin! hún styttir sik þá upp, ok hleypr at feninu í annat sinn, ok ferr sem fyrr, ok svâ hit þriðja sinn[1]. Þá hleypr Oddr aptr yfir fenit, ok þrífr í hönd henni, ok fleygir henni út á fenit, ok mælti:

[1]) hún sagðist verit hafa búin; ok svâ ferr henni 3 tíma, at henni verðr bilt, *M.*

far þú þar nú, ok hafi þik öll tröll! hleypr nú fram aptr yfir fenit í þriðja sinn, ok býðr nú liðs síns. Þeir urðu allir at gánga fyrir enda síkissins, svâ var þat breitt ok illt yfirferðar, ok nú ferr Oddr með lið sitt, ok gjörir njósnir fyri sèr, ok spyrr hann þau tíðendi, at Víðgripr hefir dregit saman her mikinn, ok ímót þeim ferr hann. Þeir finnast á völlum nokkrum, ok var þá kveld. Þeir setja sínar herbúðir hvorirtveggju, ok hugði Oddr at um kveldit, hvar Víðgripr setr tjald sitt. En er menn höfðu látrast, ok allt var kyrt ok hljótt, stendr Oddr upp, ok gengr út. Hann var svâ búinn, at hann hafði sverð í hendi ok ekki fleira vopna. Eigi nam hann fyrr staðar, enn hann kom at tjaldi því, er Víðgripr svaf í, ok stóð hann þar mjök lengi, ok bíðr þess, ef nökkr maðr gengr út úr tjaldinu. Þat varð at maðr gekk út, en húm var á mikit; hann tók til orða ok mælti: því hýmir þu hèr, sagði hann, en gengr eigi annathvort inn í tjaldit eðr áburt. Já, sagði hann, mèr hefir tekizt til eigi vel, ek hitti eigi til rúms míns, þar sem ek lögðumst niðr í gærkveld; vissir þú, hvar þat var í tjaldinu? Þat vissa ek víst, at ek skyldi liggja í tjaldi Víðgrips, ok einn maðr ímillum mín ok hans, en svâ fjarri ferr, at ek feta[1] þángat, en ek mun verða fyrir hvers manns hlátri, ef ek nýt eigi þín við. Já, segir hinn, mega mun ek þat til-

1) hitta, *B.*

leggja með þèr, at koma þèr til sængr þeirrar, er Víðgripr liggr í, ok svâ gjörir hann. Já, sagði Oddr, láttu nú hljótt, ok mun mèr nú allvel hlíða, því nú sè ek gjörla rúm mitt. Nú gengr sá áburt, en Oddr stendr þar eptir, ok þartil er hann ætlar, at hinn muni sofnaðr; þá stíngr Oddr spítu út ígegnum tjaldit, þar sem Víðgripr lá undir. Eptir þat gengr hann út, ok á bak tjaldinu, ok þar at, er spítan stóð[1]. Þar sprettr hann til[2], ok kippir Víðgrip út um skörina ok á tjaldstokkinn, ok höggr af honum höfuðit við stokkinum. Hann spítti aptr tjaldinu, ok lèt falla inn aptr búkinn, en hann gekk til tjalds síns, ok leggst niðr, ok lætr sem ekki hafi í orðit.

29. Ok um morguninn er þeir vakna víkíngarnir, þá finna þeir Víðgrip veginn, ok íburtu höfuðit hans. Þetta þikir þeim svâ mikil býsn ok undr, [at allir undruðust[3]. Þeir bera nú ráð sín saman, ok verðr þat afráðit, at þeir taka annann mann til höfðíngja, ok kalla þann nafni Víðgrips, ok láta bera fyri þeim merki um daginn, ok nú vakna þeir Oddr ok herklædast. Hann býr svâ um, at hann lætr búa merkisstaung, ok setr þar á ofan höfuð Víðgrips á staungina. Nú fylkja hvorirtveggju; Oddr gengr fram fyri lið sitt, ok hefir miklu minna lið; Oddr tók þá til orða, ok kallar á landsmenn, ok spurði, ef

1) tók út úr tjaldinu, *B.* 2) þá dúkinum úr stokkinum, ok seilist inn, ok tekr í hár Víðgripi, *M.* 3) *v. í M.*

þeir kendu höfuð þat, er borit var fyrir honum. Þá þikjast landsmenn þekkja höfuð Víðgrips, ok undruðust mjök, at svâ mátti verða. Nú gjörir Oddr þeim tvo kosti, hvort þeir vilja halda bardaga við hann, eða gánga á hönd honum; en þeim þikir svâ hafa viðborit[1], at þeim þikir sèr ekki vænna horfa, þóat þeir reyni, ok verðr þat ráð þeirra, at gánga á hönd Oddi. Hann tók við þeim ok öllu liði þessu, ok fór þángat til, at þeir mætast, Oddr ok Álfr bjálki. Þar hafði hvortveggi mikit lið, ok hafði Oddr þó minna enn Álfr; þar laust þegar í bardaga með þeim; þar varð svâ hörð atlaga, at þess hafði Oddr hvergi staddr verit, at þvílíkt mannfall hafi orðit, fyri því at á lítilli stundu þóttist hann sjá mikinn þurð á liði sínu. Þat fylgir ok, sagði Oddr, at ek þikjumst allt ryðja fram at merkjum Álfs, en þó sè ek hann hvergi. Þá tekr einn landsmaðr til orða, sá er áðr hafði verit með Víðgrip: eigi veit ek, sagði hann, hvat þèr er þess, at þú sèr hann eigi, því hann gengr eptir merkjum sínum, ok skilst þar aldrí við, ok er þat til marks um, at hann skýtr ör af hverjum fíngri[2], ok hefir mann fyrir hverri. Eigi sè ek hann því heldr, sagði Oddr; þá bregðr sá maðr hendi sinni yfir höfuð Oddi, ok mælti: líttu hèðan undan hendi mèr, ok þegar sèr Oddr Álf, ok þat með, er honum var til merkja sagt. Oddr mælti þá: haltu þar nökkra stund, sagði

[1]) býsnat, *M.* [2]) ok skýtr hann tíu örum í senn, *b. v. B, M.*

Oddr; ok sá gjörir svâ; nú leitar Oddr at Gusisnautum, ok tók eina af þeim, ok lagði á streng, ok skaut at Álfi bjálka, en hann skýtr fyri lófanum, ok bítr alls ekki á; fara skulu þèr nú allar, sagði Oddr, þóat engi yðar dugi! hann skýtr þeim öllum, ok bítr engin þeirra, ok falla þær þá allar Gusisnautar í gras. Eigi veit ek, sagði Oddr, nema þat sè nú framkomit, er Jólfr karl sagði, at þær sè nú farnar Gusisnautar, ok mun verða freista steinörva karls, ok tók hann eina af þeim, ok leggr á streng, ok skýtr at Álfi bjálka; en er hann heyrir hvininn af örinni, at hún fló at honum, þá bregðr hann enn við lófanum, en örin fló ígegnum ok út um hnakkann; Oddr tekr aðra, ok leggr á streng, ok skýtr at Álfi; hann bregðr við öðrum lófanum, ok ætlar nú betr, at gæta þess augans, er eptir er, en sú kemr í þat augat, er heilt er, ok út um hnakkann. Eigi fèll Álfr heldr enn áðr; þá skýtr Oddr hinni þriðju, ok kemr sú á Álf miðjan, ok nú fellr hann þar[1]. Nú falla steinörvar karls, ok hefir hann svâ fyrimælt, at hann mundi þeim eigi optar skjóta, ok þær mundu eigi finnast. Nú er bardagi skammr þaðan frá, þvíat liðit var komit á flótta ok til borgarinnar. Þar stendr Gyðjan í borgarhliðinu, ok skýtr af öllum fíngrum; nú linnar bardaganum, ok gengr lið til handa Oddi enn hvervetna. Hjá borginni stóðu hof ok hörgar,

[1] ammarka þjófssoninn, *B.*

ok lèt Oddr slá í eldi, ok brenna allt, er í nánd er borginni, ok þá varð Gyðjunni ljóð á munni:

Hverr veldr eldi,
hverr orrostu?
[hverr jarls megin
oddum beitir?
hof sviðnuðu,
hörgar brunnu,
hverr[1] rauð eggjar
á Ýngva liði[2]?

Nú svarar Oddr, ok kvað þetta:

Oddr brendi hof,
ok hörga braut,
ok trègoðum
týndi þínum;
gjörðu þau ekki
góðs í heimi,
er þau or eldi
ösla ei máttu.

Þá kvað hún:

[Hugr hlægir mik[3]
[at hafir fengna[4]
Freys reiði [þú
fári blandna[5],
hjálpi Æsir
ok Ásynjur

---

[1]) *þannig B*; Oddr, *A, E.* [2]) nið, *B. I stað þess frá* [ *hefir M*; gjöri hverr meginn hettra hof Svíþjóðar hörga brenna, Oddr rauð eggjar, ok eyddi hof. [3]) hugr hlæumst þess, *B, E*; hlægir mik þess, *M.* [4]) er hefir þú yðr öllum, *M.* [5]) fyribúna, *M.*

gjörvöll regin
gyðju sinni!
Þá kvað Oddr:
Hirði ek eigi
þóat hættir[1] þú,
fárgjörn kona!
Freys reiði mèr;
veit[2] ek í eldi
Ásu[3] brenna,
tröll eigi þik!
trúi ek guði einum.
Þá kvað hún:
Hverir ólu þik
upp til heimskra,
er þú eigi villt
Óðin blóta?
Þá tók Oddr undir, ok kvað:
Fæddu mik Íngjaldr,
upp í bernsku,
sá er Eikund[4] rèð
[ok Jaðar bygði[5].
Þá kvað hún:
Auð þættumst ek
eiga nógan,
ef ek hinn ítra
Álf um fyndak,
blót gef[6] ek honum

1) heitir, *M.* 2) *þannig B, E*; menn veit, *A.* 3) *þannig B*; Æsi, *E*; Æsa, *M*; As ok, *A.* 4) Eyströnd, *D*; einn, *M.* 5) jarðir byggja, *B*; *v. í E.* 6) gaf, *M.*

ok þú fjögur;
hann mun[1] alla
í elli[2] draga.

Þá kvað Oddr þetta:

Oddr sveigði álm,
ör fló af strengjum,
Jólfs smíði beit[3]
Álf ígegnum;
[býðr ei þú blót honum,
svâ at Bjálki þiggi[4],
hlakka[5] hrafnar
[yfir hræi Bjálka[6].

Þá kvað hún:

Hverir efldu þik
austan[7] híngat[8]
fullan[9] ok[10] fláráðan[11]
[ok frækinn harðla[12];
muntu hvervetna
herja vilja,
er þèr[13] Álfi máttuð
aldrsspèll gjöra.

Þá kvað Oddr:

Efldu mik örvar
ok Jólfs smíði,
stórgjör skeyti,
ok stinnr bogi;

1) *yðr, b. v. M.* 2) eld; *B, E, M.* 3) *v. í M.* 4) býðr attú honum blót svâ hann þiggi, *B, E*; dugðu blóð, svâ at yfir honum, *M.* 5) bæði, *b. v. M.* 6) ok hræ gjóðar, *M.* 7) austr, *D.* 8) þaðan, *M.* 9) fúlan, D; feiknafullan, *M.* 10) *v. í B, M.* 11) ilsku, *B; v. í M.* 12) frænda askir ás, *B þó óglöggt; v. í M.* 13) *v. í B*; þú, *M.*

en þat et fimta,
er þú fregna skalt,
at ek við Ása
aldrí blíðkumst[1].
Læt ek Frey fara
fyrst ok Óðin,
blinda báða
á [burt hèðan[2];
urðu[3] Æsir
undan at leita[4],
hvar sem í flokki[5]
fundizt höfðum.

Ok enn kvað hann:

Ætla[6] ek Æsa[7]
örhjartaða[8] tvo,
sem fyrir úlfi [geitr
argar[9] rynni;
íllt[10] er at eiga Óðin
at einka vin;
[skaltu eigi lengr[11]
skrattann blóta[12].

Oddr veðr nú at gyðjunni með eikikylfu[13] mikla. Hún stökkr undan ok í borgina með liði því, er henni fylgdi. Oddr rekr flóttann, ok drepa þeir allt þat, er þeir mega höndum á koma, en gyðj-

1) líkjumst, *B*, *E*; þýddumst, *M*. 2) bál, *M*. 3) æ, *M*. 4) flýja, *M*. 5) fólkroði, *B*. 6) elta, *B*, *M*. 7) Æsi, *B*; Asa, *M*. 8) úr hjarta, *B*; hrataða, *M*. 9) örg geit, *M*. 10) illr, *M*. 11) skal ek aldregi, *B*; skulu þèr eigi, *M*. 12) *þessa seinustu vísu v. í E.* 13) rótakylbu, *M*.

an flýr til höfuðhofs, er stóð í borginni, ok hleypr inní hofit, ok mælti þetta:

Hjálpi Æsir
ok Ásynjur
gjörvöll regin
gyðju sinni[1]!

Oddr kom at hofinu, ok vill eigi inngánga eptir henni. Hann ferr uppá hofit, ok sèr inn um glugginn, hvar hún liggr; verðr honum fyrir, at hann tekr upp stein mikinn, ok keyrir inní glugginn. Hann kemr á (hrygg) gýginni, ok lemr hana þar niðr við stöllunum, ok dó hún þar[2]. En Oddr rekr hernað um alla borgina[3], hann kemr þar at, er Álfr var; hann var þá enn eigi dauðr. Þá berr Oddr hann með kylfu, til þess er hann er dauðr[4]. Nú dregr hann saman skatta um allt landit, ok setr yfir höfðíngja ok stjórnarmenn, en svâ segir hann[5] í ljóðunum, at þetta hefir í Antíókía[6] verit, at hann drap þá feðga[7]; ok þá er hann var búinn, ferr hann áburt þaðan með auð mikinn ok úgrynni fjár, svâ at engi mátti virða, ok er nú ekki sagt frá ferðum hans, fyrr enn þeir koma aptr í Grikkjaríki[8]. Ámeðan hafði þat til tiðenda orðit í landinu, at Herrauðr konúngr var andaðr, ok er hann útborinn, ok orpinn haugr ept-

[1]) þá fleygir hún sèr niðr fyri stallana, ok biðr öll goðin hjálpa sèr, *b. v. M.* [2]) þjófsdóttir in illa, *b. v. B.* [3]) ok um allt landit, ok á því sama kveld, *b. v. B.* [4]) þjófagauð, *b. v. B.* [5]) *v. í M.* [6]) Anthekjaborg, *B.* [7]) þessa jarla, *M.* [8]) Garðaríki, *M.*

ir hann[1]. Oddr lèt þegar þat erfi fá, er hann kom í land, ok er þat var búit, þá fastnar Hárekr Oddi fóstrmey sína Silkisif, ok er nú allt senn, at menn drekka brullaupit ok erfit eptir Herrauð konúng, ok á þessi veizlu var Oddi konúngsnafn gefit, ok stýrir hann nú ríki sínu[2].

30. Þat hafði borit til tíðenda fyrir 7 vetrum, at konúngr sá, er var austr í Hólmgörðum, hafði orðit bráðdauðr, en þar brauzt til ríkis ókunnigr maðr, sá er Kvillanus[3] heitir, ok varð hann þar konúngr yfir. Þat var nökkut með undarligum hætti, þvíat hann hafði grímu fyrir andliti, svâ aldrí sá hans ásjónu bera. Þetta þótti mönnum kynligt. Engi maðr vissi ok ætt hans nè óðaljörð, eigi heldr hvaðan hann var atkominn; lögðu menn þetta mjök í umræðu; spyrst þetta víða, ok þetta kemr í Grikkland til eyrna Oddi, ok þikir honum undarligt mjök um þenna mann, at hann skal aldrí hafa heyrt hans getit, svâ víða sem hann hafði farit. Oddr stígr þá á stokk, ok strengir þess heit, at hann skal vís verða, hverr konúngr er í Görðum austr, ok nökkuru siðar safnar hann liði, ok býst heiman. Hann sendir orð Sírni, fóstbróður sínum, ok kom hann til móts við hann austr fyri Vinnlandi, ok hafði 30 skipa, en Oddr fimtigi. Þeir voru allir vel búnir at vopnum ok mönnum. Þeir halda nú austr til Hólmgarðs. Garðaríki er svâ

[1]) *hèr byrjar blað með nýrri hendi í B.* [2]) með góðum náðum, *b. v. B.* [3]) Kvillianus, *B.*

mikit land, at þat var þá margra konúnga ríki: Marró[1] hèt konúngr, hann rèð fyri Móramar[2]; þat land er í Garðaríki: Ráðstafr hèt [konúngr; Ráðstofa[3] heitir þar, er hann rèð fyrir: Eddval hèt konúngr, hann rèð fyri því ríki, er Súrsdal heitir: Hólmgeirr hèt sá konúngr, er næst Kvillanus rèð fyrir Hólmgarði: Palltes hèt konúngr, hann rèð fyri Pallteskjuborg: Kænmar hèt konúngr, hann rèð fyri Kænugörðum, en þar bygði fyrst Magok[4], sonr Japhets Nóasonar[5]. Þessir konúngar allir, sem nú eru nefndir, voru skattgildir undir Kvillanus konúng. Ok áðr enn Oddr kæmi til Hólmgarðs, þá hafði Kvillanus lið safnat um hina næstu 3 vetr. Þikir mönnum sem hann hafi vitat fyri þángatkvomu Odds. Þar voru allir fyrrnefndir konúngar með honum. Svartr[6] Geirríðarson var ok þar; hann var svâ kallaðr, síðan Ögmundr Eyþjófsbani hvarf. Þar var ok mikill herr af Kirjálalandi[7] ok Rafestalandi, Refalandi, Vírlandi[8], Eistlandi, Líflandi, Vitlandi[9], Cúrlandi, Lánlandi[10], Ermlandi, ok Púlínalandi. Þetta var svâ mikill herr, at eigi mátti hundruðum telja;

---

1) Marió, *E.* 2) Móarslandi, *E.* 3) Ráðsiúfá, *B.* 4) Magug, *D*; Magoz; *B.* 5) *I stað þess undanfarna frá merkinu* [ *hefir E þannig:* annarr konúngr, Ráðstofn enn þriði. Odual enn fjórði; Holmgeirr hèt sá konúngr, er næstr var ríki Kvillanus, enn fimti; Platal hèt hinn sjötti, enn sjöundi hèt Kúríel; hann rèð fyri Kænugörðum. 6) Surtr, *E.* 7) Kirjalandi, *D.* 8) Júrlandi, *B.* 9) Vírlandi, *B*; Vinnlandi, *E.* 10) Lálandi, *B*; Sámlandi, *E.*

undruðust menn mjök, hvat þetta ógrynni hers, er saman var dregit, skyldi. En er Oddr var við land kominn, sendi hann menn á fund Kvillanuss konúngs, ok bauð honum burtreið, en Kvillanus brást skjótt við, ok fór ámót honum með her sinn; hafði hann þá grímu fyrir andliti sínu, sem hann var vanr; en þegar þeir fundust, bjuggust þeir at ríða á burt. Þeir höfðu sterkar steingr ok lángar, 4 brutu þeir steingr, ok 3 daga reyndu þeir með sèr, ok gjörðist ekki at. Þá mælti Kvillanus: reynt þiki mèr nú með okkr, ok kalla ek okkr jafna. Svâ þiki mèr þat mega kalla, sagði Oddr. Þá þiki mèr ráð, at við skiljum, sagði Kvillanus, ok stríðum ekki lengr, ok vil ek bjóða þèr heim til veizlu. Þar stendr fyrir einn hlutr, sagði Oddr. Hverr er sá? sagði Kvillanus. Sá, kvað Oddr, at ek veit eigi, hverr þú ert, en ek hefi þess heitstrengt, at vita, hverr konúngr væri í Hólmgarði. Þá tók Kvillanus grímuna frá andliti sèr, ok mælti: þekkir þú nökkut þetta hit nauðljóta höfuð? Oddr kendi þá gjörla Ögmund bónda Eyþjófsbana, því at öll merki sá þau á honum, sem Oddr hafði af honum rifit skegg ok ásjónu ok aptr á miðjan haus[1]; var þetta allt beingróit, ok ekki hár á vaxit. Oddr mælti þá: nei, Ögmundr! sagði hann, við þik sættumst ek aldrí, miklu hefir þú mèr meira skaða unnit, ok býð ek þèr til bardaga á morgin. Ögmundr játar því, ok

[1]) háls, B.

annann dag eptir tóku þeir til bardaga; var hann bæði æfr ok strángr, ok varð hit mesta mannfall af hvorumtveggjum. Sírnir gekk þá enn sem optar raun vel fram, ok drap margan mann, því Sniðill beit allt, þat er fyrir varð. Svartr Geirríðarson snèri þá honum ímóti, ok varð þar hörð sókn, en þó bilaði Sniðill þá at bíta, ok var Svartr þó hlífarlauss. Hvorki skorti Svart afl nè ílsku, en með því lauk þeirra einvígi, at Sírnir fèll dauðr fyri Svarti með góðan orðstír. Þá hafði Oddr drepit alla skattkonúnga Kvillanuss, suma skotit, en suma höggit. En er hann sá fall Sírnis, ángraði honum mjök, ok þótti mjök úr einum brunni bera, hvern mannskaða hann fèkk af Ögmundi ok hans mönnum. Þá leggr hann ör á streng, ok skýtr at Svart, en hann brá við lófanum, ok beit ekki á. Svâ fór önnur ok hin þriðja. Þá kom Oddi í hug, at hann hafði mikils mist, þar er Gusisnautar voru honum horfnir. Hann snýr þá íburt úr bardaganum ok í skóginn, ok höggr sèr eina stóra kylfu, ok gengr síðan aptr í bardagann, ok er hann mætir Svart, taka þeir til at berjast; lemr Oddr þá með kylfunni, svâ at hann linnir eigi fyrr enn hann hafði brotit hvert bein í Svart, ok gekk svâ af honum dauðum. Eigi hafði Kvillanus ekki athafzt ámeðan, þvíat svâ segja menn, at ör flýgi af hverjum hans fíngri, ok dæi maðr fyrir hverri, ok með atdugnaði manna hans¹

¹) *hèr endar blaðit með nýrri hendi í B.*

hafði hann drepit hvert mannsbarn, þat er með Oddi var. Margt var ok fallit af Kvillanus, svâ varla kom tölu á. Oddr stóð þá enn upp, ok varðist alldrengiliga, hvorki var hann móðr nè sárr, olli því skyrta hans. Nótt skildi þá með þeim, þvíat eigi var vígljóst. Fór Kvillanus þá til borgar með sína menn, þá er eptir lifðu, var þat eigi meira enn sextigir manna, allir móðir ok sárir, var hann síðan kallaðr Kvillanus blesi; stýrði hann lengi síðan Hólmgörðum. Oddr gekk áburt á merkr ok skóga, allt þar til at hann kom fram í Gallía. Þar rèðu þá fyri 2 konúngar, en þó hafa þat verit 12 ríki. Annarr þeirra hèt Hjörólfr, en annarr Hróarr; þeir voru bræðrasynir. Hróarr hafði drepit föður Hjörólfs til ríkis, ok sat einn yfir ríkinu, nema Hjörólfr sat at einu fylki. Þar kom Oddr til hirðar hans. Konúngr var úngr, ok hafði til gamans, at vera í skotbakka, ok gekk honum lítt. Oddr sagði, at þeir skýti ófimliga. Hyggstu munu skjóta betr? sagði konúngr. Ekki þiki mèr fyri því, sagði Oddr, ok nú skýtr hann, ok hæfir ávalt. Þá finnst konúngi mikit til um þenna mann, ok mat Odd mikils. Konúngr sagði honum, hversu vanhaldinn hann var af Hróari konúngi. Oddr fýsti at beiða jafnaðar skiptis á ríkinum. Þeir senda 12 menn með brèfum til konúngs, ok er hann hafði yfirlesit brèfit, þá svarar hann ok sagði, at þeir væri eigi tæpi djarfir, at beiða slíkra hluta, ok þat mundi til, at setja þá svâ aptr, at

eigi fýsti annann at beiða slíks, ok síðan safna hvorirtveggju liði, ok hafa þeir Oddr eigi hinn tólfta hlut liðs við Hróar. Oddr bað þá vísa sèr til Hróars konúngs. Síðan tók hann eina ör, ok skaut at honum, ok kom á hann miðjan, ok fèll þar Hróarr konúngr, ok varð eigi bardagi. Hjörólfr bauð Oddi ríkit, en hann undi þar eigi lengi, ok leyndist áburt á einni nátt. Síðan lá hann úti á mörkum, þartil at hann kom í ríki sitt, ok sezt þá um kyrt. Nökkurum tíma síðar sendir Kvillanus Oddi gjafir miklar, bæði í gulli ok silfri ok marga góða gripi, ok þarmeð vináttumál ok sættarboð. Þá Oddr þessar gjafir, því at hann fyristóð[1] af sinni vizku, at Ögmundr Eyþjófsbani, sem þá nefndist Kvillanus, var ósigranligr, því at hann mátti eigi síðr kallast andi enn maðr; ok er eigi getit, at þeir hafi síðan nökkura hluti við ázt, ok lauk svâ þeirra skiptum[2].

31. Nú sitr Oddr í ríkjum sínum, ok hefir hann þar verit um lánga æfi, ok [átti tvo sonu (við) sinni konu; hèt annarr Ásmundr eptir fóstbróður hans, en annarr hèt Herrauðr eptir móðurföður sínum, ok voru báðir efniligir[3]. Þat var eitthvert sinn um kveld, er þau kvomu í rekkju[4], at Oddr tók til orða: för er sú úr landi, er ek ætla at fara. Er þú ætlar! hvört? segir Silki-

1) undirstóð, *M.* 2) *M sleppr þeim næst undangánganda kap.* 3) getr hann mög við drottníngu, ok þikkir hann verit hafa enn mesti afreksmaðr, hvar sem hann hefir í mannraunum verit staddr, *M.* 4) rjokju, *M.*

sif. Ek ætla norðr til Hrafnistu, sagði hann, ek vil ok vita, hverr eyna hefir at varðveita, þvíat ek á at hafa hana, ok mínir ættmenn. Svâ þikir mèr, segir hún, sem þú hafir hèr nógar eignir, er þú hefir Garðaríki allt ok slíkt af annara eign ok ríkjum, sem þú villt, ok þætti mèr sem þú þyrftir eigi meira ágirnast, ok hirða ekki um eyjar skika[1] þann, er vettugis[2] er neytr. Já! sagði hann, svâ er þat, at eyin er lítils verð, en þó vil ek ráða, hverir hana skulu hafa, ok mun ekki stoða at letja mik, því ek er ráðinn at fara, ok mun ek skamma stund áburt vera. Síðan býr hann 2 skip úr landi ok 40 manna á hvoru, ok verðr ekki til frásagnar um ferð hans, fyrr enn hann kemr norðr í Hrafnistu í Norig. En þeir menn tóku vel við Oddi, er þar voru fyrir, ok gjöra veizlu ímót honum, ok þar þiggr hann hálfsmánaðar veizlu. Þeir bjóða honum, at taka við eyjunni ok öllum þeim eignum, sem þar lágu undir. Hann gefr þeim allar þær eignir, ok vill þar ekki dveljast. Síðan býr hann ferð sína, ok er hann útleiddr með góðum gjöfum. Siglir Oddr nú úr Hrafnistu, ok þartil at þeir kvomu fyri Berurjóðr, [en menn ætla, at þat liggi[3] á Jaðri. Þá biðr hann lægja seglin. Þar gengr Oddr á land ok lið hans, ok þángat er [bær Íngjalds[4] hafði staðit, [ok voru þar þá tóptir vallgrónar. Hann lítr þár

[1]) skekil, *B*, *M*. [2]) *þannig leiðrètt fyri* veglugis; einskis, *B*. [3]) *v. í M*; þat liggr, *B*. [4]) hof, *M*.

yfir[1], ok mælti síðan: mikit er slíkt at vita, at bær sá skal allr niðrfallinn, ok allt aleydt, þat sem hèr var fyri. Hann gengr nú þángat, er þeir Ásmundr höfðu átt skotbakka, ok sagði, hverr munr hafi verit með þeim fóstbræðrum. Hann fylgir þeim ok þángat, er þeir höfðu á sund farit, ok sagði þeim þá allt til kennimarka. Ok er þeir höfðu sèð þetta, þá mælti hann: nú munu vèr fara ferðar vorrar, ok tjáir nú ekki at horfa hèr á land upp, en mikit er at sjá eptir slíku. Nú gánga þeir Oddr ofan, ok var þar nú hvervetna blásin jörð, er þá var blómguð vel, er Oddr var þar furr. Ok er þeir gánga ofan, þá mælti Oddr: þat ætla ek nú, at liðin von sè, at spá sú komi fram, er völvan arma spáði mèr fyri laungu; en hvat er þarna, sagði Oddr, hvat liggr þar? er þat eigi hrosshaus? Já! segja þeir, ok ákafliga skininn ok fornligr, harðla mikill ok allr grár utan. Hvat hyggi þèr um, hvort þat mun hausinn Faxa? Þat varð Oddi fyrir, at hann stakk til haussins spjótskapti sínu; hann hallaðist við nökkut svâ, en undan honum hröktist ein naðra ok at Oddi; ormrinn höggr fót hans fyrir ofan ökla, svâat þegar lýstr í eitri, ok blæs upp allan fótinn ok þar með lærit. Svâ tekr Odd fast mein þetta, at þeir urðu at leiða hann ofan til sjófar, ok er Oddr kom þar, sezt hann niðr, ok mælti: nú skal skipta liði mínu í helmínga, ok skulu sitja hjá mèr 40 manna, [ok vil

1) *v. í M.*

ek yrkja kvæði um æfi mína[1], en aðrir 40 skulu gjöra mèr steinþró ok draga þar at við; þar skal leggja í eld ok brenna upp allt saman, þá er ek em dauðr.

32. [Nú tekr hann til kvæðisins, en hinir til sýslu sinnar, at höggva steinþróna, ok færa at viðinn. En þeir nema kvæðit, er til þess voru ætlaðir. Nú kvað Oddr þetta[2]:

1. Hlýði seggir!
en ek segja mun
vígsvaldendum frá
vinum mínum;
seint er at dylja,
sè ek eigi mátti
skógs bæstafr[3]
við sköpum gjöra.

2. Var mèr fóstr gefit[4]
at föður ráði,
brátt vöndumst því
á Berurjóðri;
var mèr ekki
vant til sælu,
þess[5] er Íngjaldr
átti kosti.

3. Uxum báðir
at Berurjóðri,
Ásmundr ok ek,
upp í bernsku;

1) *v. í M.* 2) en þó skal ek áðr yrkja kvæði um æfi mína; síðan tekr hann til kvæðis, *M*, *sem í vantar alla æfidrápuna.* 3) skæstafr, *B*, *E.* 4) tekit, *B.* 5) þeirrar, *R.*

skófum skeyti,
skip smíðuðum,
gjörðum örvar
okkr at gamni.
4. Sagði mèr völva
sannar rúnir
en ek vætki[1] því
vildi hlýða;
gat ek fyrir úngum
Íngjalds syni,
at ek föðurtúna
fýstumst vitja.
5. Búinn lèzt Ásmundr
opt, meðan lifði,
málþíngs vanr
mèr at fylgja;
sagða ek karli,
at ek koma mundak
aptr aldregi;
nú em ek orðrofi.
6. Lètum beiti
á brim[2] þrauka,
stóð hör[3] dreginn
höndum[4] fjarri;
kvomum at eyju
utan brattri[5];
þar er Grímr fyri
garða átti.

---

[1]) vekti, *B.* [2]) *þannig B*; birni, *A.* [3]) hörr, *B*; haur, *A*; barð, *R, E.* [4]) húnum, *R.* [5]) verðri, *B.*

7. Sá ek blíðliga,
er til bæjar kom,
bekks[1] sagr[2] mèr
báðar fagna[3];
víst matta ek
með vinum mínum
gulli skipta
ok gamanmálum.

8. Varð ek at vori
vís[4], at gjörðust
brynþíngs boðar,
Bjarma at sækja;
síðan kvaddek
Sigurð ok Guðmund,
vilda ek með fræknum
til farar ráðast.

9. Voru hoskir
á herskipum
frændr mínir tveir
at forráði;
vildu hásetar
hoskir eignast
tak[5], þat er áttu
tyrfi[6] Finnar.

10. Vèr kaupskipi
kvomum heilu
at, þar er Bjarmar
bygðir áttu;

---

[1]) berg, *R.* [2]) sagnir, *B, E, R.* [3]) heilsa, *B.* [4]) viss, *B.*
[5]) góts, *R.* [6]) *þannig B, E*; tyfni eða tyfvi, *A*; gamlir, *R.*

eyddum eldi
ættir[1] þeirra,
unnum[2] röskvan
ráðmann[3] tekinn.

11. Hann lèzt seggjum
segja kunna,
hvar til hodda var
hægt[4] at ráða;
hann bað oss gánga
götu lengra,
ef vèr vildum fè
fleira eiga.

12. Rèðu Bjarmar[5]
brátt at verja
haug hermönnum
ok hamalt fylkja;
lètum þegna,
áðr þaðan færum,
ofurs marga
öndu týna.

13. Rèðum skunda
til skipa ofan,
þá er flótti var
á fen[6] rekinn;
mistum bæði
báts ok knarrar,
[auðs ok ýta[7],
er ofan kvomum.

---

1) eignir, *R.* 2) fengum, *B*; unz at, *R.* 3) *þannig E*; röskr var ráðmaðr, *R*; löskvann láð mann, *A*, *B*. 4) hæft, *B.* 5) borgarmenn, *B*, *R.* 6) fót, *B.* 7) ok ýta, er vèr, *R.*

14. Skjótt nam[1] kinda
í skóg þykkvum
eld brennanda
uppi á landi,
svá við lopti
lètum leika
[háfan ok rauðan
hrottgarm viðar[2].
15. Sáum skjótliga,
at skyndi at landi
skeiðr vegligar
ok skrautmenni;
fegnir urðu
þeir er fyrir voru
frændr mínir,
þá finnast gjörðum.
16. Lètum skeika
at sköpuðu
[drengmenn snarir[3]
í drífaveðri;
sýndist seggjum
sandr[4] á þiljum,
lands von liðin,
lá ek eigi þar.
17. Kvomum at eyju
utan brattri
sumar síðla,

[1]) namk, *R.* [2]) heitan hripuð í hráum viði, *R.* [3]) drengir snotrir, *R.* [4]) var, *b. v. B.*

þá var segl rifit;
gjörðum firðar
flestir allir
skipum til hlunns
skjótt at ráða.

18. Slógum tjöldum,
en sumir fóru,
björnu at veiða,
þeir er boga kunnu;
rèðum í eyju
upp at kinda
bál brenniligt,
[ok stóð björn[1] fyrir.

19. Kvoðust fjallbúar
flytja mundu
oss úr eyju,
nema utan færum;
þótti eigi rekkum
[rómr at heyra,
hagligr[2] sá er var
[hraun skjöldúnga[3].

20. Ugðum ekki sízt[4]
eyjar til[5]
vopns vígligir[6]
viðir kvomu;
hlóðu bragnar
fyrir bjarg framan,

---

[1]) þessi stóð, *R.* [2]) r. a. h. hógligr, *B*; rómu at heyja hágligr, *R.* [3]) Hrumnirs skjöldúngr, *R.* [4]) Ugðu e.?s., *E*; Voguðum ekki víst, *R.* [5]) skeggjar, *E.* [6]) er, *b. v. E*, *R.*

vegg sterkligan,
var ek[1] at því.
21. Rèð ek at gánga
með Gusisnauta
beggja ámilli
bjargs ok eisu[2];
skaut[3] ek í auga
einum þussi[4],
ok í brjóst framan
bjarga freyju.
22. Þar fèkk ek heiti,
þat ek hafa vildi,
er mik úr fjöllum
flögð kölluðu,
kvoðust Oddi
Örvar vilja
byr bráðliga
áburt gefa.
23. Búnir lètumst
áburt þaðan
brátt úr eyju,
þegar byr fengi;
heilir kvomum
heim úr þeirri,
gjörðu fagna
frændr hollvinum.
23. Vorum allir

1) enn, *b. v. B.* 2) esju, *B*; eyjar. *R.* 3) laust, *R.* 4) einu flagði, *R.*

vetr þann saman,
gulli gladdir
ok gamanmálum;
drógu firðar,
þegar frèrum lètti,
heldr skrautligar
skeiðr at vatni.

25 Sigldum síðan
suðr með landi
tállaust[1] skipum
tveimr ok einu;
væntum fengjar
þar[2] er fyrir voru[3],
[ef vèr Elfarsker
öll[4] könnuðum.

26. Fundum um síðir
fyrir í sundi
þegna nýta
Þórð ok Hjálmar;
frèttu firðar,
þeir er fyrir voru,
hvort vèr vildum frið,
[eðr á för[5] halda.

27. Báru rekkar
ráð sín saman,
þótti eigi firðum
fèvon mikil;
kjöru Hálegir

[1]) taflaust, E. [2]) þeir, B. [3]) vissu, B, E. [4]) skjólt ef Elvarsker, B; ok Elfarsker öll, R. [5]) á fróni, R.

kost hinn vildra,
rèðum leggja
lag vort saman.

28. Hèldum allir
úr [hafi utan[1],
þegar fullhugar
fengjar væntum;
hræddumst ekki,
meðan höfðíngjar
heilir rèðu
fyrir herskipum.

29. Vorum reiðir,
þá er randberendr
hoska hittum
fyrir Hólmsnesi;
rèðum eignast[2]
[alla Gerðar[3]
snyrti drengja[4]
af[5] sex skipum.

30. Vorum allir
vestr með Skolla,
þar at landi sat
lýða drottinn;
báru bragnar
blóðgar undir[6],
sverðum skornir[7]
en vèr sigr höfðum[8].

---

1) höfu skipum, *R.* 2) síðan, *R.* 3) allar eignir, *E*; öllum eignum, *R.* 4) manna, *B.* 5) ok, *R.* 6) randir, *B.* 7) meiddir, *B*, *E*, *R.* 8) þaðan, *B*, *E*, *R.*

31. Höfðu jarls liðar[1]
útnes hroðit,
rogþíngs[2] vanir[3],
sem [refar hundum[4];
unnum við Hjálmarr
er hinneg fór[5],
eldi ok husla[6]
eytt skipum[7].
32. Frètti Guðmundr,
ef ek fara vilda,
heim at hausti
ok honum fylgja;
sagða ek svinnum[8],
at ek sjá vildi
norðr aldregi
niðja mína.
33. Mæltum allir
mót at sumri
austr í Elfi
til útfarar;
vildi Hjálmarr
hinn hugumstóri
sveit mína suðr
með sèr hafa.
34. Fóru teitir
tveggja vegna
brynþíngsboðar,
þegar byrir fengust;

1) niðjar, *R.* 2) randþings, *R.* 3) vinir, *B.* 4) refum hundar, *R.* 5) fórum, *B*, *R.* 6) uslu, *B.* 7) lángskipum, *B*, *R.* 8) svà, *R.*

sigldum síðan[1]
Svíþjóðar til,
sóttum Íngva[2]
til Uppsala.
35. Mèr gaf Hjálmarr
hinn hugumstóri
fimm bólstaði
á fold saman;
unda ek auði,
meðan aðrir[3] mik
hríngum kvöddu[4]
ok heils friðar.
36. Fundust allir
á fegins dægri
svenskir seggir
[ok Sigurðr[5] norðan[6];
ræntu ýtar
eyjarskeggja
auði öllum,
en þeir elds bíða.
37. Lètum vestr þaðan
vandar[7] fáka
Írlands á vítt[8]
[öldr kenna[9];
höfðu þeirra[10],
er þángat kvomum,
drengir ok drósir
drifit úr húsum.

[1]) þegar, *E*, *R*. [2]) Inga konúng heim, *R*. [3]) allir, *R*. [4]) gæddu, *R*. [5]) *þannig B*; *v. ‡ A.* [6]) vestan, *R*. [7]) venda viðirs, *R*; vendils, *D*; vinda, *E*. [8]) fit, *R*. [9]) ö. koma, *B*; eldar brenna, *R*. [10]) paðra, *E*; þaðan, *R*.

38. Rann ek at víðri
vagns slóðgötu
unst ek strengvölum
stríðum mætti;
munda ek Ásmund
auði mínum
aptr ódáin
öllum kaupa.

Sá ek um síðir,
hvar saman komu[1]
karlar röskvir
ok konur[2] þeirra;
þar lèt ek fjóra
frændr Ölvarar[3]
eggleikshvata
öndu týna.

40. Rèð mik úr vagni
víf at kveðja,
ok þær höddum[4] mèr
hètu góðum;
bað mik snót koma
sumar hit næsta,
lèzt þá at launum
leita mundu.

41. Varat[5] sem brynja
eðr bláir hríngar
ísköld um mik
ofan[6] fèlli;

---

[1]) fóru, *B*, *R*. [2]) konúngr, *R*. [3]) Alvarar, *E*, *R*. [4]) haddi Sifjar, *R*. [5]) *þannig B*; var, *A*. [6]) áðan, *B*, *E*; allan, *R*.

þá er um síður
silkiskyrta
gulli saumuð
gekk fast ofan.

42. Fórum vestan
fengjar vitja,
svâ at bragnar mèr
bleyði kendu,
unst á Skýðu[1]
skatnar fundu
bræðr bölharða,
ok at bana urðu.

43. Sóti ok Hálfdán
í Svíaskerjum
mörgum manni
at morði varð[2];
unnum þeirra,
áðr þaðan færum,
hálft hundrað skipa
hroðit með stöfnum.

44. Fundum þegna,
er þaðan fórum,
teita ok sleitna
í Trönuvogum;
var eigi Ögmundi
[andrán togat[3],
komumst þrír þaðan,
en þeir níu.

---

1) Skíði, *B*, *R*. 2) urðu, *R*. 3) auðhægt tekit, *E*, *R*.

45. Mátta ek banorði
fyrir brögnum hrósa
snotra seggja
er til sjófar kvomum;
höfðum við Hjálmarr
haldit illa,
þá er Glámi[1] stóð
ígegnum spörr[2].

46. Fórum heim þaðan
hoskir drengir[3],
en haug Þórði
háfan urpum;
maðr engi þorði
oss mót gjöra,
var oss enskis
vant[4] hins góða.

47. Voru við Hjálmarr
hvert dægr glaðir,
meðan herskipum
heilir réðum;
unst í Sámseyju
seggi fundum,
þá er benlogum
bregða kunnu.

48. Lèt ek[5] falla
und fætr ara
tírarlausa
tólf berserki;

---

1) Gláma, *B.* 2) spörum, *B.* 3) þegnar, *B, E, R.* 4) vett-egis, *B.* 5) létum, *R.*

þá varð ek skiljast
á skapadægri
við þann hinn mesta
minn fulltrúa.

49. Hafða ek eigi
á aldri mínum
höfuð hraustara
hvergi fundit;
bar ek mèr á herðum
[hjálmum grimman[1],
ok til Sigtúna
síðan hafðak[2].

50. Lèt ek eigi þess
lángt at bíða,
at ek Sæundi[3]
at sjónum varð;
unnu skatnar
skip mín hroðin,
en ek sjálfr þaðan
sunds kostaðik.

51. Gekk ek um Gautland
í grimmum hug
sex dægr í samt,
áðr Sæund fyndak;
hans lèt ek liðmenn[4]
hjörfi mæta
sex ok átta[5]
með sjálfum gram.

---

1) Hjálmar dauðan, *R.* 2) færði, *L*, *R.* 3) Sæmundi, *R.* 4) liða, *B.* 5) níu, *R.*

52. Lèt ek suðr í haf
lángt um farit
at ek grunnsæfi
gildu mættak;
varð ek einsaman,
en annann veg
gumna mengi
gekk helvegu.

53. Enn kom ek þar,
at Aqvítanea
bragna kindir
borgum rèðu;
þar lèt ek fjóra
fallna liggja
hrausta drengi;
nú em ek hèr kominn.

54. Þat var fyrri,
at ek fór at senda
[orð hinum nýztum[1]
niðjum mínum[2];
varð ek svâ feginn
fundi þeirra,
sem húngraðr
haukr bráðum.

55. Brögnum þrem
buðu skatnar
margir síðan
metorð þaðra;

---

[1]) ok öllum þeim orð hin mestu, *B*; öllum, *R*. [2]) á norðrvega, *B*.

en ek þeigi
þiggja vildi,
urðu mínir bræðr
báðir eptir þar.

56. Rèð ek skunda
frá skatna liði,
unst hittak breiða
borg Jórsala;
rèð ek allr
í á fara,
ok kunna ek þá
Kristi at þjóna.

57. Veit ek at fossum
falla lèt
Jórdan um mik
fyrir utan Grikki;
hèlt enn þó,
sem hverr vissi,
ítrgjör skyrta
öllum kostum.

58. Mætta ek gammi
gljúfrum nærri,
flaug hann með mik
fjarri löndum;
þar til háfa
hamra fundum,
ok lèt mik hvílast
í hreiðri sínu.

59. Unst mik Hildir
hafði áburtu,

risi rammligr
á róðrar skútu;
lèt mik veitir
Vímra[1] elda
tólf mánaði
með sèr hvílast.

60. [Þýddumst ek hjá Hildi
hoska ok stóra[2]
raunsjáliga[3]
risa dóttur;
ok við henni
heldr sterkligan
ítran son
eiga gjörðak,
ok ólíkan
[öðrum þegnum[4].

61. Þann drap Ögmundr
Eyþjófsbani
í Hellulands
hrauns óbygðum;
fèlaga hans níu[5]
fjörvi næmdak
hefik ei víking
verra fundit.

62. Ok fleiri hafi mína
fóstbræðr drepit,
Sírni ok Garðar,

1) Rínar, *B*; Vímrar, *R*. 2) þar var ek svâ, at þýddumst ek, *B*. 3) rausnsamliga, *R*. 4) ossum niðjum, *B*. 5) ek, *B*, *E*, *R*.

gekk skegg af flagði;
var hann þá aungum líkr
at yfirliti,
ok kallaðr síðan
Kvillanus blesi.

63. Þótta ek hæfr
at hjörregni,
þá vèr börðumst
á Brávelli;
bað Hríngr þá
hamalt fylkja
Odd hinn víðförla
at orrostu.

64. Hitta ek [hugsnara
hildíngja tvo
litlu síðar,
þá vèr löndum rèðum[1];
veitta ek öðrum
vígs umgengi
úngum jöfri
arfs at kveðja.

65. Kom ek umsíðir,
þar er snarir[2] þóttust
Sigurðr ok Sjólfr
í sveit konúngs;
rèð oss skatnalið
skots at beiða,
ok skjaldar fimi
við skatna mengi.

[1]) eptír á hugsnara, lofðúnga tvo litlu síðar, *B*; hugsvinna heim í Gallía lofðúnga tvo litlu síðar, *R*. [2]) svinnir, *R*.

66. Skaut ek ei skemra
enn skilmíngar[1],
var lètt skafin
lind í hendi;
rèðum síðan
sunds at kosta,
lèt ek þá báða
blóði snýta.

67. Var mèr skjaldmeyju
skipat hit næsta,
þá er orrostu
eiga skyldum;
[veit ek at ítar
í Antekju[2]
andrán biðu
en vèr auð fjár.

68. Sóttum sverði
seggja kindir,
ok trègoðum
týndum þeirra;
barða ek Bjálka
í borgarhliði
eikikylfu
svâ at önd um lèt.

69. Þá var mèr Hárekr
hollr fulltrúi,
er hann fastnaði[3] mèr
fóstru sína;
átta ek hoska

1) skilfíngar, *B*; skjöldúngr, *R*. 2) velta ek ýtre í óþekkju, *R*. 3) festi, *B*, *R*.

hilmis dóttur,
vel rèðum snót saman
sigri ok löndum.

70. Sat ek at sælu
síðan minni
[vilgi lengi,
sem[1] ek vita þóttumst;
fjöldi er at segja
frá förum mínum,
snotrum seggjum,
sjá mun hin efsta.

71. Þèr skuluð[2] skunda
til skipa ofan
heilir allir,
hèr munum skiljast[3];
berið Silkisif
ok sonum okkrum
kveðju mína,
kem ek eigi þar.

[Ok er lokit var kvæðinu, þá dregr at Oddi fast, ok leiða þeir hann nú þángat, sem steinþróin var búin. Þá mælti Oddr: nú skal[4] þat allt sannast, er hún sagði mèr, völvan. Nú mun ek leggjast niðr í steinþróna, ok deyja þar; síðan skuluð þèr slá at utan eldi ok brenna upp allt saman. Síðan leggst hann niðr í steinþróna, ok mælti: nú skuluð þèr bera kveðju mína heim Silkisif ok sonum okkrum ok vinum. Eptir þetta deyr Oddr; slá þeir þá eldi í,

[1]) vegliga lengr enn, *R.* [2]) *b. v. hin*; *v. í A.* [3]) dveljast, *R.* [4]) Oddr sagði þá: eigi þarf nú annars enn, *M.*

ok brenna upp allt saman, ok gánga eigi fyrri frá, enn þat er allt brunnit. Svâ segja flestir menn, at Oddr hafi verit 12[1] álna hár, þvíat svâ var steinþróin, innan at mæla. Nú búa þeir ferð sína, fylgdarmenn Odds, ok ferðast austr aptr[2]; gefr þeim vel byri, til þess er þeir koma heim; sögðu þeir Silkisif þau tíðendi, [er gjörzt höfðu í ferðum þeirra, ok bera henni kveðju hans. Henni þikir þessi tíðendi mikil ok svâ landsmönnum, ok settist hún at ríki eptir þetta, ok Hárekr, fóstri hennar, með henni, ok varðveita þau land ok þegna[3], til þess er synir Odds voru til færir at taka [við ríkinu[4]. Nú vóx þar upp sá ættbogi, sem frá Oddi er kominn í Garðaríki; en mær sú, er Oddr átti eptir á Írlandi, er Ragnhildr hèt, hafði farit vestan eptir liðna móður sína, ok norðr til Hrafnistu, ok hefir þar verit gipt, ok hefir margt manna frá henni komit, ok sá ættbogi hefir þar uppvaxit, ok lýkr þar nú sögu Örvar-Odds, eptir því sem [þèr hafið nú heyrt frásagt[5].

1) 8, *M.* 2) í Garðaríki, *b. v. M.* 3) ok öllu landsfólkinu; síðan tekr hún ríkisstjórn, ok Hárekr með henni, en börn þeirra Odds vaxa þar upp allt, *M.* 4) til forræða, þá taka þeir við ríkisstjórninni, *M.* 5) fróðir menn hafa sagt, *B*; hefi hana á bókum heyrt, en þóat ek hafi mörg orð þau mælt eða framsagt í þessa sögu, er ónytsamlig eru, þvíat ek veit eigi, hvârt nokkut orð er satt í eðr ekki, þá bið ek þat, at guð almáttkr láti aungan gjalda, þann er les eða hlýðir eða ritar. Nú sè guð varðveitandi oss frá öllum illum hlutum, meðan vèr lifum hèr í heimi, en styrki oss til allra góðra hluta, en eptir þessa heims líf farim vèr með honum sjálfum til eylífrar dýrðar, þeirrar er hann hefir fyrirbúit öllum sínum vinum um óendiligar aldir alda, amen, *M.*

## Hèr byrjast sagan af Án, er kominn var frá Katli hæng[1].

Í þann tíma, er fylkiskonúngar [voru í[2] Noregi, hófst þessi saga; þá rèðu feðgar 2 fyrir einu fylki; hèt Ólafr hinn eldri, en Íngjaldr hinn ýngri; þó var Íngjaldr fulltíða, er sjá saga gjörðist. Ólíkt var þeim feðgum farit; Ólafr konúngr var vinsæll, en Íngjaldr var undirhyggjumaðr hinn mesti. Björn ok Ketill hètu hirðmenn þeirra; hann var kallaðr Björn hinn sterki; þeir voru lyndislíkir ok Íngjaldr konúngr, uppivöðslu miklir ok tilleitnir. Dóttur átti Ólafr konúngr, þá er Ása hèt, kvenna fríðust ok vel at sèr. Þeir feðgar rèðu fyrir Naumdælafylki. Ólafr konúngr var þá gamall, er hèr var komit sögunni. Hann hafði átt 2 drottníngar, ok var önduð hvortveggi; hèt sú Dís, er hann átti síðar, hana hafði fyrr átt Önundr konúngr uppsjá af Firðafylki, ok átti við henni 2 sonu, ok hètu Úlfr hvortveggi; þeir rèðu nú fyrir Firðafylki, ok þóttist Íngjaldr eiga þat ríki hálft við bræðr sína í erfð eptir móður

[1]) *þannig D, E, v. í A.* [2]) rèðu fyrir, *E.*

sína. Átti hann við þá 2 orrostur, ok hafði í hvorritveggju ósigr. Björn er bóndi nefndr; hann bjó í Hrafnistu, hún liggr fyrir Naumudölum. Björn var í hinni meirri bóndatölu norðr þar; kona hans hèt Þorgerðr, hún var dóttir Böðmóðs Framarssonar ok Hrafnhildar Ketils dóttur hængs. Þau Björn áttu þá dóttur, er Þórdís hèt; hana átti Gautr á Hamri, gilldr maðr fyrir sèr, þau áttu þann son, at Grímr hèt; hann var snemma bæði mikill ok sterkr; áttu þau Björn ok Þorgerðr fleiri börn; Þórir hèt son þeirra hinn eldri, vænn maðr ok kurteis ok vel at sèr um alla hluti; hann var hirðmaðr Ólafs konúngs, ok hafði mikil metorð af honum, ok þat til marks um, at Ólafr konúngr gaf Þóri sverð, þat er þeir frændr höfðu lángan tíma átt, ok [miklar menjar[1] afhaldit, þat hèt Þegn; þat var bæði lángt ok breitt, ok beit allra sverða bezt; þat var þrískáfit. Laungum sat Þórir annann vetr með konúngi, en annann hjá feðr sínum. Hinn ýngri son Bjarnar hèt Án; hann var snemma mikill vexti ok ekki vænn ok heldr seinligr, en um afl hans var mönnum ekki kunnigt, því at hann reyndi þat aldrí, heldr þótti hann heimsligr[2]; lítit ástríki hafði hann af feðr sínum, en móðir hans unni honum mikit. Ekki þótti mönnum hann vera líkr um neitt enum fyrrum frændum sínum, sem var Ketill hængr ok aðrir Hrafnistu menn, nema á vöxt.

1) mikit, E. 2) heimskligr, E.

Ekki lagðist Án í eldaskála, en þó var hann afglapi kallaðr af sumum mönnum; við aungvar vandist hann íþróttir; leið svâ fram, þar til at hann var 9 vetra; hann var þá ekki minni enn Þórir, bróðir hans; hann var harla ósinniligr[1], lítt var hann ok settr at klæðum, þvíat úti voru á honum bæði knè ok olbogar; en er hann var 12 vetra, hvarf hann á burtu 3 nætr, svâ at engi vissi, hvat af honum varð. Án gekk í eitt skógar rjóðr, hann sá þar stein einn standa mikinn ok mann hjá einum læk; hann hafði heyrt nefnda dverga, ok þat með at þeir væri hagari enn aðrir menn; Án komst þá á millum steinsins ok dvergsins, ok vígir hann utan steins, ok sagði hann aldrí skulu sínu inni ná, nema hann smíðaði honum boga svâ stóran ok sterkan, sem við hans hæfi væri, ok þarmeð fimm örvar; þat skyldi þeim fylgja, at hann skyldi um sinn hæfa með hvörri, þat er hann skyti til eptir sínum vilja; innan þriggja nátta skyldi þetta gjört vera, ok beið Án þar meðan. Svâ gjörði dvergrinn, sem fyrir var skilit, ok með aungum álögum; en dvergrinn hèt Litr. Án gaf honum skotsilfr nökkut, er móðir hans hafði gefit honum; stól vænan gaf dvergrinn Án; síðan fór hann heim, ok bar stólin á baki sèr, hlógu menn þá mjök at honum. Án gaf móður sinni stólinn, ok kveðst henni eiga bezt at launa.

2. Þá er Án var átján vetra, var hann öll-

[1]) ósýniligr, L.

um mönnum stærri norðr þar; hvorki hafði honum þá enn vaxit vit nè kurteisi; þann vetr hafði Þórir setit í Hrafnistu, ok hafði þá fengit kenníngar nafn af sverði sínu, ok var hann kallaðr Þórir Þegn. En um vorit bjóst Þórir at fara á konúngs fund. Án biðr at fara með honum; en Þórir neitar því þverliga; en er hann fór út til skips, kom Án þar farandi. Þórir spyrr, hvat hann vili þá. Án segist með honum fara skulu, hvort er hann leggi þar nökkut loforð til eða ekki. Þórir segir hann hvergi fara skyldu: kann þú ekki at vera hjá höfðíngjum, segir hann, at varla má við þína siðu hæfa heima hèr; hann tók þá Án, ok batt hann við eina eik heldr sterkliga; ekki brauzt Án við. Síðan fór hann ok eigi lángt, áðr hann sá, at Án fór þar, ok dró eptir sèr eikina, hafði hann kippt henni upp með rótum. Þórir mælti þá: undramaðr ertu, frændi! at afli, en eigi lízt mèr þó ráð, at þú farir á konúngs fund með þvílíka skapsmuni, sem þú hefir. Þórir skar þá af honum böndin, ok mælti: lítils villtu virða mín orð; hann brá þá sverðinu Þegn, ok ógnaði honum með: þetta sverð mun kenna þèr sannsýni, er þú hefir aungva áðr, ok mun þat þik ekki mikils meta, ok stemma ferð fyrir þèr. Án mælti: ekki muntu hræða mik sem sprotabörn[1]; ok at þú vitir, hvers ek á kosti við þik, þá skaltu nú sjá þat; Án þreif þá til Þóris, ok brá honum á lopt, ok hristi hann

[1]) spenabarn, *E.*

sem barn, ok mælti: sjá nú, hvat þú [átt undir[1] þèr, ef okkr þikir eigi einn veg! hann lèt hann þá lausan, ok sá Þórir þá, hvert efni í manninum var. Fóru þeir þá útá skip; en at því hugði Án, hvar hann skyldi þess koma sèr, at öllum þætti sèr mest mein at. Kaupmenn spurðu, hverr annann, hverr sjá maðr væri. Án mælti: því spyrì þèr mik eigi at? ek kann at segja yðr; ek heiti Án, ok ættaðr úr Hrafnistu, bróðir Þóris þegns; en þeir kvoðust ekki trúa því; hann kvað þat satt, er hann segði[2]; þeir lètu hann skyldu þar velkominn. Án var klæddr lítt. Þórir bað skera vöru til klæða honum, [svâ at hann væri eigi svâ afleitinn[3], ok svâ var gjört, kom honum þat ekki mjök at haldi, þvíat hann festi [ófimliga á sik[4], ok varð honum engi búníngsbót at þessu. Vel voru skipverjar til Áns, kunni hann ok eigi annat í móti at leggja.

3. Þeir Þórir kvomu við Naumdæla[5] fylki, ok spurðu þar þau tíðindi, at andaðr var Ólafr konúngr, en Íngjaldr var þá einn konúngr yfir því ríki[6], er þeir höfðu báðir átt. Þórir mælti þá: sá lèzt þar, er maðr var fremri[7], ok munda ek eigi norðan hafa farit, ef ek hefði vitat þessi skipti. Þórir kemr nú at konúngs bænum. Án hafði með sèr boga sinn, ok er þeir kvomu at höllinni, bendir Án upp bogann, er ákafliga var

[1]) mátt, *E.* [2]) þeir skyldu líða hann, sagði Þórir, *b. v. E.* [3]) *v. í E.* [4]) sik opt ófimliga, *E.* [5]) Naumudals, *E.* [6]) fylki, *E.* [7]) frómari, *E.*

sterkr. Þórir spyrr, hvat þat skyldi. Án kvað þat brátt mundu sýnast; hann lèt koma strenginn fyrir brjóst sèr, en bogann um herðarnar; skeyti hafði hann í hendi sèr, ok er þeir kvomu at hallardyrunum, gáfu dyraverðirnir rúm Þóri, en um ferð Áns varð skarkala mikit, þvíat hann breytti ekki búníngi sínum; síðan gekk hann at dyrunum fast, en boginn skagði um herðarnar, ok vannst ekki rúm til í dyrunum, ok varð boginn annathvort at brotna eða beygjast mjök, þvíat dyrnar stóðust atgaunguna; þá komst Án í höllina, bendist boginn, en brotnaði ekki. Án sezt utarliga niðr, en Þórir gekk fyrir konúng, ok kvaddi hann. Konúngr tók því vel, ok bað hann fara til öndvegis gegnt sèr: skulu þèr hèr velkomnir með oss; eðr hverr var í för með þèr, eða hví skilr þessi maðr svâ skjótt við þik? Þórir mælti: sá maðr er bróðir minn, ok hefir varla á sèr alþýðu hátt. Konúngr mælti: hann skal hèr velkominn, ok sitì hann hit næsta þèr; gjörum vèr þat fyrir þínar sakir, ok heyrt höfum vèr getit Áns, ok er hann undramaðr í mörgum greinum. Þórir hittir Án, ok segir honum konúngs orð: ok snú til þín sóma hlut, frændi! Án svarar: ekki munum vèr um rúm skipta, enda liggr mèr meira til[1] at þiggja vetrvist; Þórir kveðst hyggja, at hún mundi til reiðu. Eigi at síðr gekk Þórir fyrir konúng, ok mælti: vetrvistar vil ek beiða fyrir Án frænda

1) um, *E.*

at hans vilja, þó sæti sè kyrt. Konúngr mælti: til reiðu er honum vetrvist, en hvat er honum annat sæti betra enn hjá þèr. Þórir kvaðst aungvan hlut mega í eiga við hann, hæfir honum þetta gjör fyrr at vilja einn ráða, ok því var ek tregr til, at hann færi með mèr, at ek vissa at honum var kynliga varit. Þórir sagði Án konúngs orð; Án mælti: þá er nú vel vorðit, ok gaktu, bróðir! til rúms þíns. Þórir gjörði svâ. Án var fálátr ok ósiðblendinn, var hann lengstum í rúmi sínu, nema þá hann gekk erinda sinna. Hirðmenn hlógu at honum mjök, ok var Ketill foríngi at því; Án daufheyrðist við þat, ok leið svâ fram til jóla; þá lýsti konúngr yfir því, at hann mundi gefa jólagjafir, sem faðir hans hafði gjört, kvaðst svâ vilja sína menn at sèr hylla; ok affángakveld jóla vitjuðu menn gjafanna allir nema Án. Konúngr spurði, því Án vitjaði eigi gjafanna, skal hann ei gjafir þiggja sem aðrir? Þetta var sagt Án; örglaðist[1] hann þá upp, ok mælti: gott þikir mèr gull at þiggja. Ekki var maðrinn sinniligr[2], þar er hann skauzt fram fyrir konúnginn; furðu var hann mikill at sjá. Konúngr mælti: í hverju gall svâ hátt, Án! er þú gekkst hèr inn um dyr í fyrsta sinn? Í boga mínum, sagði Án; því at svâ voru litlar hallardyr yðar, konúngr! at hann bendist allr saman, er ek hafða hann á herðunum, áðr ek komst inn, ok lèt í hátt, er aptr hljóp. Þú skalt, sagði kon-

[1]) stóð, E. [2]) sýniligr, E.

úngr, heita Án bogsveigir. Hvat gefr þú mèr at nafnfesti? sagði Án. Eignast hèr gullhríng í alltsaman, sagði konúngr, í nafnfesti ok jólagjöf, þvíat ek heyrða, hvat þú mæltir áðan, enda muntu allsterkr maðr, svå stórr sem þú ert; þat ætla ek, kvað Án, at ek sè allsterkr, en ekki veit ek til. Án tók við, ok þakkaði ekki; hann lèk sèr at hríngnum, ok setti á brynju sèr, hann tók gaupnunum til fyrir neðan, ok eitt sinn skauzt hríngrinn íbrott; hann fór at leita í forstofuna, en er hann kom aptr, var hann því líkastr, sem hann hefði í saurnum laugast; sessunautar hans spyrja, því hann væri svå ferligr, hann kvað varla atspyrjanda, en síðr segjanda; en segja munda ek þèr, ef þú leyndir; hann kveðst leyna mundu. Án sagði: hèr mun sannast þat, er sagt er: afgjarnt verðr öfundar fè[1], týnt er nú hríngnum. Sessunautr hans mælti: látum kyrt yfir því; Án mælti: svå skal vera, en ekki er mèr þetta ætlat, ok vil ek gefa þeim, sem finnr; þetta kom fyrir hirðina, ok sagði hverr öðrum, en Ketill hló at mjök, ok kvað farit hafa, sem von var at, at gefa fóli því[2] gull; hann fór þá, ok leitar at hríngnum með hirðinni, ; þeir þreyngdust fast í forstofunni. Án mælti þá: hverju sætir, at menn gánga hèr á höndum ok starfa í sauri, enda heldr hèr við sviptíngar? honum var sagt, at menn vildu bæta slis hans, ok finna hrínginn, Án mælti: [eigi em ek tilminnugr[3], hèr er nú hríngrinn á hendi mèr, en nú galt ek

[1]) glis, E. [2]) þvílikt, E. [3]) ok brosti, E.

yðr einn tíma, er þèr hafið mik opt dárat. Hirðmenn kváðust mjök spottaðir; Án kvað svâ eiga at vera; síðan varð hvíld á gabbit, en þó dró til hins sama, ok (var) Ketill mest at því.

4. Einn dag var þat, at þeir bræðr voru 2 úti hjá höllinni, þá komu hirðmenn út, ok mæltu: þú munt sterkr maðr vera, Án! hann svarar: vera má, at svâ sè, en ekki hefi ek reynt þat. Þeir mæltu: villtu glíma við Björn? Hann svarar: þar skal yðr kost á gjöra; þèr skuluð þjóna mèr, ok gjöra eld stóran fyrir mèr. Þeir gjöra svâ, ok buðu honum til at bakast. Hann kvað sèr meiri þörf mundu, þá er hann kemr frá fánginu, at mýkja sik. Síðan bjuggust þeir til glímu í höllinni. Án var þá kominn í loðkápu, er móðir hans hafði gefit honum, ekki hafði hann belti um sik, en hún var svâ síð, at hann dró hana eptir sèr meir enn álnarlángt, tóku ermar fram af höndum honum. Björn hljóp þá at Án, en hann stóð kyrr fyrir. Björn var allra manna sterkastr; hann greip Án upp, ok kastar honum utar[1] á bálit, svâ hann kom at herðunum í eldin niðr, en fætrnir skullu utar á bálkinn; þá varð hlátr mikill. Án stóð seint upp; ekki sakar hann eldrinn sakir loðkápunnar. Konúngr mælti þá: eigi þiki mèr þú, Án! jafnsterkr sem þú lèzt. Án mælti: sá þiki mèr, konúngr! sterkari, er fyrri fellr. Konúngr hló þá. Án lèt at sèr belti, ok stytti

[1]) út, E.

sik upp, ok braut upp ermarnar. Þeir hlaupast þá at í annat sinn. Án dró þá Björn at sér, ok veifir honum sem barni, ok slaungar honum síðan utar á eldinn, ok lét hann svå lausan. Hirðmenn hlupu til, ok kipptu honum af eldinum, ok var Björn brunninn mjök. Þeir kvoðu mann þenna ærit sterkan; þat fèll Án vel í skap sínum, at hann var sterkr kallaðr, ok kvað þá nú mega sjá, at hann vildi, at Björn bakaðist við eldinn, ok kvað honum meiri þörf enn sèr. Án kvað þá [vísu:

Skelldi[1] mèr sem skyldi
skelkinn maðr við bælki;
við mátta ek þá vættki
vinna, svei[2] þeim æ manni;
varð í fáng at fallast,
felldum eldsmat nökkut;
honum synjaðák heiðri;
svei þeim sè[3] æ manni.

Nú leið á vetrinn, ok einn dag voru þeir bræðr enn úti staddir 2 saman. Þá mælti Þórir: unir þú eigi illa við híngatferð þína, þar sem þú hefir sótt híngat háð ok spott? Án kveðst eigi illa við una: hefik hèr þegit gull ok vetrvist góða; en ek hirði eigi um spott þeirra. Þórir sagði: ek mun raun til gjöra, hversu mèr þíkir; ek mun gefa þèr sverðit Þegn, at þú drepir einhverja 2 konúngsmenn, ok setjast sjálfr fyrir sökina. Án mælti: ek vil sjá sverðit, ok mun

1) Við skeldi, *E.* 2) snar, *E.* 3) *b. v. E.*

ek þat þiggja; en ekki mun ek heita þeim launum. Ok annann dag um drykkjumál, reis Án upp, ok snýst at þeim, sem honum sat næst, ok horfir á hann, ok svâ gerði hann við alla í höllinni; fyrir konúngi stóð hann lengst, síðan gekk hann fyrir Þórir, ok leggr sverðit á borð fyrir hann, ok kveðst ekki hafa vilja; þar varð at hlátr mikill; en Þóri þótti stórilla. Einn tíma funðust þeir bræðr 2 saman, ok spyrr Þórir: því fórtu svâ óskapfelliliga, bróðir! ok allt öðruvís, enn ek hugða. Án sagði: ek hugða at, hver hefnd mèr þótti í konúngsmönnum, ok þótti mèr engi; en því horfða ek lengst á konúng, at þar var helzt reik á ráðinu, hvort ek munda afráða. Þórir mælti: of heimskr ertu, þvíat konúngr er þèr velviljaðr. Án sagði: ekki þurfu við um hann at ræða, þvíat ek hygg at engi mun verri maðr uppvaxa í Norigi enn konúngr sjá; skildu þeir þá tal sitt, ok leið at vori. Þá lætr Íngjaldr konúngr þíngs kveðja; hann stóð upp á þínginu, ok mælti: þat er mönnum kunnigt, at faðir minn er dauðr, ok ek á ríkit þetta, ok vil ek því lýsa, at ek vil þeim öllum yfirbætr veita, er ek hefi afgjört við, ok gefa þeim ok öllum yðr góð lög, en til ferðar skylda[1] ek yðr mína þegna, ok sækja á fund bræðra minna, ok vèr mættum semja [friðsamliga vor ríki, ok[2] mun ek fá mínum mönnum vistir ok mungát. Hèr verðr at góðr rómr.

[1]) skikka, *E.* [2]) frið vor á meðal ok vorra ríkja, *E.*

þá mælti Án: vel mun þèr þikja konúngr mæla, bróðir! [Þórir[1] kvað þat upp á finnast[2]. Án sagði: ek kann þèr þat at segja, at nú er hann þeim[3] verst viljaðr, ok þikist þann vegin mestu illu mega á leið koma við þá. Þórir kvað hann ekki afhugaðan við konúng. Eptir þat búast þeir. Án spyrr Þóri: hvert hann vill, at hann fari með hirðinni, [ok yðr[4] ok konúngi er ok lítit erindit, ef ek fer svâ búinn í burt, ok allósýnt, hversu mèr tekst hèr vistinn meðan; em ek fúsari at fara með yðr, þat mun lengst uppi ok gegna verst. Þórir kveðst vilja, at hann færi, ok halda þeir norðr með konúngi, ok liggja undir eyjum nökkurum. Þá mælti konúngr, at skyldi reisa hafnarmerki; þá kvað Án vísu:

Vel þèr selja!
stendr þú sjó nær
laufguð harla vel;
maðr skekkr af þèr
morgun döggvar,
en ek at þegni
þrey nátt sem dag[5].

Þórir mælti: eigi skaltu þess þurfa, því ek mun gefa þèr sverðit Þegn. Án segir: ekki þreyr ek at

[1]) *þannig leiðrètt fyrir* konúngr, *í A.* [2]) já, sagði Þórir, þvíat konúngr kvað þat upp, at vilja finna bræðr sína, ok semja frið við þá, *E.* [3]) sem, *E.* [4]) *v. í E.* [5]) *E hefir þannig:* margt drífr á mik morgunregn, mun svâ mælt í rímu, en ek verð af þíðum þegn þreya nátt sem grímu; *B hefir:* þú ert blómlig eik, en munt þó snögt niðr hrynja; margt morgunregn drífr á þik, en ek syrgì eptir þegn daga sem nætr.

þeim þegni. Ketill sagði þá: ek ætla, at þú þreyir at karlmanni nökkurum, [ok villtu serða hann[1], ok gjörðu þeir at þessu gys mikit ok dáraskap. Eigi er svâ, sagði Án; ekki þreyr ek at þeim þegni, ek þreyr at þóri þegn, bróður mínum, því hann er svâ grunnhygginn, at hann trúir konúngi þessum, en ek veit, at hann mun honum at bana verða. Síðan koma þeir við Firðafylki; þá sagði Íngjaldr konúngr: ek hygg at vèr sèum nú komnir í ríki bræðra minna, ok hefik þat spurt, at [ekki viljast við oss[2], ok þiki mèr vænst, at vèr munum berjast, ok frelsa oss svâ af mótgángi þeirra. Margir vildu þá heldr hafa heima setit enn þar komit. En er þeir bræðr spyrja þat, safna þeir liði í mót Íngjaldi konúngi; en Íngjaldr konúngr bað gefa mönnum at drekka, svâ at þeir sè framgjarnir. þá kom at Án mikit uxahorn, hann kvað vísu:

því betr mèr þikir,
ef þá skal valr falla,
nær vèr fráligar færum
fót at geira móti[3];
drekkum allt af uxa
enni geira hlenni,
vera[4] mun snarpra sverða
svipun, ef ek skal ráða.

Konúngr mælti: þetta er vel ort, ok er sá eigi

[1]) v. í E. [2]) þeir vilja eigi við oss sættast, E. [3]) njóti, E. [4]) verða, E.

berskjaldaðr, er þú gengr á aðra hönd. Án mælti: ekki vænti ek, at þat verði því nýt í dag, þóat ek kunna fylgd at veita. Konúngr kvaðst ekki vita, [hvat þegna[1] hann væri. Án lèt hvorutveggja þeirra sýnast mundu; hann lagðist niðr á skipi, þá aðrir gengu upp at berjast. Þórir mælti: allillr er þinn hlutr, hafa fyrst farit híngat, ok liggja nú á skipi, er liðs er þörf; ek ætlaða at hugr mundi þik fríða. Án kvað eigi hirða um orð hans. Konúngr gekk upp, ok kom landherinn á móti þeim; hittust þeir við skóg nokkurn, ok börðust. Án stóð upp, ok gekk til skógar, ok á einn stofn; hann sá þaðan yfir liðit hvorttveggja ok 2 merki framborin fyri bræðrum Íngjalds konúngs. Án mæltist við einsaman: því mun eigi þat ráð, at veita lið Íngjaldi konúngi, ok þat þó at honum er mest óþörf at, ok hann girnist sjálfr; ek mun skjóta, ok er meiri vân at ek hæfa, því at þat sagði sá, er mèr gaf bogann ok örvar þessar, at ek munda beinskeytr verða, en þat var dvergrinn, sá er ek hitta fyrr í skóginum í Hrafnistu, en menn ætluðu mik horfinn, at við dvergrinn skiptumt þessu við, ok skal nú reyna smíðina, er hann leysti sik ok sitt höfuð, en áðr vígða ek hann utan steins, lèt hann mik skjóta mundu 3 frægðarskot, ok eitt sinn með hverju skeyti; hann skaut ok stefndi á annann þeirra Úlfanna, ok fló örin í gegnum hann, ok í kjör at baki honum; fèll þá þegar merkit. Án náði örinni, ok straук til skip-

[1]) hverra þegn, *E.*

anna; ok er menn sáu þat, þá sögðu þeir konúngi, at hann mundi snærisspjóti lagðr eða skotinn. Um kveldit kvomu menn til skipa; var þá alltíðrætt um skotit. Án heyrði þat, ok kvað þá mega sækjast, ef nú er hálfunnit. Um morguninn eggjaði konúngr menn til uppgaungu, ok kveðst vænta sigrs. Án var eptir, ok kvaddi hann engi til uppgaungu. Honum kom í hug, at Íngjaldr konúngr mundi þurfa liðs; hann skaut ör annarri, kom sú fyrir brjóst Úlfi, ok var hann því óharðskeytari enn furr, at örin stóð þar föst; kendu menn skeytit, ok ætluðu þat sem var, at einn maðr mundi eiga bæði skeytin, þótt þat sæist eigi. Konúngr mælti: fyrir laungu vissa ek, at Án mundi atgjörfismaðr vera. Konúngr sendi eptir honum, ok segir at hann ætti ágætlaun fyrir at hafa. Sendimenn sáu, at Án var þá kominn á bát, ok eigi allnærri þeim; þeir sögðu honum konúngs orð ok kveðju, at hann mundi virðíngu mæta fyrir framgaungu sína. Án mælti: ek mun eigi fara á konúngs fund, þvíat hann mun mèr unna gálgans fyrir mitt starf. Menn kvomu aptr, ok sögðu konúngi; hann segir: eigi var hann fjargætr, ok vilda ek, at eigi gjörði hann fleiri launvígin við göfga menn, ok ætlaða ek bræðrum mínum líf ok eiga ríki undir þeim. Þórir mælti: illa ferr þèr, vildir þú heldr sjálfr gjört hafa; ekki var þat um hríð, at eigi vildir þú þá feiga. Konúngr svarar:

hefði hann uppgengit með oss, væri hann verðr sæmdar, en fyrir launvíg væri hann verðr bana. Þórir kveðst ætla, at jöfn laun mundi hann honum fyrirhyggja. Íngjaldr tók eignir bræðra sinna, ok setti menn yfir fylkit; síðan var orpinn haugr eptir þá, er heitir Úlfahaugr. Konúngr var á skipum ok búinn til burtfarar. Ketill kveðst vilja hitta vin sinn, er skamt bjó þaðan í burt; konúngr svarar: lát eigi sein at þèr, þvíat vèr siglum snart. Ketill hafði skeyti Áns í hendi sèr; hann kom at bæ bónda eins skamt frá skipunum; ekki var honum sá kunnr. Bóndi heilsaði honum, ok spurði at nafni; hann svarar: ek heiti Án bogsveigir, er þú munt nú heyrt hafa getit af skotum mínum. Bóndi svarar: án mættum vèr hafa verit þinna skota hèr, þvíat höfðíngjar vorir voru vinhollir; en ver með oss í nótt! hann kvað þat mundu þekkjast. Ekki var þar fleira manna enn kona hans ok dóttir, hún hèt Drífa. Nú er at segja frá Án, at hann rær á einn leynivog, ok kom at þeim sama bæ, ok nam nú staðar, ok hlýðir til tals manna. Gestrinn tók til orða: er sjá dóttir þín, bóndi? svâ er satt, sagði hann. Ek ætla mèr at byggja rekkju með henni í nótt, ok mun yðr eigi betr boðit; karli kveðst ekki mikit um þat; Ketill kveðst gjört hafa meiri stórvirki, enn ná rekkju hennar. Ok er Án heyrir þetta, drap hann högg á dyr, ok gekk at dyrunum; þræll gekk til hurðar ok allt út mjök, áðr hann sá manninn; hann spyrr

hinn at nafni; sá kveðst Án heita; þrællinn sagði: hèr er mikit um Ánagáng, svâ hèt ok sá, er kominn er inni. Án sagði svâ vera mega, ok gekk inn, ok settist gegnt Katli. Bóndi spyrr hann at nafni; [þessi nefndist Án. Bóndi sagði: hèr er Ánótt mjök, eðr' villtu með oss vera? hann kveðst þat þiggja mundu; en hafa verð ek dvöl nökkura, áðr enn ek mötumst, eðr hefir hann Án nefnzt, [Ketill! hann sagði[2]: ek brá því í gaman. Án mælti: þetta hefir vel at móti borit um fundi okkra; vorum við í einni vist báðir, ok leitaðir þú eptir nökkurum hlutum um atgjörfi mína, ok þóttist þú ekki af því sjá, heldr hitt at ek væri skiptíngr, en ek em þó atgjörfismaðr, ok kann ek lækníng at gjöra vel at kvennsemi; ek heyrða áðan, at þú leitaðir eptir við dóttur bónda um hjáhvílur; hann tók nú lyrg honum, ok lèt hann skurka út, ok kvað vísu:

þat muntu finna,
er þú flór mokar,
at þú eigi ert
Án. bogsveigir;
þú ert brauðsveigir,
[heldr enn[3] bogsveigir[4],
ostasveigir,
en eigi álmsveigir.

Hann batt hann, ok rak af honum hárit, ok bar

---

[1]) ek heiti Án; kom inn! því mjök er liðit á nótt ef, E.
[2]) Ketill matast, ok mælti, E. [3]) en eigi, E. [4]) þú ert, b. v. E.

í tjöru ok mælti, at svâ skyldi hverr fljúga, sem fjaðrar væri; hann stakk úr honum annat augat, síðan geldi hann hann; eptir þat leysti hann hann, ok fèkk honum 2 stafi: en ek mun taka við skeyti mínu. Án mælti: þat kalla menn konúngs gersemi, ef nökkut er annars afbragð; en þèr er nú brugðit nökkut; ok því sendi ek þik nú svâ búinn Íngjaldi konúngi, ok geld ek honum þik fyrir annann bróður sinn, hvenær sem fyrir annann er goldit. Ketill leitar til skipanna, ok sagði konúngi, ok báru honum vitni stafir hans, at hann var stirðr orðinn, en sjón var sögu ríkari um augu hans ok eystu[1], at á burt var hvorttveggja. Afhendr ertu mèr, sagði konúngr, ok rak hann á burt frá sèr.

5. Nú er at segja frá Án, at hann mælti við bónda: þèr tókuð vel við mèr, ok skyldir þú eigi íllt af mèr hljóta, skulu við eyða bæinn, ok fara í skóg, þvíat konúngsmenn munu brátt koma hèr; ok svâ gjörðu þeir. Án var þessu nærgætr; því konúngr sendi menn þegar[2] um nóttina, ok brendu þeir upp bæinn, ok fóru aptr síðan. Konúngr mælti við sína menn: ef Án hefir undan komizt, þá legg ek 3 merkr silfrs til höfuðs honum, ok gjöri ek hann útlægan um allan Norig. Þetta spyrst nú víða. Konúngr kom heim í sitt ríki. Án var með karli, ok húsar upp bæ hans um sumarit. Án var svâ búinn hversdagliga, at hann var í hvítu pillzi,

[1]) aðra luti, *E.* [2]) þángat, *E.*

þat var svâ sítt, at þat nam hæl, þá var hann [í grám pillzúngi, hann[1] tók ofan á miðjan kálfann, þá var hann í rauðum kyrtli, hann tók ofan á knè; yzt var hann í vondum vöruvoðarstakki, hann tók ofan á mitt lær; hann hafði hatt á höfði ok viðaröxi í hendi. Maðrinn var furðu stórr [ok kallmannligr[2] ok ekki dávænn. Þat var einn dag, at Án mætti úti Drífu karlsdóttur, 3 konur gengu með henni; hún var kvenna vænst ok vel búin; hún var í rauðum kyrtli ermalaungum ok ekki niðr víðum, síðum ok miðþraungum; hún hafði hlað um enni ok hærð kvenna bezt. Þær hlógu at honum mjök, ok dáruðu[3] klæðabúnað hans. Drífa mælti þá: hvaðan gekktu [at nú[4], ferfaldr? frá smíðum, sagði Án. Í því kom bóndi at, ok bað þær eigi skúlka hann. Án kvað þá vísu:

Meyjar spurðu,
er mik fundu,
hvíthaddaðar:
hvaðan komtu, ferfaldr?
En ek svaraða
silkigunni
heldr hæðinni:
hvaðan er logn úti?

Ekki þiki mèr, sagði Án, kyrtill þinn fara betr enn stakkr minn[5], þvíat hann liggr neðan at bakstakki þínum; síðan skildu þau at sinni. En

[1]) þar utan yfir í öðrn gráu, þat, *E.* [2]) *v. í E.* [3]) hann mjök ok, *b. v. E.* [4]) An minn, *E.* [5]) *þannig E*; þinn, *A.*

er upp var húsaðr bærinn, talar bóndi til Áns um haustit, at honum væri heimilt þar at vera um vetrinn, ok hefir þú vel til þess unnit. Án kvað þat þiggja mundu. Honum leizt vel á karlsdóttur, þóat hún hefði kalzat hans klæðasniðit, [ok var hann sèr um þat vorkunlátr[1]. Em um vorit lýsti hann yfir því, at hann mundi á burtu ok annat fyrir sik leggja: en ef svâ verðr, sem mèr er grunr á, at dóttir þín sè með barni, þá eru þar fáir bløramenn, ok vil ek gánga við faðerni; ok ef þat er sveinn, þá sendið til mín, þá er þèr spyrið nökkura mína staðfestu, ok fylgi hríngr þessi til hjartteigna[2]; en sjá þú sjálfr fyrir, ef mær er. Ok síðan ferr hann á burt, ok austr á skóg; þar liggr úti stígamaðr, er Garan heitir; ok um daginn, er Án gengr um skógargötuna, sá hann, at maðr gekk [í svig við[3] hann; sá hafði svartan skjöld ok hjálm á höfði, en boga í hendi, örvamæli á bak; hann sá hinn nýkomna, ok skaut þegar í skjöld hans broddör, ok vart[4] í gegnum skjöldinn; [Án gjörði hæfíng eptir, ok skaut í gegnum skjöldinn[5], ok kom í aflvöðvann á honum, svâ at hann varð sárr. Stígamaðr mælti, honum þótti þessi [þörfum harðskeytari[6], ok lagði vopn sín, ok hitti þenna mann, ok spurði hann at nafni; hann kveðst Án heita. Garan segist heyrt hafa nafn hans: ok ertu víðfrægr. Án sagði: heyrt hefi ek ok

1) *v. í E.* 2) *þannig*; jarteikna, *E.* 3) á stíg fyrir, *E.*
4) út, *E.* 5) *v. í E.* 6) heldr harðskeytr, *E.*

þín getit, ok jafnan at illu. Garan sagði: fyrir góðu muntu verða af mèr, vil ek bjóða þèr til mín, ok eigum fèlag saman, ok munu við miklu áleiðis koma. Án sagði: ærit mun um þat, ef við viljum illa gjöra. Þeir kvomu til skála, er stóð í skóginum, ok var þar hniginn hurð á gátt; þeir gengu inn, ok skorti þar eigi fè, vopn eða hlífar. Án sá þar steina 2, annann hærra enn annann. Án spyrr, hvat þeir skyldi. Garan sagði: þar hefi ek reynt hryggafl nökkurra manna, er mik hafa heimsótt. Án sagði: illmannliga bjóttu við þína gesti, eða hvorr mundi þèr hæfiligri steinninn at láta áhallast; hann kveðst ekki á því ætlun haft hafa, en lèt sèr þó hinn hærra betr fallinn vera fyrir hæðar sakir. Þá er liðit á dag mjök; Garan sagði: nú skulum við matbúa; eða hvort villtu heldr taka vatn eða gjöra eld. Án kvað þat sjálft áleggjast, at hann gjörði eldinn, þvíat hann kveðst því vanr verkinu; ok er hann var lagztr niðr, þá kastaði hann sverðinu á bak sèr, at hann hafði at vopni; hann heyrði hvin upp yfir sèr, hjó stígamaðrinn til hans, ok kom á sverðit, ok þat hlífði honum; þá hljóp hann upp, ok mælti: eigi ertu nú trúr, ok vildir þú nú skjótt skipta fèlaginu, ok hafða ek þó lítit til saka; má vera at nú gistir þú bóndasteininn há í kveld. Þar var hörð sókn, ok vildi hvorr firra sik steininum: þá bar Garan at steininum. [Án stè á rist honum, en rak

[hendrnar á bríngu[1] honum[2], ok bendi hann um steininn; gekk þá í sundr hryggrinn í honum. Án gekk af honum dauðum; hann hjó af honum höfuðit, ok dró hann út, ok stakk nefinu í klof honum, at hann gengi eigi dauðr. Leið af nóttin. Án var þar um sumarit, ok gjörði aungum manni mein, ok lèt ekki sjá sik; en er haustaði, læsti hann aptr skálanum, ok fór í burt, ok vildi aðra vetrvist hafa, hann kom aptan dags til ekkju einnar auðigrar, er Jórunn hèt; hann var þar um nóttina, ok duldist. En er húsfreyja kom í skála, spurði hún gestinn at nafni; hann sagði slíkt, er honum sýndist; hún gekk frá, ok snèri aptr, ok mælti: því fórtu híngat? þat er mitt hugboð, at þú munt vera Án bogsveigir; hann lèt þat satt; hví fórtu híngat? segir hún; þèr er þetta ekki traust fyrir konúngi. Án kveðst ætla, at eigi mundi meira viðþurfa; mun ek til hætta at vera, ef þèr gefið leyfi til. Hún mælti: ekki mun ek spara mat við þik. Þar var hann um hríð, ok var tiltakasamr, ok sá um bú hennar, ok var þat með miklu ráði. Án mælti: hèr vilda ek vera í vetr með yðr, ok gjörast eigi setumaðr með öllu; hún kvað honum eigi þar hent: er konúngr er í eptirsjá um þik, vèr megum þèr lítit; hann lèzt ætla, at Íngjaldr konúngr mundi honum ekki grand gjöra. Eigi mun ek mat spara við

1) báða hnefana fyrir brjóst, *E.* 2) *Í stað þess frá fyrra [ hefir B:* feldi An Gáran á músarbragði.

þik, en lèt hann sjálfan mundu gæta sín. Hann gjörðist umsýslumaðr hinn mesti; síðan tekst tal með þeim; hann segir, at honum lystr því í skap, at mæla til ráðahags við hana; hún kvað þat mundu gjört at frænda ráði, ok mjök [nær hennar[1] hugþokka, en engi latti, ok tókust ráðin. Án var hinn mesti umgángsmaðr ok stórhagr; hann átti naust í skógi skamt frá bænum, ok smíðaði þar skip; jók brátt mikin fram drátt fjár ok virðíngar; hann átti fjögr bú stór, ok með honum var 30 vígra manna á hverju búi. [Fylkismenn þeir[2], er þar voru, höfðu hann sèr at forstjóra; hann var vinsæll ok stórlyndr. Íngjaldr konúngr spyrr þetta, ok leitar eptir honum. Þórir, bróðir hans, fór opt austr þángat með sættarboðum, ok var ástúðigt[3] með þeim bræðrum; þá var andaðr Björn, faðir þeirra, í Hrafnistu, ok varðveitti búit Gautr, mágr þeirra, ok Þórdís, systir þeirra. Grímr, son þeirra, var mikill, vænn ok sterkr, ok kvað aungvan af sínum frændum sèr jafn skapfeldan sem Án; hann fór á fund hans, Án tók vel við honum, ok dvaldist hann þar lengi; hann var vinsæll. Þórir bað opt Án, at hann skyldi vægja til við konúng: ok stoðar þèr ekki, bróðir! af því ek sè gjörla hans skaplyndi grimt til þín. Auðna mun ráða með okkr konúngi, sagði Án; en þú trúir honum til vel; vilda ek heldr at þú varðveittir bú okkur; en þat varð ekki.

[1]) var þeim þat í, *E.* [2]) þeir menn, *E.* [3]) óstöðugt, *rángt í E.*

6. Maðr hèt Ívarr, upplenzkr at ætt ok ættgöfugr, hann kom til hirðar Íngjalds konúngs, ok tók hann vel við honum; ekki var hann þar þá, at Án var með konúngi. Ívarr var gjörfiligr maðr; hann lagði hug mikinn á Ásu, ok hafði tilmæli við hana um ráðahag. Konúngr tók því seinliga; þau töluðu þetta mál með sèr. Konúngr mælti þá: mjök leitar þú eptir þessu, ok mun ek gjöra á kost; þú skalt fara á fund Áns, ok færa mèr höfuð hans; en er þú kemr aptr, áttu þessa ráða von, er þú beiðist, því þá muntu kallaðr mikilmenni ok makligr konúngs mágr. Ívarr kvað eigi[1] auðsóttligt: eðr gefr þú, konúngs systir! jáyrði til þessa máls? Hún svarar: ek ætla vera á valdi bróður míns, ef þú kemr þessu erindi fram. Við þetta fór hann austr í land ok á fund Áns, ok skorar á hann til vetrvistar. Án spyrr, hverr hann væri, ok kveðst varla vita kunna, með hverjum hug hverr væri, en lèzt óvanr at synja matar: ek beiðumst ok ekki forgiptar, fyrr enn ek veit, hversu þegit er, eðr veitt er. Ívarr var honum fylgisamr til smíða ok annars. Þat var eitt kveld, at þeir gengu heim, at Ívarr kom í hug, hvat hann átti at annast; hann hljóp þá at Án, ok hjó til hans; Án gekk skjótara; enn Ívarr hugði, ok var stórfetaðri, ok hjó hann í jörðina ok allt í viðarrætr. Án fann nú atgaungu hans, ok snýr aptr, ok sagði, at honum þótti eigi vel í hald koma vistar launin.

[1]) *v. í E.*

Án batt hann með bogastreng, ok rak hann heim fyrir sèr; hann setti Ívar í fjötr um nóttina; en er menn vissu þetta, báðu þeir drepa hann, ok segja hann til þess gjört hafa. Án kvað eigi þat skyldu: mun þat þá mælt, at ek gjörumst fjandmaðr konúngs, ef menn vita eigi sanna sögu; vilik þíng láta stefna fjölmennt, ok konúngsmaðr (gjöri) sögu sína, ok gjöri fyrir öllum bert þetta vandræði, ok svá var gjört. Kom Án á þíngit, ok leiðir Ívar eptir sèr. Án mælti: seg nú fram allt erindi þitt! Ívarr gjörði svâ; þá mæltu allir, at hann hafi sèr dauða ráðit. Án mælti: nei, sagði hann, þat skal eigi vera; ek veit, hvers hann á heim at vitja, sem þèr heyrðuð; hann lèt brjóta fótleggi hans allt til knès, ok lèt síðan græða ok snúa fótunum öðruvís enn áðr, horfðu þá tær á bak aptr. Án mælti: stattu nú fyrir mèr, ok svâ gjörir hann. Án mælti: nú ertu konúngs gersemi, er þú ert [frá því sem aðrir menn[1]; síðan snýr hann andliti hans nökkut, ok mælti: nú ertu [til hvorstveggja enda[2] afbragð annarra manna, vænn at yfirliti, enda eigi fættr sem aðrir menn; hittu nú Íngjald konúng; geld ek þik fyrir annann bróðurinn, enda á hann nú híngat einkis at vitja. Ívarr hitti konúng, ok sagði eigi [sína slètta[3]; konúngr mælti: þat hefik vitat, at menn hafa drepit niðr menn, hverr fyrir öðrum; hitt veit ek

1) frábrugðinn öðrum mönnum, *E.* 2) hvorttveggja, *E.* 3) sínar ferðir slèttar, *E.*

varla, at slíkar meiðslar hafi gjörfar verit, ok kalla þat konúngs gersemar, ok þiki mèr engi gersemi í þèr, ok far til eigna þinna! Konúngs systir mælti: villtu nú eigi unna honum ráðahagsins við mik? konúngr kvað þat eigi sama; lèt Ívarr sèr offr framarla treyst hafa, at hann mundi þessu á leið koma, [ok voru því engi fjartök í höfð við þik[1]. Þórir var þá eigi laungum heima. Eptir þetta sendi konúngr 12 menn til höfuðs Áni, ok mælti svâ: ek vil senda yðr með þeim hætti á fund Áns, at þèr beiðið hann vetrvistar, en hann er stórlyndr, ok mun spyrja, því þèr farið svâ margir saman: en þèr skuluð segja, at þèr eigið fè allir saman, ok þèr trúið aungum til at skipta með yðr nema honum; ok ef hann tekr við yðr, dragið undir yðr aðra jafnmarga af mönnum hans með fègjöfum, ok kalla ek þá sjálfrátt, at þèr látið hann eigi rekast undan. Síðan fóru þeir á fund Áns, ok fóru svâ orð með þeim, sem konúngr gat til; hann tók þó við þeim, ok voru þeir þar fram um jólin. Eitt kveld mælti Jórunn við Án: hvat gestum hyggr þú þetta vera, er þik hafa heimsótt? Hann sagði: þat hygg ek, at þeir sèu góðir menn, ok til þess ætlum vèr. Hún kveðst eigi þat ætla, at þeir muni dyggvir menn heita mega, ok gruna ek þat, hvort þeir hafa unnit illvirki, eðr ætla þeir til; þvíat hvert sinn er þú gengr frá rúmi þínu, þá sjá þeir eptir þèr, ok

1) var þat ok tilskilit, þú skildir færa mèr höfuð hans, E.

bregða lit við; hann kveðst eigi þat ætla. Enn ber ek meiri önn fyrir þèr, enn ek ætlaða, sagði hún, ek vil þú gángir frá húsi á morgin; (ok ef þeir) gjöra aungan grun á sèr, þá mun þetta ekki vera; seg, at þú skalt heim í kveld, ok at þú vilìr einn fara; ok ef þeir gjöra nökkurn grun á sèr, þá má vita, hverìr þeir eru. Án kvað svâ vera skulu. Um morguninn gekk Án frá húsi, ok er vetrgestir sáu þat, hyggja þeir þá færi á Án, ok fóru heiman í tveim stöðum, 6 í hvorum stað, en 6 voru heima af njósnarmönnum ok 6 af húskörlum, er fè tóku til höfuðs Áni; voru 6 af hvorum í fyrisátrinu; þeir settust hjá götu Áns. Jórunn hittir Grím, ok sagði; at henni þótti grunsamlig för þeirra, ok far þú á njósn; hann kvaðst þess búinn, ok fór í skóg með marga menn, svâ at hinir vissu eigi, en sáu þeir hvergi. Leið nú á kveldit, ok sýndist þeim mest nauðsyn at fara heim ok gæta tímans, at eigi yrði í ráðit um atförina; þeir kvomu heim; Án var þá kominn í öndvegi ok ekki frýnn; Grímr var þá ok heim kominn. Án mælti: þat mun nú hæfa[1] vetrgestum vorum, at segja erindi sín, ok hvern þeir ætluðu mèr dauðann í dag; ek veit nú ráð yðar, ok fyrir laungu vissa ek svik yðar viðmik; en eigi hefik dygt hjónaval. Þeir urðu við at gánga. Án mælti: eigi munik drepa hjón (mín), ok fari þau á burt; en konúngsmenn gef

[1]) ráð, E.

ek í vald Grími, frænda mínum, ok hafi hann af þeim gaman í dag, Grímr kvað slíkt vel mælt; hann fór til skógar, með þá ok spyrti þá[1] saman alla á einn gálga. Þetta spyrr Íngjaldr konúngr, ok líkar mjök illa. Þórir var þá kominn til hirðarinnar, hann var hljóðr, ok þótti mjök þrútna málit; konúngr spyrr, því hann væri svâ hljóðr; vel viljum vèr til þín gjöra sem fyrr. Þórir sagði: ekki frýik á þat, en varla[2] verðr þat með[3] hallkvæmd. Konúngr spyrr: hvat skortir at um þat, sem faðir minn gjörði? Ekki leita ek á þetta, sagði Þórir; en stærrum gaf faðir þinn mèr, sem er sverð þetta. Konúngr sagði: er þat gersemi mikil? Sjá þú, sagði Þórir; konúngr tók við ok brá sverðinu, ok mælti: ekki er þetta ótígins manns eiga. Þórir sagði: þiggi þèr þá, herra! konúngr sagði: eigi vil ek þat, þú skalt eiga ok þèr lengst fylgja; hann gekk at Þóri í hásætinu, ok lagði í gegnum hann, ok lèt þar standa sverðit í sárinu; hann mælti: ýmsir munu við Án sendast sendíngar á milli; síðan bjó hann skip, ok voru á 60 manna, ok bað þá fara á fund Áns ok leggja í lægi hans ok teygja hann á skip: ok segið, at þar sè kominn Þórir, bróðir hans, ok vili leita um sættir; en ef hann kemr í greipr yðr, þá drepið hann, ok er þá goldit nökkut fyrir mína bræðr, ef þessir koma fyrir þá; [komið snemma

[1]) tvo ok tvo, *E.* [2]) valdit, *E.* [3]) framkvæmd ok, *b. v. E.*

dags til Áns[1]! Þetta verk mæltist mjök illa fyrir, ok var hann nú kallaðr Íngjaldr hinn illi af [hverjum manni[2]; síðan fóru þeir veg sinn[3]; en áðr um nóttina enn þeir kvomu við land, þá dreymdi Án, ok sagði Jórunni: mèr þótti Þórir hèr kominn daprligr mjök; en ávalt hefir hann komit, er mik hefir dreymt hann; en eigi vilda ek at þeir færi erindislausir, er hann færa híngat með slíku móti, (er mèr) segir hugr um, því hann sýndist mèr allr blóðugr, ok stóð sverð í gegnum hann; hún kvað svâ vera mega, at skírir væri draumar hans. Án spratt upp, ok sagði at menn mundu koma; hann lèt búa 4 skip, ok voru 2 við útey, en önnur 2 í leynivogi hjá læginu fyrir bænum; Án sendi menn í bygðina eptir mönnum, at drekka fagnaðaröl á mót Þóri, ef hann kemr glaðr ok heill, elligar reyna vopn sín. Án var á bænum, en menn hans á skipum, ok beið hann búinn þess, er at höndum kæmi. Eptir þat sjá þeir, at skip rendi á lægit fyrir bæinn, ok rauðir skildir á. Skipamenn sendu Án orð, at hann kæmi ofan ok fyndi Þóri, bróður sinn, er þar var kominn, at leita um sættir. Án mælti: opt hefir hann ekki þann mun metit, (at gánga heim), ok lætr hann nú lítit á skorta; þeir kvoðu honum svefnhöfugt. Án kveðst gánga mundi ofan at skipi, en eigi lengra

1) *v. í E.* 2) mörgum, *E.* 3) ok komu snimma dags nær bygð Ans, *b. v. E.*

þeir treystust eigi at gánga at honum, ok skutu þóri af skipi upp, ok báðu Án taka við vinsendíng Íngjalds konúngs; Án tók þóri upp, ok mælti; goldit hefir þú grunnyðgi[1] þinnar, er þú trúðir konúngi vel, en annat mun nú skyldara, enn at ávíta þik; hann skaut honum í hellisskúta, en hljóp út á skipit, ok brá upp rauðum skildi; hann leggr nú at þeim, ok börðust þeir, ok fèllu mjök menn Íngjalds konúngs. [Einn maðr barðist á knjánum; Grímr sótti at honum; en sá maðr hjó til hans á knèsbótina[2] ok af kálfann með hælbeininu, ok lèt hann mundu stirðfættan, áðr enn grætt væri; [þeir drápu hvert manns barn[3]. Án lèt haug gjöra ok skip í setja ok þóri í lyptíng, en konúngsmenn á hvorttveggja borð, til þess at þat sýndist í því, at honum skyldu allir þjóna. Grímr var græddr. Konúngr spyrr nú þessi tíðindi, ok þótti enn eigi mjök aukizt hafa sinn sómi eðr sæmd.

7. Þat var einn morgin at Án var heima á bæ sínum, at hann mælti: þat hygg ek, sagði hann, at menn sè í skóginum mjök margir, ok má vera, at komi at því, sem mælt er, at mikit er konúngs ríkit ok mikil er konúngs gipta. Án vekr nú upp húskarla sína, ok mælti: opt finnst þat á, at ek er vel kvongaðr; Jórunn hefir opt varat mik við, at ek skylda eigi sitja hèr við

---

1) grunnhyggni, *E.* 2) Foríngi konúngsmanna hèt Friðgeirr, sá var frændi konúngs, hann hjó til Gríms, *B.* 3) Án lètti eigi fyrr enn þeir höfðu alla konúngsmenn drepit, *E.*

mótþykki konúngs, en ek vildi láta drífa um stafn, sem verða mætti. Síðan tók hann ás einn, ok hjó í sundr, ok telgir handarhald á báðum hlutunum. Án sagði: þá er vèr komum út, mun hríngr sleginn um oss, en mèr þikir íllt at flýja; en við Grímr munum eigi vopnum við koma, ok bað hann taka annann trèlurkinn, ok svâ gjörðu þeir. Þeir snèru nú til sjófar, þá var konúngr þar kominn með mikinn mannfjölda. Þeir Án ruddu götu fyrir sèr, ok lömdu á tvær hendr; þótti konúngs mönnum þar eigi gott at búa undir, en húskarlar sóttu þar eptir, ok voru margir drepnir, en konur komust á náðir Jórunnar. Þeir Án ok Grímr kvomust á eina róðrarskútu, ok sáu konúngsflotann umhverfis sik, en út miðsyndis var ein njósnarskúta. Án sagði, at honum þætti vel, at þeir gjörði þeim nökkurn öfundarkrók, sem oss eru settir til meins. Án skaut einum fork, er járni var búinn, undir rángbyrðit á skútunni, ok gjörðist þat skipti á, at sjór kolblár [kom í staðinn[1], ok kölluðu menn á konúngs skipin, at þeir hjálpi þeim. Án sótti undan út á millum þeirra. Án sagði, at meiri mundi róðr Gríms, ef báðir fætr hans væri jafnir; hann kvað einskis skyldu ísakna. Án fann eigi fyrr enn hlummarnir á árunum skullu millum herða honum, en Grímr var sprúnginn af róðrinum. Án stè nú

[1]) inn hljóp, *E.*

fyrir borð, ok vildi þat sízt, at konúngs menn hefði hendr at honum; þeir sáu at maðrinn var fyrir borð stiginn, en annarr lá dauðr í austrinum; þeir segja konúngi þetta; hann sagði: þess var von at Án [fyrimyndi oss at hafa hendr at honum[1], en þó skal honum [fyrir allt eitt koma[2], ok setjum vörðu[3] allt með sjónum, at hann komist eigi á land. Þetta kom Án í hug, ok snýr þvers til eyjar einnar, er lá utan fyrir, ok komst þar upp, ok var þá allmáttfarinn. Erpr hèt sá, er þar bjó, ok kona hans; ekki var þar fleira manna. Erpr kannar fjörur, ok fór með eyk, ok sá at maðr lá mikill á ströndinni; bóndi ætlaði hann dauðan, ok gekk illa at honum; Án bað hann fara djarfliga. Erpr sagði: þú munt hafa hægri sæng haft heima hjá Jórunni; hann ekr honum nú heim, ok skögðu fætrnar út af vagninum; kellíng bað hann eigi dauðum manni heim aka. Erpr kvað önnur efni í vera, ok sagði henni; hún mælti, at þat mundi gott til fjár, ef við góðan dreng ætti um. Án hrestist þar nú mjök. Íngjaldr konúngr hugði Án dauðan, ok fór hann heim. Án var með karli, ok er hann var heill, flytr Erpr hann til lands; Án kvað þeim vel farit hafa, ok gaf kellíngu gull, en Erpi eyna, ok lèt þó meira skyldu verðkaup þeirra í tómi. Síðan kom Án heim. Jórunn hafði nökkut snúit áleiðis á meðan, ok skorti þó mikit á, at risna mætti haldast. Menn fögnuðu

1) mundi þetta fyrr upptaka enn koma í vorar hendr, *E.* 2) eigi þetta hlífa, *E.* 3) norðr eptir honum, *E.*

vel Án; en hann svarar húsfreyju: ekki höfum vèr jafnir verit um fjárhagina híngat til við þik; hún kvaðst ekki at því telja, ef hann hèldist við; honum kom nú í hug, at eigi mundi óráðligt, at vitja fjárins í skála Gárans, því honum þótti nú nauðsyn tilbera; hann lèt þat nú heim færa, ok sagði Jórunni: hèr máttu líta á mína eigu, ok segir allan tilburðinn; þótti hann þá eigi fè-lauss, sem menn ætluðu, kom nú í samt lag um fè þeirra sem áðr eðr meira. Án setr nú njósnir allavega frá sèr. Íngjaldr konúngr frètti þetta, ok hafði hann gæzlur á sèr, ok svaf í skála hjá hirð sinni. Án fylgdi smíðum sínum sem fyrr; ok eitt kveld, sem hann gekk frá smíðinni, sá hann í ey einni eld brenna; honum kom í hug, at konúngr mundi enn vitja eða snöttúngar mundu[1] leggjast á fè hans; hann forvitnast um, ok fór til sjófar einsaman, ok tók sèr bát, ok rær til eyjarinnar. Hann sá þar mann sitja við eldstó úngligan ok mikinn; sá var í skyrtu ok línbrók; hann mataðist; silfrdiskr stóð fyrir honum; hann hafði kníf tannskeptan, ok stakk upp úr katlinum, ok át af slíkt er honum sýndist, en kastar aptr í, er kólnaði, en tók þá annat upp. Án þótti hann eigi varliga búa um sik; hann skaut til hans, ok kom í stykkit, er hann vo upp úr katlinum, ok datt þat í ösku niðr; hann leggr skeytit niðr hjá sèr, ok mataðist sem áðr. Án skaut ör annarri, ok kom hún í diskinn fyrir hann,

1) kommir í eyna ok. *b. v. E.*

ok fèll hann í 2 hluti; þessi sat ok gaf aungan gaum at þessu; þá skaut Án hinni þriðju, ok kom sú í knífskeptit, er aptr stóð úr hendi honum, ok fló heptit í 2 hluti; þá mælti sjá hinn úngi maðr: þessi maðr gjörði mèr mein, en sèr lítit gagn, er hann spilti knífi mínum; hann þreif upp boga sinn, en Án kom í hug, at eigi var víst, hvar óskytin[1] ör geigaði; hann gekk öðrumegin eikarinnar, ok lèt hana á millum þeirra. Sjá hinn úngi maðr skaut hinni fyrstu ör, svâ Án hugði at koma mundi á hann miðjan, ef hann hefði beðit; önnur þótti honum sem komit mundi hafa fyrir bríngspalir honum, en hin þriðja í augat, ok stóðu svâ allar til í eikinni, þar sem Án hafði staðit. Þá mælti sá hinn úngi maðr: hitt er þeim ráð, er skaut at mèr, at sýna sik nú, ok hittumst við, ef hann á við mik sakir; síðan gekk Án fram, ok tóku til glíma, ok var þeirra atgángr mjök sterkligr. Án mæddist skjótara, þvíat hinn var stinnleggjaðr ok sterkr. Án bað þá hvílast, en hinn úngi maðr lèzt búinn til hvorstveggja, ok þó rèð Án; hann spyrr: hvert er nafn þitt? hann kveðst Þórir heita, en sagði föður sinn heita Án, eða hverr ertu? ek heiti Án, sagði hann; úngi maðr sagði, þat mun satt vera, at margs góðs muntu án vera, ok ertu nú án sauðarins þess, er ek tók. Án sagði: hirðum ekki um heiptarmál! ok er þetta

[1]) óskytjans, *E.*

lítils vert, eðr hverjar hefir þú jarteignir, ef þú finnr föður þinn? Ek ætla finnast muni sönn merki sögu minnar, en þó em ek eigi skyldr þèr at sýna, sagði þórir. Án lèt þat betr sama at sýna, hvat til marks væri um faðerni hans. þórir sýnir honum hrínginn. Án sagði: sönn er þessi merki, at föður þinn hefir hèr fyrir hitt, ok förum heim ok vitjum betra herbergis. þeir gjöra nú svâ, ok koma heim, ok sátu menn hans ok biðu eptir honum með ugg ok ótta, því þeir vissu eigi, hvat af honum var orðit. Án settist í öndvegi, ok þórir hjá honum; Jórunn spyrr, hverr sjá maðr væri hinn úngi. Án bað hann sjálfan segja til nafns síns. Hann sagði: þórir heiti ek, ok em ek son Áns; hún mælti: kemr at því, sem mælt er, at hverr er auðgari enn þikist; ekki sagðir þú mèr at þú ættir þenna son, en þó hygg ek ekki aukasmíði vera munu at honum ok togið af honum! eðr hversu gamall ertu? átján vetra, sagði þórir; hún sagði: þat ætla ek at ek muna kalla þik hálegg, þvíat ek hefi aungum sèð hærra til knès; hann sagði: þetta nafn líkar mèr, ok muntu gefa mèr nökkut í nafnfesti, at menn kalli mik svâ; hún sagði, þat skyldu satt, ok gaf honum gull mikit. Án spyrr þóri at um uppfæði hans með karli; hann kvað þat orð á hafa verit, at þar fæddist upp dóttir; þvíat [Íngjaldr konúngr[1] vildi drepa

[1]) menn konúngs, *E.*

mik, ok flýðik því norðan, sem verða mátti. Þar var Þórir um vetrinn. Án mælti eitt sinn: eigi nenni ek at fæða þik upp sitjanda lengr, ef þú leggr ekki fram; hann kveðst eigi til hafa í fèmunum nema hrínginn. Án kvað sèr betra þikja, at hafa sendiför nökkura: sýnist mèr sem þú værir skyldr til at hefna nafns þíns á Íngjaldi konúngi; ætla ek at þèr verði auðit helzt af vorri ætt, þvíat þat er reynt, at við konúngr leggjumst aldrí hendr á; ok ekki þarftu híngat at vitja, nema hefndin komi fram, hvort sem þú átt skylt við mik eðr eigi. Sverðit Þegn skaltu eiga, ok ef þú kemr þessu verki fram, þá er þar systir konúngs, haf þú hana með þèr, ok gjalt henni son fyrir bróður! Þórir kvað þetta gjöra mundu, ok hèlt með skip albúit í hernað, [en at hausti hafði hann 5 skip vel skipuð; hann var yfrit djarfr maðr ok sterkr ok hinn mesti hervíkíngr[1]. Hann kom á bæ Íngjalds konúngs á náttarþeli, ok bar eld at skálanum; vöknuðu menn við reykinn. Íngjaldr konúngr spyrr, hverr fyrir eldinum rèði. Hann kvað Þórir hálegg þar vera. Konúngr segir: vera má at þessi gneisti hafi flogit af Drífu karls dóttur, því þar hefir mèr lengi

[1]) eyddi ránsmönnum, ok lèt friðmenn frjálsa fara; víða herjaði hann á Hálogalandi; hann átti eina orrostu í Ogisfirði; sá víkíngr hèt Sámr, er hann barðist við; hljóp Þórir á skip hans, ok drap Sám; gengu þeir menn, er eptir lifðu, á hönd Þóri; hafði hann þá alls fjögr skip; herjaði síðan á Bjarmaland, ok fèkk mikit herfáng, en um haustit komu þeir við Naumudal, *B.*

grunr á verit; ok má vera at oss verði fullelda um þat lýkr. Þórir kveðst á þat viljaðr, at sjatnaði[1] illvirki hans. Íngjaldr konúngr lèt þá brjóta upp stokkana, ok bera á skálahurðina, ok kvað eigi vilja inni brenna; þá hlupu menn út. Þórir var nær staddr, þá er konúngr kom út, ok hjó hann banahögg. Hann tók burt Ásu, ok hafði með sér ok mikit fè, ok sendi hvorttveggja föður sínum; hann tók vel við Ásu, en Þórir leggst í hernað, ok vann mörg framaverk; hann var ágætr maðr, ok þótti líkr föður sínum. Þórir kom með þat til Áns, at hann var orðinn stórauðigr, ok fèkk þar góðar viðtökur. Hann var þar um vetrinn, en at vori sagði hann Áni, at hann vill á burt ráðast, ok gef ek þèr upp eignir allar; en þú girnst eigi eignir þær, sem Íngjaldr konúngr hefir átt! þvíat skamt mun at bíða, at eytt mun fylkiskonúngum; ok er betra at gæta sinnar sæmdar, enn at setjast í hærra stað ok þaðan mínkast; en ek mun fara norðr í Hrafnistu til eigna minna. Erp skaltu annast ok fóstra þinn ok móður; síðan fór Án [norðr, en Þórir varð gildr maðr. Án kom norðr í eyna, ok átti hann þar dóttur, þá er Mjöll hèt, móður Þorsteins, Ketils sonar raums, föður Íngimundar hins gamla í Vazdal. Án átti opt at berja um þær skinnkyrtlur norðr þar, ok þótti hann hinn mesti maðr fyrir sèr. Son Þóris var

[1]) stöðvaðist, E.

Ögmundr akraspillir, faðir Sigurðar bjóðaskalla, ágæts manns í Noregi[1], ok lýkr hèr við sögu Áns bogsveigis.

---

[1]) til Hrafnistu, ok bjó þar. Mikill flagðagángr gjörðist í eyjum þeim, sem voru nálægt, en honum blöskraði þat lítt, ok þegar þau tröll vildu við An glettast, varð þeirra hlutr æ minni. Þórir háleggr var stjórnsamr; þau Asa unntust vel; hann hafði margar orrostur, ok þótti hinn mesti hreistimaðr. Sonr hans hèt Ögmundr akraspillir, hann var mikilmenni, son hans var Sigurðr bjóðaskalla. An bjó í eyunni, sem áðr greinir; hann ok Jórunn áttu dóttur; sú hèt Mjöll, kvennskörúngr mikill. An andaðist þar af elli, ok þótti verit hafa hinn mesti kappi. Dóttir hans Mjöll tók þar arf eptir hann; hún giptist Katli raum; þeirra son var Þorsteinn; son Þorsteins var Ingemundr, er fór til Islands, ok bygði Vazdal, kallaðr síðan Ingemundr Vazdælagoði. Sá ættliðr var mikill, ok er Grettir sterki kominn af þeirra ætt. Eru nú enn nokkurir menn á Islandi anno 1683, sem telja sínar ættir til Hrafnistumanna, *B.*

## Saga af Hrómundi Greipssyni.

SA konúngr rèð fyrir Görðum [í Danmörk[1], er Ólafr hèt; hann var son Gnoðar-Ásmundar; hann var maðr frægr. Bræðr 2 Kári ok Örnúlfr voru landvarnarmenn konúngs, hermenn miklir. Þar bjó einn ríkr bóandi, sá hèt Greipr; hann átti þá konu, er Gunnlöð hèt, dóttir Hróks hins svarta. Þau áttu 9 sonu, er svâ hètu: Hrólfr, Haki, Gautr, Þröstr, Ángantýr, Logi, Hrómundr, Helgi, Hrókr; þeir voru allir efniligir menn, þó var Hrómundr fyrir þeim öllum; hann kunni eigi at hræðast; hann var augnafagr, hárbjartr ok herðamikill, mikill ok sterkr, líktist mjök Hróki, móðurföður sínum. Með konúngi voru 2 menn, hèt einn Bíldr, annarr Voli; þeir voru illir ok undirförulir; konúngr matti þá mikils. Eitt sinn hèlt Ólafr konúngr austr[2] fyrir Noreg með her sinn, ok hèldu at Úlfaskerjum, herjuðu ok lágu við eitt eyland. Konúngr býðr Kára ok Örnúlfi at gánga upp á eyuna, ok vita hvert þeir sæi engi herskip. Þeir

[1]) *v.* í *B*, *C.* [2]) vestr, *B*; norðr, *C.*

gengu uppá landit, ok litu 6 herskip undir hömrum nokkurum; þar var einn dreki allskrautligr. Kári kallar til þeirra, ok spyrr, hverr fyrir skipunum rèði. Einn dólgr stóð upp á drekanum, ok kvaðst Hraungviðr heita, eða hvert er nafn þitt? Kári sagði til sín ok síns bróðurs, ok mælti: ek veit engan verri enn þik, ok þarfyrir skal ek höggva þik í smá stykki. Hraungviðr mælti: ek hefi herjat sumar ok vetr í 33 ár, ok háð 60 orrostur ok fengit jafnan sigr; mitt sverð heitir Brynþvari, er aldrí hefir sljófgast; kom þú hèr á morgun, Kári! ek skal slíðra hann í þínu brjósti. Kári kveðst eigi bila mundi. Hraungviðr mátti kjósa hvern dag mann[1] fyrir sverðsins oddi.

2. Þeir bræðr komu aptr til konúngs, ok sögðu honum tíðindin. Konúngr bauð at halda til orrostu, ok svâ var gert, hittust þeir, ok tókst þar harðr bardagi; þeir bræðr gengu vel fram; Kári hafði jafnan 8 eðr 12 í hverju höggi; Hraungviðr sá þetta, ljóp hann upp á konúngs skip til Kára, ok lagði sverðinu í gegnum hann. Þegar Kári hafði fengit sárit, segir hann til konúngs: lifið heilir, herra! ek mân hjá Óðni gista. Hraungviðr vo Örnúlf upp á spjóti sínu. Eptir fall þeirra bræðra kallar Hraungviðr, at þeir skuli uppgefast; er þá illr kurr í liði konúngs. Engi járn bitu Hraungvið. Nú er þess getit, at Hrómundr Greipsson var í fylgð með konúngi; hann

1) v. í C.

tekr sèr kylfu í hönd, bindr sèr grátt ok sítt geitarskegg, ok setr síðan hatt á höfuð sèr, veðr svâ fram, ok finnr þá bræðr báða dauða, tekr upp merki konúngs ok lemr með kylfunni blámenn til dauða. Hraungviðr spyrr, hverr sá væri, eðr er þetta nokkut faðir hans, illa Kára. Hrómundr segir nafn sitt, ok kveðst hefna vilja þeirra bræðra: en eigi var Kári mèr skyldr, samt skal ek drepa þik, ok í (því) gaf hann Hraungviði kylfuhögg svâ mikit, at hann bar hallt höfuð eptir, ok mælti: ek hefi verit víða í bardögum, ok aldrí fengit þvílíkt högg. Annat högg sló Hrómundr til Hraungviðar, svâ hausinn brotnaði; í þriðja höggi misti hann lífit. Eptir þat gengu þeir, sem eptirlifðu, allir á hendr konúngi, ok lyktaðist svâ bardaginn.

3. Nú kannar Hrómundr skipin, ok finnr einn mann hallast upp við í stafni; hann spyrr þann mann at nafni; sá kveðst Helgi heita hinn frækni, bróðir Hraungviðar; ok nenni ek eigi friðar at biðja. Hrómundr lèt græða Helga hinn frækna. Hann sigldi þareptir í Svíþjóð, ok gerðist[1] landvarnarmaðr. Þareptir hèlt Ólafr konúngr liði sínu vestr til Suðreyja, gengu þar á land, ok tóku strandhögg. Karl einn bjó þar nærri; konúngsmenn höfðu tekit kýr hans, ok ráku undan sèr, lèt hann mjök aumliga um þann missir. Hrómundr kemr at, ok spyrr, hverr sá væri; karlinn segir, at bygð sín væri

[1]) þar, *b. v. B, C.*

allskamt þaðan, ok kvað meiri fremd, at brjóta hauga ok ræna drauga fè[1]. þessi kvaðst Máni at nafni. Hrómundr bað hann segja sèr, ef hann vissi nokkut um soddan. Máni sagðist víst vita, ok mælti: þráinn, sem vann Valland, ok var þar konúngr, berserkr mikill ok sterkr, fullr galdra, hann var settr í haug með sverði, herklæðum ok fè miklu, en fáir fýsast þángat. Hrómundr spyrr, hverja leið sigla skal þángat; hann segir, at hann má sigla rètt suðr í 6 daga. Hrómundr þakkar karli fregn þessa, gaf honum fè, ok lèt hann taka kýr sínar. Sigldu þeir svâ þaðan, eptir því sem karl vísaði þeim til, ok at 6 daga fresti sáu þeir hauginn rètt fyrir framstafni.

4. þeir komu vestan at Vallandi, ok fundu hauginn, ok rufu þegar. Ok at liðnum 6[2] dögum komu þeir glugga á hauginn, sáu þeir at þar sat á stóli dólgr mikill, blár ok digr, allr gulli klæddr, svâ leiptraði af, rumdi hann mjök, ok blès at eldi. Hrómundr spyrr, hverr nú vill gánga í hauginn, ok sá skuli kjósa sèr 3 gripi. Voli kvað: engi mundi vilja gefa líf sitt við því, eru hèr nú 60 manna, ok mân tröll þetta öllum dauða veita. Hrómundr mælti: vogat mundi Kári hafa þetta, ef lífs væri, ok kvað makligt, þó sèr væri niðr slept í festi, þó betra sè at fást við 8 aðra. Fór svâ Hrómundr niðr í festinni, var þat á nóttu; ok er hann kom niðr, bar hann

1) heldr enn ræna kotkarla, *b. v. B, C.* 2) 4, *B, C.*

saman fè mikit, ok batt í festarenda. Þráinn hafði verit á fyrri dögum konúngr yfir Vallandi, ok vann allt með göldrum, gerði mart íllt af sèr, ok þá hann var svâ gamall at hann kunni eigi at stríða lengr, lèt hann setja sik lifandi í hauginn ok mikit fè með sèr. Nú sèr Hrómundr, hvar sverðit hángir uppi á einni súlu[1]; hann kippir því ofan, girðist með, ok gengr fram at stólnum, ok mælti: mèr mun vera mál [or haugnum[2], fyrst engi hamlar, eða hvernin vegnar þèr þú hèrna, hinn gamli! sástu eigi at ek bar saman fè þitt, en þú höktir kyrr, hundr leiðr! eðr hvat var þèr í augum, er þú horfðir á, at ek tók sverðit ok menit ok fjölda þinna annarra gripa. Þráinn kvað sèr einkis um vert þikkja, ef hann lèti sik kyrran sitja á stóli sínum: ek kunni áðr fyrr at berjast, er (ek) þá orðinn nógu ragr, ef þú einn skalt ræna mik auði, ok vil ek synja þèr gripanna; máttu sjá við mèr dauðum. Þá mælti Hrómundr: rigaðu þèr á fætr, ragr ok blauðr! ok tak þú sverðit aptr af mèr, ef þú þorir! Draugr mælti: þat er engin fremd, at bera sverð á mik vâpnlausan, heldr vil ek reyna afl við þik ok glímu. Hrómundr kastar þá sverðinu, ok treysti afli sínu. Þráinn sá þetta, ok leysti ofan ketil sinn, er hafði uppi. Hann var þá eigi frýnligr, blès þá at eldi, er hann var búinn at eta or katlinum; funi mikill

[1]) svolu, *B.* [2]) at höggva, *B.*

var í milli fóta honum, en ketillinn fullr í búki; hann var í stakki gullfáguðum, báðar hendr hans voru breinglaðar, ok beigðust neglr fyrir góma. Hrómundr mælti: skríttu af stóli, skálkr argr, sviptr öllu fè! Þá sagði draugr: nú mân mál vera, at fara á fætr, fyrst þú fríar mèr hugar. Dagr líðr, en kveldar, ok gerðist þá myrkt í haugnum; hann gekk þá til glímu við Hrómund, en kastaði niðr katli sínum. Neitti þá Hrómundr afls, ok svâ gengust þeir hart at, at grjót ok steinar[1] gengu upp. Þá datt draugrinn á annat knè, ok mælti: þú stjakar mèr, ok víst ertu hraustr maðr. Hrómundr sagði: stattu stuðníngslaust á fætr aptr, miklu ertu linari, enn Máni karl sagði. Þá tók Þráinn at trillast, ok fyltist upp haugrinn með illan daun, setti hann þá klær sínar á hnakka Hrómundi, ok sleit hold af beinum á lendar ofan, ok mælti: kvarta eigi um, þó gráni leikrinn, ok sárni kroppr þinn, því nú skal ek rífa þik kvikan í sundr. Eigi veit ek, sagði Hrómundr, hvaðan soddan kattarkyn er komit í haug þenna. Draugrinn mælti: þú munt fæddr vera af Gunnlöð[2]; eru fáir þínir líkar. Íllt mon vera, sagði Hrómundr, at þú klórir mik lengi; glímdu þeir hart ok lengi, svâ allt skalf, þat nærri var, þartil um síðir at Hrómundr feldi hann á fótarbragði. Þá var orðit mjök dimmt; þá mælti draugr: nú vannstu mik með ráðum, ok tókst

1) stokkar, *B*, *C*. 2) Svílöð, *C*.

sverð mitt, þat skipti með okkr leikum; lengi hefi ek lifat í haugi mínum, ok lafat á fè, en eigi er gott at trúa gripum sínum, þó góðir þikki of mjök, ok aldrí hefi ek ætlat, at þú, Mistilsteinn, mitt góða sverð! mundir verða mèr til meins. Varð Hrómundr þá lauss, ok náði sverðinu, ok mælti: herm mèr nú, hvat marga menn í hólmgaungu þú vannst með Mistilsteini? Hundrað 24[1], kvað draugrinn, ok fèkk ek aldrí skeinu; Semíngr konúngr, er var í Svíþjóð, ok ek reyndum okkar íþróttir, ok hugði hann ek mundi seint unninn verða. Lengi hefir þú, sagði Hrómundr, verit mönnum til meins, ok mun þat happaverk, at láta þik sem fyrst deyja. Hjó hann svâ höfuðit af draugnum, ok brendi hann upp allan á báli, fór svâ úr haugnum. Spurðu menn þá, hvörnin Þráinn ok hann hefðu skilit; hann kvað þat hafa gengit í kjör: því ek hjó af honum höfuðit. Eignaðist Hrómundr þá 3 gripi, er hann sótti í hauginn, hríng, men ok Mistiltein. Allir fengu þeir of fjár, sigldi Ólafr konúngr svâ þaðan, ok norðr til síns ríkis, settist síðan at landi sínu um kyrt.

5. Eptir þetta var Hrómundr mjök frægr, vinsæll ok stórgjöfull; hann gaf einum manni, þeim er Hrókr hèt, eitt sinn gullhríng góðan, er vo eyri. Þat fèkk Voli at vita, ok drap Hrók á náttartíma, en tók hrínginn. En sem kon-

[1]) hundrað 34, *B.*

úngr vissi þetta, kvaðst hann skyldi launa Vola einhvern tíma hans hrekki. Konúngr átti 2 systr; önnur þeirra hèt Dagný, en hin Svanhvít; sú var framar at öllu, ok var engin hennar líki millum Svíþjóðar ok Hálogalands. Hrómundr Greipsson var nú heima, ok gjörði sèr kátt við Svanhvít, ok forðast hvorki Vola nè Bíld. Hún mælti eitt sinn við Hrómund, ok segir, Voli ok Bíldr muni rægja hann við konúng; hann mælti: ek hræðumst aungvar argar fýlur, ok svâ lengi þú villt unna mèr viðtals, þá mân ek tala við þik. Svâ varð megn þessi rógburðr, at Hrómundr ok hans bróðir urðu at ríma frá konúngs hirð, ok fóru heim til föður síns. Lítit hèr eptir talar Svanhvít við Ólaf konúng, ok sagði: nú er Hrómundr dæmdr í brot frá konúngs hirð, hvörr vara sæmd jók þó mest, en aptr í staðinn hafi þèr með yðr þá tvâ, er hvorki rækja frægð nè dáð. Konúngr svarar: heyrt hefi ek getit, hann mundi fífla þik, ok skal sverðit skilja ykkar ást. Lítt manstu nú, sagði hún, þegar hann einn gekk í hauginn, en engi annarr þorði, ok fyrr mân Voli ok Bíldr heingðr verða, sagði hún; gekk síðan snúðugt í brott.

6. Nokkru síðar komu 2 konúngar af Svíþjóð; hètu báðir Haldíngjar. Helgi[1], Hraungviðs bróðir, var með þeim; þeir buðu Ólafi konúngi til orrostu vestr á Vænisís. Hann vill nú heldr mæta þeim enn flýja óðal sitt, gjörir nú

[1]) hinn frækni, *b. v. B.*

orð Hrómundi ok bræðrum hans at fylgja sèr. Þá vildi Hrómundr hvergi fara, kvað Bíld ok Vola vel duga ok vinna allt með konúngi. Konúngr fór af stað með lið sitt. Svanhvít klökknaði við, ok fór heim til Hrómundar; hann tók henni vel: virð nú til bæn mína, sagði hún, meir enn beiðni bróður míns, ok veit nú lið konúngi! ek vil gefa þèr einn skjöld með því bandi, er honum fylgir, mun þik eigi saka, meðan þú hefir þat. Hrómundr þakkar henni gjöf þessa; gladdist hún þá; hann bjóst til ferðar ok bræðr hans átta. Nú kemr konúngr með lið sitt til Vænisíss; var þar fyrir Svía lið; en at morgni, þegar vígljóst var, vâpnast þeir á ísnum, ok sóttu Svíar hart fram. Strax sem bardaginn hófst, var Bíldr veginn, en Voli kom þar eigi. Ólafr konúngr ok konúng Haldíng[1] varð sárr. Hrómundr hafði sett hrauktjald hinumegin vazins; bræðr hans herklæðast snemma um morguninn; Hrómundr mælti: illa hefir mik dreymt í nótt, ok mân eigi gánga allt at óskum, ok mân ek ekki fara í dag til orrostu. Bræðr hans sögðu, þat væri stór skömm, at þora eigi at veita konúngi lið, en vera þó kominn þess erindis. Þeir komu til orrostu, ok gengu hart fram, ok fèll hvorr um þveran annann, er þeim mætti af liði Haldíngja. Ein fjölkýngiskona var þar komin í álftar ham; hún gólaði með svâ miklum galdralátum, at enginn gáði at verja

[1]) Hadding, *héðan af C.*

sik Ólafs manna, flaug hún yfir þá Greipssyni, ok saung hátt; hún hèt Lara[1]. Helgi hinn frækni mætti þeim bræðrum þat sama sinn, ok drap þá alla 8 saman.

7. Í því bili kom Hrómundr í bardagann. Helgi hinn frækni þekti hann, ok mælti: nú er sá kominn hèr, sem vo Hraungvið, bróður minn; megi þèr nú sjá við hans sverði, sem hann sótti í hauginn; varstu nú fjærri, er ek drap bræðr þína. Hrómundr mælti: eigi þarftu, Helgi! at frýja mèr hugar, því annathvort, ek eðr þú, skulum nú falla. Helgi sagði: Mistilteinn er svâ þúngt vâpn, at þú fær eigi valdit, vil ek ljá þèr þat annat sverð, er þú getr valdit. Hrómundr mælti: eigi þarftu at bregða mèr um hugleysi, muna muntu þat högg, er ek gaf Hraungviði, þá haus hans molaðist. Helgi sagði: þú Hrómundr hefir bundit um þína hönd sokkaband meyjar einnar, skil þik við skjöld þann, er þú berr, þú fær engin sár, meðan þú berr þetta, ok held ek fyrir satt, þú trúir á þá meyju. Hrómundr þoldi eigi þessi skapraunarorð, ok kastaði niðr skildinum. Helgi frækni hafði jafnan sigr haft, ok vann með fjölkýngi. Frilla hans hèt Lara, sú sem þar var í álftarlíki. Helgi reiddi svâ hátt sverð sitt upp yfir sik, at þat tók sundr fótlegg álftarinnar, ok rendi sverðit ofan í (völlinn) upp at hjöltum, ok mælti: nú er mín heill farin, ok illa tókst til, er ek mista þín.

[1]) *eða* Lára; Cara, *allstaðar B, C.*

Hrómundr mælti: þú vannst, Helgi! hit mesta slis, er þú drapst sjálfr frillu þína, ok farin mân þín heill; datt Lara dauð niðr. En af því höggi, er Helgi hjó til Hrómundar, svâ sverðit ljóp at hjöltum ofan, snart oddr sverðsins kvið Hrómundar, ok risti niðr, en Helgi laut eptir högginu; var þá Hrómundr eigi seinn, ok höggr Mistilteini í höfuð Helga, klauf hjálminn ok hausinn, svâ staðar nam í herðum, brotnaði þá skarð í sverðit. Eptir þat tók Hrómundr tígilkníf sinn, ok stakk á kviðinn [á sèr[1] í sársbrúnirnar raufir, hratt svâ inn ístrunni, er út hángði, rifjar þarmeð saman kviðinn með bandi, ok batt klæðin hart at, barðist svâ í ákafa, ok feldi hvorn um annann þveran, ok barðist fram til miðrar nætr; flýði þat lið, sem eptir var af Haldíngjum; lýkr þarmeð orrostu. Hrómundr sèr þá, at einn maðr stendr þar á ísnum, veit hann sá sami muni hafa með göldrum gjört ísinn á vatnit, þekti hann, at þetta var Voli. Hann kvað eigi óskylt, at launa honum, ljóp til hans, reiddi Mistiltein, ok vildi höggva hann. Voli blès sverðit or hendi honum, ok hitti þat fyrir vök eina, ok sökk niðr til grunns. Þá hló Voli, ok mælti: nú ertu feigr, er þú mistir Mistiltein úr hendi þinni. Hrómundr sagði: fyrr muntu deyja enn ek, ljóp hann þá at Vola, ok greip hann upp, færði niðr við ísinn, svâ hálsbeinit brotnaði, lá þessi galdrarumr þar dauðr. En

1) ærsar, *B.*

Hrómundr settist niðr á ísinn; hann mælti: ek hafði eigi ráð meyjarinnar, því hefi ek nú fengit 14 undir, ok þó þartil fèllu bræðr mínir 8, ok mitt góða sverð Mistilteinn fèll í vatnit, ok þess fæ ek aldrí bætr, at ek misti sverðit, gekk hann síðan þaðan, ok heim at tjaldi sínu, ok tók nokkra hvíld.

8. Nú eru konúngs systr sóktar, kannar Svanhvít sár Hrómundar, ok saumar kviðinn saman, ok leitar honum hæginda. Hún lèt færa hann karli þeim til græðslu, er Hagall hèt; kerlíng hans var klók; þau tóku vel við honum, ok græddu hann at heilu. Þat fann Hrómundr, at þessi hjón voru margkunnug. Karl var vanr at veiða fiska, ok eitt sinn, er hann var at veiðiskap sínum, dró hann eina geddu, ok er hann kom heim, ok krufði hana, fann hann í hennar maga Mistiltein, sverð Hrómundar, ok fèkk honum þat. Hrómundr varð glaðr við, ok kysti á hjölt sverðsins, ok umbunaði vel karli. Einn maðr var sá með Haldíngs konúngs her, sem hèt Blindr hinn illi; hann sagði konúngi, at Hrómundr væri lífs, ok græddr á laun hjá Hagali karli ok konu hans. Konúngr kvað útrúligt, at þau mundu þora at leyna honum. Konúngr bauð at leita hans; Blindr fór með nokkra menn til húsa þeirra Hagals, ok spurði, ef Hrómundr væri þar geymdr. Kerlíng sagði, hann mundi eigi þar finnast. Blindr leitaði vandliga, ok fann eigi, þvíat kerlíng hafði falit Hrómund

undir hitunarkatli sínum. Blindr ok hans fèlagar gengu þaðan, ok er þeir voru á leið komnir, sagði Blindr eigi er ferð vor fræg vorðin, ok skulum vèr aptr snúa. Þeir gjörðu svâ, komu heim, ok fundu kerlíngu; sagði Blindr, hún væri brögðótt, ok hefði hún geymt Hrómund undir katli sínum. Leitið ok takið hann þar þá! kvað hún. En því sagði hún þetta, at þegar hún sá, þeir snèru aptr, færði hún Hrómund í kvennskrúða, ok lèt hann mala ok snúa kvörn. Þeir leita nú í húsunum; ok þegar þeir koma, þar mærin snèri kvörninni, snuðruðu þeir allt um kríng, en sú sama leit óhýrt til konúngsmanna; snèru svâ í brott, at þeir fundu eigi; ok er þeir voru á leið komnir, sagði Blindr at kerlíng mân hafa villt sjónir fyrir þeim, ok sèr þikki grunsamt, at Hrómundr muni hafa verit þat, sem snèri kverninni í kvennklæðum: ok sè ek oss hefir yfirsèzt; dugir oss eigi at þreyta við kerlíngu, því hún er oss klókari; báðu þeir henni ílls, ok fóru heim aptr til konúngs við svâ búit.

9. Um vetrinn eptir bar mart fyrir Blind í svefni, ok segir konúngi eitt sinn draum sinn, ok mælti svâ: mèr þótti vargr einn renna austan, hann beit yðr, konúngr! ok veitti yðr áverka. Konúngr kvaðst ráða þenna draum svâ: hèr mân koma konúngr af nokkrum stað, ok mun fundrinn verða skæðr fyrst, en falla þó niðr til sátta. Enn kvað Blindr sik dreymt hafa, at

honum þótti margir haukar sitja í einu húsi: ok þekti ek þar fálka þinn, herra! hann var allr fjaðralauss, ok flettr hamnum. Konúngr mælti: vindr mân koma af skýum, ok skelfa vora borg. Þriðja draum sagði Blindr svâleiðis: mörg svín sá ek renna sunnan at konúngs höllu, rótuðu jörðinni upp með rananum. Konúngr mælti: þat er fyrir sjófar ólgu, votviðrum ok grasvexti þeim, er grær af vazins vökva, er sólin skín í heiði. Fjórða draum sagði Blindr: mèr þótti einn ógrligr hriki koma austan at, hann beit yðr stóra und. Konúngr mælti: sendimenn frá nokkrum konúngi munu koma í mína höll; þeir mânu bíta upp öllum sínum vâpnum ok þar af mân ek reiðast. Fimti draumr er sá, sagði Blindr, at mèr þótti liggja um Svíaveldi grimmligr ormr. Hèr mun koma at landi, sagði konúngr, dreki vænn, hlaðinn gersemum. Sjötta sinn dreymdi mik, sagði Blindr, at mèr þótti koma af landi svört ský[1] með klóm ok vængjum, ok flugu[2] brott með þik, konúngr! Þá dreymdi mik enn, at ormr einn væri hjá Hagali karli, sá beit menn grimmliga, át hann bæði mik ok yðr upp ok alla konúngs menn, eða hvat mân þetta þýða? Konúngr mælti: heyrt hefi ek skamt frá híbýlum Hagals liggi hýðbjörn nokkur; ek mun fara at vinna björninn, ok mân hann þá bistast mjök. Hèrnæst dreymdi mik, at dreka hamr væri dreginn um konúngs höll, ok

1) kú, C. 2) fljúga, C.

hèkk þarvið lindi Hrómunds. Konúngr mælti: þat veiztu, at Hrómundr misti sverðit ok linda í vatninu, eða ertu nú hræddr við Hrómund? Fleiri drauma dreymdi Blind, hvörja hann sagði konúngi, en konúngr rèði þá alla sèr í vil, en aungvan svâ sem merkíng til höfðu. Nú segir Blindr enn einn draum sinn, þann er hann sjálfan snerti, ok mælti: mèr þótti járnhríngr settr á minn háls. Konúngr sagði: þat er þýðíng þess draums, at þú mânt heingðr verða, ok þarmeð mânu við báðir feigir.

10. Eptir þetta safnar Ólafr konúngr liði, hèlt síðan til Svíþjóðar. Hrómundr fylgði honum; komu þeir óvart at höllu Haldíngs konúngs. Hann lá í útiskemmu einni. Hann varð eigi fyrr varr við, enn upp var brotin skemmu hurðin. Haldíng hrópar á menn sína, ok spyrr, hvörir um nætr stríða; Hrómundr sagði til sín. Konúngr sagði: þú munt vilja hefna þinna bræðra. Hrómundr kvað, hann skyldi fátt tala um fall bræðra sinna; skaltu nú þess gjalda, ok hèr lífit missa. Þá ljóp upp einn kappi Haldíngs konúngs svâ stórr sem risi. Hrómundr drap þann. Haldíng konúngr verst í hvílunni, en fèkk ekkert sár, því hvört sinn Hrómundr hjó til hans, kom sverðit flatt á konúng. Þá tók Hrómundr kylfu, ok lamdi Haldíng konúng í hel. Þá mælti Hrómundr: hèr hef ek feldan Haldíng konúng, ok hefi ek eigi sèð frægra mann. Karl-

linn Blindr, er hèt Bavís, var bundinn ok heingðr, ok rættist svâ draumr hans. Tóku þeir þar mikit gull ok annat fè, hèldu síðan heim. Ólafr konúngr gipti Hrómundi Svanhvít; þau untust vel, áttu sonu ok dætr til samans, ok voru afbragð annarra; eru af þeim komnar konúnga ættir ok kappar miklir, ok lýkr hèr sögu Hrómundar Greipssonar.

---

## Hèr hefr upp Sögu þorsteins Víkíngssonar.

Þat er upphaf þessarar sögu, at Logi hefir konúngr heitit, hann rèð fyrir því landi, er [norðr er[1] af Noregi. Logi var stærri ok sterkari enn nokkur annarr í því landi; var lengt nafn hans, ok var kallaðr Hálogi; af honum tók landit nafn, ok var kallat Hálogaland. Logi var allra manna fríðastr, brá honum um afl ok vöxt í ætt sína, því hann var risakyns; hann átti Glöð, dóttur [Gríms úr Grímsgörðum[2] norðan úr Jötunheimum, er þá voru kallaðir fyrir norðan [í Elivogum[3]. Grímr var hinn mesti berserkr, hann átti Alvöru, systur Álfs hins gamla; hann rèð fyrir því ríki, er liggr í milli á tveggja; þær tóku nafn af honum[4], ok var kölluð elfr hvortveggi, var sú kölluð Gautelfr, er fyrir sunnan var [við land Gauta konúngs, ok skildi við Gautland[5]; en sú var kölluð Raumelfr, er

---

1) gengr í norðr, *B*, *C*, *D*; liggr í norðr, *R*. 2) Gýmis úr Gýmisgörðum, *hèr og framvegis B*, *C*; Geymis úr Geymisgörðum, *D*. 3) Jeluvogar, *B*; Elovoga, *C*, *D*; í Jelvogum, *R*. 4) *þannig B*; *v. í C*; henni, *rángt í A*, *R*. 5) ok land Gauta konúngs skildi, er Gautland heitir, *B*, *C*, *D*.

fyrir norðan var, ok kend var við Raum konúng; ríki þat[1] var[2] kallat Raumaríki. Þat voru kallaðir Álfheimar, er Álfr konúngr rèð fyrir, en þat fólk er allt álfakyns, er af honum er komit; voru þat fríðari[3] menn enn aðrar þjóðir næst risafólki. Álfr konúngr átti Bryngerði, dóttur Raums konúngs af Raumaríki; hún var stór kona, en ekki væn, því Raumr [konúngr var ljótr[4]; er þat kallat, at þeir menn sè miklir raumar, sem ljótir eru ok stórir. Hálogi konúngr átti tvær dætr við Glöð, drottníngu sinni, hèt önnur Eisa, en önnur Eimyrja[5], þær voru fríðari meyjar enn nokkrar aðrar í því landi; þær áttu til þess kyn, svâ var faðir þeirra ok móðir; en sakir þess at eldr ok ljós birtir, þar sem áðr er myrkt, tóku þessir hlutir nafn af fyrrgreindu fólki. Jarlar 2 voru með Háloga; hèt annarr Vífill, en annarr Veseti[6], þeir voru báðir miklir menn ok sterkir, þeir vörðu land konúngs. Þat var einn dag, at jarlarnir gengu fyrir konúng[7], ok bað Vífill Eimyrju, en Veseti Eisu; konúngr synjaði þeim báðum, þeir urðu við þat mjök reiðir, svâ at litlu síðar tóku þeir þær í burt, ok stukku úr landi, ok firðust fund hans, því hann gerði þá útlæga af ríki sínu, ok lèt hann gera til þess

---

[1]) *þannig B, C, D*; þat er, *A.* [2]) nú, *R.* [3]) ófriðari, *R.* [4]) ok ættmenn hans voru stórir ok ljótir, *C, D.* [5]) Eynmyrja, *hèr og framvegis R.* [6]) Vjeseti, *jafnan R.* [7]) ok höfðu uppi orð sín, *b. v. C, D.*

galdra, at þeir yrði þar aldrí innlenzkir, ok lagði hann á, at þeirra ættmenn yrði jafnan útlægir af sínum eignum. Veseti settist í ey þá eðr hólm, er kallaðr er Borgundarhólmr, [faðir Búa ok Sigurðar kápu[1]. Vífill sigldi austr lengra, ok settist í þá ey, er Vífilsey heitir, hann átti son við Eimyrju, konu sinni, er Víkíngr hèt, hann var snemma mikill vexti, ok sterkari enn aðrir menn.

2. Hríngr hèt konúngr, hann var fylkiskonúngr í Svíaveldi, hann átti drottníngu ok eina dóttur barna, er Húnvör hèt; hún var allra kvenna fríðust ok bezt ment; hún hèlt skemmu mikla ok kvenna sveit. Sú hèt Íngibjörg, er næst henni gekk, dóttir Herfers[2] jarls af Ullarakri. Þat töluðu flestir menn, at Íngibjörgu skorti[3] ekki við konúngs dóttur, nema burði ok speki, því þat bar hún yfir hvern mann þar í landi. Margir konúngar ok konúngasynir báðu hennar, ok vísaði hún öllum frá. Úr hófi þótti öllum gánga metnaðr hennar ok ofstopi; töluðu þat ok margir menn, at henni mundi koma nokkur hnekkir; gekk nú svâ fram nokkura tíma. Fjall eitt var at baki konúngs atsetunni, þat var svâ hátt, at þar lágu aungvir manna vegir yfir. Þat var einn dag, at

[1]) hann vann Búa ok Sigurð kápu, *R*; juku þau Eisa ætt sína, hafði hann nafn Veseti í Borgundarhólmi, *C*, *b. v. D.* [2]) Herfars, *B*; Herfinns, *C*, *D.* [3]) skyrti, *B.*

ofan af fjallinu gekk einn maðr, ef mann skyldi kalla; hann var meiri ok illiligri enn menn hefði fyrr sèð; hann var líkari[1] jötni enn mennskum manni; hann hafði í hendi flein tvíoddaðan[2]; þetta var þann tíma, er konúngr sat yfir borðum; þessi raumr gekk at hallardyrum, ok beiddist inn at gánga, en dyraverðir synjuðu; sjá lagði til þeirra fleininum, ok sinn oddrinn kom fyrir brjóst hvorum, ok svâ út um bakit, ok hóf þá báða yfir höfuð sèr, ok kastar þeim báðum lángt á völlinn dauðum; gekk inn síðan ok fyrir hásæti konúngs, ok mælti: með því, Hríngr konúngr! at ek hefi virt þik svâ mikils, at ek hefi sótt yðr heim, þá þikki mèr skylt, at þèr gerið mitt eyrindi. Konúngr spyrr, hvat þat væri, eðr hvat hann hèti; hann svarar: ek heiti Hárekr járnhaus, er ek son Kols konúngs kroppinbaks af Indíalandi, en eyrindi mitt er þat, at ek vil at þèr gefið í mitt vald dóttur yðra, land ok þegna, munu þat ok flestir kalla, at betr sè standanda ríkit, at ek stýri enn þú afgamall ok mannskaparlaus; en með því at þèr þikkir nokkur mótgerð í því, at láta ríkit, þá skal ek þat veita þèr í móti, at gánga at eiga dóttur þína Húnvöru, en ef þèr líkar þá eigi, þá mun ek [drepa þik, en eiga ríkit ok hafa Húnvöru fyrir frillu. Konúngi þótti nú at höndum kominn vandi mikill, þvíat allt fólk varð hryggt við

[1]) hundvísúm, *b. v. B, C*; hundvísum hund, *b. v. D.* [2]) tvíángaðan, *C.*

tal þeirra[1]. Konúngr mælti þá: mèr þikkir ráð, at við vitum, hverju hún vill svara; Hárekr kvað sèr þat vel líka. Var þá sendt eptir Húnvöru, ok þetta var borit upp fyrir henni. Hún mælti: vel lízt mèr á þenna mann, en verða þikki mèr mega, at mèr verðr hann stórr í skapsmunum, en fullkosta er mèr í honum í allan máta, en þó vil ek at því spyrja, hvårt ekki skal til undanlausnar. Eigi skal þat, segir Hárekr, ef konúngr vill gánga á hólm við mik at þriggja nátta fresti, eða fá mann fyrir sik, þá skal sá ráða öllum hlutum, er annann fellir á hólmi. Víst mun þat, segir Húnvör, at sá mun engi fást, at þik sigri í einvígi, en þó mun ek því játa. Hárekr snýr síðan út[2], en Húnvör fór til skemmu ok grèt sárt. Konúngr spurði eptir sína menn, hvårt enginn vildi vinna þat til ráðahags við dóttur sína, at berjast við Hárek; en þótt ráðit þætti gott, vildi enginn tilvinna, því öllum þótti viss dauðinn; töluðu þat ok margir, at þetta væri henni makligt, svâ mörgum sem hún hefði frávísat, ok mundi nú lægjast metnaðr hennar, ef hún skyldi eiga Hárek[3]. Eymundr[4] hèt þjónustumaðr hennar, hann var henni hollr ok trúr í öllum ráðum;

1) leysa þik af fyrst, *C.* 2) úr höllinni ok upp á et sama fjall, ok þótti öllum sem hann mundi þar bæli eiga, *b. v. C, D.* 3) þenna bölvaða berserk, *C*; þ. b. hund ok b.; *D.* 4) Eivindr, *hèr og framvegis R.*

þenna kallaði hún til þegar um daginn, ok mælti: ekki mun tjá kyrru fyrir at halda, vil ek senda þik, skaltu taka skip, ok róa til eyjar þeirrar, er liggr út undan Ullarakri, er Vífilsey heitir; þar stendr bær í eynni, þángat skaltu fara, ok koma þar annat kveld um dagsetrs skeið, skaltu gánga inní bæinn vestri dyr, ok er þú kemr inn, muntu sjá roskinn mann hvatligan[1] ok aldraða konu, ekki mun þar fleira manna; son eiga þau, er Víkíngr heitir, hann er nú 15[2] vetra, manna gerviligastr, eigi mun hann á vaðbergi[3] vera; annathvárt munum vèr þaðan fá leiðrèttíng vorra mála, ella þikki mèr seinligt um. Láttu ekki sjá þik, (en) ef svå kann til at bera, at þú sjáir hinn þriðja manninn, þá kasta þú þessu brèfi[4] í knè honum, ok far síðan heim! Eymundr bregðr við skjótt ok ferr á skip við tólfta mann, ok kemr í Vífilsey, en gengr einn á land ok til bæjar, ok finnr eldaskálann, ok stendr at hurðarbaki; bóndi sitr við eld ok húsfreyja, lízt honum bóndi drengiligr[5]; fölski var fallinn á eldinn, ok sá eigi glöggt. Húsfreyja tók til orða: þat ætla ek, Vífill minn! at okkr dugi at Víkíngr, sonr okkar, komi fram, því öngvir munu koma í móti, ok er skjótt komit at því, er hólmstefnan á at vera Háreks. Þat þikki mèr (eigi) ráð, Eimyrja! segir hann, því sonr okkar er úngr ok álitalítill, framgjarn ok óforsjáll[6];

---

[1]) hraustligan, *B*, *C*, *D*. [2]) 12, *C*. [3]) hraðbergi, *C*. [4]) kefli, *C*. [5]) elliligr, *C*. [6]) ófyrileitinn, *C*, *D*.

er þat bráðr bani hans, ef hann lætr ginna sikr til at berjast við Hárek, en þó muntu þessu ráða. Litlu síðar spratt upp hurð at baki bónda, ok gekk þar fram maðr furðuliga mikill vexti, ok settist niðr hjá móður sinni. Eymundr varpar brèfinu[1] í knè Víkíng, ok hjóp út síðan ok til skips, ok kom til Húnvarar, ok segir sitt erindi. Hún segir, at auðna mundi ráða. Víkíngr tók brèfit, ok var þar á kveðja konúngsdóttur, ok þat með at hann berðist við Hárek járnhaus, ok hún mundi gánga með honum. Víkíngr brá lit við[2], ok er Vífill sá þat, þá spurði hann, hvat brèf þat væri; Víkíngr sýndi honum brèfit. Þat vissa ek, segir Vífill, ok hefði betra verit, at ek hefði ráðit áðan, Eimyrja! eðr hvat ætlar þú til? Víkíngr segir: mân eigi gott at frelsa konúngs dóttur? Vífill mælti[3]: þat er þinn bráðr bani, ef þú berst við Hárek; til þess skal hætta, segir Víkíngr. Ekki mun þá verða viðgert, segir Vífill, en segja má ek þèr frá ætt hans ok honum sjálfum.

3. Tírus hinn mikli var konúngr yfir Indíalandi; hann var ágætr höfðíngi sakir allra hluta, hann átti sèr ágæta drottníng ok eina dóttur barna, er Tróna hèt, hún var allra kvenna fríðust, ólík flestum konum fyrir sakir vizku, bar hun af öllum konúngadætrum. Þann mann er at nefna til sögunnar, er Kolr hèt, mart

[1]) kefinu, *C.* [2]) *hèr vantar í D.* [3]) at síðr frelsar þú konúngs dóttur, at, *b. v. C.* [4]) Tírona, *hèr og framvegis C.*

gott er af honum at segja, þat fyrst, at hann var stórr sem jötun, ljótr sem fjandinn, ok svâ fjölkunnigr, at hann fór í jörðu ok á, ok límdi saman stóð ok stjörnur; hann var svâ mikil hamhleypa, at hann brast í ýmsra kvikinda líki, hann fór ýmist með vindum eðr [í sjó[1], hann hafði svâ mikinn hríng[2] á herðum, at, ef hann stóð rèttr, bar hærra kryppuna enn höfuðit; hann fór til Indíalands með mikinn her, ok feldi Tírus frá landi, en gekk at eiga Trónam, ok tók undir sik land ok þegna, ok gerðist konúngr yfir; hann átti mörg börn við Trónu, ok brá þeim meir í föður ætt enn móður. Kolr var kallaðr kroppinbakr; hann átti þrjá kostgripi: þat var sverð, svâ góðr gripr at ekki var betra borit í þann tíma, sverðit hèt Ángrvaðill; annarr gripr var gullhríngr, er Glæsir hèt; þriðì var horn, þat var náttúra drykkjar þess, er í var neðra gólfi[3], at hverr, sem afdrakk, fèkk vanheilsu þá, er lepra[4] heitir, ok óminni svâ mikit, at hann mundi öngvan þann hlut, sem áðr hafði verit, en ef drukkit var af efra hlut hornsins, þá bættist þegar. Elzt barn þeirra var Björn blátönn; tönn hans var blá at lit, ok stóð hálfrar annarrar álnar fram úr munni hans, opt banaði hann þarmeð mönnum í bardögum eða þá hann var reiðr; Dís hèt dóttir Kols; it þriðja barn þeirra hèt Hárekr, þá hann var sjö[5] vetra, var hann sköll-

[1]) sjá, í jörðu eðr á *C*; í sjó eðr jörðu, *B*. [2]) keyng, *R*.; kríng eðr kistil, *B*. *C*. [3]) hvolfi, *R*. [4]) líkþrá, *R*. [5]) 6, *C*.

óttr um allt höfuð, haus hans var svâ harðr sem stál[1], því var hann járnhaus kallaðr; hit fjórða barn þeirra hèt Íngjaldr, vör hans hin efri var álnar laung frá nefi, því var hann kallaðr Íngjaldr trana. Þat var gaman þeirra bræðra, þá þeir voru heima, at Björn blátönn hjó, sem hann gat, tönn sinni í [haus Háreki[2], bróður sínum, ok skaðaði hann ekki. Ekki festi vopn á [vör Íngjalds trönu[3]. Kolr kroppinbakr lèt seiða til þess, at ekki vopn skyldi at bana verða öllu hans afsprengi, utan sverðit Ángrvaðill; ekki járn bítr þau annat. En þá Kolr var fullgamall, dó hann illum dauða. Þá var Tróna vanheil[4], ok varð lèttari, ok átti son, er Kolr hèt eptir föður sínum; hann var svâ líkr föður sínum, sem hann var honum skyldr. Þegar Kolr var vetrgamall, var hann mjök illskiptinn við úngmenni, var hann kallaðr Kolr enn krappi. Dís giptist Jökli járnhrygg, hann var blár berserkr, þau syskin skiptu arfi eptir föður sinn, hlaut Dís hornit, en Björn blátönn sverðit, Hárekr hrínginn, Íngjaldr konúngdóm, en Kolr lausafè. Þrim vetrum eptir dauða Kols konúngs giptist Tróna Herfinni jarli, syni Hroðmars konúngs af Marseralandi[5], ok átti son við henni á fyrsta vetri, er Framarr hèt; hann var efniligr ok úlíkr bræðrum sínum. Nú þikki mèr svâ, segir Vífill, at þú

---

[1]) járn, *C.* [2]) vör, *C.* [3]) honum, *C.* [4]) úheil, *C.* [5]) Marsaralandi, *B*; Marsýalandi, *R*; Lúngheralandi, *C.*

hættir eigi lífi þínu undir heljarmann þenna, sem engi bíta járn. Eigi skal þat, segir Víkíngr, til skal hætta, hversu er ferr. Ok er Vífill sèr, at honum er alvara í at berjast við Hárek, þá mælti hann: enn má ek segja fleira af Kolssonum: við Veseti höfðum landvörn með Háloga konúngi, hèldum við í hernað á sumrum; þat var eitt sinn, at við mættum Birni blátönn í Græníngjasundi[1], ok börðumst vèr með því móti, at Veseti sló með kylfu sinni á hönd Birni, svâ sverðit fellr úr hendi honum, ok náði ek þá sverðinu, ok keyrða ek hann í gegnum, ok lèt hann svâ líf sitt; hefik borit síðan sverðit, ok nú vil ek gefa þèr þat, frændi! hann sótti þá sverðit, ok fèkk Víkíng; honum leizt vel á sverðit. Síðan bjóst Víkíngr, ok fór einn á báti; þann sama dag kom hann til konúngs hallar, er hólmstefnan átti at vera, var þar allt tvist ok dapurt, gekk Víkíngr fyrir konúng, ok kvaddi hann; konúngr spyrr hann at nafni; Víkíngr segir til it sanna. Hunvör sat á aðra hönd konúngi. Víkíngr spyrr, hvârt hún beiddi hann at koma þar; hún segir þat satt vera. Víkíngr spyrr, með hverjum hætti hann skal á hólm gánga við Hárek; konúngr mælti: þú skalt eiga dóttur mína með sæmiligum mundi; þessu játar Víkíngr. Fastnar hann sèr þá Húnvöru. Þótti flestum, sem feigð mundi kalla at Víkíng, ef hann berðist við Hárek.

[1]) Grænlandi, *C.*

4. Síðan fór Víkíngr til hólmsins, fylgði konúngr honum með hirð sinni. Þar kom Hárekr ok spyrr, hverr við sik skyldi berjast. Víkíngr gekk fram ok mælti: hèr er[1] sjá. Hárekr mælti: lítilræði þikki mèr at fella þik at velli, því ek veit, at þú ert dauðr, ef ek slæ þik með hnefa mínum. En ek ætla, at þú telir tormerki[2] á at berjast við mik, segir Víkíngr, er þú æðrast, er þú sèr mik. Hárekr segir: eigi er þat, ok[3] þarf ek at forða lífi þínu, er þú villt sjálfr gánga í opinn munn heljar, ok högg þú fyrri, sem hólmgaungu lög eru til, því ek hefi einvígi boðit, en ek mun standa kyrr fyrir á meðan, því óhræddr er ek fyrir því, at mik muni þat saka. Víkíngr brá nú Ángrvaðli, ok því líkt sem eldíng [brygði af honum[4]. En er Hárekr sá þat, mælti hann: við þik skyldi ek aldrí barizt hafa[5], hefðak vitat, at þú hefðir Angrvaðil haft; er því líkast, at svå fari, sem faðir minn sagði, at vèr syskin munum skamlíf verða, nema sá einn er hans nafn bæri, var þat hit mesta slis, er Ángrvaðill gekk úr vorri ætt; ok í því hjó Víkíngr ofan í haus Háreki, ok klauf hann allan at endilaungu, svå sverðit hljóp niðr í jörðina allt at hjöltum; konúngs menn æptu þá sigróp mikit. Fór konúngr heim til hallar með fagnaði. Var þá umtalat, at við brullaupi skyldi búast; en Víkíngr sagðist eigi þat

[1]) sá, máttu þann, *b. v. B.* [2]) torvirki, *R.* [3]) eigi, *b. v. B, C, R.* [4]) bæri á himininn, *C.* [5]) *hèðan frá vantar í B.*

vildu: skal hún sitja í festum þrjá vetr, en ek skal fara í hernað. Var nu svâ gert, at Víkíngr hèlt úr landi með tveimr skipum, ok tókst þat vel, því hann hafði sigr í hverri orrostu; ok er hann hafði tvo vetr í víkíng verit, lagði hann um haustit at ey nokkurri, þá var veðr gott ok hiti mikill.

5. Þenna sama dag gengr Víkíngr á land einn, at skemta sèr; hann snýr til skógar, varð honum þá varmt mjök, ok er hann kom í eitt rjóðr fagurt, settist hann niðr, ok sèr hvar kona gengr, hún var harðla fögur; hún gekk at honum ok heilsar uppá hann harðla sæmiliga, en hann tók henni vel; þau töluðust við lánga stund, ok fór ræða þeirra heldr vinsamliga; hann frètti hana at nafni, en hún kvaðst Sólbjört heita; hún spyrr, hvârt hann þyrsti ekki, því hann hafi lángt gengit til. Víkíngr kvað þat eigi[1] vera. Hún tók horn undan yfirhöfn sinni, ok bauð honum at drekka, en hann tók við ok drakk, ok eptir þat syfjar hann, ok hallast þá í knè Sólbjartar ok svaf. En er hann vaknar, var hún öll í burtu; honum var heldr orðit kynligt við drykkinn, [hann hafði[2] hroll mikinn í búknum; veðrit var gustkalt, ok nær mundi hann aungvan hlut, sem áðr hafði verit, en sízt til Húnvarar. Fór hann til skips, ok hèlt í burt, tók hann þá kránkleika mikinn, ok lagðist í rekkju af sótt þeirri, er líkþrá heitir. Hèldu

1) víst, *R.* 2) svefninn hafði honum fengit, *b. v. C.*

þeir víða fyrir land fram, því þeir vildu hvergi ílendast[1], en er hann hafði tólf mánuði legit í þessum sjúkleika, [tók mjök at honum at þreyngja[2], ok fèllu mörg sár á líkam hans. Þat var einn dag, at þeir lögðu at landi, at þeir sáu sjö skip sigla fyrir höfnina, ok er þeir fundust, spurðu hvorir aðra at nafni. Víkíngr sagði til sín, en sá nefndist Hálfdán, er fyrir var, ok vera Úlfsson[3]. Hálfdán var stórr maðr ok sterkligr, ok þegar hann veit, hversu háttat er Víkíng, gekk hann á skip til Víkíngs ok var þá lítill máttr hans. Hálfdán spyrr, hversu at hefði borizt um mein hans. Víkíngr segir allt, sem orðit hafði. Hálfdán svarar: þar hefir hamhleypan Dís Kolsdóttir komit við metum sínum; þikki mèr seinligt at rètta sinn hluta á henni, því hún mun þikkjast hafa hefnt Háreks járnhauss, bróður síns. Nú vil ek bjóða þèr fóstbræðralag, ok vita hvárt við getum ekki hefnt á Dísi. Víkíngr svarar: öngva von veit ek mèr á því, at fyrikoma Dísi eða Jökli járnhrygg, bónda hennar, sakir vanmættis míns, en svâ lízt mèr á þik, at þó ek væri vel til reika, væri mèr þetta vel boðit sakir karlmennsku þinnar. Var þetta nú staðfest, at þeir gerðust nú fóstbræðr. Hálfdán átti dreka stóran, ok var hann kallaðr Járnbarði, hann var allr járni varðr fyrir ofan sjó, borðhár ok hinn bezti gripr. Ekki höfðu

[1]) *innlendast, C.; ílengjast, R.* [2]) *þá ók at honum, C.*
[3]) *ok kynjaðr i Svofa, b. v. C.*

þeir þar lengi verit, áðr þeir fóru burt ok heim í Svafa[1]; mínkaði þá mátt Víkíngs, svâ hann gerðist banvænn. En er þeir komu við land, gekk Hálfdán einn frá skipum, þartil hann kom í rjóðr eitt, þar stóð steinn einn stórr, hann gekk at honum ok klappar á með sprota sínum; þar gekk út dvergr sá, er þar átti heima, er Litr hèt, þeir voru vinir miklir; hann heilsar honum blíðliga ok frèttir, hvat at erindum væri. Hálfdán segir: nú þikki mèr mikit áliggja, fóstri! at þú gerir nú erindi mitt. Hvat er þat, fóstri minn! segir Litr. Ek vildi at þú næðir horninu góða Dísar[2] Kolsdóttur. Kosta [þú[3], segir Litr, því þat er[4] minn bani, ef ek leita við þat, en ek fær þat ekki þess heldr, því þú veizt, at ekki tröll er slíkt í veröldinni sem Dís. Hèr þikki mèr áliggja nú, segir Hálfdán. Því mun ek þá eigi hætta, segir Litr, þótt ek gefi mitt líf við? Vel muntu gera, segir Hálfdán. Skildu þeir þá at sinni; gekk Hálfdán þá til skipa, ok dvaldist þar um hríð.

6, Nú er at segja frá Hríngi konúngi, at hann sitr í sínu veldi ok Húnvör, dóttir hans, eptir fall Háreks járnhauss. Þótti öllum þat mikit þrekvirki verit hafa. Þessi tíðindi spurðust til Indíalands, ok þótti Íngjaldi trönu mikit fráfall hans, tók hann at skera upp herör ok sendi um allt landit, ok safnaði múg ok

[1]) Svafaríki, *R*; Svofa, *C*. [2]) naut, *b. v. R*. [3]) ok mæl þat eigi, *b. v. C* [4]) skal til, sagði Litr, þó þat sè, *R*.

margmenni; margar óþjóðir hafði hann í her sínum, ok stefndi öllum þessum her til Svíþjóðar. Eigi kemr njósn fyrir honum, hann býðr konúngi til bardaga. Hann bregðr við skjótt, ok hefir fátt manna, ferr þó til bardaga, ok verða þar skjót umskipti; þar fèll Hríngr konúngr ok öll hans hirð. En Íngjaldr tók burt Húnvöru[1], ok hafði til Indíalands[2]. Jökull járnhryggr leitar at þeim fóstbræðrum, ok vill hefna Háreks, mágs síns. Nú er þar til at taka, at þeir Víkíngr ok Hálfdán eru í Svafa. Þá er liðnar voru sjö nætr, kemr Litr til móts við Hálfdán, ok hefir hornit. Verðr Hálfdán nú glaðr, ok ferr til Víkíngs, og þótti flestum þá lítit at honum. Hálfdán dreypir þá á varir honum af hinum efra hlut hornsins, raknar Víkíngr þá við, ok er hann tók at magnast, var því líkt, sem hann vaknaði af svefni; en svâ fèll óhreinindi[3] burt af honum, sem hreistr af fiski, þartil er honum batnar dag frá degi, til þess er hann var heill. Þá bjuggust þeir í burt af Svafa, ok hèldu norðr fyrir[4] Balagarðs síðu[5]. Sáu þeir þar átján skip ok öll stór, tjölduð svörtum tjöldum. Hálfdán mælti: hèr trùi ek fyriliggia Jökull járnhryggr ok hamhleypan kona hans, veit ek eigi, hversu þau Litr hafa

---

[1]) ok Ingibjörgu jarlsdóttur, *b. v. C.* [2]) og lagði skatt á ríkit, spurðist þetta víða um lönd, *b. v. C.* [3]) óheilindi, *C.* [4]) Háloga, *b. hèr v. A.* [5]) at sundum þeim, er Svínasund heita, *b. v. C.*

skilit, [var hann mjök máttlaus[1]; en nú mun ráð at halda til bardaga, skal bera fjárhlut af skipum, en grjót í staðinn; var nú svâ gert; greiddu þeir síðan harðan atróðr, ok frèttu, hverir fyrir ætti at ráða. Jökull segir til sín, ok spyrr, hverir þeir væri. Hálfdán ok Víkíngr segja til sín. Þarf þá eigi at sökum at spyrja. Tóku nú til bardaga; var orrosta hin ákafasta; snèri mannfallinu á þá fóstbræðr, því Jökull var stórhöggr. Þá rèð Víkíngr til uppgaungu á dreka Jökuls, ok Hálfdán þar eptir honum; var þá mikit manfall á drekanum; mættust þeir Jökull ok Hálfdán, ok áttust við vopnaskipti, ok var Jökull sterkari, en þó kom Hálfdán sverðshöggi á Jökul um þvert bakit, ok beit ekki á, var Jökull þó í aungri brynju, ok í því kom Víkíngr at, ok hjó til Jökuls, þat högg kom á öxlina ok leysti frá síðuna ok höndina ok báða fætrna, en annann fyrir ofan knè. Fèll Jökull þá, ok var eigi dauðr, ok mælti: vissi ek þat, er Dís var horfin at heillum, at mikit íllt mundi at baki bera; var þat fyrst, at ófagnaðrinn Litr sveik hana, ok kom þar við metum sínum at stela horninu frá henni, en meiddi hana, ok liggr hún nú í rekkju af viðreign þeirra, enda þætti mèr von, at hann mundi ekki gott hafa affengit; mundi eigi svâ farit hafa, ef hún hefði verit á fótum; en þat hlæir mik, at þið hafið eigi náð Húnvöru konungsdóttur af

[1]) þvíat hann var svâ magnlaus, at hann gat eigi mælt, *C.*

Íngjaldi trönu, mági mínum. Litlu síðar deyr hann. Var þar þá æpt sigróp, ok gefin grið þeim mönnum, er græðandi voru. Tóku þeir þar mikit herfáng, en fundu á landi Dísi ódauða at eins af sameign þeirra Lits; þeir tóku hana, ok drógu belg[1] á höfuð henni, ok grýttu hana til heljar. Síðan hèldu þeir heim í Svafu, ok lètu græða menn sína. Ok þá er þeir voru búnir með 4 ok 20 skip, öll vel búin at mönnum ok vopnum, lýstu þeir því at þeir ætla at halda til Indíalands.

7. Íngjaldr trana hefir mikinn viðbúnað; lèt styrkja borgarveggi, ok safnar at sèr múg ok margmenni ok illþýði. Þegar þeir fóstbræðr koma við land, brenna þeir ok herja, var allt hrætt við þá; gera þeir hervirki hit mesta, áðr Íngjaldr frèttir; ferr hann nú í móti þeim, ok er þeir fundust, tóku þeir til bardaga. Í aungva þóttust þeir Hálfdán ok Víkíngr komit hafa slíka mannraun. Þeir fóstbræðr dugðu mannliga, en er áleið bardagann, snèri mannfallinu á Íngjald. Stóð þessi orrosta fjóra daga; þar kom um síðir at Íngjaldr stóð einn upp. Komu þeir aungu sári á hann, ok náliga þótti þeim hann fara í lopti sem á jörðu. Þar kom um síðir at þeir báru at honum skjöldu ok handtóku hann; var hann þá settr í fjötr, ok bogastrengr á hendr honum; var þá svâ myrkt af nótt, at þeim þótti eigi veganda at honum, en Víkíngr vill eigi

[1]) kálfbelg, *C.*

náttvíg vega. Þeir hlupu í borgina, ok tóku Húnvöru ok Íngibjörgu, ok fluttu til skipa, ok lágu þar um nóttina, en um morguninn voru varðmenn dauðir, en Íngjaldr á burtu, en járnin lágu eptir óbrotin, en bönd óleyst[1], ekki sást járnafar[2] á varðmönnum; þótti Íngjaldr hafa sýnt trölldóm sinn. Drógu nú upp segl, ok sigldu í haf ok heim til Svíþjóðar. Lèt Víkíngr þá búast við brullaupi, ok gekk at eiga Húnvöru. Þá hafði Hálfdán uppi orð sín, ok bað Íngibjargar jarlsdóttur; var þá send orð Herfinni jarli á Ullarakr; en er jarl kom, tók hann þessu vel; var þat at ráðum gert, at Hálfdán fèkk Íngibjargar, ok var þegar við veizlu búizt ok gerr samgángr þeirra. Sátu þeir þar um vetrinn. At sumri lögðu þeir í hernað, ok höfðu tíu[3] skip, ok herjuðu um Austrveg, ok varð gott til fjár, ok hèldu heim at hausti. Þrjú sumur voru þeir í hernaði, ok hèldu heim at vetrum; voru aungvir menn frægri enn þeir. Þat var eitt sumar, at þeir hèldu til Danmerkr, herjuðu þeir þar, ok lögðu inn á Limafjörð. Þar sáu þeir liggja níu skip, dreka hit tíunda. Þeir lögðu þegar at skipunum, ok spyrja, hverr fyrir rèði. Hann nefndist Njörfi: ok á ek at ráða fyrir Upplöndum í Noregi, hefik nú tekit við föðurleyfð minni, en hvert er heiti þeirra, er til eru komnir? Þeir segja til sín. Hálfdán segir: ek mún bjóða

[1]) slitin, *C.* [2]) járna farvegr, *C*; neitt sár eða ben, *R.* [3]) 12, *C.*

yðr kosti tvo, sem öðrum víkíngum, at þèr leggið af fè yðvart, skip ok vopn, en gángið lausir á land. Njörfi svarar: þat þikki mèr harðr kostr, mun ek heldr kjósa at verja fè mitt ok falla með drengskap, ef þess verðr auðit, heldr enn flýja fèlausum með svívirðíng, þótt þèr hafið lið meira ok skip fleiri ok stærri. Víkíngr segir: ekki skal hafa ódrengskap við, ok leggja at yðr fleirum skipum enn þèr hafið, ok skulu hjá liggja fimm vor skip. Njörfi segir: þat er drengiliga mælt. Bjuggust þeir þá til orrostu, ok tóku til bardaga, ok börðust um stafna á skipum sínum; var þar hin ákafasta sókn, þvíat Njörfi barðist alldjarfliga, en þeir fóstbræðr gengu hart fram. Þrjá daga börðust þeir, þóttust menn eigi vita, hvorir sigrast mundu. Víkíngr mælti: er mikit fè á skipum yðrum? Njörfi kvað þat eigi vera, því þar sem vèr höfum herjat í sumar, hafa bændr flúit undan með fè sitt, hefir því orðit lítit til fjár. Úvitrligt þikki mèr þat, segir Víkíngr, at berjast ekki nema fyrir kapp eitt, ok spilla þartil margs manns blóði, eða viltu at við gerum fèlag með okkr? Gott mun mèr við þik fèlag at leggja, segir Njörfi, þóttú sèrt eigi konúngborinn, veit ek at faðir þinn var jarl ok ágætr maðr; vil ek með því fóstbræðralag binda, at þú heitir jarl, en ek konúngr, sem við erum tilbornir, hvárt við erum í mínu ríki eðr öðrum. Hálfdán þagði hjá, er þeir töluðust við. Vík-

íngr[1] spyrr, því hann væri svâ tillagafár. Halfdán mælti: mèr þikkir sem vel sè, þótt þið játið slíku, en eigi kemr mèr þat á óvart, þóttú kennir nokkurn þúnga af einhverjum þeim, er Njörfi er nástæðr, vil ek hèr aungvan hlut í eiga, hvârki letja nè fýsa. Var þetta gert, at Njörfi ok Víkíngr sættust ok sórust í fóstbræðralag eptir þvílíkum skildaga, sem áðr var sagt, ok lögðu í hernað um sumarit, ok öfluðu mikils fjár, ok skildu at hausti. Hèlt Njörfi til Noregs, en Víkíngr til Svíþjóðar; var Hálfdán í ferð með honum. En er Víkíngr hafði eigi lengi heima verit, tók Húnvör sótt ok andaðist. Þau áttu eptir einn son, er Hríngr hèt, hann óx upp í Svíaveldi, þar til sem hann var fulltíða at aldri, ok varð þar konúngr, ok var skammlífr, ok er mart manna frá honum komit. En þeir lágu í hernaði hvert sumar, fóstbræðr, ok urðu frægir, ok safna fjölda skipa, svâ þeir höfðu 40[2] skipa.

8. Þat er at segja frá Íngjaldi trönu, at hann safnar *ógrynni* hers, ok leitar at þeim fóstbræðrum Víkíngi ok Hálfdáni. Þat var eitt sumar, at þeir fundust í Austrvegi, hafði Íngjaldr 40[3] skipa. Slær þar í bardaga, berjast þeir svâ, at ekki mátti í milli sjá, hvârir vinna mundu. Umsíðir rèð Víkíngr til uppgaungu á dreka Íngjalds, ok Njörfi þegar eptir honum ok Hálfdán, ok ruddust um fast, svâ þeir drepa hvern mann eptir annann; þá veðr Íngjaldr aptr eptir drek-

1) *hèr byrjar aptr D.* 2) 60, *C, D.* 3) 50, *C*; 60, *D.*

anum, ok hafði atgeir stóran at vega með. Sóttu þeir fóstbræðr nú at Íngjaldi, ok var þat lengi dags, at þeir komu aungvu sári á hann, ok þá er Íngjaldi þótti fast atherða, stökk hann fyrir borð, [Njörfi ok Hálfdán eptir honum[1], ok leggjast hvârir, er meira geta. Víkíngr[2] lèti eigi fyrr, enn hann hafði drepit hvern mann á drekanum, síðan hljóp hann í bát, ok rèri til lands. Íngjaldr lagðist þar til er hann kemst at landi, þá komu þeir framan í lágarða, Hálfdán ok Njörfi. Íngjaldr greip upp stein, ok fleigði til Hálfdánar, en hann skýtr sèr undan í kaf. Njörfi komst á land í því ok Hálfdán í öðrum stað. Sóttu þeir at Íngjaldi í ákafa, ok er þat hafði gengit lengi, þá heyrðu þeir gný mikinn, litu þeir þángat, sem þeim heyrðist gnýrinn, en er þeir litu aptr, var Íngjaldr horfinn, en í staðinn (kominn) grimmligr göltr, ok lèt ekki úgert, sótti hann þá at þeim, svâ þeir máttu ekki annat gera enn verja sik; ok er þat hafði gengit nokkura stund, snèri göltrinn at Hálfdáni, ok greip allan kálfann af vinstra fæti honum; í því kom Víkíngr at, ok höggr um þvera bustina á geltinum, svâ í sundr tók hrygginn. Sáu þeir, at Íngjaldr lá þar dauðr, tóku þeir síðan eld ok brendu hann upp at koldum kolum; fóru nú til skipa sinna ok binda sár Hálfdánar. Eptir þat halda þeir í burt ok norðr til eyjar þeirrar, er Þruma heit-

[1]) ok Víkíngr, C. [2]) Njörfi, C.

ir; þar rèð fyrir sá maðr er Refill hèt, son [Mæfils sækonúngs[1]; hann átti þá dóttur, er Finna[2] hèt, hún var kvenna fríðust ok bezt at sèr ger um alla hluti. Hálfdán[3] bað hennar, ok með atgángi[4] Njörfa konúngs, en vaskleika Víkíngs[5] fèkk hann þetta ráð. Lèttu þeir fóstbræðr þá hernaði sínum. Settist ok Njörfi konúngr at ríki sínu; staðfestist Víkíngr þar, ok varð jarl hans, en Hálfdán gerðist hersir ríkr, ok bjó á þeim bæ, er í Vogum hèt. Þar var stór fjallvegr ímillum, er Víkíngr jarl átti fyrir at ráða; hèldu þeir sinni vináttu, meðan þeir lifðu, en færra var með þeim Hálfdáni ok Njörfa.

9. Sá konúngr rèð fyrir Firðafylki, er Ólafr hèt ok var Eysteinsson, bróðir[6] Önundar, föður Íngjalds illráða[7]; allir voru þeir ótryggvir ok illir viðrskiptis. Hann átti sèr dóttur þá, er Bryngerðr hèt; Njörfi fèkk hennar ok hafði hana með sèr, ok átti við henni 9 sonu: Jökull var elztr þeirra bræðra, Ólafr hèt annarr, Grímr, Geitir, Teitr, Tyrfíngr, Björn, Geir, Grani ok Tóki. Þeir voru allir efniligir menn, þó var Jökull lángt fyrir þeim um alla atgerfi; metnaðarmaðr var hann svâ mikill, at honum þótti ekki koma til jafns við sik. Ólafr gekk næst honum um allar íþróttir, en óeyrinn ok ódæll um allt ok ójafnaðarfullr, svâ mátti kalla

1) Væfils koníngs, *R.* 2) Fín, *C*; Feima, *R.* 3) Víkíngr, *C*, *R.* 4) þeirra Hálfdáns ok, *b. v. C.* 5) Hálfdánar, *R.* 6) bróður, *R.* 7) *v. í C.*

þá alla bræðr, ok voru miklir menn fyrir sèr. Víkíngr átti ok 9 sonu: Þorsteinn hèt hinn elzti son hans, annarr Þórir, Finnr, Úlfr[1], Steinn, Hrómundr, Finnbogi[2], Eysteinn ok Þorgeir. Voru þeir efniligir menn ok íþróttamenn miklir, þó var Þorsteinn fyrir þeim um alla hluti, hann var manna mestr ok sterkastr, vingóðr ok vinfastr[3], tryggr ok trúr í öllum hlutum, seinþreyttr til allra vandræða[4], en galt grimmliga, ef hans var leitat. Varla þóttust menn vita hversdagliga, hvârt honum þótti vel eðr illa, þó mót honum væri gert, en laungu síðar lèt hann sem nýgert væri. Þórir var skjótlyndr ok ákafamaðr hinn mesti, svall honum allt á[5] æði, ef honum var mein gert eðr ímóti skapi; sást hann ok ekki fyrir, við hverja sem um var at eiga, eðr hvat eptir kom, ok lèt þat allt verða fram at gánga, er honum kom í hug at gera. Allra manna var hann fimastr á alla leika ok manna sterkastr, hann gekk næst Þorsteini, bróður sínum. Þessir úngu[6] menn uxu upp allir senn í ríkinu. Á fjallveg þeim, er millum var bygða Víkíngs ok Hálfdánar, var ein gjá furðu djúp; 30[7] álna var þar yfir gjána, er styzt[8] var, komust þar aungvir menn yfir ok því voru aungvir vegir yfir þat fjall. Þat höfðu þeir Njörfi konúngr ok Víkíngr jarl ok Hálfdán prófat, hversu

[1]) Bergr, *C, D.* [2]) Fimbogi, *R.* [3]) vinavandr, *C*; vinatrauðr, *D.* [4]) bardaga, *C.* [5]) af, *C.* [6]) *v. í C.* [7]) 18, *C, D.* [8]) mjóst, *C, D, R.*

þeim gekk at hlaupa yfir gjána, ok gekk Víkíngr í öllum herklæðum sínum, en Njörfi bjó sik sem lèttligast til, en Hálfdán með því einu at Víkíngr tæki í móti honum, sátu þeir nú allir um kyrt lángan tíma. Rènaði aldrí vináttа þeirra Víkíngs jarls ok Njörfa konúngs.

10. Þeir Njörfi ok Víkíngr gerðust gamlir at aldri, tóku synir þeirra mjök at vaxa. Jökull gerðist ofstopamaðr mikill ok óeyrinn um alla hluti. Nær var um aldr þeirra Njörfasona ok Víkíngssona; voru þá, er þessi saga gerðist, hinir ýngstu tólf vetra, en þeir Þorsteinn ok Jökull á tvítugs aldri. Þeir lögðu leika með sèr, Njörfasynir ok Víkíngssynir, ok gekk öngu verr Víkíngssonum. Á því lèk konúngssonum mikill metnaðr, (var Jökull) í því, sem öllu öðru, hinn kappsamasti. Var þat auðsèð, at Þorsteinn, eyrði[1] undan í öllum hlutum; ekki varð Þorsteini[2] þat til ámælis. Þorsteinn bar lángt af bræðrum sínum ok öllum öðrum, þeim er (menn) tilvissu. Hafði Víkíngr jarl varat við sonu sína, at þeir skyldi eigi halda til kapps við konúngssonu um neina leika, spara heldr afl sitt ok framgirni. Þat var einn dag, at þeir höfðu hnattleika, konúngssynir ok Víkíngssynir, gekk þá enn með miklu kappi fyrir þeim Njörfasonum; hlífðist Þorsteinn þá enn við eptir vanda. Þeim Jökli var skipat saman, en þeim Ólafi ok Þóri, ok svå hverjum sem aldr hafði til; gekk

1) vægði, *C;* lèt, *R.* 2) óri, *R.*

nú svâ um daginn. Þat bar til, at Þórir setti niðr hnöttinn svâ hart, at hann stökk yfir Ólaf, ok kom fjarri niðr; Ólafr reiddist þá ok þótti Þórir gera leik til sín, sótti hann þá hnöttinn; en er hann kom aptr, voru menn í leysíngu, ok ætluðu heim at fara. Ólafr sló þá með hnatttrènu til Þóris, en er hann sá þat, hljóp hann undir höggit, ok kom trèit í höfuðit ok sprakk fyrir. Þorsteinn hljóp þá í milli ok fleiri menn aðrir, urðu þeir þá skildir. Jökull mælti: eigi mun yðr þetta mikils þikkja vert, þótt Þórir fengi einn hnekkisstikil í höfuðit. Þórir roðnaði við orð Jökuls, ok skildi við svâ búit. Þórir mælti þá: mèr hafa legit eptir glófar mínir; mun Jökull virða mèr til hræzlu, ef ek þori ekki at sækja þá. Þorsteinn mælti: eigi þikki mèr þat ráð, at þið Ólafr finnizt; fara mun ek sem áðr, segir Þórir, því þeir eru heimfarnir. Þórir gekk þá snúðigt aptr, ok er hann kom aptr â leikvöllinn, voru þeir allir áburt. Þórir gekk þá heim á veg til hallarinnar; þat var allt jafnsnemma at konúngssynir komu heim til hallarinnar ok stóðu undir hallarveggnum. Þórir snaraðist þá at Ólafi, ok lagði at honum miðjum með spjóti, svâ í gegnum stóð; snèrist hann þá á burt ok festu þeir eigi fáng á honum. Styrmdu þeir þá yfir Ólafi dauðum, en Þórir fór til þess, er hann fann bræðr sína. Þorsteinn spyrr þá: því er blóð á spjóti þínu, frændi? Því, segir Þórir, at ek veit eigi, nema hann Ólafr hafi skeinzt

á oddinum. Þá muntu segja hann dauðan, segir Þorsteinn. Mèr þikkir verða mega, segir Þórir, þótt Jökull sè atgervismaðr um flest, at þó fái hann eigi grætt Ólaf, bróður sinn. Illa er nú vorðit, segir Þorsteinn, því ek veit, at föður mínum mislíkar. En er þeir komu heim, var Víkíngr jarl úti ok var allfálátr, hann mælti: svâ fór sem mik varði um þik, Þórir! at þú mundir mestr ógæfumaðr af öllum mínum sonum; þikkir mèr þú nú þat hafa sýnt, er þú hefir vorðit at bana sjálfum konúngssyninum. Þat er nú ráð, faðir! at hjálpa syni þínum, þó hann hafi hrapat í ógiptu[1]; hefir þú nóg brögð til þess, þikki mèr þú þat enn sýnt hafa, er þú vissir fyrir víg Ólafs, ok sagði þèr þat engi. Víkíngr sagði: eigi[2] vinn ek þat til lífs Þóris, at rjúfa eiða mína, þvíat við Njörfi konúngr höfum þat svarit báðir, at hvorr skyldi öðrum trúr ok hollr bæði leyniliga ok opinberliga; þat hefir hann haldit í öllum greinum. Nú vil ek því eigi hafa verr enn hann, at ek haldi stríði í móti honum, því þat var eitt skeið, at mèr var Njörfi konúngr ekki óástfólgnari enn synir mínir, þarf ok ekki um þat at tala, at ek veiti Þóri aungva hjálp, skal hann ok burt verða, ok koma aldrí fyrir mín augu. Þorsteinn mælti: því munu vèr þá ekki allir í burt fara, bræðr, þvíat ekki munu vèr við Þóri skilja, skal ok eitt yfir okkr gánga. Því ræðr þú, frændi! segir jarl,

[1]) sagði Þorsteinn, *b. v. R.* [2]) Þorsteinn! *b. v. C, D.*

en mikil þikki mèr ógipta Þóris, ef þat hlýzt af honum, at ek missi sonu mína alla ok þarmeð vináttu konúngs, er bezt er at sèr gerr um alla hluti, ok hèrmeð þat lítils er vert, at ek missi lífit; en þat eina gleðr mik, at aungvum mun lagit verða at standa yfir þínum höfuðsvörðum, en þó mun þèr nær ekit verða, ok muntu þat allt af Þóri hljóta, en þó er skaði at honum nokkur fyrir karlmennsku sakir. Nú er hèr sverð, Þorsteinn frændi! er ek vil gefa þèr, er Ángrvaðill heitir, ok hefir jafnan fylgt því sigr; þat tók faðir minn af Birni blátönn dauðum; ekki hefik fleira vopna, svâ at afbragð sè á, utan kesju forna[1], er ek tók af Háreki járnhaus, ok veit ek, at hún er aungum manni vopnfær[2]. Nú ef þú vilt burtfara, Þorsteinn frændi! þá legg ek þat til með þèr, at þú farir upp til vaz þess, er heitir Vænir; þar mun standa bátr einn í hrófi, er ek á, far á honum í hólm þann, er liggr í vatninu, þar mun vera í skáli, ok svâ mikill kostr ok klæði, at yðr megi nægja um tólf mánuði; geymið vel bátinn, þvíat ekki eru fleiri skip í nánd. Síðan skildu þeir feðgar; allir höfðu þeir góð klæði ok herklæði, er faðir þeirra hafði fengit þeim, áðr þetta varð. Þorsteinn fór ok bræðr hans, þar til er þeir fundu bátinn, rèru í hólminn ok fundu skálann; var þar all nóg, þat er hafa þurfti, ok settust þar um kyrt.

---

1) Keininn, C, D. 2) vopnhæfr, C, D.

11. Nú er þar til at taka, at Jökull ok þeir bræðr sögðu víg Ólafs föður sínum: ok er (eigi) til annat, segir Jökull, enn safna liði, fara heim at Víkíng, ok brenna hann inni ok sonu hans alla, ok væri þó varla fullhefnt Olafs. Njörfi segir: þat banna ek með öllu, at nokkut mein sè Víkíng gert, veit ek at þetta eru ekki hans ráð um líf sonar míns, eru hèr allir saklausir af nema Þórir; en við Víkíngr höfum svarizt í fóstbræðralag, hefir hann þat allt bezt haldit, skal ek ok aungvan ófrið efla honum á hendr. Þikki mèr Ólafr ekki at bættari, þótt Þórir sè drepinn ok aukinn svâ harmr Víkíngi; fèkk Jökull nú öngvan styrk af föður sínum til þessa[1]. Var Ólafr heygðr eptir vanda fornum; tók Jökull þá at halda sveit manna. Njörfi konúngr tók fast at eldast, svâ at Jökull hafði landvörn[2] at mestu. Þat var einn dag, at tveir menn gengu fyrir Njörfa, ok voru báðir í bláum heklum; þeir kvöddu konúng. Konúngr spurði þá at heiti; annarr nefndist Gautan[3], en annarr Ógautan, þeir beiddu konúng vetrvistar. Konúngr sagði: illa lízt mèr á ykkr, mun ek ekki við ykkr taka. Jökull mælti: eruð þið íþróttamenn nokkrir. Ógautan mælti: lítit er allt um þat, en þó vitum við fleira enn okkr er sagt; þá þikki mèr ráð, segir Jökull, at þið farið í flokk minn ok verið með mèr; svâ gerðu þeir; Jök-

1) þess at leita eptir þeim bræðrum, *C*, *D*. 2) landráð, *C*; landstjórn, *D*. 3) *þannig*, *C*, *D*; Gautr, *A*, *B*.

ull gerði við þá vel. Þat hafði frèzt til konúngs hallar, at Víkíngr hafði rekit burtu sonu sína. Jökull vildi því ekki trúa, ok fór til Víkíngs með mikit fjölmenni. Víkíngr frètti, hvat hann vildi; Jökull spyrr, hvat hann vissi til óhappamannsins Þóris. Víkíngr kvaðst hafa rekit þá burt, ok þeir væri ekki þar. Jökull beiddist at ransaka herbergi. Víkíngr lèt þat til reiðu, [en segir konúng þat eigi ætlat hafa, at hann mundi bregðast sèr[1]. Ransökuðu þeir húsin, ok fundu eigi, sem von var, ok fóru heim við svâ búit. Þótti Jökli illa, er hann spyrr ekki til þeirra bræðra. Jökull mælti þá til þeirra Ógautans: muntu ekki viss verða með listum þínum, hvar þeir bræðr eru niðrkomnir. Eigi mun þat, segir Ógautan; þú skalt fá okkr bræðrum eitt hús at sofa í, [ok þar skal enginn[2] koma fyrr enn þú, ok þó eigi fyrr enn á þriggja daga fresti. Lèt Jökull svâ gera; var þeim fengin ein skemma at sofa í. Jökull lagði ríkt við, ef nokkur nefndi þá, ok skyldi aungu fyrirtýna nema lífinu. Snemma þenna dag kom Jökull í skemmuna til þeirra bræðra. Ógautan mælti þá: þú ert braðlátr, Jökull, því ek er nývaknaðr, en þó má ek segja þèr til Víkíngssona; þú munt vita, hvar vatn þat er, sem Vænir heitir, þar stendr í hólmr ok skáli; þar eru þeir Víkíngssynir. Jökull mælti: ef þetta er, sem þú segir, þá sè ek aungva

1) ok sagðist hann eigi ljúga, *C, D.* 2) okkr skal engi maðr nefna ok eigi til okkar, *C, D.*

von til, at þeim verði náð. Ógautan mælti: allt þikki mèr þèr verða, sem móðurlausu barni, ok litlu ætla ek þú orkir, ef þú ert einn at. Nú vil ek, segir Ógautan, segja þèr, at ek á einn belg, þann er veðrbelgr heitir, en ef ek hristi hann, þá stendr úr honum stormr ok vindr með svâ stórri grimd ok kulda, at innan þriggja nátta skal lagðr svâ sterkr ís á vatnit, at ríða skal mega[1] hestum, þótt vill. Þat er þó satt at segja, sagði Jökull, at þú ert mikill listarmaðr, ok má með þessu einu komast í hólmann, því skip eru ekki nema við sjó, ok færir þau engi svâ lángan veg. Eptir þat tók Ógautan belg sinn ok hristi; kom þar úr mikil óveðran sakir fjúks grimdar, at engi maðr mátti úti vera; þótti mönnum þetta undrum gegna; en at liðnum þremr nóttum var hvert vatn ok fjörðr lagðr. Jökull safnar mönnum saman ok verða 30 manna. Ekki var Njörfa konúngi um þessa ferð, sagði sèr svâ hugr um segja, at honum mundi aukast harmr, en mínka eigi: mun ek missa í þessari ferð flesta alla sonu mína ok marga menn aðra; mundi svâ betr hafa verit, er ek vildi í fyrstu, at vèr hefðum sæzt við Þóri ok haft vináttu Víkíngs jarls ok sona hans.

12. Nú býst Jökull við 30 manna, ok at auk Gautan ok Ógautan. Þenna morgun vaknar Þorsteinn í skála sínum, ok mælti: vakir þú,

[1] hundrað, *b. v. C, D.*

Þórir! Vaki ek, segir hann, [en sofit hefi ek hèrtil[1]. Þat vil ek, segir Þorsteinn, at vèr búumst burt úr skálanum, þvíat ek veit, at Jökull kemr hèr í dag við marga menn. Ekki hygg ek þat, segir Þórir, ok vil hvergi fara, eðr hvat hefir þú at marki? Mik dreymdi, segir Þorsteinn, at híngat runnu 30[2] vargar, ok voru[3] sjö bjarndýr ok hinn áttundi rauðkinni, hann var mikill ok grimmligr, ok at auk tvær refkeilur, þær fóru fyrir flokkinum, ok voru heldr illiligar, ok á þeim var mèr mestr óþokki. Vargarnir sóttu at oss allir, ok þótti mèr þar koma um síðir, at þeir rifu í sundr alla[4] bræðr mína nema þik einn, ok þó fèlltu. Marga þótti mèr vèr drepa björnuna, en alla drap ek vargana ok hina minni refkeiluna, enda fèll ek þá. Hvat ætlar þú merkja draum þenna? segir Þórir. Þat ætla ek, segir Þorsteinn, at rauðkinni sá hinn stóri sè fylgja Jökuls, en birnirnir sè fylgjur bræðra hans, en vargarnir munu mèr sýnzt hafa svâ margir, sem menn munu vera með þeim, þvíat þeir munu hafa varga hug á oss, en þaratauk voru refkeilur tvær; þekki ek ekki þá menn, er þær fylgjur munu eiga, þat ætlak, at þeir sè nýkomnir til Jökuls, ok munu vera [óþokkasælir af[5] flestum mönnum. Nú hefik sagt þèr þessa ætlan, ok munu vor skipti svâ fara, sem mèr hefir þótt í svefninum;

1) eðr hvat viltu? *C.* 2) 22, *C.* 3) *v. í, C. D.* 4) *hèr byrjar aptr B.* 5) illiligri, *C.*

vilda ek at vèr forðuðumst vandræði. Ekki ætla ek þetta nema drauma skrímsl, segir Þórir, ok hugarboð þitt, enda væri eigi ógaman, þó vèr reyndum með oss. Ekki þikki mèr svâ, kvað Þorsteinn, ok hygg ek at ójafnliga sè til ætlat, vilda ek at vèr bjuggumst í burt. Þórir kveðst þat eigi vilja, ok varð svâ at vera. Þorsteinn stóð upp ok tók vopn sín ok svâ bræðr hans allir. Þórir var hinn tómlátasti. Var þat allt jafnsnemma, er þeir voru búnir, at Jökull kom at með menn sína. 2 dyr voru á skálanum; varði Þorsteinn dyr aðrar ok þrír bræðr hans, en Þórir aðrar við fimta mann; tókst þá sókn hin harðasta; vörðust þeir bræðr harðla vel, en Jökull sótti svâ fast at þeim dyrum, sem Þórir var við, at þá fèllu þrír bræðr hans, en einn hrökk úr dyrunum ok þángat sem Þorsteinn var; varði Þórir þá enn nokkura stund dyrnar, [en vildi með engu móti hopa[1]; snarast hann þá út úr dyrunum, ok komst fram á ísinn hjá þeim, slá þeir þa hríng í kríng um hann, en hann verst ágæta vel. En er Þorsteinn sá þat, hleypr hann út úr skálanum ok bræðr hans, þeir er eptir lifðu, ofan á ísinn, þar sem Þórir var. Varð þá enn hörð hríð. Þorsteinn ok Þórir voru mjök stórhöggvir. Þar kom umsíðir at, at allir bræðr Þor-

[1] Jökull sótti þá svá fast at, at Þórir sèr, at honum mun eigi endast at verja dyrnar, en vill með engu móti flýja, *C*, — hopa, *D*.

steins voru fallnir, nema Þorsteinn ok Þórir; fallnir voru ok Njörfa synir allir nema Jökull ok Grímr. Þorsteinn gerðist þá furðu móðr, svâ at hann gat varla staðit, sèr hann þá, at hann mun falla; voru ok allir fallnir nema Gautan ok Ógautan af hinum. Þórir var þá bæði móðr ok sár, þá tók at dimma fast af nótt. Þorsteinn snarast þá at Gautan[1], ok leggr Ángrvaðli í gegnum hann[2], enda fellr hann þá í valnum. Stóðu þeir þá þrír upp, Jökull, Grímr ok Ógautan, leituðu þeir þá Þorsteins í valnum, þóttust þeir þá finna hann, en þat var Finnr, bróðir Jökuls, því þeir voru svâ líkir, at hvârugan mátti frá öðrum kenna. Grímr segir Þorstein dauðan; Ógautan segir, at þat skyldi ekki um grun gera, ok hjó af honum höfuðit, ok blæddi eigi, því Finnr var dauðr. Síðan fóru þeir burt ok heim. Spyrr Njörfi konúngr, hversu farit hefði með þeim; lèt konúngr lítt yfir ferð þeirra, ok kveðst nú hafa fengit meiri skaða, enn þó hann misti Ólafs, sonar síns, látit nú sjö sonu sína ok fjölda annarra manna. Settist Jökull nú um kyrt.

13. Þat er nú þessu næst, at Þorsteinn liggr í valnum ok má sèr ekki fyrir mæði, en lítt var hann sár, en er áleið nóttina, heyrði hann, at vagn gekk eptir ísnum; þarnæst sá hann, at maðr fylgði vagninum, hann kendi þar föður sinn; ok er hann kom at valnum,

1) Ogautin, R. 2) *héðan frá vantar í C.*

ruddist hann um fast, ok kastaði þeim dauðu frá sèr ok öllum harðara konúngs sonum[1]. Sá hann at allir voru dauðir nema Þorsteinn ok Þórir; spurði hann þá, hvârt þeir mætti nokkut mæla, Þórir kvað þat satt vera; þó sá Víkíngr, at hann flakti[2] sundr af sárum. Þorsteinn kvaðst ekki sár vera, en móðr mjök; Víkíngr tók Þóri í fáng sèr, þótti Þorsteini hann þá enn sterkliga tiltaka, þó hann væri gamall. Þorsteinn gekk sjálfr at vagninum, ok lagði sik uppí með vopnum sínum; síðan leiddi Víkíngr vagninn. Veðrit tók at þykkna ok blána, ok svà skjótt skipaðist um, [at í senn[3] á lítilli stundu þótti Víkíng sem allr ísinn færi í burt. Var þat mjök jafnsnemma, at þeir komu at landi, ok ísinn var allr af vatninu. Síðan fór Víkíngr heim í svefnskála sinn, þar var jarðhúss munni hjá rekkju hans, ok lèt hann þá þarí niðr, var þar nóg drykkr ok vist ok klæðnaðr ok allt þat hafa þurfti. Græddi Víkíngr Þóri, son sinn, því hann var góðr læknir. Annarr endir á húsinu var í skógi, þar varaði Víkíngr syni sína við sem mest, at þeir skyldu aldrí úr jarðhúsinu koma, því hann kvað Ógautan þegar vísan verða, at þeir væri á lífi; eigum vèr þá skjótt von ófriðar. Þeir hètu góðu um þat; leið nú þartil at Þórir var alheill; gekk þat nú um öll hèruð, at þeir væri nú allir dauðir Víkíngssynir,

1) koníngsmönnum, *B*, *D*; er eigi voru örendir, *b. v. D.*
2) *hèr endar D.* 3) ísinn at, *B*.

þó kom á nokkur pati af Ógautan, at eigi væri víst, hvårt Þórir væri dauðr. Bað Jökull hann þá eptirleita, ef hann mætti vís verða, hvar Þórir væri niðrkominn. Lagðist Ógautan þá djúpt, ok var þó aldrí vissari heldr um Þóri. Þat var einn dag, at Þórir mælti við Þorstein: daufligt þikki mèr hèr í jarðhúsinu, nú er veðr gott, ok vil ek at við förum á skóg at skemta okkr. Eigi vil ek þat, segir Þorsteinn, því við brjótum þá boðorð föður okkars. [Fara skal ek sem áðr[1], segir Þórir; Þorsteinn nennti eigi eptir at vera; fóru þeir þá á skóginn um daginn ok skemtu sèr. En um kveldit, er þeir ætluðu heim at gánga, sáu þeir hvar ein refkeila lítil fór, hún viðraði í allar ættir ok snuðraði undir hverja eik. Þórir mælti: hverr ófagnaðr er þetta, frændi! er hèr ferr. Eigi veit ek þat gerla, segir Þorsteinn, ek þikkist einn tíma hafa sèð þat kvikindi, er þessu er líkt, en þat var um nóttina í skálanum, áðr Jökull kom þar, ok er þat ætlan mín, at þetta sè bykkjustakkrinn Ógautan; tók hann þá spjót ok skaut at refkeilunni, en hún smó niðr í jörðina; gánga þeir nú heim í jarðhúsit ok lètu sem ekki sè í orðit. Litlu síðar kom Víkíngr jarl þar, ok mælti: nú hafið þið illa gert, er þið hafið brotit boð mitt ok verit úti af jarðhúsinu, ok er

---

[1]) þat veit ek, at ek skal fara út á skóginn, þótt þú farir eigi. *B.*

Ógautan vís orðinn, at þið eruð hèr. Þikki mèr von at þeir bræðr komi hèr skjótt með ófriði.

14. Litlu síðar kom Ógautan at máli við Jökul, ok mælti: þat er þó sannast, at ek er þèr önnur höndin ok eigi hin vinstri. Hvat er nú um þat, segir Jökull; þat, segir Ógautan, at ek er nú vís orðinn, at þeir bræðr Þórir ok Þorsteinn eru á lífi, ok eru hjá Víkíngi á laun. Þá skal ek, segir Jökull, safna mönnum ok lètta eigi, fyrr enn vèr höfum þeirra líf. Fèkk Jökull 80 manna, voru þar í þrír tigir hirðmanna konúngs, voru þessir allvel búnir at klæðum, voru þeir búnir um kveldit, ok ætluðu at fara um morguninn. Þar voru komnir tveir umferðapiltar; hèt annarr Vöttr, en annarr Þumall, en er þeir voru komnir í sæng um kveldit, mælti Vöttr til Þumals: þikki þèr ekki ráð, bróðir! at við stöndum upp, ok förum til Víkíngs, ok segjum honum fyrirætlan Jökuls, því at ek veit, at þat er bani Víkíngs, ef þeir koma honum á óvart, en við erum skyldir at koma honum at liði. Þumall segir: allheimskr ertu, þikki þèr eigi sem varðmenn munu verða varir við okkr, ef við förum um nætr, ok erum við þá drepnir ok komum við þá Víkíng at öngu liði. Jafnan sýnir þú þat, segir Vöttr, at þú ert dáðlaus, ok þóttu þorir hvergi at hræra þik, þá skal ek þó fara ok gera Víkíng varan við, því at mér þætti þá vel keypt, þó ek fengi bana, ef Víkíngr hèldi lífi sínu ok synir hans, því hann

hefir mèr opt gott gert. Stóð Vöttr þá upp ok klæddist, ok svâ gerði Þumall, því hann nennti þá eigi eptir at liggja. Fóru þeir síðan leið sína, ok komu þeir til Víkíngs um miðnætti, ok vöktu hann af svefni; sagði Vöttr honum, at Jökuls var þángat von með mikit fjölmenni. Víkíngr mælti: vel hefir þú gert, Vöttr minn! svâ launa væri vert. Kallar Víkíngr saman menn af næstum bygðum, fèkk hann 30 manna. Hann gekk þá ofan í jarðhúsit til sona sinna, ok sagði þeim, hvat þá var um at vera. Þórir mælti: þeir skulu fá viðnám, ef þeir koma, munum vèr gánga upp úr jarðhúsinu ok berjast með þèr. Eigi skal þat, segir Víkíngr, vèr skulum sjá fyrst, hversu gengr með oss, ok ef mèr þikkir óvænliga horfa, þá mun ek fara uppá, þar er jarðhús ykkart er undir, ok gera mikit um mik, skuluð þið þá veita mèr lið. Þorsteinn segist svâ gera skyldu. Síðan gekk Víkíngr á burt; var þá dagr, vopnaðist hann þá ok allir hans menn; hann tók þá kesjufleininn Háreksnaut í hönd sèr, ætluðu allir at hann mundi ekki vopnhæfr sakir þúnga, svâ gamall sem hann var; þótti þá undarliga viðbregða, af því at þá er Víkíngr var kominn í herklæði sín, þótti hann vera úngr í annat sinn. Hlaðgarðr hár ok víðr var fyrir bæ Víkíngs, ok var þat hit bezta vígi, þar bjóst hann fyrir ok menn hans. Vopn voru fengin Vött ok Þumal[1].

[1]) Þumli. B. C.

15. Nú er þar til at taka at Jökull bjóst snemma um morguninn með allt sitt lið, ok lèttir eigi fyrr enn hann kom til bygða Víkíngs, stóð Víkíngr úti fram á hlaðgarðinum, ok bauð Jökli ok öllum hans mönnum. Jökull segir: annars ertu makligr frá oss, enn vèr þiggjum boð þitt, er þat erindi vort híngat, at þú selir fram úhappamennina Þorstein ok Þóri. Eigi mun ek þat gera, segir Víkíngr, en þó mun ek eigi þræta, at hèr voru synir mínir báðir, en þó mun ek þá eigi yfirgefa heldr enn sjálfan mik; megið þèr nú atsækja, ef þèr vilið, en ek mun verja ok mínir menn. Þeir gerðu þá harða atsókn, en Víkíngr varði röskliga ok hans menn; gekk svâ nokkura hríð; þá rèð Jökull til uppgaungu[1] á garðinn. Þeir Víkíngr drápu marga menn, tóku þá at falla allir menn hans. Fór Víkíngr þá upp á jarðhúsit[2], ok ber hart á skjöldinn, ok gerði mikit hark af sèr. Þórir heyrði þat ok mælti við Þorstein, at þeir skyldi flýta sèr[3]: ok munu við þó vera seinir, þvíat ek hygg, at faðir okkar sè fallinn. Þorsteinn kvaðst albúinn, ok er þeir komu út, stóðu eigi fleiri menn með Víkíngi enn Vöttr ok Þumall ok þrír menn aðrir. Ekki var Víkíngr þó enn sár, en mjök var hann móðr. Þegar þeir bræðr komu

[1]) ok hans menn; Víkíngr lagði þá ótt ok títt með kesjunni, svâ at allt hrökk fyrir þeim; var þó um síðir, at þeir komust upp, *b. v. B.* [2]) er var undir, *b. v. B.* [3]) ok gánga úr jarðhúsinu, *b. v. B.*

út, snaraðist Þorsteinn þar at sem Jökull var fyrir, en Þórir þar at sem Ógautan var fyrir ok hans menn. Tólf[1] menn Njörfa konúngs, þeir[2] sóttu at Víkíngi ok hans mönnum. Víkíngr varði sik, en sætti ekki áverkum við þá. Björn hèt sá, er fyrir þeim var[3]. Á litilli stundu drap Þórir alla[4] fylgðarmenn Ógautans, ok hjó til hans, en Ógautan steyptist niðr í jörðina, svâ í iljar hans var at sjá. Þorsteinn sótti at Jökli. Vöttr mælti: þat er vel, at þið reynið með ykkr, hvârr fræknari er, þvíat Jökull hefir þat aldrí mátt heyra, at Þorsteinn hafi [verit um nokkura hluti til líka við Jökul[5]. Var nú orrosta hin harðasta með þeim Þorsteini ok Jökli; svâ lauk at Jökull hrökk[6] út af hlaðgarðinum með mörgum stórum sárum. En er Jökull var burtfarinn, gaf Víkíngr líf hirðmönnum konúngs, þeim er eptir lifðu, ok sendi þá burt með sæmiligum gjöfum, ok bað þá bera Njörfa konúngi vinsamliga kveðju sína. Ok er Jökull kom heim, var Ógautan heimkominn; Jökull taldi fast á hann, því hann hefði fyrr flúit enn aðrir[7], en Ógautan segir, at eigi hefði lengr verit vært: má þat ok kalla at heldr væri þar at eiga við tröll enn menn, en Jökull kvað mikit mælt[8] í því. Nokkuru síðar komu heim menn Njörfa konúngs, er þeir Vík-

[1]) 13, *B*. [2]) ok voru þeir hirðmenn hans, *B*. [3]) hirðmönnum konúngs, *b. v. B*. [4]) *hèr byrjar C aptr*. [5]) um nokkra hluti dreigist til líka við hann um neinar íþróttir, *B*; um nokkra hluti dreigit í eyra við hann u. n. i., *C*. [6]) stökk, *C*. [7]) hann, *B*, *C*. [8]) hæft, *B*.

íngr höfðu grið gefit, ok sögðu Njörfa konúngi kveðju Víkíngs ok allan hans velgerníng, er hann hafði þeim gert. Konúngr svarar: ólíkr er Víkíngr flestum mönnum sakir síns drengskapar ok alls vaskleika; er þat ok satt at segja, Jökull frændi! at ek set þvert bann fyrir, at nokkur ófriðr sè gerr Víkíngi hèðanaf. Jökull svarar: eigi nenni ek því, at bræðrabanar mínir sè í næsta garði mèr; er þat ok skjótt at segja, at Víkíngr skal aldrí í friði fyrir mèr nè synir hans, skal ek aldrí gefa upp, fyrr enn þeir eru í helju. Þá mun ek prófa, segir konúngr, hvorr okkar vinsælli er, því ek skal fara með alla þá, er mèr vilja fylgja, ok veita Víkíngi lið[1]. Þikki mèr miklu varða um, at þú verðir eigi banamaðr Víkíngs, þvíat þá verð ek annathvárt at gera, láta drepa þik, ok mun þat illa fyrimælast, eðr rjúfa eiða mína, er ek hefi svarit, at hefna Víkíngs, ef ek lifða honum lengr; lauk hann svâ sínu tali. Víkíngr kom at máli við sonu sína, ok mælti: ekki hefi ek traust til at halda ykkr hèr fyrir ríki Jökuls, en hitt er þó meira, at ek vil ekki, at nokkurt misþykki komi millum okkar (Njörfa konúngs). Þorsteinn mælti: hvert ráð viltu þá sjá fyrir okkr? Víkíngr mælti: Hálfdán heitir maðr ok ræðr fyrir Vogum; þat er öðrumegin fjalls þess er hèr stendr; hann er fornvinr minn ok fóstbróðir; þángat sendi ek ykkr til trausts, þó eru margar torfærur á veg-

[1]) ok firra menn vandræðum, *b. v. B. C.*

inum, skálabúar tveir, hvârr öðrum verri viðreignar, heitir annarr Sámr, en annarr Fullafli; Gramr heitir hundr Fullafla, ok er litlu betri viðreignar enn skálabúi. Nú þótt þið komizt undan þeim báðum, þikki mèr eigi víst, hvârt þið komizt til Voga, þvíat gjá ein gengr eptir fjallinu djúp ok breið, at ek veit öngva menn hafa yfirkomizt, nema oss fóstbræðr; þó þikki mèr líkara at Þorsteinn mundi yfir komast, en eigi treysti ek Þóri. Litlu síðar bjúggust þeir bræðr til ferðar, ok höfðu vopn sín öll; þá gaf Víkíngr Þóri kesjuna. Gull eitt fèkk hann Þorsteini, syni sínum, ok bað hann fá Hálfdáni til jarteikna. Vertu, Þórir frændi! þolinmóðr, segir Víkíngr, þótt Hálfdán sè styggr við þik, eða taki lítt á þèr ok þínum erindum. Skildu þeir feðgar þá; þótti Víkíngi svâ mikit, at vatnit fór niðr eptir kjálkunum á honum. Víkíngr leit eptir þeim ok mælti: ekki mun ek sjá ykkr á æfi minni, þó muntu verða gamall maðr[1], Þorsteinn frændi! ok hinn mesti frægðarmaðr; farið nú heilir ok vel! Snèri karl þá heim, en þeir gengu uppá fjallit, ok komu at einum skála um kveldit; þar var hnigin hurð á miðjan klofa; Þórir gekk at hurðinni, ok hratt upp, ok varð þó öllu afli at kosta; ok er þeir komu í skálann, sáu þeir at mikill varníngr var þar ok allskonar byrgðir; sæng stór var þar. Ok er kom at dagsetri, kom skálabúi heim ok

[1]) æfimaðr, C.

heldr ófrýnligr; hann mælti: ok eru hèr komnir óhappamennirnir Víkíngs synir Þorsteinn ok Þórir, er drepit hafa sjö sonu Njörfa, skal hèr ok endir verða á þeirra óhöppum, því at mèr mun lítit fyrir verða at leggja ykkr at velli. Hverr er sá, segir Þórir[1], at svâ lætr gífrliga uppá okkr? Skálabúinn sagði: ek heiti Sámr, son Svarts; Fullafli heitir bróðir minn, er hèr ræðr öðrum skálanum. Þorsteinn mælti: þat sè ek, at feigð kallar at okkr bræðrum, ef þú einn drepr okkr báða, því at ek hirði eigi, þó við reynum okkr, en Þórir sè hjá. Í því rennr Sámr undir Þorstein svâ snart, at Þorsteinn varð örtaka fyrir, en fèll þó eigi. Þórir hleypr þá at, ok leggr kesjunni á síðuna ok út um aðra; datt Sámr þá dauðr niðr. Þar voru þeir um nóttina, ok höfðu góðar náðir, því at matr var nógr; gerðu þeir heitt í skálanum, ok höfðu ekki fjár þaðan. Fóru þeir um morguninn, en at kveldi þess dags fundu þeir annann skála, var sá sýnu stærri. Hurð var hnigin á klofa; Þórir gekk at hurðinni [ok ætlaði upp at hrinda[2], ok gekk eigi; hann gekk at með öllu afli, ok gekk eigi at heldr. Þorsteinn fór at hurðinni, ok hratt upp, ok gengu inn. Hlaði með vöru var þar á aðra hönd, en skíðahlaði á aðra; sæng stór stóð innar um þvert, svâ þeim þótti úr hófi gánga vöxtr hennar; öðrumegin var flet mikit, sem rúm væri kringlótt at vexti; þat þóttust þeir skilja,

[1] Þorsteinn, C. [2]) b. v. hin.

at hundrinn Gramr mundi þar í liggja. Þeir settust þá niðr ok kveiktu eld upp fyrir sèr, en er lángt var af dagsetri[1] heyrðu þeir, at fast var niðr stigit, þvínæst var hurðinni upplokit, þar gekk inn risi furðuliga mikill, hann hafði bjarndýr mikit bundit á bak sèr, en fuglakippu fyrir. Hann lagði niðr byrðina á gólfit ok mælti: fussum! ok eru hèr komnir vandræðamennirnir[2] Víkíngssynir, er nú hafa verst orð um landit sakir óhappa sinna, hversu komuzt þið úr höndum Sáms, bróður míns? Svâ komumst við, sagði Þorsteinn, at Sámr lá eptir dauðr. Í svefni hafið þið svikit hann, segir Fullafli; eigi var þat, segir Þorsteinn, þvíat við börðumst, ok feldi Þórir bróðir minn hann. Ekki skal níðast á ykkr í nótt, segir Fullafli, skulið þið bíða morguns ok hafa mat, sem ykkr líkar. Síðan sundraði skálabúi veiði sína, ok tók borð ok bar á mat; tóku þeir þá allir til matar, eptir þat fóru þeir allir til svefns; lágu þeir bræðr tveir saman í vararfeldum. Illa lèt hundrinn, þá þeir fóru hjá honum. Hvârigir leituðu þar til svika við aðra. Um morguninn stóðu þeir snemma upp hvârutveggju; þá mælti Fullafli: nú skulum við Þorsteinn reyna með okkr, en Þórir við hund minn í öðrum stað; þessu muntu ráða, segir Þorsteinn. Gengu þeir þá út ok fram á völlinn. Hundrinn hleypr þegar móti Þóri með gapanda gini, ok

[1]) nótt, C. [2]) kynstramennirnir ok fullir af vandræðum, C.

áttu hina hörðustu sókn, þvíat rakkinn sló af sèr hvert högg með halanum, en ef hann stakk með kesjunni, beit hann af sèr hvert lag. Sóttust þeir svâ eykt dags, at Þórir kom öngvu sári á hann. Þat var einn tíma at Gramr skauzt at Þóri, ok greip í kálfann ok þar úr siga; í því lagði Þórir kesjunni á hundinn, ok nísti niðr við vellinum, ok dó Gramr litlu síðar. Þat er frá Fullafla at segja, at hann hefir mæki stóran í hendi, en Þorsteinn sverð sitt; þeir áttu bæði harða sókn ok lánga, þvíat Fullafli var stórhöggr, en sakir þess at Angrvaðill beit svâ hlífar sem hold, þá fèll Fullafli dauðr, en Þorsteinn var ekki sár.

16. Nú búast þeir bræðr í burt, ok fóru veg sinn allt þar til þeir komu at gjá mikilli; sýndist Þorsteini hún vera ill yfirferðar, þó rèð hann til hlaups, ok hljóp yfir gjána, Þórir þegar eptir, var þat allt jafnsnemma at Þorsteinn snèrist á gjábakkanum ok Þórir var kominn framan í gjábakkann ok var búinn at falla bak aptr[1]; í því gat Þorsteinn gripit til hans ok kipti honum uppá gjábakkann. Þorsteinn mælti: jafnan sýnir þú þat, frændi! at þú ert óbilgjarn; var enn svâ, því þat máttir þú vita, at þat var bráðr bani, ef þú fèlt ofan í gjána. Nú var eigi þat, segir Þórir, ok naut ek enn þín sem optar. Gengu þeir nú veg sinn, allt þar til er þeir komu at móðu einni, hún var

[1]) *hèr endar B.*

bæði djúp ok straung. Þorsteinn bað þá fyrileitast, hvar vaðit mundi vera. Þórir ferr þegar útá ána, ok er hann kom skammt frá landi, kendi hann ekki niðr; varð hann þá at kosta sunds. Þorsteinn nennti eigi á landi at standa, lagðist út á ána eptir honum; lögðust þeir þá at landi, ok undu klæði sín; en meðan þeir voru at því, varð grimd svå mikil, at klæði þeirra frèri ok urðu sem steinn, máttu þeir ekki í þau komast; gerði þá hríð mikla; ætla menn at því veðri muni Ögautan ollat hafa. Þorsteinn spyrr Þóri, hvat til ráða væri: þikki mèr rað, segir Þórir, at við stíngum klæðum okkrum niðr í móðuna, þvíat í kulda vatni raknar skjótt. Svå gerðu þeir, ok með þessu bragði komust þeir í klæðin, gengu síðan, þartil þeir komu heim á bæinn í Vogum. Læst var hurð, komust þeir ekki inn, þá var kveldtími. Þeir börðu lengi á dyrum, ok var ekki tilgengit. Ás lá í túninu tvítugr, hann tóku þeir ok báru uppá húsin, ok riðu honum svå at braka tók í hverju trè; allt fólk var hrætt, er í bænum var, svå at í sína hyrníng hljóp hverr. Hálfdán gekk þá til dyra ok gekk fram á hlaðit. Þeir bræðr gengu þá at honum, ok heilsuðu uppá hann. Hálfdán svaraði þeim fáliga, en þó spyrr hann þá at nafni. Þeir nefndu sik ok (sögðu) vera synir Víkíngs jarls, segja hann hafi heilsat honum. Hálfdán segir: ekki kann ek at kalla fóstbræðralagit með okkr, þikki mèr,

sem margr haldi þat til meðallags, en ekki betr; þikki mèr sem þið látið þat ekki lángt í ættir gánga, er þið hafið drepit flestalla sonu Njörfa konúngs; þó megið þið inngánga ok vera hèr í nótt, ef þið villð. Gekk hann þá inn undan snúðugt, en þeir eptir; þeir komu í stofuna, var þar fátt manna; ekki voru klæði af þeim dregin, sátu þeir svâ um kveldit, þar til farit var at hátta. Þá var settr trýgill fyrir þá á borðit, ok grautr í ok sinn spónn í hvârn enda. Þórir tók til ok hóf. Þorsteinn mælti: misjafnt er þèr varit um stórlæti þitt, hann tók upp trýgilinn ok kastar utar á gólfit, svâ hann brotnaði í sundr. Síðan fóru menn til hátta; höfðu þeir bræðr öngva sæng, var þeim ekki svefnsamt um nóttina. Þeir stóðu upp snemma um morgin, ok bjuggust til ferðar; ok er þeir komu út fyrir dyr, kom karl þar, ok mælti: hvat sögðu þið í gær, eða hvers synir sögðuzt þið vera? Þórir segir: hvat muntu nú gjörr vita enn þá við sögðum þèr, at við vorum synir Víkíngs jarls. Þorsteinn mælti: hèr er fingrgull, er hann bað mik fá þèr. Þórir mælti: ek ætla at sá hafi verr, at honum sýnir þar af. Þorsteinn mælti: vertu eigi svâ styggr, bróðir! hèr er gullit til jarteikna at þú mundir taka við okkr, svâ við hefðum hèr traust hjá þèr. Hálfdán tók við gullinu, ok varð glaðr við ok mælti: því munda ek eigi taka við ykkr, ok allt gott gera, þat er ek má; er þat skyldt sakir Vík-

íngs, vinar míns; lízt mèr giptuliga á ykkr. Þórir mælti: satt er þat, sem mælt er, at gott er at hafa tvo hvoptana ok sitt (með) hvorum (mæla), lèztu öðruvís við okkr í gærkveld, er við komum hèr; muntu vera hin mesta skræfa, ok hvervetna [ertu slægr[1]. Þorsteinn mælti: höfum við þol, Hálfdán! við bróður minn, þó hann illyrði þik, því at hann er ófyrileitinn í orðum ok gerðum. Frètt hefi ek þat, segir Hálfdan, at þú ert manna gerviligastr[2], en Þórir bráðr ok ófyrileitinn, en þó virðist mèr, sem þú munir vera í öllu stórlyndari. Fóru þeir inn, ok voru dregin af þeim klæði, ok veittr hinn bezti beini; sátu þeir þar um vetrinn í góðu yfirlæti. En er vordagar komu, þá mælti Þorsteinn við Hálfdán: nú munu við burtu leita hèðan af. Hvat viltu helzt ráða? segir Hálfdan. Ek vilda, at þú fengir mèr skip, segir Þorsteinn, ok menn á, mun ek halda í hernað ok afla mèr fjárhlutar. Hálfdán sagði, svá skyldi vera. Bjuggust þeir síðan suðr með landi, þar komu í móti honum tvö[3] skip, er faðir hans hafði sendt honum, hlaðin af mönnum ok góðum vopnum. Þorsteinn sendi aptr þat[4] skip, er Hálfdán hafði fengit honum, ok mennina með, en sínu skipi stýrði hvárr þeirra bræðra. Þeir herjuðu víða um sumarit, ok varð þeim gott til fjár ok metnaðar. Um haustit komu þeir at einni ey; þar rèð fyrir sá bóndi, er Grímr hèt; hann bauð þeim at sitja

1) illu sleginn, *C.* 2) gæfastr, *C.* 3) 5, *C.* 4) þau, *C. R.*

þar um vetrinn, ok þat þágu þeir. Grímr var kvongaðr, ok átti sèr eina dóttur, er Þóra hèt; hún var mikil vexti ok væn at yfirliti. Þórir lagði hug á hana, ok sagði Þorsteini, bróður sínum, at hann vildi fá hana sèr til eginkonu. Þorsteinn ræddi þetta mál við Grím bónda. Grímr tók því fjarri. Þorsteinn[1] mælti: þá býð ek þèr á hólm, ok ráði sá okkar dóttur þinni, sem annann vinnr á hólmi. Grímr kvaðst þess albúinn. Annann dag eptir tóku þeir feld ok köstuðu undir fætr sèr, ok börðust alldrengiliga, ok skildu at kveldi, svâ hvârgi var sár; börðust þeir dag annann ok þriðja[2], ok fór á sama veg. Þat var einn dag at Þórir spyrr bóndadóttur, hvat valda mundi at Grímr yrði ekki sigraðr; hún segir, at steinn sá stæði framan í hjálminum, at því ylli, at hann má eigi sigrast, á meðan steininum verðr eigi af honum náð. Þetta segir Þórir Þorsteini; ok enn fjórða dag, er þeir börðust, kastar Þorsteinn sverðinu, en greip hjálminn tveim höndum svâ fast, at slitnuðu hjálmböndin. Litlu síðar rèð hann á Grím ok kendi þá aflsmunar; hafði Þorsteinn hann þá undir ok gaf honum líf. Þá spyrr Grímr, hverr hefði sett ráð til at taka hjálminn; Þorsteinn segir, at Þóra hefði sagt Þóri. Giptast vill hún þá, segir Grímr, skal ok svâ, var þat þá ráðit at Þórir fèkk Þóru. Ok at vordögum lagðist Þorsteinn

1) Þórir, C. 2) v. í. C.

í hernað, en Þórir sat eptir; tókust þar upp ástir góðar með þeim Þóru; þau áttu einn son barna, er Haraldr hèt, hann tók kesjufleininn síðan eptir föður sinn, ok af honum tók hann nafn ok var kallaðr Haraldr kesja.

17. Skati hefir konúngr heitit, hann var Eiríksson Myndilssonar Meitálfssonar[1]. Skati konúngr rèð fyrir í Sogni, hann átti sèr drottníngu ok tvö börn; Beli hèt son hans, enn mesti ágætismaðr; Íngibjörg hèt dóttir hans, hún var þá eigi í ríkinu, því hún hafði fyrir álögum orðit. Skati hafði verit berserkr[2] ok hinn mesti víkíngr, ok ruddi sèr til ríkis í Sogni. Þorgrímr hèt landvarnarmaðr hans, hann var hinn mesti kappi ok mikill garpr, en í meðallagi trúr. Mikil vinátta var með þeim Þorgrími ok Bela konúngssyni. Beli var hinn frægasti maðr um öll lönd. Þat hafði borit til tíðinda, at þá Skati konúngr var aldraðr mjök, ok börn hans bæði úng[3], komu víkíngar tveir við land, hèt annarr Gautan en annarr Ógautan, þeir komu mjök á óvart, ok buðu konúngi til bardaga, eðr skyldi hann gerast jarl þeirra ok gefa upp land sitt. Skati konúngr hafði ekki liðsafla við þeim, en þó vildi hann heldr deyja með sæmd en lifa með skömm, ok falla í konúngdómi sínum heldr enn þjóna fjandmönnum sínum. Fór hann til bardaga, ok hafði ekki fleira lið enn hirð sína. Þor-

---

1) Ekkilsson, Mundilss, Meitilss., *C.* 2) sækonúngr, *C.* 3) *v. í. A, R; tekið úr C.*

grímr komst í burt með Bela konúngsson, en Íngibjörg sat eptir í skemmu sinni. Skati konúngr fèll fyrir Ógautan með góðan orðstýr, en menn hans, þeir sem eptirlifðu, flýðu á skóga. Settist Ogautan nú at ríki, ok lèt gefa sèr konúngs nafn; hann bað Íngibjörgu at gánga með sèr, en hún neitaði þverliga, ok sagðist fyrr skyldu drepa sik sjálf enn eiga föðurbana sinn, ok slíkt illmenni sem Ógautan er: þar sem þú ert líkari fjanda enn manni. Ógautan varð reiðr við, ok mælti: ek skal launa þèr illyrði þín, ok legg ek þat á þik, at þú sèrt þvílík at vexti ok yfirlitum sem Skellinefja, systir mín, ok allri náttúru þeirri, sem þú mátt bera, byggir helli þann, sem við Djúpamóðu er, ok komist aldrí úr þessum álögum, fyrr enn nokkur velborinn maðr verðr til þess at eiga þik, ok játi því; ok þó aldrí fyrr enn ek er dauðr; en systir mín taki við yfirlitum þínum. Þat læt ek ummælt, segir Íngibjörg, at þú njótir þessa ríkis bæði illa ok skamma stund. Varð þetta at áhrínsorðum, er Ógautan mælti, at Íngibjörg hvarf í burt. Litlu síðar kom þar aptr Beli konúngsson ok Þorgrímr með marga menn um náttartíma, ok báru eld at lopti, því er þeir bræðr sváfu í, ok brendu inni alla þá menn, utan þeir bræðr fóru hina neðri leið, ok komust svâ í burt, lèttu eigi fyrr enn þeir komu fram í hirð Njörfa konúngs, en Beli tók aptr við ríki sínu,

ok gerðist þar konúngr yfir. Þorgrímr var enn landvarnarmaðr hans.

18, Vilhjálmr hefir konúngr heitit, er rèð fyrir Vallandi, vitr konúngr ok vinsæll, hann átti dóttur þá, er Ólöf hèt, kvenna kurteisust. Nú er þar til at taka, sem Jökull Njörfason er, at eptir þat er þeir Víkíngssynir voru burt farnir, gerði hann Þorstein ok Þóri útlæga fyrir endilángan konúngdóm sinn. Ekki samþykti Njörfi konúngr þat, því þeir Víkíngr hèldu vináttu sinni, meðan þeir lifðu. Eitt sinn kom Ógautan at máli við Jökul, ok spyrr, hvárt hann vill ekki kvongast. Jökull frètti eptir, hvar hann sæi þar jafnaðar kvonfáng. Ógautan mælti: Vilhjálmr í Vallandi á dóttur, er Ólöf heitir, þar þætti mèr vaxa þinn heiðr, ef þú fengir þat ráð. Því skulum við eigi þar til ráða, segir Jökull. Bjuggust þeir þá til ferðar með 60 manna, ok fóru síðan til Vallands ok fundu Vilhjálm konúng, tók hann vel við Jökli, þvíat Njörfi, faðir hans, var nafnkunnigr um öll lönd. Jökull hefir upp bónorð sitt til Ólafar sèr til handa. Ógautan fylgði fast bónorðinu, en konúngr skaut til dóttur sinnar; ok er þeir höfðu þetta talat, gengu inn í höllina 30 manna heldr röskligir, sá var mestr ok fríðastr, er fyrir þeim var, hann gekk fyrir konúng ok kvaddi hann; en þegar Ógautan sèr þessa menn, þá hljóðnar um hann, ok

drap niðr hökuskegginu, ok mælti við Jökul ok aðra menn sína, at þeir skyldu ekki nefna sik, meðan þeir væri þar í landi. Konúngr spyrr hina miklu menn at heiti, en formaðr þeirra kvaðst Beli heita ok vera son Skata konúngs, er rèð fyrir í Sogni: er þat erindi mitt híngat, at ek vil biðja dóttur þinnar. Konúngr segir: hèr er kominn áðr Jökull Njörfason ok biðr hennar; mun ek nú þann veg á gera, at hún kjósi, hvârn hún vill eiga; skipaði konúngr Bela á aðra hönd sèr, var þar veizla hin bezta. At þrem nóttum liðnum gengu þeir út til skemmu, ok frèttu konúngsdóttur eptir, með hvârum hún vildi gánga, Jökli eðr Bela; skjótt var þat auðfundit á henni, at hún vildi heldr eiga Bela, en í því varpaði Ógautan kefli í knè henni, en svà brá henni við þat, at hún neitaði Bela[1], en gekk at eiga Jökul; snèri Beli þá til skipa. Vináttumál hafði farit áðr milli þeirra Jökuls ok Bela, svà þat segja sumir, at Beli mun hafa tekit fè til höfuðs þeim bræðrum Þorsteini ok Þóri. Gaf Beli Jökli önga skuld á, þótt konúngsdóttir vildi hann ekki eiga, með því undir hennar úrskurð kom. Síðan fór Beli heim til ríkis síns. Jökull bjóst heim, þegar úti var brullaup hans, ok Ógautan með honum.

19. Nú er þar til at taka er Þorsteinn heldr heim úr hernaði, ok ætlar til Gríms bónda, þvíat Þórir, bróðir hans, sat þar í eynni.

[1]) Bjela, C *hèr og víðar.*

Jökull hafði nú fregn af ferðum hans, hann mælti þá til Ógautans, ok bað hann reyna listir sínar ok gera veðr at Þorsteini, svâ hann drukknaði ok allir hans menn. Ógautan kveðst til þess hætta, hversu sem tækist; gerði hann þá svâ mikit kýngiveðr at Þorsteini, at skip hans týndust í sjáfargángi, ok hverr maðr, er á var. Þorsteinn dugði lengi vel, ok kom þar um síðir at hann þreyttist á sundi; var hann þá kominn í lágarða, dró hann þá niðr; í því sá hann, hvar kerlíng ein stór óð út at honum, ok var í skorpnum skinnstakki, (hann var) síðr í fyrir, en stuttr á bak; hún var stórskorin mjök ok heldr grepplig[1] í ásjónu, ok gekk at honum ok greip hann úr sjónum[2], ok mælti: viltu þiggja líf af mèr, Þorsteinn? Hann segir: því munda ek eigi vilja, eðr hvat heitir þú? Hún segir: óvant er nafn mitt, ek heiti Skellinefja, en muntu nokkut verða til at vinna lífgjafarinnar. Hvat er þat? segir hann. At veita mèr bæn þá, er ek vil biðja þik, segir hún. Þú munt þeirrar einnar biðja, segir Þorsteinn, at mèr mun þat vel vegna, eðr nær skal hún tilkoma? Ekki at sinni, segir hún. Síðan bar hún hann til lands, [ok var hann þá kominn í ey þá, er Grímr átti fyrir at ráða[3]. Sló hun þá á við hann glímu nokkurri, þartil honum gerði heitt. Skildi hún þá við hann, ok bað hvârt vel fyrir

[1]) greipilig, C. [2]) ólægiuu, C. [3]) v. í. C.

öðru; ferr hún þá leiðar sinnar, því at hún kveðst víðara verða við at koma; en Þorsteinn fór heim til bæjar; var þar fagnafundr með þeim bræðrum, sat Þorsteinn þar um vetrinn í góðu yfirlæti. Nú er þar til at taka, er þeir sigla heim Jökull ok Ógautan, at þat var einn dag í góðu veðri, at miklu myrkri sló yfir skipit með svâ mikilli grimd ok[1] frosti, at engi maðr á skipinu þorði á móti at sjá. Klæddu allir menn andlit sitt, þeir sem á skipunum voru; en er afleið myrkrinu, sáu þeir, hvar Ógautan var heingðr upp við húnboru, var hann þá dauðr. Þótti Jökli þat hinn mesti skaði, ok hèlt heim í ríki sitt, ok sezt um kyrt. Þeir Þorsteinn ok Þórir bjuggust [snemma um vorit[2], ok ætla at sækja heim Víkíng, föður sinn, ok er þeir koma at Djúpamóðu, urðu þeir eigi fyrr varir við, enn Jökull kom þar at þeim með 30 manna; slær þegar í bardaga með þeim, var Jökull hinn ákafasti ok svâ Grímr, bróðir hans. Þórir ok Þorsteinn vörðust vel; gekk svâ lengi at þeir komu öngu sári á þá bræðr, var þá hvârttveggja, at Þorsteinn var stórhöggr, enda beit Ángrvaðill járn sem klæði. Þórir varðist ágæta vel ok hafði eigi kesjuna, því hún hafði heima eptir legit. Þeir Grímr mættust ok börðust alldrengiliga, en þó lauk með því at Grímr hnè dauðr til jarðar; þá hafði Þorsteinn drepit 19[3] menn, enda var hann þá bæði móðr ok sár,

[1]) fýlu ok ótilheyranda., *b. v. C.* [2]) um vetrinn, *C.* [3]) 18, *C.*

ok svâ Þórir. Snèrust þeir bræðr þá bökum at, ok vörðust þá enn vel. Jókull sótti at við 11[1] menn, ok gerði svâ harða hríð, at Þórir fèll; þá varðist Þorsteinn nú karlmannliga, ok allt þar til er þeir voru eigi fleiri enn Jökull ok þrír aðrir. Jökull lagði þá til Þorsteins, ok kom í lærit heldr ofarliga, en með því at Jökull var sterkr ok gekk fast â lagit, en Þorsteinn móðr mjök, ok stóð framarliga á árbakkanum, þá hrapaði hann ofan fyrir hamrana, en Jökull gat sem næfrligast[2] stöðvat sik. Leitaði Jökull síðan heim, ok þóttist hafa drepit Þorstein ok Þóri. Settist hann nú um kyrt. Nú er þar til at taka, er Þorsteinn fèll ofan fyrir hamrana, varð þar undir tó, er Þorsteinn kom niðr, en sakir mæði ok sára mátti hann ekki hræra sik, en þó hafði hann vit sitt, er hann kom niðr. Ángrvaðill hraut úr hendi honum ok ofan í móðuna. Lá Þorsteinn þá milli heims ok heljar, ok veitti sèr þá ekki nema dauða. Ok er hann hafði eigi lengi[3] legit, sèr hann hvar gengr Skellinefja[4], ok var í skinnstakki sínum ok öngu fegri enn fyrr. Hún kemr þar at, sem Þorsteinn liggr, ok mælti: eigi þikki mèr [úr steini hefja[5] fyrir þèr um slisferðir þínar, Þorsteinn! sýnist mèr nú liðit at þèr, eðr viltu nú veita bæn þá, er ek keypta at þèr fyrri. Þorsteinn segir: ek sè mik nú fátt mega gera, þat veizlu-

[1]) 9, C. [2]) naumligast, C. [3]) fulla stund dags, C. [4]) fóstra hans, C. [5]) frá hefja, C; úrraka, R.

munr sè í. Sú er bæn mín, segir hún, at þú játir at eiga mik, mun ek þá leita við at græða þik. Þorsteinn segir: eigi veit ek, hvârt ek skal þat tilvinna, þvíat mèr sýnist þú ferlig at sjá. Þar skaltu þó eiga um at kjósa, segir hún, hvârt viltu heldr eiga mik eðr láta lífit ok rjúfa þó eið þinn við mik, er þú hèzt at veita mèr bæn mína, þá er ek gaf þèr líf við Grímsey. Þorsteinn segir: mikit er satt í því, ok mun þat bezt at halda orð sín, ok vil ek því játa at eiga þik, muntu verða mèr hinn mesti bjargvættr, en þó vilda ek þat tilkjósa við þik, at þú náir sverði mínu, [ef mèr verðr lífs auðit, svâ ek mega bera þat[1]. Hún segir svâ vera skyldu, ok tók hann upp í skinnstakk sinn, ok hljóp upp[2] hamrana, sem hún væri laus, þartil er hellir stór varð fyrir þeim; þar fór hún inn í, ok bindr sár Þorsteins, ok leggr hann í hæga sæng, ok innan sjö nátta var hann gróinn at mestu. Þat var einn dag, at Skellinefja var í burt úr hellinum, ok um kveldit kom hún aptr með sverðit, ok var þá vott mjök, ok fèkk Þorsteini ok mælti: nú hefi ek gefit þèr tvo tíma líf ok fengit þèr aptr sverð þitt, er þú hefir mestar mætr á, ok þat hit [fjórða, er okkr er mest veitt í, at ek heingða Ógautan; en þó hefir þú þetta fullu launat mèr, þvíat þú hefir komit mèr úr álögum þeim, er Ógautan lagði á mik[3]; heiti ek Íngibjörg, dóttir

1) er mèr var laust, C. 2) ofan fyrir, C. 3) *tekið úr C;*

Skata konúngs, en systir Bela, en mèr varð þat til undanlausnar um ánauð mína, ef nokkur velborinn maðr játar at eiga mik. Nú vartu til þessa, ok er ek nú laus af ánauð minni, skaltu nú búast í burt af hellinum ok fara fram mínum ráðum, ok muntu finna Bela, bróður minn, við fimta mann; þar mun vera Þorgrímr kobbi, landvarnarmaðr hans, með honum. Þeir hafa tekit fè til höfuðs þèr af Jökli, munu þeir slá til bardaga við þik; hirði ek ekki, þóttu drepir Þorgrím ok förunauta hans, en gef líf Bela, bróður mínum! vilda ek at þið yrðuð fóstbræðr; ok ef þèr er þat í hug at fá mín, far þú heim í Sogn með honum, ok bið mín! ok mun ek þar þá fyrir vera, má vera at ek lítist þèr öðruvís at sjá enn nú. Skilja þau nú, ok er hann var skammt kominn, kom Beli móti honum við fimta mann, ok er þeir fundust, mælti Þorgrímr: þat er vel, Þorsteinn! er vèr fundumst, skal nú vinna til fjár þess, er Jökull hefir lagt til höfuðs þèr. Þat þætti mèr verða mega, at þú mistir fjárins, en lètir lífit, segir Þorsteinn.

20. Nú er þar til at taka, at þeir sækja at Þorsteini, en hann varðist vel ok drengiliga, en svâ lýkr, at Þorgrímr fèll ok þrír förunautar hans. Þá börðust þeir Þorsteinn ok Beli á

---

*rángt í A þannig*: þriðja, at þú hefir komit mèr úr álögum; veit ek at ek hefi heingðan Ogautan, en þó hefir þú mèr þetta fullu launat, þvíat Ogantan lagði á mik annat (*máske* ánauð *e.* annat nafn), *R.*

nýan leik, varði Þorsteinn sik[1], en vildi ekki (særa) Bela, en Beli sótti at, þartil at Þorsteinn greip til hans, ok setti hann niðr hjá sèr[2], ok mælti: alls á ek kosti við þik, en ek vil gefa þèr nú líf, ok þat með at við verðum fóstbræðr, skaltu konúngr vera, en ek hersir, ek vil ok biðja Íngibjargar, systur þinnar, ok hafa heiman með henni eignir í Sogni. Eigi er þat it hægra, segir Beli, (af því) at systir mín er horfin í burt, svâ enginn veit, hvat af henni er orðit. Þat má vera, segir Þorsteinn, at hún sè aptr komin. Eigi sè ek, segir Beli, at hún fái röskara mann enn þik, ok vil ek þennan kost allan; bundu þeir þetta með fastmælum, ok fóru nú heim í Sogn. Varð Beli þess snart var, at systir hans var aptr komin með öllum þvílíkum [blóma, sem hún hafði áðr haft í æsku sinni[3]. Þorsteinn hefr upp orð sín, ok biðr Íngibjargar sèr til handa; var þat ráðum ráðit; hafði hún heiman eignir þær[4], er lágu öðrumegin fjarðarins. Hèt sá bær at Framnesi, er Þorsteinn rèð fyrir, en sá á Sýrströnd[5], er Beli rèð fyrir. Þeir Þorsteinn lögðust í hernað um vorit, ok höfðu fimm skip, herjuðu þeir víða um sumarit, ok varð gott til fjár, en hèldu heim at hausti, ok höfðu sjö skip. Annat sumar lögðu þeir í hernað, ok varð íllt til fjár, þvíat víkíngar allir forðuðust þá; ok er þeir koma at skerjum þeim, er

1) áverkum, *b. v. C.* 2) knepti, *b. v. C.* 3) búnaði s. h. h. a. h., *C.* 4) i Sogni, *b. v. C.* 5) Sýrstöðum, *C.*

Elfarsker heita, lögðu þeir at höfn um kveldit; ok gengu þeir á land, Þorsteinn ok Beli, ok yfir þvert nesit, þat er þeir lágu undir. En er þeir komu yfir nesit, sáu þeir tólf[1] skip liggja tjölduð svörtum tjöldum; þeir sáu tjöld á landi ok rauk af, þeir þóttust þat vita, at þat mundu vera matsveinar. Þeir köstuðu yfir sik dulklæðum, ok gengu þángat, ok er þeir komu þar at tjalddyrunum, færðust þeir báðir í dyrnar, svâ at ekki náði út at leggja reykinn. Þeir voru harðorðir, er mat gerðu, ok spyrja hvat stafkörlum þetta væri, at svâ voru kyndugir, at þá vildu brenna inni eðr kæfa. Þeir lètu endimliga[2], ok svöruðu með dimmri raust, ok sögðu at þeir vildu afla sèr matar, eðr hverr er sá enn ágæti, er þessum flota ræðr, er hèr liggr við land. Þið munuð vera heimskir karlar, segja þeir, at þið hafið eigi heyrt getit Úfa, er kallaðr er Slisa-Úfi, son Herbrands hins höfuðmikla, þeir eru bræðr ok Ötunfaxi[3]; ek veit önga frægri enn þá undir sólunni. Vel segið þið, segir Þorsteinn. Litlu síðar fóru þeir burt til manna sinna. Snemma um morguninn bjuggust þeir, ok rèru fram fyrir nesit, æptu þeir þegar heróp; hinir bjuggust þá skjótt við, ok tóku til vopna sinna, ok tókst þar harðr bardagi; hafði Úfi lið meira[4], ok var sjálfr hinn harðfengasti; börðust þeir svâ lengi[5], at ekki mátti í milli sjá, hvârir sigruðust. Enn þriðja dag rèð

1) 7, *C.* 2) eldiliga, *C.* 3) Auturfagsi, *C*; Otulfaxi, *R hèr og framvegis.* 4) mikit, *C.* 5) 2 dagi, *C.*

Þorsteinn til uppgaungu á dreka þann, er Slisa-Úfi stýrði, ok Beli þegar eptir honum, ruddust um drengiliga, drápu hvern mann fyrir framan siglu. Þá rèð Úfi úr lyptíngunni mót Bela, ok áttust þeir við vopnaskipti nokkura stund, bárust þá sár á Bela, þvíat Úfi var bæði vopnfimr ok stórhöggr. Í því kom Þorsteinn at með Ángrvadil, ok höggr til Úfa; þat högg kom í hjálminn, ok klauf allan búkinn ok brynjaðan manninn at endilaungu, en sverðit kom í siglubitann ok fal báða eggteinana. Beli mælti: þetta þitt högg, fóstbróðir! mun uppi vera, meðan Norðrlönd eru bygð. Síðan buðu þeir víkíngum tvo kosti, hvárt þeir vildu gefast upp ok halda lífi eðr eiga bardaga við þá. Þeir beiddust heldr at þiggja líf af þeim; gáfu þeir þá öllum grið, þvíat þeir vildu þat gjarna þiggja. Fengu þeir þá mikit herfáng; lágu þeir þar þrjár nætr, ok græddu menn sína, ok hèldu heim at hausti.

21. At vordögum bjuggust þeir fóstbræðr heiman, ok höfðu fimtán[1] skip; stýrði Beli dreka þeim, er átt hafði Slisa-Úfi; þat var góðr gripr, skornir svírarnir ok grafnir ok gyltir mjök. Beli konúngr hlaut drekann, því hann var beztr gripr í herfángi þeirra, er þeir fengu eptir Úfa, en þat var vani þeirra, at Beli tók jafnan góðgripi þeirra, er þeir fengu í herfángi. Eigi þótti annat skip betra enn drekinn utan Elliðinn, er átti Ötunfaxi, bróðir hans. Þessi skip

[1]) 10, C.

höfðu þeir erft eptir Herbrand, föður sinn, ok var Elliði því betri, at hann hafði byr, hvert er hann vildi sigla, kunni hann náliga[1] mannsmáli; en því hafði Ötunfaxi heldr hlotit Elliða enn Úfi, at Úfa hafði hendt þat slis, at hann hafði drepit föður sinn ok móður, ok þótti Ötunfaxa[2] hann hafa fyrigert arfi sínum, ef at rèttu skyldi fara. Var Ötunfaxi fyrir þeim bræðrum sakir afls ok vaxtar ok fjölkýngi. Nú lata þeir fóstbræðr í hernað, ok herjuðu víða um Austrveg, ok finna fátt víkínga, því allir stukku undan þeim, er til frèttu; voru þá aungvir frægri menn í hernaði enn Þorsteinn ok Beli. Þat var einn dag, at þeir lögðust at annesi einu; þeir fóstbræðr sjá öðrumegin undir nesinu liggja tólf skip ok öll stór. Þeir róa skjótliga móti skipunum, ok spyrja, hverr [fyrir liði sè[3]. Maðr stóð upp við siglu, ok mælti: Ángantýr heiti ek, son Hermundar jarls af Gautlandi; þú ert efniligr maðr, segir Þorsteinn, eðr hversu gamall maðr ertu? Hann svarar: ek er nú[4] 19 vetra. Hvert viltu heldr, segir Beli, gefa upp skip þín ok fè eðr halda bardaga móti oss. Því skjótara skal kjósa, segir Ángantýr, sem kostir eru újafnari, vil ek heldr verja fè mitt ok falla með drengskap, ef þess verðr auðit. Þá búst við! segir Beli, en vèr munum atsækja; bjuggust þá hvârirtveggju, ok brjóta upp vopn sín. Þorsteinn mælti við Bela:

1) *v. í C.* 2) Ötulfaxi, *hèr ok framvegis A.* 3) flokksforíngi þeirra væri, *C.* 4) *hèr vantar aptr blað í C.*

þat er lítil drengmenska at sækja at þeim með fimtán skipum, en þeir hafa eigi meir enn tólf; því skulu vèr eigi láta liggja hjá þrjú skip, segir Beli; gerðu þeir svâ. Var þar harðr bardagi. Svâ var lið Ángantýrs harðfengt, at þeir Beli ok Þorsteinn þóttust eigi í meiri mannraun komit hafa. Börðust þeir þann dag til kvelds, svâ ekki mátti milli sjá, hvârir sigrast mundu. Annann dag bjuggust þeir til orrostu; þá mælti Ángantýr: þat þikki mèr ráð, Beli konúngr! at við spillum eigi mönnum okkrum lengr, ok berjumst tveir á hólmi, ok hafi sá sigr, er annann vinnr. Beli játar þessu; gengu síðan á land ok köstuðu feldi undir fætr sèr, ok börðust drengiliga, allt þartil at Beli mæddist, þá bárust sár á hann. Þóttist Þorsteinn sjá at Beli mundi ekki sigrast á Ángantýr, ok svâ kom at Beli var bæði móðr ok mjök at þrotum kominn. Þá mælti Þorsteinn: þat þikki mèr ráð, Ángantýr! at þið lèttið ykkrum bardaga, þvíat ek sè at Beli er yfirkominn af mæði, en ek vil eigi hafa ódrengskap til at níðast á þèr, en veita honum, en svâ mun þat fara, ef þú verðr banamaðr hans, at þá mun ek bjóða þèr á hólm, ok ætla ek at okkar sè eigi minni mannamunr enn ykkar Bela, mun ek fella þik á hólmi, ok er þat mikill skaði, ef þið látist báðir. Nú vil ek bjóða þèr þann kost, ef þú gefr Bela líf, at við sverjumst í fóstbræðralag. Ángantýr segir: þat þikki mèr jafnaðarboð, at við Beli gerumst fóst-

bræðr, en í því þikki mèr mikit veitt, ef ek skal vera þinn fóstbróðir. Var þetta síðan bundit fastmælum; þeir vöktu sèr blóð í lófum, ok gengu undir jarðarmen, ok sóru þar eiða, at hverr skyldi annars hefna, ef nokkur þeirra yrði með vopnum veginn! Síðan könnuðu þeir lið sitt, ok voru hroðin tvö skip af hvârum; þeir græddu menn sína, þá er sárir voru; eptir þat hèldu þeir í burt þaðan 3 skipum ok 20, ok hèldu heim um haustit, ok sátu um kyrt um vetrinn með mikilli virðíngu. Þóttu nú aungvir menn frægri í sínum hernaði enn þeir fóstbræðr.

22. Nú er vordagar komu bjuggust þeir heiman fóstbræðr, ok höfðu 30 skipa; hèldu þeir í Austrveg, ok herjuðu þar ok um Svíþjóð ok allt hit Eystrasalt; fóru þeir vel með hernaði sínum, sem þeir voru vanir, drápu víkínga ok ránsmenn, hvar sem þeir gátu þá hendt, en lètu bændr ok kaupmenn fara í friði. Nú er þar til at taka í öðrum stað, er Ötunfaxi frèttir fall Úfa, bróður síns, þótti honum þat mikill skaði. Þat er af honum at segja at hann leitar þrjú sumr samfleytt þeirra fóstbræðra. Nú er þat at segja, at þeir Beli konúngr leggja einn dag at skerjum þeim, er Brennieyjar heita; leggja þeir í lægi ok búast vel um; eptir þat gánga þeir fóstbræðr þrír á land, ok þartil er þeir koma at einum bæ litlum; þar stóð maðr fyrir dyrum ok klauf skíð, hann var í grænni heklu ok furðu digr. Hann heilsar Þorsteini með nafni; Þor-

steinn segir: okkar er mikill kennispeki munr, þú heilsar mèr með nafni, en ek man eigi at ek hafi sèð þik, eðr hvat heitir þú? Óvant er nafn mitt, segir hann, ek heiti Brennir ok er ek Vífils son, bróðir Víkíngs, föður þíns; átti hann mik, þá er hann var í hernaði, er hann átti heima hjá Háloga[1], hefi ek hèr upvaxit í eynni ok búit hèr síðan. En hefir þú nokkut, Þorsteinn frændi! frètt til Ötunfaxa víkíngs? Eigi, segir Þorsteinn, eðr hvat kanntu af honum at segja? Þat, sagði Brennir, at hann hefir leitat þín um þrjú ár, ok liggr hann hèr öðrumegin eyanna með öllum sínum flota, vill hann hefna Slisa-Úfa, bróður síns; hann hefir 40 skipa ok öll stór; hann er stór sem tröll, en bíta engi járn. Hvat er nú til ráða? segir Þorsteinn. Engi ráð kann ek þèr at gefa, segir Brennir, nema þú getir fundit Sindra dverg, því ek veit at honum er illa við hann, enda mun honum sízt ráðaskortr. Hvert er hans at vænta? segir Þorsteinn; hann á heima í eyjunni, er hèr liggr skammt undan landi, er heitir en minni Brenniey; hann býr í einum steini, en óvænligt þikki mèr at þú getir hann fundit, en til reiðu er þèr hèr í nótt. Hitt mân fyrir liggja, segir Þorsteinn, at halda eigi kyrru fyrir; gengu þeir þá til skipa sinna; síðan setti Þorsteinn fram bát ok rèri til eyjarinnar. Þorsteinn gekk þar einn á land, ok er hann kom at einum læk, sá hann at tvö

[1]) konúngi, *b. v. R.*

börn lèku sèr við lækinn, piltr ok stúlka; Þorsteinn frètti þau at nafni; sveinninn nefndist Herrauðr en píkan Herríðr: hefi ek týnt gulli mínu, segir hún, veit ek þat muni Sindra, föður mínum, illa líka, mun ek eiga von hirtíngar. Þorsteinn segir: hèr er eitt gull, er ek vil gefa þèr. Hún tók við gullinu, ok varð glöð við: ok skal ek þetta fá föður mínum, eðr má ek ekki þat gera, ef þèr væri bati í. Eigi er þat, segir Þorsteinn, ok kom þú híngat föður þínum til tals við mik, ok fylg svâ at hann sè í ráðum með mèr um þá hluti, er mik varðar. Því at eins get ek þat gert, segir Herríðr, at Herrauðr, bróðir minn, fylgi mínum vilja, þvíat Sindri má ekki móti honum láta. Veiztu þat, segir Herrauðr, at ek fylgi þèr um alla hluti. Þorsteinn spretti af sèr silfrbelti ok gaf honum, þar fylgði búinn knífr. Sveinninn mælti: þetta var vel gefit, skal ek allan hug áleggja, at þitt mál gángi fram; bíð hèr til þess við syskin komum aptr! Nú gerði Þorsteinn svâ; en er stund laung var liðin, kom þar Sindri dvergr ok þau syskin með honum. Sindri heilsar Þorsteini glaðliga ok mælti: hvat viltu mèr, Þorsteinn? Þat, segir Þorsteinn, at ek vilda at þú legðir ráð á með mèr, hversu ek gæti unnit Ötunfaxa víkíng. Þar sè ek ekki ráð til, segir Sindri, at nokkur menskr maðr geti Faxa unnit, miklu er hann verri viðreignar enn nokkur annar; vil ek lètja þik þess, at halda

til orrostu við hann, þvíat þú lætr þar menn þína, ok er þèr bezt at halda í burt í nótt undan eyjunum. Þat skal aldrí verða, segir Þorsteinn, þótt ek viti þat fyrir, at ek missa lífit, þá vil ek þat þó heldr enn flýja at óreyndu. Þat sè ek, segir Sindri, at þú ert hin mesta kempa, legg ek þat til með þèr, at þú affermir öll skip þín í nott, ok berir fjárhlut á land, en hlaðir skipin af trjám ok grjóti; síðan haf þú þik snemma at á morgin, ok kom fyrr at þeim enn þeir vakna, megið þið kemba þeim ekki hagligar tjaldkúlur; þurfið þið þess alls við, ef þèr getið nokkurn bug á Faxa unnit, þvíat þat vil ek segja þèr, at því síðr bíta hann nokkur járn, at hann bítr eigi sverðit Ángrvaðill. Hèr er einn týgilknífr, er Herríðr, dóttir mín, vill gefa þèr ok launa þèr svâ gullit, ok þat ætla ek at hann bíti á Ötunfaxa, ef þú kemr honum hagliga við. Herrauðr, sonr minn, mun því launa þèr beltit, at þú skalt nefna mik á nafn, ef þèr þikkir nokkut ábresta. Munu við nú skilja fyrst at sinni, ok far þú vel ok heill! Þat mæli ek um at mínar dísir sè þèr jafnan til fylgis. Síðan fór Þorsteinn til báts síns, ok rèri til sinna manna. Bjóst hann við þegar um nóttina, ok færði fè af skipum en grjót í staðinn; ok er þat var gert, kom Brennir karl af bæ ofan, ok hafði kylfu stóra í hendi, alla slegna af járni ok stórum járngöddum; hún var svâ þúng at varla gat meðalmaðr lypt af jörðu. Brennir mælti: hand-

vopn þetta vil ek gefa þèr[1], Þorsteinn frændi! ok mun þèr einum vopnhæft sakir þúnga, en þó mun hún heldr[2] lètt við Ötunfaxa; þikki mèr nú ráð at Ángantýr hafi sverðit Ángrvaðil, en þú berist með kylfunni; þó hún sè ekki fimligt meðfæri, þá mun hún þó mannskæð vera; vilda ek nú, frændi! geta veitt þèr meira lið, en eigi hefi ek faung á því; snýr hann þá á land upp.

23. Síðan greiddu þeir róðr fram fyrir nesit, er þeir voru búnir, ok geta þá at líta, hvar Ötunfaxi liggr með öllu sínu skipaliði. Lètu þeir þegar gánga grjótflaugina svâ hart ok ákaft, at þeir drápu meir enn hundrat manna, áðr þeir vöknuðu, en frá því er liðit vaknaði, tóku þeir snarpliga við; var þá bardagi hinn mannskæðasti; fèll mart manna af þeim fóstbræðrum, þvíat svâ mátti atkveða, at Faxi skyti af hverjum fíngri. Gekk svâ allt til nætr, voru þá hroðin 10 skip [þeirra fóstbræðra[3]. Annann dag eptir tóku þeir til orrostu, ok gekk með þvílíku móti mannfallit, sem hinn fyrra dag; rèðu þeir jafnan til uppgaungu á skip Faxa, ok gerðu mikinn mannskaða hvert sinn, en á drekann Elliða komust þeir aldrí fyrir vörn Faxa, ok þess at hann var svâ borðhár; en um kveldit voru hroðin öll skip þeirra fóstbræðra, nema

1) *hèr byrjar aptr C.* 2) *þannig C, R;* til, *A.* 3) af hvorumtveggja.

drekinn Úfanautr. Þat sáu þeir báða daga, at sinn maðr kom fram á hvern hamarinn, ok skaut í ákafa út á skip Faxa; þar sáu þeir Sindra dverg, ok varð maðr fyrir hverri ör; fèkk Faxi af því mikinn mannskaða. Á öðrum hamrinum var Brennir, ok skaut heldr bogmannliga út á skipin. Eigi var traust at eigi fyki steinar á skipin, ok leituðu þeir allir grunns, er hann kastaði; sukku af því mörg skipin fyrir Faxa; var þá ok svå komit, at öll skip hans voru hroðin nema Elliði. Þetta var þann tíma, er nótt var björt, ok hèldu þeir bardaga alla nóttina. Þorsteinn rèð til uppgaungu á drekann ok Ángantýr ok Beli[1], en mart var manna eptir á Elliða. Faxi hleypr fram á móti þeim fóstbræðrum Ángantýr ok Bela, þeir eigast við hart vopnaskipti, bitu Faxa engin járn[2], en eigi höfðu þeir lengi barizt, áðr sár bárust á þá báða; í því kom Þorsteinn at ok sló með kylfunni, sem honum var hægast utan við vángann á Faxa, en hann [laut hvergi[3] við; þá sló Þorsteinn annat ok aungu minna; þá leiddust Faxa höggin, ok stökk fyrir borð ok í kaf, svå í iljar honum var at sjá; þeim varð bilt báðum Bela ok Ángantýr eptir at fara. Þorsteinn hljóp þegar

[1]) þegar eptir ok var þá bardagi hinn harðasti, ok svå kom, at allir menn voru fallnir af þeim Þorsteini nema þeir 3 fóstbræðr, *b. v. C.* [2]) ok eigi heldr Angrvaðill, *b. v. C.* [3]) reygðist, *C.*

fyrir borð, ok lagðist eptir Faxa, en hann undan; var því líkast sem hvalr legðist, þar sem Faxi fór; gekk svâ lengi ok þar til er Faxi kom á land; en þeir fóstbræðr börðust við menn sem eptir voru, ok lèttu eigi fyrr, enn þeir höfðu drepit þá alla, er á drekanum voru; síðan tóku þeir sèr bát ok rèru til lands at þeim Faxa ok Þorsteini. Nú sem Faxi er á land kominn, en Þorsteinn lagðist at framan; þreif Faxi upp steinn ok sendi at Þorsteini, en hann fór í kaf undan, ok lagðist út undan, ok varð mikit áfall, af því at steinninn kom niðr. Upp tók hann annann ok hinn þriðja, ok fóru allir á eina leið; ok í því komu þeir fóstbræðr Ángantýr ok Beli. Þorsteinn kastaði eptir kylfunni á drekanum, er hann hljóp fyrir borð, ok hafði Beli tekit upp kylfuna, ok kom þar at, sem Ötunfaxi stendr, ok slær með kylfunni aptan undir hnakkann ok þegar annat eptir, en Ángantýr grýtti hann með stórum steinum. Tók Faxa nú heldr at sárna skallinn[1], ok leiddist at búa undir þeirra höggum, ok steypti sèr í kaf ofan af hamrinum, lagðist hann þá á haf ok Þorsteinn eptir, ok er Faxi sá þat, snèri hann í móti Þorsteini, ok takast þeir til á sundinu, höfðu þeir þá sviptíngar miklar ok stórar; færðu hvârir aðra í kaf, þó kendi Þorsteinn aflsmunar. Þar kom at Faxi

[1]) skjanninn, C.

færði Þorstein til grunna, tók þá af honum sundlætin; Þorsteinn þóttist þá vita, at Faxi ætlar at bíta sundr barkann í honum. Þorsteinn mælti: hvat mun mèr annann tíma meiri þörf á þèr, Sindri dvergr[1]! enn nú. Þorsteinn varð við þat var, at gripit var á herðar Faxa svâ hart, at þvínæst var hann við grunni niðri ok Þorsteinn ofan á honum, hann var þá mjök móðr ok þjakaðr af umfángi þeirra. Þorsteinn tekr þá týgilknífinn, sem Sindri gaf honum; hann stíngr honum fyrir bríngspalir Faxa, svâ at sökk allt upp at skapti, reist hann þá niðr allan kviðinn at smáþörmum, þó fann hann at Faxi var eigi dauðr, því hann mælti þá: mikil þrekvirki hefir þú unnit, Þorsteinn! er þú hefir mèr fyrikomit, þvíat ek hefi átt 90 orrostur[2] ok haft í öllum sigr nema í þessi; ek hefi sigrazt 80[3] sinna í einvígum, svâ ek hefi á hólm gengit, en ek er nú 90[4] ára gamall. Ekki þótti Þorsteini gagn at hann fleipraði fleira, ef hann mátti atgera, rak hann þá úr honum innan, þat laust var. Nú er at segja af þeim Ángantýr ok Bela, at þeir tóku sèr skip ok rèru fram á sjóinn ok leita at þeim Faxa ok Þorsteini, ok finna þá hvergi lángan tíma; þá komu þeir þar at, sem sjórinn var blandinn ok rauðr af blóði, þóttust þeir þá vita, at þar mundi Faxi á grunni niðri ok Þorstein drepit hafa,

---

1) fóstra míns, *C.* 2) ok einni fátt í, *b. v. C.* 3) 13, *C.* 4) 20, *C.*

ok er stund leið, sáu þeir at flaut á sjónum nokkut óþokkaligt[1], þeir fóru þángat ok sáu þar fljóta innyfli mikil ok ósèlig; litlu síðar kom Þorsteinn upp, ok var þá svâ lúinn ok yfirkominn, at eigi gat hann flotit á sjónum. Rèru þeir þá at honum ok drógu hann upp í skipit, var honum þá minni von lífs[2], en ekki var hann mjök sár, en hlaupit var niðr hold af beinum í hnikla; fóru þeir ok leituðu honum hæginda, raknaði hann þá skjótt; fóru þeir aptr til eyjanna, ok könnuðu valinn, ok voru eigi meir enn 30 manna græðandi, fóru þeir þá til Brennis karls, ok þökkuðu honum liðsemd sína; svâ fór Þorsteinn til hinnar minni Brennieyjar, at finna Sindra dverg, ok gaf honum góðar gjafir, ok skildu með hinni mestu vináttu. Tók Þorsteinn drekann Elliða í sitt hlutskipti; en Beli hafði drekann Úfanaut, en Ángantýr tók svâ mikit gull ok silfr, sem honum líkaði, í sitt hlutskipti. Gaf Þorsteinn Brenni, frænda sínum, öll þau skip, er (þeir) komust ekki með, en þeir hèldu burt á 3[3] skipum heim í Sogn, ok sátu þar um vetrinn.

24. At vordögum hèldu þeir í hernað; Ángantýr spyrr, hvert þá skyldi halda, segist hyggja at eydt mundi víkíngum í Eystrasalti. Þá skulum vèr, segir Beli konúngr, halda vestr um haf, þvíat þángat höfum vèr ekki herjat áðr,

[1]) óþekkiligt, *C.* [2]) *þannig ágizkat*; manns, *A, C, R.* [3]) 4, *C*; 13, *R.*

segir hann. Nú gera þeir svâ; þegar þeir koma til Orkneyja, gánga þeir þar á land ok herja, brenna bygðir en ræna fè; gera þeir mikit hervirki, en allt var hrætt við þá ok stökk undan. Herrauðr hèt jarl sá, er stýra átti eyjunum; en er hann spyrr þetta hervirki, safnar hann liði í móti þeim, ok fór nætr sem daga, þar til þeir fundust við ey þá, er heitir Papey; þar slær þegar í bardaga með þeim, var þar engi liðsmunr. Þeir börðust svâ tvo daga, at ekki mátti milli sjá, hvârir sigrast mundu; þar kom umsíðir at mannfallinu hallaði á Herrauð, hruðust þá skip hans, náðu þeir bræðr þá uppgaungu, ok þar kom umsíðir at Herrauðr jarl fèll ok flestallt lið hans. Síðan fóru þeir um allar eyjar ok lögðu undir sik; eptir þat bjuggust þeir til heimferðar. Bauð Beli konúngr Þorsteini eyjarnar, ok gerast þar jarl yfir, en hann kveðst þat ekki vilja; vil ek heldr vera hersir ok skilja ekki við þik, enn heita jarl ok vera fjarlægr þèr at vistum. Þá bauð hann Ángantýr at vera þar jarl yfir, ok þat þá hann, ok gerðist hann jarl yfir eyjunum, ok skyldi lúka skatt árligá. Síðan hèldu þeir heim í Sogn, ok sátu þar þann vetr, þeir hèldu menn sina[1] vel bæði at vopnum ok klæðum; þótti nú öngvir menn framari enn þeir fóstbræðr. Þeim varð barna auðit; hèt Helgi ok Hálfdán synir Bela, en Íngibjörg dóttir, var hún ýngst þeirra syskina. Þor-

[1]) í medallagi, *b. v. C.*

steinn átti þann son, er Friðþjófr hèt. Haraldr óx upp í eyjunni hjá Grími, en þegar hann hafði aldr til, lagðist hann í hernað, ok varð hinn frægasti maðr, þótt hans sè lítt getit í þessi sögu; hèlt hann nafni sínu, ok var kallaðr Haraldr kesja, ok er mart manna frá honum komit. Þeir Þorsteinn [ok Beli, Grímr[1] ok Haraldr hèldu vináttu sinni, meðan þeir lifðu.

25. Nú er þar til at taka sem Jökull Njörfason er, at hann stýrði Upplöndum, þá er þeir voru báðir dauðir Njörfi ok Víkíngr; höfðu þeir vel haldit vináttu sinni allt til dauðadags. Jökull aflaði sèr skipa ok fjár, ok var hinn harðasti víkíngr, ok fór i meðallagi með her sínum, en ekki betr; gekk svâ fram nokkur ár, at hann var hinn nafnfrægasti, hann lá í hernaði mest um Eystrasalt. Eigi höfðu þeir Þorsteinn ok Beli lengi heima verit, áðr þeir bjuggust í hernað, ok hèldu suðr með landi, svâ í gegnum Eyrarsund[2], ok herjuðu á Saxland um sumarit, ok gerðu mikit hervirki, ok fengu þar mikit fè í gulli ok silfri ok mörgum öðrum gersimum. Síðan ætluðu þeir at sigla heim, sem þeir gerðu, ok er þeir komu fyrir mynni á Limafirði, þá kemr at þeim stormr veðrs, ok rak þá til hafs, ok skilja skjótliga skipin; tekr þá sjór at gánga á bæði borð, ok stóðu allir menn í austri. Þar kemr at þessi stormr rekr upp nauðreka drek-

1) v í C. 2) Eyrasund, C.

ann Elliða at Borgundarhólmi einskipa. Þar kemr við land þann tíma Jökull með tíu skipum, ok öll vel búin sakir vopna ok manna; þarf þá eigi at (sökum) at spyrja, at Jökull lèt sækja at Þorsteini ok mönnum hans; Þorsteinn var lítt viðbúinn, því þeir voru mjök dasaðir af mæði ok sjáfargángi. Þessi bardagi var bæði harðr ok mannskæðr; var Jökull enn ákafasti ok eggjaði fast menn sína, ok segir at þeir mundu aldrí í betra færi komast við Þorstein: mun oss ok æfinlig brígsl í vera, ef Þorsteinn kemst nú undan. Sóttu þeir þá at Þorsteini ok mönnum hans, ok lèttu eigi fyrr við, enn menn hans voru allir fallnir, svâ enginn maðr stóð á drekanum nema Þorsteinn einsaman; hann varðist þá enn karlmannliga, var þat þá lángan tíma at þeir komu aungu sári á hann; þar kom þó umsíðir at þeir (komu) svâ nærri honum, at þeir komu á hann spjótalögum, ok hjó hann þau fleströll af sèr, þvíat sverðit Ángrvaðill beit sem vant var. Jökull sótti þá fast at, ok lagði til hans spjóti í gegnum lærit. Í því hjó Þorsteinn til Jökuls; þat högg kom á höndina fyrir framan olboga[1], ok tók af höndina; í því gátu þeir borit skjöldu at Þorsteini ok tekit hann; þá var komit at kveldi, svâ þeim þótti eigi vígt at honum; var þá settr fjötr á fætr honum en bogastrengr á hendr; voru þá fengnir til tólf menn at geyma hans um nóttina; ok er allir voru á

1) úlfliðinn vinstra, C.

land komnir, nema þeir tólf ok Þorsteinn, mælti hann: hvârt villð þèr heldr skemta mèr eðr ek skemti yðr? Þeir kváðu honum óvant um skemtun, at hann skyldi deyja þegar á morgin. Þorsteinn hugsaði nú sitt ráð, ok þóttist eigi vel staddr vera, hann mælti þá hljótt fyrir munni sèr: hvat mun ek nú í annann tíma þurfa þín meir, Sindri fèlagi! enn nú, ef eigi væri lokit allri okkar vináttu? Sló þá dimmu yfir varðmennina, ok því næst sofnuðu þeir allir. Þá sá Þorsteinn, hvar Sindri fór eptir skipinu ok at honum ok mælti: lítt ertu staddr nú, Þorsteinn fèlagi! ok mun ráð at bjarga þèr. Hann blès upp lásinn; síðan hjó hann af honum bogastrenginn, var Þorsteinn þá laus, tók hann þá sverðit, þvíat hann vissi, hvar hann hafði við þat skilit; snèri hann þá til varðmanna, ok drap þá alla, síðan hvarf Sindri í burt[1], en Þorsteinn tók sèr bát ok rèri í land, ok fór burt ok heim í Sogn. Var þar fagnafundr með þeim Bela, ok þóttist hann Þorstein úr helju heimt hafa. Jökull vaknar snemma um morgininn, ok hugði gott til at taka bandíngjan ok drepa, en er þeir komu þar, var bandínginn burtu, en varðmenn dauðir; þóttust þeir þá sakna vinar í stað. Hèlt Jökull heim ok undi lítt við sína ferð, missi Þorsteins, en fengit þau örkuml, at hann varð aldrí heill; var hann kallaðr síðan Jökull enn einhendti. Þeir fóstbræðr Beli kon-

[1]) at sýn, *b. v. C.*

úngr ok Þorsteinn söfnuðu liði, ok fóru til Upplanda, ok gerðu orð Jökli, ok hösluðu honum völl til orrostu. Jökull safnaði mönnum, ok sátu þó margir heima, þeir er lýðskyldugir voru undir Jökul, ok gerðu þat fyrir vináttu sakir við Þorstein, ok er Jökull fèkk fátt manna, þá treystist hann eigi at halda til orrostu við þá, ok stökk hann úr landi, ok fór þá til Vallands til Vilhjálms, mágs síns; tók hann þar þriðjúng ríkis til forráða. Beli konúngr ok Þorsteinn lögðu undir sik Upplönd, ok fóru heim síðan, ok settust um kyrt. Nokkuru síðar komu menn af Vallandi til móts við Þorstein, þeir er Jökull sendi; var þat at erindum at Jökull bauð Þorsteini sættir, ok skyldu þeir finnast á Limafirði, ok hafa þriú skip hvârir, ok tengja saman sættir. Þorsteini fèlst þetta vel í geð, sagðist nauðigr hafa átt ófrið við Jökul sakir Njörfa konúngs ok vináttu þeirra Víkings; var þetta nú staðráðit. Fóru sendimenn heim, en Þorsteinn[1] bjóst heiman um sumarit, ok hafði drekann Elliða ok tvö skip önnur. Bela þótti sjá ferð ekki vænlig, þótti Jökull svikull ok ótrúr; þat var ráð hans, at hann sendi undan[2] njósnarmenn, at vita hvârt allt væri tryggt af hendi Jökuls, ok færi svâ aptr í móti þeim til Eyrasunds. Svâ gerðu þeir, ok komu aptr, ok sögðu þeim at þeir lægi á Limafirði með 3 skipum ok allt væri kyrt um þá. Hèldu þeir þá

1) ok Beli, *b. v. C.* 2) 20, *b. v. C.*

fram ferðinni á fjörðinn, ok fundust í nefndum stað, ok gengu þar saman sættir með þeim at svâ fyriskildu, at mannalát, áverkar ok bardagar skyldi vera jafnt, en Jökull skyldi taka aptr ríki sitt, ok skyldi eigi vera skattgildr undir nokkurn mann; ríki þat, er Þorsteinn átti at Upplöndum, skyldi falla undir Jökul fyrir handarhöggit; með þessu skyldu þeir vera sáttir. Fór Jökull þá heim í ríki sitt, ok settist þar um kyrt. Þeir Þorsteinn ok Beli fóru heim í Sogn, ok settust nú at ríkjum sínum, ok lèttu öllum hernaði. Önduð var Íngibjörg, kona Þorsteins, ok hafði Íngibjörg Beladóttir hennar nafn. Friðþjófr óx upp með föður sínum. Þorsteinn átti dóttur, er Vefreyja hèt; hún var þá roskin, er hèr var komit sögunni, þvíat hún var getin í hellinum hjá Skellinefju, ok þar var hún fædd; brá henni um vísdóm til móður sinnar; hún tók Ángrvaðil eptir Þorstein, föður sinn; [ok er mart ágætra manna frá Þorsteini komit. Þótti öllum mönnum Þorsteinn vera hinn frægasti maðr ok hinn ágætasti af þeim mönnum, sem honum voru samtíðis[1]. Lúkum vèr hèr nú sögu Þorsteins Víkíngssonar [með þessu efni, ok er hin gamansamligasta[2].

1) v. í C. 2) guð gefi oss alla góða daga utan enda, amen, C.

## Hèr hefr upp Sögu Ásmundar, er kallaðr er kappabani.

Budli er konúngr nefndr; hann rèð fyrir Svíþjóðu, ríkr ok ágætr; þat var háttr hans at elska mjök smiðu, þá er hann fèkk hagasta, ok honum gerði gersimar. Hann átti drottníngu ok dóttur, er Hildr hèt. Þat varð þar til tíðinda, at drottníng andaðist, ok var konúngr kvânlaus. Þess er getit, at eitt[1] kveld komu 2 menn til konúngs, ok gengu fyrir hann með kveðju; konúngr spurði, hverir þeir væri, en annar nefndist Olíus, en annar Alíus: ok vildim við hèr vetrvist þiggja. Hann spurði, ef þeir væri hagleiksmenn nökkurir eðr búnir við íþróttum; þeir kvoðust kunna at gjöra hagligahvern hlut, þann er smíða skyldi. Konúngr vísaði þeim til sætis, ok bað þá þar vera. Í þenna tíma var með konúng boð nâkkvart, en um kveldit komu í höllina smiðir konúngs, ok sýndu honum smíðit gull eðr vâpn; svâ gjörðu þeir ávalt, ef menn komu þángat, konúngi til frægðar. Allir menn lofuðu smíði þeirra nema gestir; þeir

[1]) jóla, *P.*

ræddu fátt um; knífr einn var í því smíði vandaðr; þetta var sagt konúngi, ok kveðst hann ætla, at þeir mundi eigi betr smíða, hann kallar þá til sín, ok mælti: hví eru þið svâ tregir til at lofa þat smíði, er hèr er framborit, eðr kunni þið betr at gjöra; þeir kvoðu konúng þat reyna mega, ef hann vildi, at smíði þetta mundi eigi mikils vert hjá því. Konúngr bað þá gjöra þá smíð, er til afbragðs mettist: ef þið villð eigi vera falsarar; þeir kváðust brátt munu reyna, at þessi smíð er lítils verð, ok eigi góð. Þeir settu knífinn í rönd borðsins fyrir konúng, ok lá hjá þegar eggin, þeir báðu þar konúng taka við gersimi sinni, en kvoðust freista mundu at gjöra annann kníf. Konúngr bað þá svâ gera, ok síðan gjörðu þeir kníf einn, ok færðu konúngi; hann brá á kamp sèr, ok tók af kampinn ok skinnit, svâ at í holdi nam staðar. Konúngr mælti: þat mun satt vera, at ið munuð hagir menn, ok nú skuluð ið gjöra mèr gullhríng, ok svâ gerðu þeir, ok færðu konúngi; hann leit á, ok mælti: þat er rètt sagt, at ek hefi eigi sèð meiri gersimi í einum gullhríng, ok svâ mælti allir er sá. Konúngr kvað slíkt tíginna manna þjónustumenn, ok síðan mælti hann: nú skuluð ið gera mèr 2 sverð, þau er eigi beri minna af öðru smíði, enn þessi smíð ykkar, ok þeim sè hvergi til þess höggvit, er þau bíti eigi. Olíus kveðst þat eigi vilja, ok lèzt eigi örvænt þikkja, at nâkkvat mikit mundi áliggja, ef þeir

gjörði nauðgir, ok kvað til hófs bazt at búa. Konúngr kvað þá gjöra skyldu, hvort er þeir gerði nauðgir eðr eigi. Síðan setjast þeir til smíðar, ok gjörðu 2 sverð sèrhvârr þeirra, ok gengu síðan fyrir konúng, ok sýndu honum sverðin. Konúngr leit á, ok sýndust honum vænlig, eða hverìr fylgja kostir? Olíus segir, hann kvað því hvergi munda til höggva, at þat mundi eigi bíta, ok hygg ek á því munu vera aungva annmarka. Konúngr segir: þá er gott, ok verðum vèr at reyna, hversu staðgott væri, ok skaut oddinum í öndugissúlu, ok lagðist lítt sverðit, ok síðan reisti hann þat í glugg einum. Smiðrin kvað þat ofraun sverðinu, ok lèt þat til höggs búit, en eigi til reistíngar; konúngr kvað þat eigi mundu högg standast, ef þat brotnaði í slíkum tilraunum. Ok nú reyndi hann þat sverð, er Alíus hafði gjört, ok hljóp þat aptr sem skíð, ok at öllu var þat vænligra enn hitt, ok stóðst hvârttveggja þær raunir, er konúngr gjörði. Konúngr mælti: þetta er enn betra, er Alíus hefir gjört; ok er hvarttveggja gott, eða hver náttúra fylgir? Alíus segir: þat, herra! ef þau mætast á lopti, ok sèu þau ímóti borin, þá mun sverð mitt framar, ok má þat þó kalla kosti eina ok jafna. Síðan tók konúngr þat sverð, er Olíus hafði gert ok vildi brjóta, ok þá brast sverðit við hjaltit. Konúngr bað hann betra sverð gera, ok síðan gekk hann reiðr til

smiðju, ok gerði sverð, ok fèkk þat konúngi, hann hafði nú allar slíkar raunir, sem við et fyrra, ok stóðst þetta allar. Konúngr mælti: nú hefir þú vel gjört, eðr er nú ekki hèr á til vandkvæðis? Hann segir: járngott er sverð, enda mun nú nökkur forföll áliggja til hamíngju brott[1], þvíat þat mun verða at bana enum göfgustum bræðrum, dóttursonum þínum. Konúngr mælti: spá þú manna armastr! nú skal bræðrum at bana verða, ok þó ógöfgum, ok hjó til hans, en þeir voru þá horfnir með skjótri brautför, ok neyttu þá ennar neðri leiðar. Konúngr mælti: þetta eru miklir úvinir, ok við því skal vinna, at sverð geri manni eigi mein. Konúngr lèt þá gera stokk at sverðinu með blýi, ok lèt sökkva niðr í Löginn hjá Agnafit.

2. Helgi hèt konúngr ágætr; hann var hermaðr mikill; Helgi fór með herskipum á fund Buðla konúngs, ok gerði honum orðsendíng, at hann mundi þar friðmaðr vera, ok kveðst vilja kannast við hann, ok þiggja at honum veizlu; konúngr tók því vel. Helgi konúngr gekk upp til hallar, ok fèkk þar góðar viðtökur; Hildibrandr hèt faðir Helga konúngs, er rèð fyrir Húnalandi; Helgi konúngr mælti þá: birta mun ek minn vilja til yðar með tilmæli ráðahags við dóttur yðra, má ek sjá hvârttveggja at þessu sæmd, mik til landvarnar við yðr, en ríki yðart til móts. Buðli konúngr segir: ek vil yðru örendi vel svara með samhuga hennar við

[1]) *kannske brátt eða brots; v. í P.*

oss; ok síðan var þetta mál kært við hana, en hún geldr til samþykki vilja föður síns, ok er nú aukin veizlan eptir tíginna manna sið, ok fær Helgi konúngr Hildar, dóttur Buðla konúngs, ok síðan voru þeir mágar samhuga, ok var Buðla konúngi mikit traust at Helga konúngi. Þau Hildr áttu son, er Hildibrandr hèt, er manna var vænstr, ok þegar er hann dróst á fætr, þá mælti Helgi konúngr, faðir hans: þinn fóstrfaðir skal vera Hildibrandr enn ríki, [faðir minn[1] í Húnalandi, ok er þá vænst, at þín forlög verði mátuligust. Helgi konúngr sendi nú þángat sveininn; Hildibrandr konúngr tók agætliga við honum, ok kveðst vænta, at þar mundi uppfæðast einn kappi. Eptir þat fór Helgi konúngr í hernað, en Buðli konúngr gjörðist gamall löndum at stýra.

3. Álfr hèt konúngr, er rèð fyrir Danmörku; dóttir hans hèt Æsa[2] en fagra, hún var fræg víða um lönd af vænleik sínum ok hannyrðum. Áki hèt einn ríkr kappi í Danmörku, hann var í kærleikum miklum við konúng, ok Álfi konúngi var (at) honum mest traust. Konúngr kallaði hann til sín ok mælti: hernað viljum vèr drýgja í sumar, ok taka þat ríki undir vâra eign, er áðr liggr gæzlulaust, en þó frami, ef at náist; kappinn svarar: herra! hvar viti þèr ríki falt? Konúngr mælti: Buðli konúngr er nú

[1]) *v. í P.* [2]) Asa, *P.*

örvasi at aldri, ok viljum vèr leggja undir oss hans ríki. Áki segir: eigi vil ek þess letja, at gjöra stórræði, ok mun enn sem fyrr eptir framaverk, at þèr munuð laun hyggja vinum yðrum fyrir sitt starf. Síðan bjuggu þeir Álfr konúngr ok Áki her sinn, ok herjuðu í Svíþjóð á ríki Buðla konúngs, ok gjörðu þar mikit hervirki í manndrápum ok fjár upptektum. En er Buðli konúngr spyrr þetta, stefnir hann saman sínum her, ok fær lítit lið, er styrkr Helga, mágs hans, var fjarri, en þó hèlt hann sókn upp, ok var borinn ofmagni, ok fèll í þeirri orrostu, en Álfr konúngr tók at herfángi dóttur hans ok allmikit fè, ok fara nú heim við svâbúit. Þá mælti Álfr: svâ hefir oss til handa borizt, at vèr höfum gnógt ríki ok fè, en fyrir þitt liðsinni, Áki! vil ek gipta þèr Hildi Buðladóttur, þótt hún eigi áðr bónda. Áki segir: hver munu önnur skapfeldri laun enn þessi, ok eigi þikki mèr at vera[1], þótt Helgi konúngr eigi hana áðr. Eptir þat gekk Áki at eiga Hildi, ok áttu þau einn son, sá hèt Ásmundr, hann var snemma mikill ok sterkr, ok lagðist í víkíng, þegar hann mátti, ok braut undir sik mikinn hermanna afla.

4. Nú er þar til máls at taka, er Hildibrandr er, bróðir hans, son Helga konúngs, en Helgi konúngr fèll í hernaði. Hildibrandr braut undir sik mikinn afla, ok sveimaði víða með her sinn, hann var mægðr við þann konúng, er

[1]) verra, P.

Laszínus hèt, hann var einn enn ríkasti konúngr, hann sótti þángat með vingonarorðum til mágs síns, ok var honum þar vel fagnat, hann tók nú at gerast framgjarn mjök, er aflinn vóx, þá voru hertugar göfgir ok ættstórir í Saxlandi; Hildibrandr Húnakappi fór nú á hendr þeim, ok kvaðst vilja at þeir gjörði honum slíka virðíng, sem hann beiddi, eða þeir mundi sem aðrir sæta afarkostum. Þeir hertogarnir áttu systur, ok var hún mest at ráðum, þvíat hún var þeirra vitrust; síðan áttu þau eintal ok ætlast fyrir, hvat af skyldi kjósa, hún kvað þat meira ráð, at vægjast til hans með skattgjaldi enn eiga orrostu, ok er þat ráð, at ætla sèr hóf en snúast þá til mótstöðu, er styrkr er nâkkvar, kvað hèr svâ mundi fara, sem í öðrum stöðum, at hann mun sigrast. Síðan sögðu þeir hertogarnir, at þeir vilja játa honum skattgildi, hann kvað þat forsjálligt, ok sættast á þat. Hildibrandr Húnakappi braut nú margar þjóðir undir sik; hann spyrr nú þau tíðindi, fall Buðla konúngs, móðurföður síns; hann stefndi þá her at sèr af nýju, ok kvaddi þíngs. Hann mælti, kvað mönnum kunnigt, hverr vandi á var, at fara í hernað, en lèt eigi at högum tilskipt, ef herja skyldi á víkínga eðr á aðra menn fyrir litla sök eðr aungva, en hefna eigi móðurföður síns; eptir þat flutti hann herinn í ríki Álfs konúngs, ok kvað Dani hafa kennt atför um búshagi, hann lèt eisa eldum ok brenna víða. Álfr konúngr sótti nú í mót

með her sinn, ok þegar þeir fundust, börðust þeir. Hildibrandr konúngr hafði berserkja náttúru, ok kom á hann berserksgángr. Ekki var Áki hertogi við þessa orrostu, þvíat hann var í hernaði. Hildibrandr konúngr gekk ígegnum fylkíngar Álfs konúngs, ok var íllt fyrir honum at verða, hjó hann á tvær hendr sèr, ok sótti grenjandi at konúngsmerkinu, ok í þeirri orrostu fèll Álfr konúngr ok margt lið hans, ok eptir þat fóru Húnar aptr. Hildibrandr gjörist þá allra manna frægastr, ok sat jafnan at búum sínum á vetrum, en herjaði á sumrum.

5. Þar er nú til máls at taka, er Ásmundr Ákason var í hernaði, ok þótti víkíngum hann ósvífr í atlögum ok harðgjörr. Eyvindr skinnhöll hèt maðr, danskr at ætt, vænn maðr ok ríkr ok auðigr, ok barsk á mikit, en er þeir feðgar Áki ok Ásmundr komu úr hernaði, þá voru þeim sögð þessi tíðindi, fall Álfs konúngs; þeir sátu nú í kyrðum; Ásmundr vissi nú eigi frændsemi milli þeirra Hildibrands, þvíat móðir hans sagði honum ekki frá. Eyvindr skinnhöll fór á fund Æsu ennar fögru konúngsdóttur, ok kveðst mæla vilja til ráðahags við hana, kvað henni vera kunnigan mannasóma sinn ok fjáreign, ætt hans ok framkvæmd; hún kveðst hafa mundu við ráð[1] vina sinna um annsvör. Eptir þetta berr hún málit fyrir [þá Áka ok Ás-

[1]) *hèr byrjar B.*

mund, fóstbróður sinn. Áki[1] kveðst þessa ekki mundu fýsa[2]. Þá mælti Ásmundr: ekki skaltu eiga Eyvind, mik skaltu eiga; hún segir: fóstbróðir[3]! meira hefir hann nú yfirlæti í landinu[4], ok býr ríkugligar, en þat munda ek ætla, at þú mundir hafa manndóm meira. Ásmundr mælti: legg til hamíngju þína með mèr, ok má þá verða báðum okkr vegr at þessi ráðagerð. Hún mælti: þann ykkarn skal ek eiga, segir hún, er mèr fær fegri hendr í haust or hernaði; síðan lögðu þau niðr þessa umræðu, ok lögðust þeir í hernað báðir eptir vanda, ok hætti Ásmundr opt með miklum háska til stórfánga, ok aflaði svâ fjár ok frama, en Eyvindr var optliga hjá matgjörðarmönnum, ok lèt eigi gánga glófa af hendi sèr[5]. En er at hausti kom, sóttu þeir báðir á fund konúngsdóttur, hvârr með sínum mönnum; Eyvindr gekk fyrri fram, ok bað konúngsdóttur líta á sínar hendr. Ása en fagra mælti: vel hafa þessar hendr varðveittar verit, ok eru hvítar ok fagrar, hafa lítt litat sik í blóði nè ófegraðar[6] í höggum; sjám nú, Ásmundr! þínar hendr, segir hún; hann rètti fram sínar hendr, ok voru þær [öróttar ok heldr dökkvar af blóði ok[7] vopnabiti, ok er hann brá frá klæð-

---

1) Haka fóstra sinn ok Asmund, hvat af skal kjósa; Haki, *B.* 2) ok lèt henni aungva sæmd í slíku gjaforði, ok lèzt eigi heyrt hafa getit framkvæmdar Eyvindar ok stórvirkjar, *b. v. B.* 3) *v. í. B.* 4) enn þú, *b. v. B.* 5) hann var einn jarls son, *b. v, B.* 6) stirnat mjök, *B.* 7) mjök sárar ok ómjúkar af, *B.*

unum, þa voru þær hlaðnar hríngum gulls til axlar; þá mælti konúngsdóttir: þat mun þó mitt atkvæði, at Ásmundar hendr sè fegri með öllu saman[1], ok ertu Eyvindr fráráðinn þessum ráðahag. Ásmundr mælti: þá mun ek tilkosinn, frú! hún segir: fyrr skaltu hefna föður míns, þvíat þann einn samir mèr mann at eiga, er þess rekr rèttar, ok viðr sèr frama á Hildibrandi Húnakappa. Þa mælti Ásmundr: hversu má hann vinnast, er engi sigrast á honum, eðr hvert ráð leggr þú til? Hún segir: heyrt hefi ek, at sverð sè fólgit í Leginum hjá Agnafit[2], ok heyrt hefi ek ummæli á því, ef þat sverð væri borit ímóti því, er Hildibrandr hefir, at hans sverð skyldi undan láta[3], en í nánd vatninu býr gamall bóndi, vin minn, ok mun hann gera þèr farargreiða með mínu tilstilli. Ásmundr kvað þat mundu á finnast, at hann var gjarn til ráðahags við hana, ef hann segði sik í þessa hættu. Eptir þetta fór Ásmundr einnsaman til bóndans, ok sagði honum sitt örendi ok orðsendíng konúngsdóttur; bóndinn bað hann velkominn; hann horfði mjök á Ásmund of kveldit; Ásmundr mælti: hví horfir

---

[1]) þvíat mannliga hafa þær aflat með þínu tilstilli ok stórum áhuga, ok þarftu, Eyvindr! at lypta glófunum, áðr þú aflar slíks, *b. v. B.* [2]) Agðafit, *M.* [3]) hefir Buðli konúngr hèr um búit, en dvergrinn gjörði Olíus ok Alíus; nú ef þessi sverð eru móti borin hvort öðru, þá var svâ fyrimælt, at göfgum manni skyldi at bana verða; en hverr er nú göfgari enn Hildibrandr, ok vildi hún eigi segja honum þar meira af *b. v. B.*

þú á mik? hann kvað sök til vera. Ásmundr mælti: hversu lengi hefir þú hèr búit? hann kveðst þar hafa búit allan aldr sinn, en þar hygg ek nú at því, at hèr gistu fyrir laungu sendimenn Buðla konúngs, en þeir fóru með Hildibrand [til fóstrs til Hildibrands konúngs[1], en þik hefi ek sèð annann vænligstan enn hann, ok honum líkastan at svip. Ásmundr mælti: eigi veit ek, at með okkr sè nein skylda, eðr hvat veiztu til sverðs þess, hvar fólgit sè, er [afrek er frásagt[2]. Hann segir: hèr var ek, þá er því var sökt, ok gjörla hefi ek mið til, hvar þat er fólgit, ok mun enn vera óspilt, at því er ek hygg; þá mælti Ásmundr: fyrir orðsendíng konúngsdóttur þá flyttu mik þángat! hann kvað svâ vera skyldu. Hann hafði með sèr [flikki stór[3] ok eldiskíð. Ásmundr mælti: hvat skal þetta, búandi? hann svaraði: ærit mun þèr kalt, er þú kemr (upp), þóttu bakir þik við þetta. Ásmundr mælti: þú ert ráðigr mjök; síðan fóru þeir á skipi, [ok þá er minnst varir Ásmund[4], mælti búandi: hèr svâna[5]. Síðan [hljóp Ásmundr fyrir borð[6] ok kafaði, ok er hann kom upp, þá vildi hann niðr öðru sinni. Bóndi mælti: þat hæfir þèr eigi, bakastu nú ok snæð! ok svâ gjörir hann, ok öðru

1) *í stað þess frá* [ *hefir B* Helgason. 2) mest afbragð sè, *B.* 3) flikkis stúf, *B.* 4) yfir Löginn, þá, *B.* 5) sva na, *þannig A;* nokkut nærri er vonin, *B.* 6) fór Asmundr af klæðum, *B.*

sinni, er hann kafar, kennir hann stokksins, ok lyptir [nokkut svâ[1], ok fór upp ok bakaðist; ok nú þriðja sinn kafar hann, ok náir hann stokkinum, ok fluttu þeir hann til lands, ok þá hjó Ásmundr upp stokkinn með öxi, ok [gekk af hyrnan, er kom í sverðs eggina[2]. Ásmundr mælti: vel hefir þú veitt, karl! ok þigg af mèr einn gullhríng fyrir þitt starf, ok vitja mín kunnliga, ef þú þarft. Karl þakkaði honum vel, ok skildust. Eptir þat fór Ásmundr heim, ok segir konúngsdóttur; hún sagði: nú er mikit at unnit, ok muntu vera[3] ágætr maðr, nú er ráð fyrir hendi; ek vil senda þik til þeirra hertoga í Saxlandi, er ríkit hafa mist fyrir Hildibrandi, [ok til systur þeirra, því at hún er vitr kona[4], ok er þat mitt ráð at gerast þaðan til slíkra hluta, sem þá vill í hendr bera, því at flesta get ek stopalt gánga fyrir þèr við áræði þitt [ok góðan vâpna kost; ok síðan fór Ásmundr í braut[5].

6. Nú er at segja, hvat í Saxlandi er, at einn dag tók systir hertoga til orða[6]: svâ vísa mèr draumar til, sem oss muni sækja heim ágætr maðr, sá er oss muni verða at mikilli

---

1) ok getr eigi uppkomit, *B.* 2) kom hyrnan í eggina á sverðinu, ok tók hana þegar af, *B.* 3) verða, *B.* 4) en systir þeirra er vitrust af þeim, *B.* 5) ok hillst hana sem mest at ráðum, ok mun þá duga, síðan ríðr hann leiðar sinnar, *B.* 6) ekki kemr mèr á óvart, þótt oss sæki heim stórburðigir menn, því at hèr eru komnar margar dísar; hertogarnir spurðu, hversu hún mætti þat vita; hún svarar, *b. v. B.*

hamíngju, ok vâru ríki. [Þeir bræðr tóku því vel[1], ok um kveldit þess dags sá þeir ríða at höllinni[2] mikinn mann með agætligum vâpnum, ok hertogarnir gengu í móti honum, ok buðu honum þar (at vera); hann lèzt þat þiggja mundu; þeir settu hann milli sín, en systir þeirra skenkti[3], ok settist síðan á tal við hann ok bræðr hennar; hún mælti þá: ekki er oss mjök kunnigt um yðra hagi, en sjá kunnu vèr þat, at mikill tignarsvipr er yfir yðr, ok trúum vèr, at nökkut gott leiði oss af þèr ok þinni hèrkvâmu; nú munu þèr heyrt hafa, [hverja nauð vèr þolum fyrir ofríki[4] Hildibrands Húnakappa; [vèr gengum fyrst undir skattgjald, en nú skulum vèr mæta â hverjum misserum hólmgaunguboðum af hans berserkjum, ok skal æ bú standa við hverja hólmgaungu; höfum vèr nú svâ mist bæði manna várra ok búa, ok eru eigi meir eptir enn 12 bú vârs hertogadæmis[5]. Ásmundr svarar: fru! segir hann, mikinn skaða kæri þèr fyrir mèr, ok nauðsyn væri at hepta þenna storm, ok til þess er ek hèr

---

1) ok var þat fyrirhugat, at betra mundi, at bíða síns hlutar um stund enn berjast við Hildibrand, *B.* 2) staðinum, *B.* 3) skemti honum, *B.* 4) hversu mínkat hefir vârt ríki við tilkvâmu, *B.* 5) en vèr vitum, ef þú vildir afráða þetta áfelli, at batna mundi vor hagr, þvíat nú er eigi meir eptir enn 12 stórbú, þvíat á hverjum misserum, höfum vèr mikit fè útlátit í vora útlausn, ok nú síðan á leið höfum vèr hólm lagt við berserki Hildibrands, ok hafa stórbú við legit hverja hólmgaungu; höfum vèr mist þess ok svâ mannanna, ok gengum vèr fyrst undir skattgjald, ok þetta hefir nú á bak komit, *B.*

kominn, at [verja yðvart ríki, ef ek fæ[1]; hertogarnir segja, at skamt mun líða, áðr [kraft mun vera hólmgaungu[2]; Ásmundr segir: þá verðr því [at svara[3]. Hann er nú þar í góðu yfirlæti.

7. Nú verðr at segja frá Lazíno[4] konúngi ok Hildibrandi Húnakappa[5], mág hans[6]. Hildibrandr segir: mun eigi kominn sá tími, er hólmgaungu skal reyna við hertogana ok menn þeirra, nú væri eigi torsóttligt at ná þeim búum, er eptir eru[7]. Konúngr [mælti: gjörum[8] heldr mann til þeirra, ok vita ef [auðvelligar fáist[9]; sá maðr hèt Vöggr[10], er sendr var; frá hans ferð er ekki sagt, fyrr enn hann kemr til hertoganna; hann gekk í höllina ok fyrir borð, ok mælti síðan: [Lazínus konúngr ok hinn ríki Hildibrandr Húnakappi vilja[11] vita, hvârt þið villð koma til hólmstefnu, eðr láta þrautlaust, þat er [eptir er[12]. Hertogarnir svara: svâ er nú komit at[13], ef ofmikil þikkir vor eiga, at[14] lítit er[15] at missa, hjá því sem góðra drengja. Ásmundr mælti: hví mæli þið svâ? mun eigi því meiri nauðsyn at halda, er minna

1) at láta eigi lengr mínka yðvart ríki, *B.* 2) enn menn Hildibrands mundi koma, ok kveðja hólms, *B.* 3) svâ við at veita, er þar kemr, *B.* 4) Atla, *B.* 5) *v. i. B.* 6) at þeir talast með, *b. v. B.* 7) Atli, *b. v. B.* 8) *þannig B*; *v. i A, P.* 9) náðugligar náist, *B.* 10) Vegr, *hèr B.* 11) konúngr vorr inn mikli ok hinn vitri Hildibrandr vill, *B.* 12) hann kallar til, *B.* 13) *b. v. B*; *v. i. A, P.* 14) *þannig B*; er, *A, P.* 15) þat, *b. v. B.*

ereptir: Vöggr horfir[1] á hann; Ásmundr mælti: hví horfir þú svâ þrátt á mik; hann segir: þat berr til, at ek hefi [eigi sèð enn þriðja mann jafnvirðuligan, sem þið Hildibrandr eruð, hann er ljósari, en þú ert eigi óharðmannligri[2], ok spurt hefir Hildibrandr, at ókuðr maðr var hèr kominn með góð vâpn, ok [ek skylda sjá þitt sverð. Ásmundr bað hann ráða, hann[3] leit nú á, ok mælti: [hèr fara vâpnin eptir yfirsýn þeirra, er eigu, hitt er[4] bjartara, ok gert betr, en eigi er þat snarpara. Ásmundr kveðst eigi þat vita, en vita munt þú vilja þitt örendi; [hann kvað svâ vera[5]. Ásmundr mælti: seg svâ höfðíngjum yðrum, at koma mun maðr af hendi hertoganna til hólmstefnu. Nú reið Vöggr heim, ok kvaddi konúng ok Hildibrand; Hildibrandr mælti: hver svör kanntu at segja af ráðagerð hertoganna. Vöggr svarar: þess er mèr von, at þeir ljúgi[6] eigi hólmstefnu. Hildibrandr mælti: þó eru þeir nú mjök herðir[7], eða veldr því sá enn ókunni[8] maðr, eða með hverjum svip sýndist þèr hann, þú ert glöggþekkinn. Vöggr segir: [hans yfirbragð er með

1) fast, *b. v. B.* 2) þar aungvan sèð virðugligra mann nema Hildibrand, ok er hann þó meiri, en mjök eru þið líkir, ok ekki ertu óhamíngjusamligri í þínum svip, *B.* 3) því var ek sendr, at skynja um allt saman þetta, eðr viltu lofa mèr, at sjá sverð þitt? Asmundr svarar: því skaltu eigi sjá þat, er þú vilt, ok fèkk honum. Vöggr, *B.* 4) þetta sverð ferr eptir yfirlitum þínum, ok Hildibrandr á annat sverð, ok er þat, *B.* 5) Vöggr segir: þat veit ek víst, *B.* 6) *eða* flýi, *A*; muni koma, *B.* 7) upphertir, *B.* 8) útlendi, *B.*

því, at hann er látaðr vel ok alllíkr yðr í augum[1], ok sýndist mèr líkligr til, at vera muni ofrhugi, ok þat sverð hefir hann, er ek sá ekki jafnlíkt því sem þú hefir; [ok þat hygg ek, at or einum afli (sè) borin[2]. Hildibrandr mælti: mikit finnst þèr um þenna mann, ætlar þú eigi, at mitt sverð muni vera, eðr hann muni minn jafníngi vera? Vöggr svarar: eigi veit ek, hvârt hann er þinn jafníngi, hitt veit ek, at sá, er bersk við hann, kemr í þá raun, at hann er víst[3] dugandi maðr. Hildibrandr mælti: framarla segist þèr frá, [ok nú lætr Hildibrandr einn af sínum köppum ríða til hólmstefnu[4].

8. [Ok nú er Ásmundi sagt, ok nú biðr hann[5] taka sinn hest ok sín herklæði; hertogar mæltu: vèr bjóðum þèr vârt lið; hann kvað einn skyldi einum ímót koma; [hann ríðr nú þángat, sem hólmstefnan skyldi vera[6], ok nú riðust þeir at með brugðnum sverðum, ok et fyrsta[7] högg hjó Ásmundr hann sundr í miðju, fleygði

[1]) hann sýndist mèr væun ok tíguligr ok mikill vexti ok yðr um allt líkr at sjá, eygðr manna bezt, látaðr vel ok sterkmannligr, *B.* [2]) *v. í B.* [3]) vaskr ok, *B.* [4]) nú komi hann til Masshellu (hellu *óskírt*) til móts við einhvern vorn mann! *B.* [5]) Hildibrandr sendir nú mann til hertoganna, ok segir svá: þat býðr enn ríki Hildibrandr þeim hinum stóra, at hann komi í móti við hann, ef hann treystir sèr. Asmundr svarar: ek mun koma í þann stað. En sendimenn (fara) burt, en Asmundr lèt, *B.* [6]) Fór Asmundr, ok kemr af ánni Rín, þar sem hólmgángan var stefnt, þar kemr í móti honum einn af köppum Hildibrands, *B.* [7]) *hèr endar B.*

síðan hlutunum út á ána, ok rak þá fyrir höfuðborg[1] konúngs. Hildibrandr mælti: seint sækist vârum fèlaga, at leysa þenna enn ókunna mann. Síðan mælti maðr einn: herra! segir sá, hèr mun kostr at sjá hann, er hann rekr eptir ánni, ok er nú í tveim hlutum; hann mælti: ærit er þessi stórhöggr, ok skipizt nú tveir af vârum mönnum, ok leysið hann því skjótara af hendi! þeir kvoðu eigi þat mikit verk. Hildibrandr mælti: vârt gagn er þat, ef þið vinnið skjótt sigr á honum. Ok annann dag eptir riðu þeir til vígvallar 2 móti Ásmundi; hann mælti: hèr hafa berserkir fásèn lög, er 2 sverð koma í móti einu, en albúinn em ek at fresta þetta víg við ykkr tvâ. þeim þótti úvirðuligt at standa tveim fyrir einum, ok hjuggu báðir til hans, en hann brá fyrir sik skildi, ok hjó sínu höggi hvârn til bana. Síðan reið hann aptr til hertoganna, en þeir gengu í móti honum með fagnaði; hann kveðst ætla, at aptr hefði unnizt 3 bú þeim til handa í hans ferð; þá mælti systir hertoganna: eigi hafa vilzt vârir draumar um þessa manns kvâmu, hann sat nú þar í veg miklum, ok hlaut af þessu frægð mikla. þettavar nú sagt Hildibrandi, ok hann mælti: ekki undr þikki mèr þetta, þóat einn maðr sigri 2 menn; nú skal skipa 4 mönnum í mót honum. Kapparnir kvoðu þat auðsætt, at þeir mundu skipta honum í sundr í 4 staði, ok nú riðu þeir til víg-

[1]) höfuðbæ, *B.*

vallarins með góðum hjálmum ok hvítum brynjum ok hvössum sverðum. Nú komu þessi tíðendi fyrir Ásmund ok hertogana; þá báðu þeir, at hann skyldi fara með jafnmörgum mönnum; hann kveðst eigi þat vilja; lèt þat vænst, at einn mundi senn einum í móti, en kvað mikit árnast, ef 4 bú fengist. Ok því næst fundust þeir. Ásmundr mælti: þat er auðsætt, at èr þikkizt lítils verðir ok þèr skipizt 4 í móti einum, ok eigi megi þèr kappar heita heldr safnaðarmenn. Þeir urðu ákafa reiðir við orð hans, ok sóttu at honum þegar, en þat sverð, er hann bar, beit brynjur ok hjálma jafnslètt sem næfr, ok eyrði ekki mannsbeinum nè holdi, en sá reiddi til, er sterkan armlegg hafði, ok gott hjarta, þeir fengu stór sár af honum, ok skamt var í milli, ok drap hann þá 4, ok rak þá útá ána með hestunum. Nú frèttir Hildibrandr þetta, ok mælti: er nú annathvârt at menn vârir eru minni til herskapar enn vèr hugðum, eðr elligar er sjá forgángsmaðr. Hann kallar þá til sín 5 hina grimmustu kappa sína, ok kvað þeim eigi ofætlat, þótt þeir sigraði einn mann, þeir kvoðust ætla at færa í hóf hans dul, ok gefa dýrum hræ hans; síðan gánga þeir út, en er Ásmundr spyrr þetta, þá mælti hann: í dag ætla ek at vinna til borðhalds mèr, þeir kvoðust ætla ugga, at hann mundi ofmikit ætla sèr, en kvoðust alla sæmd honum at launa eiga. Síðan hittast þeir, ok börðust þegar, ok hjó Ásmundr stórt ok tíð-

um, ok lauk svâ at hann drap þá alla. En er Hildibrandr spyrr þetta, mælti hann: seint dofnar hans hönd, ok skamt skal til, at hann skal ná at berjast. Þá gerist í skálanum ýmr mikill af grenjun berserkjanna, er sjá einn mann skal gánga yfir svâ marga menn. Þá mælti Hildibrandr: búist nú 6 vârir menn, ok mátti þèr þá vinna þá frægð at hefna vorra manna. Síðan fóru þeir til hólms, ok þá er Ásmundr spyrr þetta, bjóst hann skjótt, ok mælti: þat sverð hefi ek, at jafngott er at drepa með 6 menn sem 3; ok síðan funðust þeir, þá mæltu kapparnir, at hann skyldi laust láta sverðit, ok gefast upp; hann segir: þat mun eigi at óhöggnum skildi, er yðr ókærin nauðsyn at hefna yðarra manna. Síðan börðust þeir, ok sóttu hann fast; hann kunni et sama lag á, at höggva sverðs egginni nú ok fyrr, ok þótt hann fengi sár, þá linaði hann ekki sverðshöggunum, ok hjó suma sundr í miðju, ok svâ lauk, at hann drap þá alla, ok fór aptr til hertuganna. Þeir gjörðust fjölmennir, er ríkit vannst æ undir þá, ok nú er í hvers manns húsi umræða um þenna kappa. Ok enn komu þessi tíðindi fyrir Hildibrand, ok mælti hann: rýrt verðr nú tal vârra manna, eðr hvat er nú eptir? herra! segja þeir, eptir eru 7 ok 20; (Hildibrandr svarar): svâ mun nú mega metast hèðan í frá, at þessi enn ókunni maðr með taliðr með stórköppum, ok svâ bleðr[1]

[1]) *þannig.*

hann af, sem við munum hittast verða, en senda skal enn 7, þá er lengi hafa í minni þjónustu verit; síðan bjuggust þeir. Ásmundi var sagt nú, at eigi mundi setuefni;. hann segir: er þat þá eins snæðíngs hald, ef næðust 7 bú. Síðan fór hann, ok komu í móti honum 7 kappar; þá mælti Ásmundr: fyrir hví hleypir Hildibrandr út mönnum sínum, en sitr heima sjálfr, ok etr á mik smámenni? Þeir reiddust mjök við orð hans, ok kváðu hann í aungva raun koma skulu, at berjast við Hildibrand. Síðan börðust þeir, ok hversu sem at ortist, þá drap hann þá alla; síðan hratt hann þeim útá ána, en er Hildibrandr frá þat, þá mælti hann: miklu eru nú stærri atburðir orðnir, enn vèr megum láta afhyggjast; nú skulu at honum 8 berserkir, þvíat engum vârum er líft við þat, ef eigi verða hefndir. Síðan grenjuðu þeir mjök, ok bitu or skjöldum, þat er tók; en Ásmundr var með hertogunum, ok komu honum þessi tíðindi, at enn mun kostr at berjast. Þá mælti systir hertoga: sæmd sú, er vèr lètum, er nú öll aptrkomin, ok með meira mætti, enn vèr höfum [spurdaga til[1]. Ásmundr segir: skulum vèr tilhætta, þvíat hann vill berserkjunum út egna, en engi máttr er yfir þeim, ok betra mundi, at þeirra ríkdómr legðist [við vårt ríki[2], þvíat èr mistuð rángliga. Síðan reið hann í mót þeim, ok þegar þeir funðust, börðust þeir, ok var sjá

[1]) áðr haft, P. [2]) til vâr, P.

fundr lengstr, en svâ lýkr, at hann drepr þá alla. En er Hildibrandr spurr þetta, eyskraði hann mjök, ok mælti: sjá maðr er hamíngjudrjúgr, er ekki tjóar mannmergð móti; nú skulu at honum þeir 11, sem eptir eru. Ok er Ásmundr spyrr þetta, þá þagnaði[1] hann. Hertugarnir mæltu: nú viljum vèr skipa liði með þèr, en þú ver forínginn, ok mun þèr þá sigrast, en þú bersk eigi einn við svâ marga ofrhuga! Ásmundr svarar aungvu, ok kom aptan, ok snæða menn, ok fóru síðan at sofa. Ásmund dreymdi, at konur stóðu yfir honum með hervâpnum, ok mæltu: hvat veit óttabragð þitt, þú ert ætlaðr at vera forgángsmaðr annarra, en þú óttast 11 menn, vèr erum spádísir þínar ok skulum [þèr vörn veita móti mönnum þeim, er þú átt við at reyna[2]; við þetta spratt hann upp, ok bjóst, en flestir löttu hann; síðan reið hann í móti köppunum; en þeir þóttust ráð hans í gaupnum hafa, ok lètu honum betr hent at gánga á hönd Hildibrandi, enn látast[3]. Hann kvað þá sèr eigi ófalari til dauða, enn þeir sem fyrr drap hann, ok kvað þat auðvitat, at mikill mundi verða frægðar munr eins ok 11. Síðan börðust þeir, ok kríngðu um hann, en hann var torsóttr, ok festust vâpnin lítt við hann, en sverð hans beitt allt, þat sem fyrir varð ok þat

---

[1]) fagnaði, *P.* [2]) *b. v. P*; *v. í A, þó er engin eyða fyrir því.* [3]) eptir, *b. v. P.*

tók, ok lauk svâ, at hann veitti þeim öllum bana. Hertogarnir höfðu fylgt honum, ok kváðu hans afrek aldrí mundu fyrnast, ok gerðist þat orð manna, at hann mundi eigi undan (víkja), þótt sjálfr Hildibrandr Húnakappi kæmi í móti honum, er manna var frægastr í þann tíma.

9. Ok er Hildibrandr frá þetta, at kappar hans voru drepnir, þá kom á hann berserksgángr, ok snèrist þegar til ferðar, ok mælti: eigi skal þat mælt, at ek hætta mönnum mínum út, en þorak eigi sjálfr at berjast; en í vanstilli þessu, er á honum var, ok hann var á ferðina kominn, þá sá hann son sinn, ok drap hann þegar. Síðan ók hann upp með ánni Rín til móts við Ásmund; þann skjöld hafði hann er á voru markaðir menn svâ margir, sem hann hafði drepit. En er Ásmundr spurði þetta, þá bjóst hann til móts við hann. En þegar er þeir fundust, þá börðust þeir, ok voru flest högg ærit stór. En er þeir höfðu lengi barizt af mikilli reiði, þá neytti Hildibrandr afls, ok hjó til Ásmundar af öllu afli tveim höndum, ok í því er sverðit kom í hjálminn, þá brast þat sundrundir hjaltinu, ok fór brandrinn grenjandi niðr í ána, en hann varð sár mörgum sárum; síðan kvað hann vísur þessar:

Mjök er vandgætt,
hve verða skal,
ofborinn öðrum
at banorði;

þik drótt of bar
af Danmörku,
en mik sjálfan
á[1] Svíþjóðu.
Tveir voru þeir[2]
tyrvir gjarnir
Buðla nautar,
nú er brotinn annar;
svâ höfðu dvergar
dauðir smíðat,
sem engi mun
áðr nè síðan.
Stendr mèr at höfði
hlíf en brotna,
eru þar taldir
tigir ens átta
manna þeirra
er ek at morði[3] varð;
liggr þar enn svasi
sonr at höfði
eptir erfíngi
er ek eiga gat
óviljandi
aldrs synjaðak.
Bið ek þik, bróðir!
bænar einnar,
einnar bænar
eigi þú synja;
mik skaltu verja

1) af, *P.* 2) þar, *P.* 3) bana, *P.*

våðum þínum,
sem fjörs bani
fár annars mun.
Nú verð ek liggja
lífs andvana
marki undaðr
þanns magna sár.

10. Eptir þat dó Hildibrandr Húnakappi; ok gerði Ásmundr virðugliga leizlu hans, ok hugði þá illa sínu verki. Hann hitti þá ekki hertugana, ok fór þá á þann bæ, er móðir hans átti ok Æsa en fagra konúngs dóttir; þá ætlar maðr at biðja hennar; Ásmundr kvað, er hann kom í hallar dyrnar:

Lítt varði mik
laga þeirra,
at mik manns einskis
ófyrr kvæði,
þá er mik til kappa
kuru Húnmegir
átta sinnum
fyrir jöfurs ríki.
Börðumst einn við einn,
en endr við tvo,
fimm ok fjóra
fletmegnínga[1];
sex ok við sjö
senn á velli,
einn ek við atta,
þó ek enn lifi.

[1]) fletmennínga, *P.*

Þá hvarflaði
hugr í brjósti,
er menn ellifu
ofrkapp buðu,
áðr mèr í svefni
sögðu dísir,
at ek hjörleik þann
heyja skyldak.
Þá kom enn hári[1]
Hildibrandr,
Húnakappi,
hann var mèr ómakr[2],
ok ek markaða
meðan á honum
herkumbl harðlig
fyrir hjálm neðan.

Eptir þat fögnuðu menn honum vel, ok var hann kallaðr Ásmundr kappabani. Konúngsdóttir bað hann af sèr reiði, þótt hún hefði verit í tilstilli um þetta, ok lèt vârkunn við sik, en lèt mikit atkvæði fylgt hafa vâpnunum, en þótt hann hefði reiðzt henni, þá minntist hann ástar hennar við sik, ok gerði brúðlaup sitt, ok gekk at eiga Æsu hina fögru, en drap þann, er hennar hafði beðit, ok er sá eigi nefndr. Síðan gjörðist Ásmundr kappabani víðfrægr, ok [nafnkunnugr maðr[2], ok lýkr þar þessari sögu.

1) harri, P, 2) mád' í A.

# Friðþjófs saga frækna.

1. Beli hefir konúngr heitit, er rèð fyrir Svignafylki; hann átti tvo sonu ok eina dóttur; Helgi hèt son hans, en annar Hálfdán; dóttir hans er Ingibjörg nefnd; hún var væn ok vitr ok at öllu fremst konúngs barna. Drottníng Bela konúngs var önduð. Þaðan frá skamt fyrir vestan fjörðinn var sá staðr, er þeir kölluðu Baldrshaga; þat var griðastaðr ok hof mikit. Ingibjörg konúngsdóttir var fóstruð með þeim manni, er Hildíngr hèt; hann var ríkr bóndi. Þorsteinn hèt ágætr maðr, er bjó í Sogni; hans son hèt Friðþjófr, hann var manna vænstr ok enn mesti íþróttamaðr ok lángt fyrir konúngssonum. Friðþjófr var jafnan með Hildíngi, ok voru þau konúngs dóttir fóstrsyskin, ok báru þau lángt af öðrum mönnum. Tveir menn eru nefndir til sögunnar; hèt annar Björn, en annar Asmundr; ekki voru þeir stórættaðir; þeir voru fóstbræðr Friðþjófs. Konúngr var velauðigr at lausafè, en Þorsteinn hersir hafði þriðjúng af ríkinu, ok skyldi vera landvarnarmaðr fyrir konúng, ok var konúngi enn mesti styrkr at honum. Hann gjörði konúngi veizlu eð þriðja hvert ár, ok voru þær veizlur hinar stórmannligustu. Beli konúngr tók sótt, ok heimti sonu sína til sín, ok mælti: þessi sótt mun heimta mik af ríki mínu ok lífinu með; vil ek biðja ykkr, at þèr hafið þá vini, sem ek hefi áðr haft, þvíat mèr sýnist ykkr skorta allt við þá feðga, ok munu þeir vinhollir, ef þið kunnið til at gæta. Ekki skal fè bera í haug hjá mèr; haugr minn skal standa hjá firðinum; en skamt mun okkars Þorsteins í millum verða, ok er við

köllumst á; ok síðan dó hann. Ok þá tók þorsteinn sótt, ok mælti: þess vil ek biðja þik, Friðþjófr! at þú sveigir til við konúngssyni, þótt sèrt þèr eigi ónægri enn þeir, þvíat svà á vera fyrir tignar sakir, ok vel segir mèr hugr um þitt. Síðan dó hann, ok var hann heygðr gegnt Bela haugi. Björn mat Friðþjófr mest, en Asmundr þjónaði. þat skip átti Friðþjófr, er Elliði hèt, annar gripr var hríngr, er engi var slíkr. þat lèk orð á, at Friðþjófr þótti eigi minni sómamaðr fyrir utan konúngs tign enn konúngs synir, ok fundu menn þat á, at með þeim konúngsdóttur ok Friðþjófi var vel ástúðigt í milli. þat fundu þeir konúngssynir, ok líkaði allilla, ok gjörðist fæð á með þeim Friðþjófi. Nú kom at því, at konúngssynir áttu at sækja þángat veizluna, ok gekk hún at vanda fram. Friðþjófr talaði opt við Ingibjörgu konúngsdóttur, ok þá mælti hún: góðan hríng áttu, segir hún. Hann svarar: ekki á ek þat, er ek hefi eigi aflat. Hún svarar: þat er mál manna, at sá eigi fè, sem lifir, en ekki dauðir menn. Hann svarar: kostr mun þèr at eiga hrínginn, ok lóga eigi, send mèr aptr, ef þèr leiðist at eiga hann! Hún svarar: þú skalt hafa í móti hrínginum, er ek á, ok svà var. Eptir þat skildu þau. Hann var nu fámálugr. Björn, fóstbróðir hans, spurði, hvat honum væri. Hann svarar: kvonfáng er mèr í hug; þótt mèr sè þat oftign, þá em ek þó eigi minni háttar. Björn segir: því skulum vèr þá eigi fara ok ýfa þetta mál. Síðan fóru þeir. Konúngarnir sátu á haugi föður síns. Friðþjófr kvaddi þá, ok mælti: þat er erindi mitt híngat til yðar, at ek vil biðja systur yðarrar. þeir svöruðu: eigi er þessa virðuliga leitat, at gefa hana ótignum manni, ok ekki vitum við þess á henni, at hún mun ótignum manni gefin verða. Hann svarar: þá er skjótt sagt, at ek mun yðr aldrí lið veita. þat hirðum við aldrí, sögðu þeir. Hann kom heim aptr, ok tók Friðþjófr aptr gleði sína.

2. Hríngr hèt konúngr, er rèð fyrir Svíþjóð; hann mælti við sína menn heimugliga við vini sína: þat hefi ek spurt, at synir Bela konúngs hafa slitit vinfengi við Friðþjóf, er ágætastr er allra þeirra. Nú vil ek senda menn mína á fund þeirra, at þeir gángi á hönd mèr, ella mun ek gjöra lið á hendr þeim, ok mun laust ríki, því þeir hafa hvorki við mèr liðsafla nè vitsmuni, ok er gott á gamals aldri, at vinna þá yfir. Sendimenn kvomu til Bela sona, ok mælti svâ: Svíakonúngr sendir yðr orð, ok vill at þið gjaldið þeim skatt, eðr berizt við hann ella; en þeir sögðust eigi vilja þjóna honum á únga aldri við sköm ok svívirðíng, ok fóru sendimenn með þeim orðum aptr til konúngs síns. En konúngssynir söfnuðu liði, ok fengu lítit lið, ok sendu orð Friðþjófi, ok báðu hann liðs. En hann sat at tafli, er sendimenn kvomu til hans; þeir mæltu: konúngar vorir senda þèr kveðju ok vildu þiggja liðsinni þitt til orrostu með sèr. Hann svaraði öngu, ok mælti við Björn: leita ráðs fyrir, at tefla, því tvíkostr er þèr á tvo vega, segir hann. Þá mæltu sendimenn: heyrir þú vort mál? Friðþjófr segir þeim, honum kveðst löngu heyra, en lið mun ek þeim aldri veita. Síðan fóru sendimenn aptr, ok sögðu svâbúit þeim bræðrum. Eptir þat bjuggust þeir til ferðarinnar, ok kvoðu þat mundu ráð at flytja systur sína í Baldrshaga, ok 8 konur með henni, því þar er engi svâ djarfr, at þángat fari. I einum garði var hof mikit ok goðablót, ok skíðgarðr um hofit, ok skyldi þar ekki samankoma konur ok karlar. Konúngar fóru í hernað í móti Hríngi konúngi, sem fyrr var sagt. Þat var einn tíma at Friðþjófr bað sína menn at setja fram skipit Elliða: ok vitum hvort hann kann ekki at skríða í Baldrshaga! Nú kvomu þeir þar, ok voru viðtektir góðar, settist Friðþjófr hjá konúngsdóttur, ok allir hans menn skipuðu sæti. Konúngsdóttir mælti: fast sækir þú, Friðþjófr! er þú vilt halda her þínum híngat í Baldrshaga.

Hann svarar: ekki hirði ek um Baldr eðr blót yðar, jafngóðir eru manni máls endar hèr sem heima. Þar skorti ekki drykk ok góða gleði. Fór nú svâ fram hvern dag, á meðan konúngar voru í burtu, at þeir fóru þángat at skemta sèr.

3. Nú er at segja frá viðrskiptum konúnga, er þeir fundust, at Hríngr konúngr hafði miklu meira lið enn þeir bræðr; gengu þá í milli vinir beggja, ok báðu þá sættast. Þá mælti Hríngr konúngr: vilja konúngar gánga á mitt vald ok gipta mèr systur sína ok gefa henni lausafè, svâ henni sómi vel? En með því at konúngar höfðu lítit lið, þá játuðu þeir þessu, ok bundu þetta með svardögum, ok skildust þar vinir, ok fóru þeir bræðr heim. Ok nú er at ræða um Friðþjóf; hann mælti til konúngsdóttur: vel hafi þèr oss fagnat, en nú mun ek heim fara at sinni, en ef konúngar eru heim komnir, þá gjörið oss vissu á einhvern hátt! En konúngsdóttir svaraði: ekki gjörir þú at dæmum þeirra viðvörun, en at vísu eigum vèr óvinum at mæta, ef þèr komið aptr. Eptir þat fóru þeir heim, ok um morguninn gekk Friðþjófr út, ok mælti: nú má vera, Björn fèlagi! at fyrst hepti skemtunarferðum vorum í Baldrshaga. Nú koma konúngar heim, ok fregna hvat fram hefir farit, á meðan þeir voru í burtu; gjörðu þeir sik stórliga reiða, ok sögðu sèr gjörða mikla svívirðíng; fóru þá enn vinir þeirra í millum, ok báðu Friðþjóf at gjöra nokkura yfirbót við konúnga. Hann mælti: sá einn hlutr er í friðargjörð af minni hendi, at gjöra minníngar við hina fyrri menn, en öngvan trúleik munu vèr þeim sýna. Þá mæltu sendimenn: þat vilja konúngar taka í sætt, at þèr heimtið skatt af jarlinum Angantýri, er ræðr fyrir Orkneyjum; þvíat sá skattr hefir lengi niðrlegit. Friðþjófr svarar: þá viljum vèr, at fè vort hafi frið; ok því var heitit honum. Síðan bjuggust þeir Friðþjófr ok menn hans 13 til skipsins Elliða. Svâ var tilætlat,

at Hríngr konúngr skyldi sækja konúngsdóttur um haustit. Ok er Friðþjófr var í burtu farinn, þá mælti Helgi: þat mun bezt vera, bróðir! at Friðþjófr taki nú hegníng, munu við brenna bú hans. Síðan brendu þeir bæinn á Framnesi. Eptir þat keyptu þeir at fjölkunnigum konum, at þær gjörði æðiveðr at þeim Friðþjófi ok mönnum hans. Nú sem þeir kvomu skamt frá landi, þá ókyrði sjóinn, ok gjörði storm mikin, þá kvað Friðþjófr vísu:

Þat var forðum
á Framnesi
rèra ek opt á tal
við Ingibjörgu;
nú skal ek sigla
í svölu veðri,
ok láta lètt undir mèr
lögdýr bruna.

Ok mun nú kostr, segir hann, at reyna góða liðsmenn, ok er þetta eindælla enn í Baldrshaga. Björn segir: slíkt er von, at eptir mundi koma, ok tökum þessu enn vel! Ok síðan kafaði stórliga skipit, en þeir ruddust um ágæta vel, því góðum drengjum var samansamnat. Þá kvað Friðþjófr vísu:

Eigi of sjór til alda,
erum vestr í haf komnir,
allr þikki mèr ægi,
sem (í) einmyrju hræri;
hrynja háfar bárur,
haug verpa svan flaugir,
nú er Elliði orpinn
í ákafa báru.

Björn segir: svâ er, fóstbróðir! segir hann: ekki sakar enn, þótt þær glumri á borðunum, ok enn kvað Friðþjófr vísu:

Mjök drekkr á mik,
mær mun klökna,
ef ek skal sökkva
í svanabrekku;
austr er orðinn
í Elliða
þola blærra
á blik mikit.

Björn mælti: þess minnir þik; ætlar þú at hinar sygnsku meyjar tárfelli eptir þik? Hann segir: kemr mèr þat í hug. Síðan eptir þetta gjörði svâ mikinn storminn, at fèll fossum inn á bæði borð; þá kvað Björn vísu:

Ek em at sem ekki
at austr fyrir oss drekki
björt baug vara
biði nær fara;
sölt er augu
ef saka í laugu
bil skorðs arma
birtir mèr í hvarma.

Friðþjófr mælti: svâ mun þèr þikkja; ýmist verðr at freista. Þá kvað Asmundr vísu:

Þá var svarf við siglu
er sætr of mèr gmíði,
ek varð einn með átta
innanborðs at vinna
dælla er til dýngju
dögrverð konum at færa,
enn sjó Elliða at ausa
á úrígri báru.

Þá mælti Friðþjófr: nú brá þèr í þrælaættina. Friðþjófr kvað:

Sat ek á bólstri
í Baldrshaga,
kvað hvað ek kunna
fyrir konúngsdóttur;
nú skal Ránar
ra'ban troða,
en annar mun
Ingibjargar.

Björn mælti: nú eru kviður stórar í, fóstbróðir! Mæl aldrí slíkt, at æðra sè í orðum þínum! Friðþjófr segir: eigi er þat nú traust, at mèr komi þat eigi í hug; hann kvað:

Þess hefik gángs of goldit,
gekk mèr þar .....
ambáttir átta
með Ingibjörgu á þíngi;
saman höfum brenda bauga
í Baldrshaga lagðar,
varar vigri fjarri
verðr Hálfdánar garði.

Björn mælti: við slíkt er nú at una, fóstbróðir! ok í því kom svâ mikit áfall á, at úr laust borðin, ok fórust 4 mennirnir. Þá mælti Friðþjófr: nú er víst, at til Ránar skal fara, ok búumst vaskliga, ok skal hverr gull hafa á sèr ok höggva í sundr hrínginn Ingibjargarnaut, ok skiptum með oss! ok þá kvað hann vísu:

Nú hefir fjórum
offarit vorum
lögr lagsmenn,
þeim er lifa skyldu;
en Rán gætir
röskum drengjum
siðlaus kona
sess ok rekkju.

Björn mælti: eigi er slíks örvænt, enda eigi vísa von. þá kvað Friðþjófr:

þann skal hríng um höggva,
er Hálfdán átti,
áðr oss tapi ægir,
auðigr faðir rauðan;
sjá skal gull á gestum,
ef vèr gistíngar þurfum,
þat dugir rausnar rekkum
í Ránar sal miðjum.

Nú fundu þeir, at skríðr varð á skipinu mikill, en óknnnigt var þeim, hvar þeir voru komnir. Síðan fór Friðþjófr upp í trè, ok kom ofan aptr, ok mælti: sá ek nu mjök kynliga sýn; hvalr einn liggr í hríng um skip vort, ok vèr eigum landa von nær oss, ok get ek hann vili banna oss landit, ok hygg ek þá Helga ok Hálfdán búa við oss eigi vingjarnliga, ok munu þeir hafa sendt oss vinsendíng. Tvær konur sá ek á baki hvalnum gjöra oss fararbann. Nú munu vèr tilhætta, hvort meira má gipta vor eða trölldómr þeirra, ok stýrum at þeim! þá kvað hann vísu:

*Sé ek tröllkonur*
tvær á báru,
þær hefir Helgi
híngat sendar,
þeim skal sníða
sundr í miðju
hrygg Elliði,
áðr af hafi skríði.

Síðan eggjaði hann fast sína menn, ok kom svå með frækleik hans, at þeir brutu hrygg ok leggi í hvorritveggju hamhleypunni. Síðan kyrði sjóinn, ok marði þó skipit uppi, ok voru þeir þá komnir at landi; en svå nær var þeim ekit, er eptir lifðu, at Friðþjófr gat komit þeim öllum á land, nema Björn einn gat borgit sèr. Friðþjófr breiddi á háseglit, ok kvað vísu:

Eg bar átta
til eldstaðar
væsta drengi
í drífa veðri;
nú hefik segli
á sand komit,
er eigi hafsmegin
hægt at reyna.

Ok enn kvað hann:

þurfum ei drengir
dauða at kvíða,
veri þjóðglaðir,
þegnar mínir!

þat mun verða, at ek eiga mun
ef vitu draumar, Ingibjörgu.

Björn mælti: enn kemr hún þèr í hug, dællra er nú, ok gjörir þú nú mannliga. Þar skamt í frá rèð fyrir Angantýr jarl. Enn bar til nýlundu, at maðr drakk viti sitt, er Hallvarðr hèt, ok skyldi sitja á skála um nóttina í móti veðri; hann hèlt á horni, ok sèst um, ok getr at líta ferðir manna, ok kvað vísu:

Er at skála
skjól at sitja
drekka vestir
víkíngar sem vor inni,
eru hraustari
þeir er hlunn geta,
drengir ausa
í drífaveðri.

Enn kvað hann:

Sex sè ek ausa,
en sjö róa
væsta drengi
í drífaveðri;
þar er gunnhvötum
glíkt í stafni
en Friðþjófr frami
fellr við árar.

Síðan gekk hann at byrlaranum, ok kvað vísu:

Gakk þú á gólfi
gá fögur kona!
á horni haldandi,
hefik af drukkit;
menn sè ek á mar,
þá er munu þurfa
hreggmóðir liðs,
áðr höfn taki.

Jarlinn mælti: hvat er til tíðinda? Herra! segir hann, menn dragast at landi, ok hygg ek vera allgóða drengi. Gángið vel fram í móti þeim, ef þar er kominn Friðþjófr, er einn er ágætastr. Atli hèt víkíngr, þeir voru 12 saman; hann mælti: þat er mèr sagt, at Friðþjófr hafi þat heitstrengt, at hann muni öngvan fur friðar biðja, ok er nú þat at reyna, ef svá kemr til. Hallvarðr kvað þat óskylt at reyna. Síðan kvomu þeir at, í því er Friðþjófr vaknaði, þvíat honum hafði höfgat mikit. Atli mælti: hitt er nú ráð, Friðþjófr! at verða vel við, ok sanna eð fornkveðna, at öndverðu skulu ernir klóast, enda muntu ekki þikkjast þurfa griða at biðja. Friðþjófr kvað vísu:

Þèr munuð ekki
oss of kúga,
æðrufullir
eyjarskeggjar!
heldr mun ek gánga,
enn grìða biðja,
enn til ógnar
við yðr tíu.

Síðan kom Hallvarðr, ok mælti: hættið þessu ræðu; allir sèu þeir hèr velkomnir, svà vill jarl vor, ok farið til hallar! Friðþjófr kvað sèr þat vel líka, en sæma þó virðíng hvoratveggja. Hallvarðr mælti: heyrt hefi ek getit þín, enda erum vèr at sönnu komnir, ok hafi þèr komit í mikla mannraun. Hann kvað vísu:

Jusum vèr, en yfir
fèll úr svala báru,
teitir á tvö borð
tíu dægr ok átta;
þat var kynvar
kvenna drengja
hversu vèr fórum
með firði.

Nú voru þeir í góðu yfirlæti. Friðþjófr gjörðist ókátr. Jarlinn mælti: því ertu svà fálátr, Friðþjófr! því vèr viljum vel til þín gjöra, ok ef þú ferr, skatt at heimta, þá liggja þar skjót svör fyrir, at konúngarnir þeir fá öngvan skatt ok öngvan góðan hlut af oss, er einskis góðs verðir eru af oss; en þú skalt þat fá, sem þú beiddist, ok gjör þat af fènu, sem þèr vel líkar, en ekki hræðumst ek þá. En mun ek þat þiggja, segir Friðþjófr, ok var hann þar í góðu yfirlæti hjá jarlinum.

4. Nú er at segja frá því, at Hríngr konúngr kom til veizlunnar, ok gekk at brúðhlaupi sínu. En þat hafði orðit til tíðinda, at hinar fjölkunnigu konur höfðu fallit ofan af seiðhjalli sínum, ok er veizlan var úti, sá Hríngr konúngr hrínginn Friðþjófsnaut á hendi Ingibjargar, ok mælti: hvaðan kom þèr hríngr sá? Hún kvað þat vera erfð sína. Nei, segir hann, Friðþjófr mun hafa gefit þèr hann heldr; ekki skaltu hafa gull hans, þvíat fá muntu gull í mínu ríki. Síðan fèkk hún hrínginn í hönd konu Helga, ok bað hana senda Friðþjófi, sem þau höfðu með sèr mælt. Eptir þat fór konúngr heim í ríki sitt, ok Ingibjörg með honum. En er Friðþjófr bjóst í burt úr Orkneyjum, lèt jarl bæta skip hans, ok skildust þeir

með hinni mestu blíðu, Angantýr jarl ok Friðþjófr. Síðan komu þeir aptr til Noregs ok í Sogn, ok fyrir bæ þann, er átt hafði Friðþjófr. Þá mælti hann: sortnat hafa nú bygðirnar hèr, á meðan vèr höfum í burt verit. Hann hefir nú mál við sína menn, ok verða honum allir fegnir, ok sögðu honum tiltekju konúnganna. Hann kvað þá vísu:

| | |
|---|---|
| Drukkum forðum | nú sè ek brendan |
| á Framnesi | bæ þann vera, |
| fræknir drengir | á ek öðlíngum |
| með föður mínum; | íllt at gjalda. |

Hann spurði þá at, hvar konúngarnir voru, en honum var sagt, at þeir væri í Baldrshaga, ok blótuðu goð sín. Þá mælti Friðþjófr: hvat sýnist þèr, Björn! segir hann, hversu með skal fara? Björn mælti: þik læt ek hafa ráð fyrir oss, segir hann. Þá ætla ek at færa þeim skatt sinn, hversu sem af hendi verðr leystr; ok svâ gjörðu þeir, ok gengu frá skipi. Þá mælti Friðþjófr við Björn: við munum gánga uppá land, en þeir skulu brjóta skip þeirra á meðan; því at svâ eins mun af hendi greiddr skattr þeirra, at ólíkligt er, at oss þikki einn veg öllum. Konúngarnir sátu í húsinu goða sinna, en konur þeirra bökuðu goðin við eldinn. Þá kvað Friðþjófr vísu:

| | |
|---|---|
| Einn mun ek gánga | verpi þèr eldi |
| upp frá ströndu, | í jöfra bæ, |
| þarf ek lítit lið, | ef ek kem eigi |
| lofða at finna, | aptr at kveldi! |

Björn mælti: þetta er vel kveðit. Síðan gekk Friðþjófr inn fyrir Helga, ok mælti: nú muntu vilja hafa skattinn, ok færði upp sjóðinn, ok rak á nasir honum, ok braut úr honum tvær tennurnar, ok fèll hann í óvit. En Friðþjófr gekk at eldinum, ok sá hrínginn á hendi konu Helga, ok greip til hennar, dragnaðist hún, en goðit valt útá eldinn, ok er hann kom at dyrunum, raknaði hríngrinn af hendi henni, en Friðþjófr gekk út, ok kvað vísu:

Gakk þú við skatti,
skatna drottinn!
fremstum tönnum,
nema þú framar beiðir;
silfr er á botni
belgjar niðri,
sem við Björn höfum
báðir um ráðit.

Eptir þat gekk Friðþjófr út, ok kvað vísu:

Hafa skal ek baug
úr beggja höndum
úr svennhúsi[1]
seggja meiðum,
sá er hugr á mèr
af eim hríngi digrum
verðr þeim er varðar,
við lítilmagna.

Björn mælti: nú skiptir þú at höguðum, at hún dvelist eptir, en þú hafir hrínginn. Síðan gánga þeir til skipa, ok varð Friðþjófi litit aptr, ok kvað vísu:

Gánganði fór ek frá garði
grunskjöldúnga tveggja,
at ek illsögur ætti
í enni mína grandvær;
nær var nála gunni
við gistíngar fundi,
þat rak mik frá húsi
heldr meir enn skyldi.

Helgi raknaða við, ok bað menn útgánga: ok hefir sjá maðr fyrirgjört sèr, er eigi hlífa griðastöðum; ok er þeir koma út, bað hann fá sèr boga sinn, ok er hann sveigði bogann, brast boginn í sundr. Friðþjófr kvað vísu, er hann sá þetta, ok tók til ára, ok braut báðar senn í einu.

Kysta ek únga
Ingibjörgu
Beladóttur
í Baldrshaga;
svá skulu árar
á Elliða
báðar brotna
sem bogi Helga.

Síðan fóru þeir til skipanna, en þau voru öll brotin. Nú mælti Björn við Friðþjóf: hvat skalt nú athafast, fóstbróðir! Ek ætla nú ráðligt, segir Friðþjófr, at kanna hermanna siðu, ok ráðast í víkíngu. Ok svá gjörðu þeir, lágu nú í víkíngu um hríð, ok gjörðist Friðþjófr ágæta maðr; hann drap illmenni, en bændr lèt hann í friði fara, ok urðu þeir stórauðigir af þessu:

5. Þat er sagt eitt sinn, at Friðþjófr mælti til Bjarnar: leiðir mér nú sjá iðu, ætla ek nú skiljast við yðr, ok vil ek hitta Hríng konúng, ok vitið mín þó aptr

[1]) *máske* svefnhúsi.

at sumri! Björn mælti: óvænlig ætlan er þat, en þó muntu ráða verða, eðr viltu eigi aptr, ok drepa konúngana? Friðþjófr kvað þat til einskis vera, ok kvað vísu:

| | |
|---|---|
| Makaðek hýrra | þar skal ek hætta |
| en hugar ræðum | Hríng at máli, |
| Bela dóttur | hversu at fylkir |
| ok Baldrshaga; | fagnar greppi. |

Ofús em ek til þess, segir Björn, at hætta þèr einum á vald hans. Hann kveðst ráða vilja, ok flytið mik þángat! ok svá gjörðu þeir; ok er hann kom nær bænum, tók hann sèr saltkarls kufl einn mikinn, ok steypti honum yfir sik. Hann var mikill maðr vexti ok stórligr, fríðr sýnum. Síðan hitti hann hirði nokkura, ok fór óframliga, ok spurði, hvaðan þeir væri. Þeir kvoðust vera frá bæ Hríngs konúngs. Hann spurði: er hann ríkr konúngr? Þeir svara: svá lízt okkr, sem þú munt hafa aldr til at stýra vitsmunum þínum svâ, at vita, hvert veldi Hríngr hefir. Hann segir: meir hefi ek hugsat at fága saltkatla enn spyrja at konúnga tignum. Síðan gekk hann til hallarinnar, ok kom inn, ok nam staðar utarliga við dyr. Konúngr mælti, er hann sá manninn: drottníng! segir hann, maðr gekk inn í höllina. Drottníng svarar: þat er lítil tíðindi hèr, segir hún. Svâ er víst, segir hann; gakk, sveinn! ok spyr, hverr hann er, hvaðan hann kom, eða hvar hann á kyn? Sveinninn kom fyrir hann, ok spurði: hvat heitir þú, eða hvar vartu í nótt? Hann segir: tíðum berr þú at; eðr muntu nokkura grein kunna at gjöra, þótt ek segi þér; Þjófr heiti ek, at Ulfs var ek í nótt, en í Angri uppfæddr. Sveinninn segir þetta konúngi. Þèr skilst vel, segir konúngr, veit ek hèrað heita í Angri, ok má vera at manninum sè eigi opt hughægt; þat má ok vera, at stytt sè nafn hans, ok hafi verit með ótryggum

mönnum um hríð; þikki mèr mikit um manninn vert. Hvers er vert um stafkarla? segir drottníngin. Konúngr mælti: forvitni er mèr á at sjá hann, ok sè ek hann hugsar margt ok skygnist um. Síðan sendi konúngr eptir honum, ok kom hann fyrir konúng. Konúngr mælti: hvat heitir sjá hinn mikli maðr? Hann sagði hit sama til. Konúngr mælti: svâ má vera. Hversu viltu, dróttníng! fagna honum? Hún segir: svâ sem öðrum stafkörlum. Nei, segir konúngr, hann mun verit hafa á skógi í nótt, er hann kveðst úlf gista, ok mun hann þurfa beina, sit hèr á millum okkar drottníngar! Hún mælti: gamalær gjörist þú nú, at þú skipar saltkörlum at sitja. Konúngr mælti: eigi er þat ráð, kasta kuflinum, þjófr! Hann kvað þat eigi hæfa: ok em ek óframr maðr. Konúngr mælti, gjör sem ek býð, ek verð at ráða. Síðan fór hann úr kuflinum, ok var maðrinn stórliga vel búinn. Nú kalla ek betr fara, at fá honum skikkju sæmiliga. Hún kvað svâ vera skyldi: en lítit er mèr um hann. Konúngr mælti: hríng hefir þú góðan, þjófr! ok lengi muntu salt þar til hafa brent. Hann segir þat föðurarf sinn vera. Konúngr mælti: þat má vera. Konúngr settist síðan í hásæti, en drottníngu setti fram dreyrrauða, ok vildi öngu við hann skipta; en konúngr var allglaðr, ok kunni hann honum margt at segja, ok þokkaðist hann mönnum vel, ok var hann í góðu yfirlæti um vetrinn. Drottníng mælti fátt við hann. Þess er getit eitthvert sinn, at konúngr skyldi fara til veizlu, ok þá mælti konúngr: viltu fara með oss, þjófr? Já, herra! segir hann. Síðan fóru þeir, ok var þeim konúngi ok drottníngu ekit um ísinn. Þjófr mælti: farið þèr varliga, þvíat ótraustr er ísinn. Konúngr mælti: opt finnst þat á, at þèr er hugr um oss, ok litlu síðan brast ísinn, en þjófr hljóp at vagninum, ok bjargaði hann konúnginum ok öllu því, er í var, en drottníng varð eptir, ok kipti hann henni

upp úr ísbrotunum. Konúngr mælti: vel var nú borgat, eigi mundi Friðþjófr betr hafa *hjástaðit*, ok eru slíkt góðir fylgðarmenn. Nú vorar vel, ok einn dag mælti konúngr: göngum við út nú í dag, ok sjáumst um, hèr er fagurt lands leg. Síðan gengu þeir tveir saman, konúngr ok Þjófr, ok kvomu í skóg einn. Konúngr mælti: sifjar mèr nú. Þjófr mælti; far heim heldr, herra! þat sómir betr tign yðvarri. Nei, segir konúngr, eigi má svâ vera, ok lagðist niðr ok hraut fast. Þjófr sat hjá, ok dró sverðit út úr slíðrum, ok fleygði því lángt í burt, en konúngr vaknaði, ok mælti: var svâ, Friðþjófr! at ýmist kom í skapit ok vel skaltu hèr komit, ok þegar kenda ek þik et fyrsta kveld er ek sá þik, ok ekki máttu svâ skjótt í burt fara; mikit nokkut mun fyrir þik leggjast. Hann segir: vel hafi þèr gjört við mik ok ágætliga, en burt skal nú fara skjótt! Eptir þat gengu þeir heim, ok um morguninn var drepit á skemmudyr konúngs. Hann spyrr, hverr þar væri. Hèr er Friðþjófr, ok ætla ek nú til ferðar, ok þá kvað hann vísu:

| | |
|---|---|
| Nú skal ek þèr | gistíngar visti, |
| of gistíng þakka, | ek man Ingibjörgu, |
| þú hefir prúðliga | æ meðan við lifum bæði, |
| mik prísat vetra; | hún sitì heil með hnossir, |
| búinn er greppr at gánga | hylli fyrir koss at senda. |

Konúngr mælti: ok varð svâ, at henni var þökkuð betr veizlan enn mèr; ekki hefir hún betr gjört til þíns enn ek. Snæðum nú allir saman, áðr þú farir ok verum kátir. Sit þú upp, drottníng! Hún kveðst eigi nenna. Nei, segir konúngr: vèr skulum öllsömun matast! ok svâ varð at vera. Konúngr mælti: hèr vilda ek þik dvelja, Friðþjófr! *Þá kvað hann vísu, ok mælti áðr: í burt ætla* ek nú:

| | |
|---|---|
| Bú þú, Hríngr konúngr! | gættu, vísir, vel |
| heill ok lengi | vífs ok landa! |
| æztr öðlíngi | skulu við Ingibjörg |
| undir vendils skauti, | aldri finnast. |

þá kvad konungr:

Far þú eigi svâ,
Friðþjófr! hèðan
dýrstr drengr!
í döprum huga;
mun ek gjafir
þínar launa
betr enn þik of
varir sjálfan.

Ok enn kvað hann:

Gef ek fræknum
Friðþjófi
konu ok alla
eigu mína.

Friðþjófr kvað vísu:

Mun ek þær gjafir
þiggja eigi,
nema þú hafir, frægr!
fjörsótt tekit.

Konúngr segir: eigi mundi ek þetta hafa gefit þèr, nema þat væri, ok em ek sjúkr, enda ann ek þèr þess ráðs bezt, ok henni þín at njóta, þvíat þið eruð fyrir flestum mönnum, ok nú mun ek gefa þèr konúngsnafn, þvíat bræðr hennar munu eigi unna þèr slíkrar virðíngar, ok fastna þú þèr nú sjálfr konu; Friðþjófr mælti: hafi þèr þökk fyrir, herra! en eigi vil ek hærri nafnbot bera enn jarlsnafn. Síðan andaðist konúngr, en Friðþjófr gjörði brúðhlaup sitt, ok var þá drukkit erfi eptir konúnginn. Síðan settist hann at landráðum, ok þótti vera enn mesti ágætismaðr, ok áttu börn saman, ok var Friðþjófr jafnan í Baldrshaga, ok var jarl kallaðr. Ok er þetta frètta bræðr hennar, mælti Helgi til bróður síns: slíkt er firn mikil, at ótíginn maðr skal eiga systur okkra; nú förum ok gjörum her á hendr honum, ok rennum þessum ósköpum! ok svâ gjörðu þeir, söfnuðu miklu liði, ok fóru á hendr Friðþjófi. Ok er hann frètti þetta, mælti hann til drottníngar: nú eigum vèr starfs von fyrir höndum; hversu sem gengr til, þá vilda ek at þèr mislíkaði eigi. Hun segir: því er þar komit, er ek vill (þín) sízt missa. Síðan fóru þeir til bardaga, ok gekk Friðþjófr svâ hart fram, at hann var fremstr af sínum mönnum, ok mættust þeir Helgi, ok börðust harðliga, en svâ lauk

með þeim, at Helgi fèll, ok var þá blásit sigrópi. Þá mælti Friðþjófr: tveir eru kostir, Hálfdán! at taka sættir, eðr þola dauða, sýnist þat nú (sem at) betri málaefni hefik enn þið bræðr.' Hálfdán kveðst mundi þann kost taka, ok fór svâ heim til ríkis síns, ok var hann skattgildr undir Friðþjóf alla æfi síðan, en Friðþjófr settist nú at löndum, ok var enn frægasti af sinni hreysti, ok átti hann margt barna með konu sinni, ok varð gamall maðr, ok endist svâ sjá saga.

---

# Örvar-Odds Saga.

Grímr hét maðr Loðinkinni, því var hann svâ kallaðr, at hann var með því alinn. Hann var son Ketils hængs, Hallbjarnar sonar hálftrölls. Grímr átti bú í Hrafnistu, hann var auðigr at fè, ok mikils ráðandi um allt Hálogaland, ok þó víðara hvar. Hann var kvângaðr, ok hèt Loptæna kona hans, hún var dóttir Haralds hersis austan or Vík. Grímr spurði þau tíðendi austan or Vík, at Haraldr mágr hans var dauðr, bjó hann þá ferð sína austr þannog, þvíat Loptæna var einbirni hans, ok var þángat at vitja ógrynni fjár í jörðum ok lausum peníngum. Loptæna skyldi fara með Grími, ok var hún þó með barni, þvíat Grímr unni henni stórmikit. En er þau voru búin, ok byr gaf, hèldu þau tveim skipum austr með landi, ok komu fyrir þann bæ, er heitir á Berurjóðri, þar lágu þau of nótt, ok þá kenndi hún sèr sóttar; var þá sendr maðr til bæjarins, en þar bjó bóndi sá, er Ingjaldr hèt. Kona hans hèt Alof; son áttu þau, er Asmundr hèt, úngr ok fríðr at sjá. Þau voru auðig at peníngum. En er Ingjaldr spurr til ferða Gríms, þá fór hann til strandar með eyki sína, ok bauð heim Grími til veizlu, ok öllu föruneyti hans, því sem hann vildi. Grímr tók því vel, var þeim nú ekit heim til bæjarins, fengu þau þar góðar viðtökur; var Loptænu fylgt í kvennahús, en Grími í skála, ok skipat í öndvegi; var þeim veittr enn mesti fagnaðr í drykk góðum ok öðrum lutum. Sótt elnaði við Loptænu, ok varð hún lèttari at sveinbarni, þat var mikit ok vænt mjök. Loptæna bað færa föðurnum, kvað hann skyldu nafn gefa, þá var þessi sveinn vatni ausinn, ok nafn gefit, ok kallaðr Oddr. Þar voru þau þrjár nætr í enni fegrstu veizlu. Þá kveðst Loptæna vera búin. Grímr kvað þá skyldu ferðast. Ingjaldr sagði

at hann kveðst vildu hafa laun fyrir forbeina sinn. Grímr kvað þat skylt; ok kjós þèr laun, þvíat nógir eru gripir ok lausir penníngar! Ingjaldr mælti: fè hefi ek ærit, en styrk þinn vil ek ok vináttu, ok festa með því, at bjóða eptir Oddi, syni þínum. Þat veit (ek) eigi, segir Grímr, hversu Loptænu er um gefit. Hún var hjá tali þeirra, ok mælti: þat er minn vilì, at þiggja þat, er svà er vel boðit. Nú ferr Grímr ok Loptæna með sínu föruneyti, en Oddr dvelst eptir á Berurjóðri. Þau Grímr fóru nú ferðar sinnar, ok dvöldust slíka hríð í Vík austr, sem þeim þótti fallit, ok sigldu síðan austan[1]; ok er þau komu fyrir Berurjóðr, mælti Grímr at þeir mundi leggja seglin, ok leggja at landi. Loptæna spyrr, hvat því skyldi. Ek hugða, segir Grímr, at þú mundir vilja finna son þinn. Loptæna segir: leit ek hann, áðr við skildum, ok þótti mèr sem hann renndi lítt ástaraugum til vàr Hrafnistumanna, ok munu vèr fara leið vàra. Þau gera nú svâ, ok koma heim til Hrafnistu, ok settust at eignum sínum.

2. Oddr vex upp á Berurjóðri, ok er hverjum manni meiri ok vænni, þeim er upp óx í Noregi ok víðara; hann nam allar íþróttir, þær er mönnum er títt at kunna. Asmundr var ok vel búinn at íþróttum, ok þjónaði Oddi í öllu, hann var ok gjörfiligr maðr, gjörðist fóstbræðralag mikit með þeim. Aldrei vildi Oddr at leikum vera nè at rjá annarri sem úngmenni önnur; þeir voru á sundi eðr í skotbökkum, en þess í milli nam hann eitthvat at fóstra sínum Ingjaldi, manna fræði eða túngur at tala, þvíat Ingjaldr var enn vísasti maðr í öllu, mat Ingjaldr meira Odd enn Asmund. Marga leiksveina vandi Oddr til sín, þó fylgði Asmundr honum fastast af þeim öllum. Aldrei vildi Oddr blóta, trúði hann á mátt sinn ok megin; hervilikt kveðst honum þikkja at hokra þar fyrir stokkum eða steinum; þar eptir vandist Asmundr. Eigi var þat af því, at Ingjaldr var enn mesti blótmaðr.

[1]) *þannig leiðrètt*; austr, S.

Oddr lèt gera sèr skeyti mart ok stærra miklu enn annarra manna. Hafr lèt Ingjaldr drepa svartan, ok lèt flá með hornum, og kveðst Oddr vilja, at Ingjaldr gæfi honum, ok svâ var. Þar berr Oddr í skeyti sín, ok eigi lèttir hann fyrr enn hann var fullr. Boga lèt hann sèr gjöra með þvílíku skapi. Þat var búníngr Odds hversdagliga, at hann hafði skallazkyrtil rauðan, belti mjótt, hosur fagrar ok skúa, gullhlað um höfuð sèr, örmal sinn á baki, en boga í hendi, engi hafði hann önnur vâpn; til allra manna lagði hann gott í sínum orðum, ok öllum þótti hann góðr. Þetta leið nú framm með þeima hætti, þar til er Oddr var 12 vetra, en Asmundr 15; svâ var Oddr þá sterkr, at menn fundu varla, at honum yrði aflfátt, til hvers sem hann tók.

*Spá völvu.*

3. Kona er nefnd Heiðr, hun var völva ok seiðkona, ok vissi fyrir óorðna hluti af fróðleik sínum. Hún fór á veizlur víða um landit, er bændr buðu henni til; sagði hún mönnum forlög sín ok vetrarfar eðr aðra luti. Hún hafði með sèr 30 manna, 15 sveina ok fimtán meyjar. Þat var raddlið mikit, þvíat þar skyldi vera kveðendi mikil sem hún var. Svâ bar til um ferð hennar, at hún var á veizlu skamt frá Ingjaldi. Þat var morgin einn snemma at Ingjaldr var á fótum, hann gengr þángat, er þeir fóstbræðr hvíldu, ok tók á fótum þeim, ok mælti: ek vil senda ykkr í dag, segir hann, er þú vilt. Hvert? segir Oddr. Ingjaldr mælti: þið skoluð bjóða híngat völvunni til veizlu. Þá för mun ek eigi fara, segir Oddr, ok kunna óþökk, ef hún kemr, en hvert í annann stað fara, er þú vilt senda mik. Ingjaldr mælti: þó skal fara Asmundr! þín á ek ráð. Oddr segir: gera skal ek annann hlut, þann er þèr þikki eigi betr. Nú ferr Asmundr við enn fimta mann, ok býðr völvunni á Berurjóðr; hún tók því vel, ok kveðst koma mundu, ok þann sama aptan kemr hún þar með öllu liði sínu. Ingjaldr gengi í

mót henni með fjölmenni, ok leiðir hana í skála; ok efnast þar veizla fögur. Oddr var í lítilli stofu, ok vildi ekki gánga í sýn við Heiði, ok eigi samneyta henni. Ingjgjaldr ok völvan ætluðu til seiðar mikils um nóttina, gekk hún þá út með liði sínu, er aðrir gengu til svefns, ok efldi seið. Um morgininn eptir gekk Ingjaldr til frètta við Heiði, ok spurði, hversu seiðrinn hefði gengit. Þat ætla ek, segir hún, at ek muna vís hafa orðit þeirra hluta, er þik varðar, ok þèr báðuð mik forvitnast. Þá skal skipa í sæti, segir Ingjaldr, ok gánga þaðan sèrhverr til frétta. Nú var svâ gjört: Ingjaldr búandi spurði þá fyrst um veðráttu ok vetr, ok sagði hún slíkt, er hann spurði. Síðan gekk hann fram fyrir hana, ok mælti: nú vil ek vita mín forlög. Já, segir hún, gott er þèr þat at vita; þú skalt búa á Berurjóðri með mikilli virðíngu til elli, má þèr þat vera mikill vegr ok öllum þínum vinum; þá gengr hann í brutt. Þá ferr Asmundr til fundar hennar; hún mælti: þat er vel, Asmundr! segir hún, er þú ert hèr kominn, þvíat þinn vegr ferr víða of heiminn, ekki muntu við mikinn aldr togast eiga, ok þikkja þar drengja beztr, sem þá kemr þú; Asmundr gengr til sætis síns. Þá fór þann veg öll alþýða manna, ok sagði hún slíkt hverjum, sem fyrir var lagt. Allir una þar vel við. Ingjaldr bóndi þakkaði henni sitt starf, ok þá mælti völvan: hafa nú farit allir menn mjök til frètta við mik, þeir sem hèr eru? Ingjaldr segir: ek ætla nú gjörsamliga hafa farit. Völvan mælti: en hvat liggr þar yfir í skálanum undir feldinum? mèr þikkir sem þat hrærist stundum. Oddr kastar af sèr feldinum, ok sezt upp ok mælti: þat er sem þèr sýnist, at þetta er maðr, ok sá einn er þat vill, at þú þegir skjótt, ok fleiprir ekki um mitt ráð, þvíat ek trúi ekki á þat, er þú segir; ella færi ek sprotann á nasar þèr, er ek held á. Heiðr mælti: ekki fer ek at við hót þín, þvíat eigi er leynanda um þitt ráð, ok þar má ek ok frásegja, en þú skalt til hlýða, ok þá varð henni ljóð á munni:

Ferr eigi þú svâ
fjörðu breiða,
nè líðr yfir
láða vâga;
þó skaltu brenna
á Berurjóðri.
Naðr mun þik höggva
neðan á fæti
fránn yr fornum
Faxa hansi.

Þat er þèr at segja, Oddr! er þèr mun þikkja gott at vita, þèr er ætlaðr aldr miklu meiri enn öðrum mönnum, þú skalt lifa hundrað vetra, þú skalt fara land af landi, ok þikkja þar mestr maðr ok ágætastr, sem þá kemr þú, þinn vegr mun fara um hvert land, þat er þú kemr á; en aldrei ferr hann svâ víða, þá skaltu hèr deyja á Berurjóðri. Hestr stendr hèr at stalli, grár at lit, föxóttr, haus hans Faxa skal þèr at bana verða! Oddr mælti: seg þú allra kerlínga örmust sögu! Hann sprettr upp við, er hann mælti þetta, ok rekr sprotann á nasar kerlíngu, svâ at þegar lá blóð á jörðu. Hún kallaði ok bað taka klæði sín: vil ek verða í brott sem skjótast, þar hefi ek hvergi komit, at menn hafa barit á mèr fyrr enn hèr. Ingjaldr mælti: tak þú þriggja nátta veizlu með mèr, sem ætlat var, en síðan skal ek reifa þik gjöfum. Heiðr mælti þá: lát fram gjafar slíkar, er þú vilt fyrir mann þenna, en í stað skal ek í brött með mínu liði. Svâ varð at vera sem hún vildi; gjafar þá hon at Ingjaldi bónda, ok fór í braut þegar af veizlunni.

*Drepinn (Faxi).*

4. Litlu síðar kveðr Oddr Asmund með sèr, þeir gánga til Faxa, ok slá við hann heizli, ok leiða með (sèr) í eitthvert dalverpi, ok gjöra þar gröf svâ djúpa, at nær var tveggia manns vaxta; síðan drepa þeir Faxa þar í ofan. Eptir þat knýja þeir fóstbræðr þar á ofan stórt grjót, sem þeir voru sterkir til, ok báru hjá hverjum steini aur ok sand; haug urpu þeir þar af upp; ok þá mælti Oddr: rennt mun ek hafa þeim sköpunum, at Faxi verði mèr at bana; eptir þat fara þeir heim.

*Brautför Odds frá Ingjaldi.*

5. Nökkuru síðar kemr Oddr at máli við Ingjald, ok sagði svá: ek vil at þú fáir mèr skip. Ingjaldr segir: hvat viltu athafast nú? Oddr segir: ek ælta í braut hèðan af Berurjóðri. Ingjaldr mælti: hvat skal manna fara með þer? Við Asmundr tveir. Ingjaldr mælti: skamma stund vil ek at þið sèð í bröttu. Oddr segir: aldrei skolum við aptrkoma. Ingjaldr mælti: þetta máttu svá gjöra at mèr þikkir verst. Oddr segir: þess gerðist þú þá verðr, er þú baudt híngat völvunni. Ingjaldr kvað svá vera mundu verða, sem hann vildi. þvínæst búa þeir fóstbræðr ferð sína; fær Ingjaldr þeim karfa einn, tólfæríng, ok bjó þá at öllu vel af hendi; síðan biðja þeir Ingjald vel lifa. Síðan taka þeir róðr[1] frá landi; þá spyrr Asmundr, hvert þeir skyldu fara. Oddr segir: nú (skal) sækja heim göfga frændr sína í Hrafnistu. Ok er þeir komu út um eyjar, mælti Oddr: erfið ferð er at róa, mun nú verða at reyna ættargipt vára; Grímr faðir minu hefir byr, hvert er hann vill sigla; þvínæst undu þeir segl sitt, ok er þeir höfðu umsiglt, kom á byr enn bezti, gaf þeim byr ok leiði gott norðr á Hálogaland, ok lögðu at við Hrafnistu. Síðan gengu þeir heim til bæjar. Oddr hafði örvamal sinn á baki, en boga í hendi, en Asmundr hafði vâpn sín. Sem Grímr fèkk njósn sanna um ferð þeirra, gekk hann í mót þeim með alla húskarla sína, ok bauð þeim með sèr at vera. Ek vil finna fyrst, segir Oddr, frændr mína Guðmund ok Sigurð; mèr er sagt at þeir sè búnir til Bjarmalands. Grímr mælti: þat vil ek at þið sèð með mèr í vetr. Oddr mælti: finna vil ek þá fyrst. Svá skal þá vera, segir Grímr. Guðmundr var bróðir Odds, (ok var) tveim vetrum ýngri, en Sigurðr var systursonr þeirra: þeir voru báðir enir vaskligstu menn. Grímr ferr nú með þeim Oddi þángat á eyna, sem þeir

[1]) *þannig* leiðrètt; ræðr, S.

Guðmundr lágu tveim skipum. Oddr lèt kalla þá á land; þeir fagna vel Oddi, hann tók því vel ok mælti: svá er (mál) með vexti, at við fóstbræðr viljum ráðast til ferðar með yðr. Guðmundr mælti: eigi má nú svá vera: vèr erum nú búnir til siglíngar, ok ætlaðir menn saman bæði at mat ok drykk ok um aðra luti, má nú ekki dveljast, at skipa þat öðru vísi; en þú, bróðir! skalt fara með oss at sumri, hvert er þú vill halda. Oddr mælti: vel er þat talat, bróðir! en vera kann at ek þurfa ekki skip undir yðr at eiga at sumri. Guðmundr mælti; ekki muntu nú með' oss fara at sinni. Ekki skal þess ok meir biðja, segir Oddr. Snýr Oddr heim með feðr sínum; skipar Grímr Oddi í öndvegi hjá sèr, ok þar Asmundi et næsta. Þar var uppi öll alúð[1] af Grími; Loptæna húsfreyja fagnar þeim ok einkar vel; sátu þeir þar nú í inni fegrstu veizlu.

*Draumr Guðmundar.*

6. Nú er at segja frá þeim Guðmundi ok Sigurði: þeir lágu hálfan mánuð, svá at þeim gaf aldrei í brött; þat var á einni nótt at Guðmundr lèt illa í svefni, ræddu menn um, at hann skyldi vekja. Sigurðr kvað hann skyldi njóta draums síns; þvínæst vaknar hann. Sigurðr mælti: hvat dreymdi þik, frændi? er þú lèzt svá ervidt. Guðmundr mælti: mik dreymdi þat, at vèr lægim hèr undir eynni tveim skipum, en ek sá hvítabjöru liggja í hríng um eyna Hrafnistu, en hèr mættist yfir skipunum dausin ok höfuð dýrsins. Þat var svá grimmlikt, at ek hefi ekki slíkt sèð ok framm horfðu öll hár eptir dýrinu, ok svá þótti mèr sem þat mundi hlaupa út á skipit, ok sökkva niðr. Sigurðr mælti: þat er auðsætt at dýr þetta er fylgja Odds, frænda várs, ok úlfhugr sá, er hann hefir á oss, ok þat er mín ætlan, at oss gefi eigi í braut, nema hann fylgi oss. Hvat er þá til ráðs? segir Guðmundr. Sigurðr mælti: bjóða honum með allri alværð at

[1]) *þannig leiðrètt*, auluð, S.

fara. Guðmundr mælti: hann mun nú eigi fara vilja. Sigurðr mælti: þá skolu við gefa honum skipit annat. Þetta staðfestist með þeim; fara þeir nú á land upp ok finna Odd, ok bjóða honum at fara með sèr. Oddr kveðst nú eigi fara vilja. Þeir mæltu: heldr enn þú farir eigi, viljum við gefa þèr annat skip ok alla áhöfn. Oddr mælti: þá skal fara með ykkr, em ek nú ok albúinn.

*Oddr þiggr Gusisnauta.*

7. Nú fylgir Grímr þeim til skipa, ok at skilnaði mælti hann við Odd: gripir eru hèr, frændi! segir hann, er ek vil þèr gefa, þat eru örvar þrjár, en þær eigu nafn ok heita Gusisnautar, þær vann ek af Gusi Finnakonúngi, en þær munu sjálfar fljúga aptr á streng, ok allt munu þær hitta, þat er þeim er atskotit. Oddr tók við örvunum, ok leit á, ok sýndist einkar vel skeytit, því at þær voru gulli reyrðar. Hann mælti: margar hefi ek þegit góðar gjafar, faðir! ok aungvar þær er mèr þikki jafngóðar þessum, ok haf þu, faðir! mikla þökk fyrir!

8. Eptir þetta skiljast þeir, snýr Grímr heim; en Oddr gengr á skip út. Hann heitr þegar á menn sína, biðr þá hafa uppi akkerin, ok dragast undan eynni með báti. Svâ gjöra þeir; ok þvínæst bað hann þá vinda seglin, þeir gjöra ok svâ, Grímr ok Sigurðr. Þeim gaf þegar byr, ok sigldu þeir í einni norðr til Finnmerkr; þeir lögðust þar um nóttina við akkeri. Þar var fjöldi gamma á land upp; um morguninn gánga þeir Gudmundr á land af skipi sínu, þeir renna í gammana, ok ræna Finnurnar, en Finnar voru ekki heima; þær þola illa ok æpa mjök. Þeir tala um á skipi Odds, at þeir vili á land gánga, en hann kvað þat eigi skolu vera. Þeir Guðmundr komu um kveldit til skipa, þá mælti Oddr: voru þèr á land gengnir í dag, Guðmundr? Já, segir hann, ok þótti mèr þat mikit gaman at ræna Finnurnar, ok muntu vilja fylgja oss á morgin? Eigi mun ek þat vilja, segir Oddr, þikki mèr þat engi frami at ræna

konnr, munu þèr ok gjöld fyrir taka yðart starf, vil ek sigla þegar í morgin.

9. þeir gera nú svâ; er nú ekki sagt frá ferð þeirra fyrr enn þeir komu til Bjarmalands, ok hèldu skipunum upp í ána Vínu. En er þeir voru þar komnir, fengu landsmenn skjótt njósn af, voru þá menn sendir til móts við þá, var þá settr friðr hálfan mánuð til kaupstefnu, komu þá landsmenn ofan með allskyns grávöru, fengu menn þar fullendi fjár, allir þeir er nàkkvat höfðu at verja. En er sjá stund var liðin, þá var uppsagt friði; lögðu þeir Oddr þá út í ána um strengi. En er nátta tók, mælti Oddr til sinna manna: hvat vili þèr ráðs þaka? þeir báðu hann ráða. þá skolu við Asmundr róa til lands ok forvitnast til landsmanna. Svâ gerðu þeir, ok er þeir komu á land, gengu þeir til merkrinnar; í mörkinni sá þeir skála einn mikinn, þá var myrkt mjök. þeir gengu at skáladyrunum; sá þeir at þar var ljóst inni, svà at hvergi bar skugga á; mannfjöldi var þar mikill inni ok gleði ok drykkja. Oddr mælti þá: skilr þú nökkut hèr manna mál? Asmundr segir: eigi heldr enn fugla klið, eða hvat skilr þú af? Oddr mælti: sjá muntu, at einn maðr skenkir á báða bekki, en þat grunar mik, segir Oddr, at sá muni kunna at tala á norræna túngu: nú skaltu bíða mín, meðan ek geng inn. Asmundr gerir nú svâ. Oddr er nú innkominn, ok stendr við trapizu, hún stóð utar við dyrrin, þar bar ok helzt skuggann á. Gaungu byrlans bar þángat brátt at. Oddr þrífr til hans, ok bregðr honum á lopt. Byrlinn kveðr við hátt, ok kallar, at tröll taki hann. Bjarmar hlaupa nú upp ok þrífa til byrlans, en Oddr berr þá með honum, ok kemsk svâ út, skilr þá með þeim. Oddr snýr þegar braut með byrlann, ok þeir Asmundr, ok til skipa. Oddr setr hann hjá sèr, ok spurði hann tíðenda; byrlinn þagði. Oddr mælti þá; hèr eru tveir kostir fyrir höndum, at þú svara mèr, þvíat ek veit at þú kannt

norræna túngu, eða ella skal þik í járn setja. Byrlinn mælti: hvers viltu spyrja? Oddr mælti: hverrar ættar ertu, eða hve lengi hefir þú hèr verit? Byrlinn segir: ek hefi hèr nú verit sjö vetr, en ek em norrænn at ætt, Oddr mælti: hvert vísar þú oss til fèfánga? Byrlinn segir: haugr stendr upp með ánni Vínu[1], borinn saman af moldu ok skírum peníngum, þángat skal bera gaupnir silfrs ok gaupnir moldar eptir hvern mann er andast ok svâ fyrir þeim er í koma heiminn. Oddr mælti: þá skolu þèr, Guðmundr frændi! segir hann, fara til lands, ok eptir vísan hans til haugsins í nótt með yðra skipara; en ek mun gæta skipa ok byrlans með mína menn. Svâ gera þeir nú; þeir fara nú, ok koma til haugsins, ok binda sèr þar byrðar, þvíat eigi skorti fè; ok þegar þeir voru búnir, fara þeir til skipa. Oddr lèt vel yfir þeirra ferð, taka þeir nu við byrlanum. Oddr mælti: vaki þið trúliga yfir honum, þvíat svâ standa augu hans á land, sem honum þikki hèr eigi jafnillt, sem hann lætr yfir. Oddr ok hans menn fara nú til lands, ok síðan til haugsins. Nú varðveita þeir Guðmundr ok Sigurðr skipin, þeir setja byrlann í milli sín, en þeir taka nú ok sælda silfrit. En er minnst von er, bregðr byrlinn við, ok fleygir sèr útbyrðis, ok leggst þegar til lands. Guðmundr hleypr upp, ok þrífr eitt snærisspjót, ok skýtr eptir honum, þat kemr í kálfa byrlanum, ok skilr þar með þeim; er byrlinn þvínæst á landi ok í skógi.

*Frá ráðagerðum Odds.*

10. Nú er at segja frá ferð þeirra Odds; er þeir koma til haugsins, mælti Oddr: nú skolum vèr búa oss byrðar, hverr eptir sínu magni, ok þó eigi stærri enn vèr megim fara gilda ferð. Þat var í öndverða lýsíng, er þeir voru búnir; fóru þeir nú ofan með ánni, var þar (eitt nes) til annarrar handar. Oddr mælti: þá er þeir höfðu farit um hríð: hvat sjái þèr tíðenda? Engi

[1]) *þannig leiðrètt*, Rhen, S.

sjá vèr, segir Asmundr, eða hvat sèr þú? Ek sè þau, segir Oddr, er oss eru óþörf, mannafjölda mikinn koma or skógi fram; er þat ætlan mín, segir Oddr, at þeim Guðmundi sè laus orðinn byrlinn, ok mun hann hafa borit Björmum njósn um ferð vâra. Asmundr mælti: hvat er nú til ráðs? Oddr mælti: þèr skoluð víkja fram at ánni, ok fylkja um þvert nes þetta, er fram gengr í ána, en láta fèit á bak yðr; þeir gera svâ. Oddr snèri þá aptr í skóginn, ok bjó sèr kylfu eina mikla, síðan fór hann til manna sinna. Þvínæst drífr lið at þeim, ok kennir Oddr þar byrlann í ferðarbroddi. Oddr varp orðum á hann ok mælti: hví stýrðir þú nú svâ hverft? Byrlinn segir: ek sagða Björmum tiltekjur yðrar. Oddr mælti: hversu líkar þeim nú? Byrlinn segir: þeir vilja enn eiga kaupstefnu við yðr. Hver er sú, segir Oddr. Byrlinn mælti: kaupa við yðr vâpnum. Oddr segir: eigi viljum vèr þat. Byrlinn mælti: þá skolu þèr verja fè yðvart ok fjör, en vèr munum tilsækja. Svâ skal vera, segir Oddr. Þá mælti Oddr til sinna manna: þèr skoluð at því hyggja, þóat nökkut falli af liði vâru, at þèr takið hvern sem dauðr er, ok kastið út á ána; þvíat þegar munu þeir gera fjölkýngi í lið vârt, ef þeir ná nökkurum enum dauða.

*Bardagi við Bjarma.*

11. Þvínæst veita Bjarmar harða atsókn, í þat bil hleypr Oddr fram með kylfuna, ok berr til beggja handa svâ hart, at allt stökkr frá, en fjöldi fèll. Asmundr fylgði honum einkar vel. Sjá bardagi var bæði harðr ok lángr, en sá varð endir á, at Bjarmar flýðu, en ógrynni fallit. Oddr rak flóttann, ok drap allt þat er hann náði, snèri síðan aptr til sinna manna, ok bað þá gera byrðaskipti: látum eptir moldina, en klyfjum oss með gripum góðum ok vâpnum! Svâ gerðu þeir, fóru nú síðan til skipa; ok er þeir komu þar, voru skipin í bruttu. Oddr mælti: hvat er nú til ráðs? Asmundr

bað hann fyrir sjá. Oddr mælti: tvennu mun skipta um tiltekjur þeirra Guðmundar, þeir munu hafa lagt í leyni, ella munu þeir hafa brugðizt oss meir enn vèr ætlum. Þat mun eigi vera, segir Asmundr. Ek mân gera raun til, segir Oddr; hann snèri þá til skógar, ok fór upp í trè eitt, ok tendraði eld í limum uppi, en síðan gekk hann til manna sinna, en trèit kviknaði svà skjótt, at því næst stóð logi í lopti uppi; þá sá þeir at bátar tveir rèru til lands; kendu þeir þar sína menn, ok varð þar fagnafundr með þeim frændum.

*Brautför þeirra Odds af Bjarmalandi.*

12. Nú stíga þeir á skip sitt, ok hèldu þegar á brutt með herfáng sitt. Er nú ekki sagt um ferð þeirra fyrr enn þeir komu við Finnmörk, ok í þat sama lægi sem þeir höfðu haft fyrr; ok þá er þeir höfðu þar legit um nótt, þá vakna þeir við þat, at þeir heyrðu brest mikinn, svà at þeir hafa slíkan eigi fyrr heyrt. Oddr spyrr þá Guðmund ok Sigurð, hvat þetta muni tákna, en er þeir áttu þetta at tala, þá kom brestr annar sýnu meiri, ok þegar leið þenna, kom enn þriði, ok var sá mestr. Hvat ætlar þú, Oddr frændi! segir Guðmundr, at þetta bendi? Oddr mælti: heyrt hefi ek þat sagt, at veðr tvö verði senn í lopti, ok farist í móti, en er þau hittast, verði af brestir stórir; nú munu vèr svà eiga við at búast, sem koma muni veðr nökkut hart, ok muni Finnar gjöra yðr veðr, fyrir þat er þèr ræntuð þá. Nú færa þeir á þvergyrðíng á skipin; ok búast við öllu, sem þeir máttu, eptir fyrirsögn Odds. Síðan heimta þeir upp akkeri sín; þat var mjök jafnskjótt ok veðrit laust á; þat var svà hart, at þegar rekr þá undan, ok aungu náðu þeir viðfalli. Ekki máttu þeir annat enn halda undan, en allir jósu sem viðkomust; svà rak þá út tuttugu dægr samföst. Oddr kallar á Guðmund, ok bað kasta finnskrefinu öllu, því er þèr höfðuð rænt Finnurnar, þvíat þat er ætlan mín, at eigi lètti

vâru vâlki, fyrrenn þat er útbyrðis. Guðmundr mælti: at hverju haldi mun þeim þat koma, þótt því sè útbyrðis kastat? Láttu þá fyrir því sjá, segir Oddr. þetta gera þeir nú, at þeir brjóta upp finnskrefit, ok kasta útbyrðis, en þegar þat er komit útbyrðis, rekr þat með öðru borði fram ok öðru aptr, þar til er kemr í einn bagga; þá rekr þat óðfluga ígegn veðrinu, svà at þat er senn or augliti. Samdægris sem þetta var atgjört, rýfr þokuna, ok kyrrir sjáinn, ok litlu síðar sjá þeir land, þá voru ok flestir menn farnir at liðsemð, nema þeir frændr. Asmundr var næst Oddi um alla liðsemð, í hverigum háska, er þeir voru staddir.

13. þeir tala þá um, hvert land þetta mun vera. Oddr mælti: þat er ætlan mín, at vèr munim lángt norðr komnir í heiminn, ok at frásögn fróðra manna þikki mèr því líkast, sem þetta muni vera Risaland, en farnir eru menn vàrir, svå at mèr sýnist oss engi annar til, enn leita til lands ok hvíla sik, hvat sem þar er fyrir. Eptir þat draga þeir at landi, ok gekk út í moti þeim nes eðr ey mikil. Oddr bað þá þángat at leggja skipunum, þar var höfn góð, en stór skógr á landit. Ok er þeir höfðu tjaldat, segir Oddr at þeir skyldu róa með landi því, ok vita hvat við sik væri. Svâ gera þeir; sjá þeir þá brátt, at þetta var eyland mikit ok gagnauðikt ok óbygt, þar voru dýr mörg á skógum, hvalr ok selr margr við eyna ok fugl; eptir þat fara þeir til föruneytis síns. Oddr bað sína menn vera vara um sik: skal vaka, segir hann, tólf menn hverja nótt á eynni, en vèr skolum taka af veiðiskap til vista oss, ok hressa yðr, sem vèr megum; þeir gjöra nú svâ. Einn dag er þeir fóru á mörkina, sá þeir skógarbjörn einn mikinn. Oddr skýtr at honum, ok missir eigi, ok drepa þeir björninn. Síðan lætr Oddr troða belginn ok spelkja, svà at hann mátti skjóta fram or munninum, þóat hann stæði fyrir aptan, hann lèt ok leggja hellu í munninn, svà at þar

mátti lifa eldr; síðan lèt hann setja þat á hamar, þann er til lands vissi, ok horfði bersi inn á meginland. Þeir dveljast nú þar um hríð, sá þeir fólkit á land, ok þó fátt mjök, en stórt var þat, svå at þeir skildu þat, at þat voru Risar.

*Frá Oddi.*

14. Einn aptan síðla sá þeir, at Risarnir söfnuðust á nesit eigi allfáir fyrir innann sundit; Oddr mælti þá: forvitni er mèr á, hvat fólk þetta et stóra bersk fyrir, ok vil ek, Asmundr! at við róim inn um sundit á báti sem hljóðligast. Þeir gera svå, ok er þeir koma inn undir nesit, þá hèldu þeir upp árum, ok hlýddust um. Þeir heyrðu þá, at risinn tók at skvala með mikilli raust: þèr vituð, segir hann, at nökkur skeggbörn eru komin í ey vàra, ok drepa þar dýr vàr ok annann veiðiskap; nú stefnda ek yðr því híngat, at vèr ráðim þeim banaráð. Nú af því, sem þèr vitið, er ekki semst með okkr Bjólvi, bróður mínum, um ófrið, þá fæ ek at slíku lítinn gaum gefinn; nú er hèr gullhríngr, er ek vil gefa þeim til, er fara vill til, at tortíma[1] þeim skeggbörnum. Þat sjá þeir nú, at kona ríss upp, ef konu skyldi kalla, hún mælti: skyld eru vèr til, Baði Risakonúngr! at reka þitt örendi, allra helzt er þú býðr slíkt til; nú mun ek fara þessa ferð, ef þú vill. Hann segir: vel er þess fengit, Gneip hússfreyja! því at þú munt hafa örendi. En hvårt sjái þèr at hèr eru tvö skeggbörn á báti undir berginu, ok hlýða til tals vàrs? Nú skal ek senda þeim sendíng. I þat bil sjá þeir Oddr, at steinn flýgr, ok stefnir á þá: Oddr mælti, at þeir skyldu bregða undan bátinum sem tíðast, ok svå gera þeir. Litlu síðar ferr annar, ok fór á sömu leið; enn þriði fór svå mikill, at þeim þótti undr at, ok af þeim fengu þeir mikit áfall. Oddr mælti: nú munu vèr róa út til eyjar, ok svå (gera) þeir . . . (þar næst kemr Gneip þar) . . . hún (var) í skinnkyrtli ok mikil vexti, illilig sýndist hún þeim, svå at

[1]) *þannig.*

þeir höfðu ekki kykvendi slíkt sèð; járnstaf mikinn hafði hún í hendi. Oddr gengr nú fram á bergit, þar sem dýrit stóð, hann tendraði þá eld í munni dýrinu, en síðan skaut hann öru í gegnum dýrsbelginn ok at henni flagðkonunni. Hún heyrði hvininn, ok sá þá örina, ok brá við lófa sínum, ok beit eigi á heldr enn steini. Hún mælti: meira mun viðþurfa, segir hún. Oddr leitar nú at Gusisnautum, ok skýtr þeirri sem enni fyrri; hún bregðr við hendinni, en örin fló í gegnum lófann ok aptr í augat ok út um hnakkann ok aptr á streng. Hún mælti: þetta var mèr ógreiði, en eigi skal áfram at síðr! Oddr skýtr nú í annat sinn Gusisnaut, ok ferr á sömu leið. Gneip mælti: nú mun verða aptr at snúa, ok væri fyrr sæmra. Nú snýr hún aptr, ok þikkir þeim hún eigi vânum ógreiðara fara, ok er hún nú blind báðum augum.

15. Oddr mælti: nú vil ek, Asmundr!, at við róim til lands, ok vil ek forvitnast, hvar Gneip eigi heima. Asmundr bað hann ráða, rèru þeir nú til lands, sá þeir at Gneip hèlt undan til fjalls. Oddr hafði boga sinn ok örfamæli, en Asmundr vâpn sín. Þeir fóru mikit, ok sóttu fast í fjallit upp; sá þeir þá hvar eldr brann í helli, ok þángat sóttu þeir, ok komu þar. Þat sá þeir at þar var ketill yfir eldi mikill; ljóst var í hellinum af eldinum, en myrkt út at sjá; þar sátu mörg flögð á báða bekki; dólgr ekki lítill sat þar í öndugi, þat var hundvíss jötunn, ok þar tröllkerlíng hjá honum. Aungar vættir þóttust þeir slíkar sèð hafa; hann var svartr allr nema augu ok tennr, þat var hvítt; nef hans var mikit, ok krókr á, sâ er beygðist allt niðr fyrir munninn; varrar hans voru sem lètorfur, ok hèkk en neðri ofan á hökuna[1], en hin efri flettist upp undir nefit; hár hans var stórt sem tálknfanar, ok hèkk ofan of alla hans bríngu; augu hans voru sem tjarnir tvær. Sagt

[1]) *þannig leiðrètt;* þánguna, S.

er frá þeim báðum hjónnm, er frá öðru er. Jötuninn tók þá til orða: hvar er Harðhaus þjónustumaðr vârr? hví kemr eigi matr fyrir oss? Nú em ek, segir hann, hèr kominn, ok (á) at segja þèr hörð tíðendi. Hver eru þau? segir hann. Þau, segir Harðhaus, at Gneip dóttir þín er aptrkomin, ok er nú blind báðum augum, ok er skotin tveim örum. Þat var henni at vânum, segir jötun, hún ætlaðist ógert fyrir at bana Oddi ok hans fèlögum; en þat fær hún at síðr gert, at tortíma Oddi, at vèr fám eigi, þvíat honum er ætlaðr aldr miklu meiri enn öðrum mönnum. Ek veit ok, at Finnar hafa sent þá híngat, ok vildu at vèr tortímðim þeim; en með því at vèr megum eigi þat, þá mun ek gefa þeim byr á braut hèðan aungu minna enn Finnar gáfu híngat, en fyrir þat er Oddr hefir skotit Gneip, dóttur mína, með Gusisnautum, þá mun ek honum nafn gefa ok kalla hann Örvar-Odd. Þá mælti Oddr: gef þú allra manna armastr byr! tekr nú eina af Gusisnautum ok skýtr at honum, en hann heyrir hvininn, ok bregzt við sem harðast, en örin fló í auga honum, leið síðan undir hönd flagðkonunni ok út undir aðra, en hún hljóp upp við, ok fló á byrlann ok reytti hann; þá hljópu upp óvættir á báða bekki, ok veittu hvârutveggja; þat mátti segja at þar var skratta atgángr. Þeir Oddr fara nú á brutt leið sína til förunauta sinna, ok fagna þeir Guðmundr þeim vel, ok spyrr hvert þeir hefði farit et lengsta. Þá kvað Oddr:

Rèð ek at gánga
með Gusisnauta
beggja á milli
bjargs ok eisu;
laust ek í auga
einu flagði,
en í brjóst framan
bjarga Freygju.

Þess var at von . . . (Guðmundr spyrr: hvat bar meira til tíðinda í ferð þinni? Nafn var mèr gefit, segir Oddr, ok þá kvað hann:

þá fèkk ek heiti, kváðust Oddi
þats ek hafa vilda, Örvar vilja
er mik úr fjöllum byr bráðliga
flögð kölluðu, í braut gefa.

Byr er oss heitinn, segir Oddr, í braut hèðan, ok er mèr sagt, at sjá muni at aungu minni nè hægri, enn sá er Finnar gáfu híngat; ok þó skal nú á braut búazk; ok svâ gjöra þeir, ok búask um sem varligast megu þeir, ok síðan halda þeir undan landi. Ok þegar kemr byr á slíkr eða meiri enn fyrr. Svâ var ákafi veðrsins mikill, at bæði fylgði storminum fjúk ok frost, svâ at hvert áfall stóð þar sem kom; en þeir vörðu sik með miklum hraustleika ok sína farkosti, svâ at þeir stóðu í austri enn 20 dægr, bæði nætr ok daga. En við hraustleika þeirra ok auðnu Odds, er honum var ætlaðr aldr meiri, þá bar þá or hafi, ok komu aptr undir Finnmörk, ok tóku þar höfn ok hvíld. Eptir þat er ekki sagt frá ferð þeirra, fyrr enn þeir komu heim í Hrafnistu, ok var þá mikit af vetri. Grímr varð þeim stórliga feginn, ok þóttist þá or helju heimta hafa, ok bauð Oddi til sín með öllu liði sínu um vetrinn, ok Oddr þá þat; sátu þeir þar þann vetr. Oddr varð svâ frægr af för þessi, at engi þótti slík farin vera í þeirra manna minnum, er þá voru uppi. Allan fjárlut þann, er þeir fengu í ferð þessi, gáfu þeir Grími, feðr sínum. Þar voru drykkjur miklar um vetrinn ok gleði mikil; veitti Grímr þeim með mikilli stórmensku.

16. En er áleið vetrinn, spurði Oddr þá Guðmund frænda sinn, hvat þeir vildu athafast. Guðmundr segir: þú skalt sjá ráð fyrir oss. Oddr mælti: í víkíng vil ek þá ráðast. Þeir kvoðust þess búnir. Nökkuru síðar töluðust þeir feðgar við, sagði Oddr feðr sínum, at hann vill búast í hernað: vil ek at þú fáir mèr 3 skip. Grímr kvað þat þegar skyldu til reiðu. Síðan bjöggust þeir frændr, ok völdu sèr menn af Hálogalandi ok Naum-

udal alla þá er röskvastir voru, þvíat allir vildu þeim gjarna fylgja er þeir nefndu. Ok er þeir voru búnir, mælti Oddr: nú vil ek, faðir! at þú vísir oss til víkíngs þess nökkurs, er þèr þikkir við vàrt hæfi vera. Grímr mælti: Hálfdán heitir víkíngr, son Hróa Upplendíngakonúngs, hann liggr optast austr við Elvarsker, hann hefir 30 skipa, ok er sjálfr enn hraustasti maðr. Oddr bað föður sinn hafa þökk fyrir, þvíat ek sè nú, segir hann, at þú þikkist mannfáng eiga í sonum, er þú vísar oss til 30 skipa með 3 skip. Eptir þat skiljast þeir feðgar, halda þeir bræðr austr með landi, er nú ekki sagt frá ferðum þeirra fyrr enn þeir koma austr við Elvarsker, ok lögðu þar til lægis. Þar eru margar eyjar ok lítt bygðar. Þá er þeir Oddr höfðu tjaldat ok umbúizt, rèri Oddr í brutt við fá menn, sá þeir þá brátt, hvar víkingarnir lágu, ok í miðjum flotanum var dreki mikill ok glæsiligr með gyltum höfðum ok allr lýrbyrðr fyrir ofan sjá. Þá kallar Oddr, ok spyrr, hverr fyrir liði því ráði; maðr sprettir tjaldskörunum á drekanum, ok svarar: sá heitir Hálfdán, eða hverr spyrr at? Oddr sagði nafn sitt. Fórtu til Bjarmalands fyrra sumar? segir, Hálfdán. Kom ek þar, segir Oddr. En hvert er þitt erindi hingat,? segir Hálfdán. Oddr svarar: Háleygir, frændr mínir, þeim þikkir þú ræna sik við, nú ætla ek annarhvàrr okkar skal eigi segja frá tíðendum. Hálfdán mælti: hve mörg skip hafi þèr? Oddr svarar: vèr höfum 3 skip ok 100 manna á hverju. Hálfdán mælti: víst ætlast þú mikla dul, ok munu vèr sofa fyrir þetta. Oddr rær nú aptr til (manna sinna), ok (segir) þeim . . . skolu vèr nú ryðja fè á land upp af skipum vàrum, en bera á grjót, síðan skolum vèr höggva 4 trè með kvistum á skip vàr, skal þat vera stigar vàrir við drekann. Svà gerðu þeir, sem Oddr mælti, ok er þeir voru búnir, mælti Oddr: þið Guðmundr ok Sigurðr skoluð leggja skip ykkat á annat borð

drekans, en við Asmundr á annat. Þeir róa nú hljóðliga; skipin lágu rúmt í höfninni, róa þeir Oddr nú á bæði borð drekanum, ok þegar fylgði maðr upp hverjum kvisti, hleyptu þeir þá á þá tjöldunum, börðu þeir þá tjaldkúlur ekki hagliga, þvíat þeir börðu ok drápu allt þat, er kvikt var. Þar urðu skjót umskipti, þvíat á skammri stundu höfðu þeir ruddan drekann aptan at lyptínguuni. Hálfdán hafði hlaupit í klæði sín, er hann heyrði hakit; ok þvínæst greip hann vâpn, hljóp hann þá fram á lyptíngina, ok kallar á önnur skipin, bað þá leggja at sem tíðast. Oddr heyrir þetta, ok sá Hálfdán; hann krækti þá öxi á lyptingina, ok fleygði sèr upp í lyptíngina. Hálfdán hjó í móti honum, kom höggit á hjálminn, en hann bilaði eigi, brast þá sverðit undir hjaltinu. Oddr hjó þá Hálfdán banahögg. Oddr gerir þá kosti þeim mönnum hans, hvârt þeir vilja halda við hann bardaga, eða gerast hans menn, en þeir kuru skjótt, kvoðust vilja honum til handa gánga. Oddr tekr þá af liði því, þat er honum þótti fræknligast, drekann tekr Oddr ok sèr til handa, ok annat skip, þat er honum þótti bezt, fè ok allt tekr hann til sín, síðan gefr hann víkíngum önnur skipin; dreka þeim stýrir Oddr nú, ok gefr nafn ok kallar Hálfdánarnaut. Oddr dvaldist þetta sumar allt úti á skipum fyrir Noregi, ok friðaði fyrir kaupmönnum, en um haustit sigla þeir til Hrafnistu, ok hafa fengit ágætan sigr ok órót fjár. Grímr býðr þeim öllum til sín, sitja þeir þar um vetrinn.

17. Um vârit búast þeir í hernað, ok er þeir voru búnir, spyrr Oddr föður sinn, hvar hann vísi honum til nökkurs víkíngs, þess er nökkur veig sè í. Grímr mælti: Sóti heitir víkíngr, hann liggr suðr fyrir Skíðu, hann er mikill fyrir sèr, hann hefir 40 skipa ok auð fjár. Eptir þat skilja þeir, halda þeir frændr suðr með landi 5 skipum, ok er áleið sumarit, þá spurr Sóti til ferða þeirra Odds, ok ferr þegar í móti þeim. Sóti fær þá andviðri, fekk hann þá njósn af siglíng þeirra. Hann mælti þá:

nú skolu vèr leggja skip vâr hvert at stafni annars, skal dreki minn liggja í miðjum flotanum. Ek hefi spurt, at Oddr er kappsmaðr mikill, mun hann sigla at skipum vârum, en er þeir hafa fellt seglin, þá skolu vèr slá hríng utan at skipum þeirra, ok láta ekki mannsbarn á braut komast. Nú er at segja frá tiltekjum Odds; er þeir sá flota Sóta, þá mælti Oddr: sè ek fyrirætlan Sóta, at vèr skylim sigla at skipum þeirra. Guðmundr segir: mun þat eigi heldr óráðlikt við hðsmun þann sem er? Oddr mælti: [eigi skal ónýta[1] ráð Sóta, ek mun sigla fyrir dreka mínum. Oddr hèt á menn sína, bað bera aptr frá siglu allan þúnga, þann er þeir mætti; síðan bað hann alla menn herklædda vera fyrir aptan siglu; en er þetta var gjört, bað hann slá við öllu segli. Byr var at enn bezti, geysaði drekinn uppi fast Hálfdánarnautr, hann var járnaðr allr framan um barðit, en þessa tiltækis varði aungan mann. Sóti verðr nú eigi fyrr (varr) við, enn drekinn rendi upp á dreka Sóta flatan, voru þeir þá at herklæðast, hljópu þeir Oddr þá á drekann Sóta, ok ruddu þeir hann þá á skammri stundu, ok drápu Sóta. Oddr gjörir þá kosti víkíngum, hvárt þeir vilja halda við hann bardaga, eða taka grið; en þeir gáfust þegar upp. Oddr tók þar drekann Sótanaut ok 3 önnur skip ok ógrynni fjár, valdi hann ok af liðinu þat, er honum þótti bazt búit ok vígligast. Síðan snèru þeir norðr aptr, ok lèttu eigi fyrr enn þeir komu norðr í Hrafnistu; tok Grímr við þeim báðum höndum, ok býðr þeim til sín, ok þat þágu þeir; sátu þeir þar nú of vetrinn með mikinn príss.

18. En er áleið misserin, þá búa þeir Oddr skip sín or landi, þeir hafa nú 5 skip. Oddr vandar nú liðit mjök, ok er þeir voru búnir, gengr Oddr at föður sínum, ok mælti: nú skaltu vísa oss til víkíngs þess, er þú veizt verstan ok mestan. Grímr segir: þat er nú bæði at þèr eruð miklir fyrir yðr, enda þikkir yðr þat. Vísa mun ek yðr til þeirra tveggja víkínga, er ek veit mesta

[1]) *þannig leiðrètt*; skallu ýta, *rángt* S.

ok bezt at sèr; annar heitir Hjálmar en hugum-stóri, en annar þórðr stafngláma. Oddr mælti: hvar hafa þeir friðland, eða hve mart lið hafa þeir? Grímr segir: þeir hafa 15 skip ok 100 manna á hverju skipi, en þeir hafa friðland á Svíþjóðu. þar ræðr fyrir konúngr sá, er heitir Ingjaldr enn illráði, þeir hafa þar vetrsetu ok landvörn, ok eru úti hvert sumar á herskipum. þeir Oddr biðja nú föður sinn vel lifa; sigla þeir nú austr með landi, er nú ekki sagt frá ferð þeirra, fyrr enn þeir komu við Svíþjóð, ok lögðu við nes eitt, þat er gekk til hafs. þeir tjölduðu þar yfir skipum sínum, ok síðan gengu þeir á land ok upp á nesit, en þar lágu þeir öðrum megin undir nesinu með 15 skipum Hjálmar ok þórðr, ok höfðu herbúðir á landi, ok (voru at leikum) þar hjá tjöldunum. þeir Oddr snúa nú til skipa sinna, ok sögðu þessi tíðendi. Guðmundr spyrr, hvat nú skal athafast. Oddr mælti: nú skal skipta liði vâru í helmínga, skolu þèr halda helmíngi liðs fram fyrir nesit ok æpa heróp, en ek mon gánga á land upp með helmíng liðs, ok fram et efra með skóginum; munu vèr þá æpa óp annat. Nú má þat vera at þeir bregði við, ok hyggi lið vårt meira, kann vera at þeir hlaupi á merkr á brant. þeir gjöra nú svá, en er þeir heyra heróp þeirra Guðmundar, þá bregða þeir ekki við, er at leikinum voru; þvínæst heyra þeir annat heróp koma upp, þá námu þeir stað, er úti voru, ok þegar þat leið af, þá taka þeir til leiks sem áðr. þeir Oddr snúa þá aptr hvârirtveggju, ok mælti Oddr: meiri vân þikki mèr, at meira þurfim vèr við, ok ekki muni þessir skelfast við ófriðinn. Guðmundr spurði, hvat þá skyldi til ráðs taka. Oddr mælti: á þessa menn skal ekki stelast, skolu vèr liggja hèr í nótt; nú gera þeir svá. Ok þegar er vígljóst var, herklæðast þeir Oddr, ok gánga á land til fundar við Hjálmar, ok þegar þeir Hjálmar sjá víkinga á landi með herklæðum, herklæðast þeir, ok gánga á land ok lið þeirra, ok ímót

þeim Oddi; ok þegar nemr kall, spyrr Hjálmar, hverr fyrir liði því rèði. Oddr sagði til sín. Hjálmar mælti: ertu sá er fór til Bjarmalands fyrir nökkurum vetrum? eðr hvert er örendi þitt híngat. Oddr segir: ek vil reyna, hvâr okkar er meiri maðr. Hann segir: hve mörg skip hefir þú? Oddr mælti: vèr höfum 5 skip ok 100 manna á hverju, eða hversu hafi þèr? Vèr höfum 15 skip, segir hann, ok 100 manna á hverju, en aungu skal þik þat skipta; hèr skolu sitja hjá tíu skipshafnir, ok skal maðr manni í mót! Oddr segir: drengiliga er þat mælt. Ok eptir þat búast hvârirtveggju til bardaga, ok fylkja liði sínu, ok berjast síðan, meðan dagr endist. Þá er brugðit upp friðskildi, ok spyrr Hjalmar Odd, hversu honum þikki hafa atfarit um daginn. Oddr lèt vel yfir. Viltu leik þenna optar? segir Hjalmar. Ekki ætla ek annat, segir Oddr, þvíat ek fann aldrí betri drengi fyrri nè harðfengari. Nú binda menn sár sín of kveldit, ok fara til herbúða hvârirtveggju; en um morgunin fylkja hvârirtveggju liði sínu, ok búast til orrostu, ok berjast dag annann. Um kveldit var brugðit upp friðskildi, ok þá spyrr Oddr Hjalmar, hversu honum þikki at hafa farit. Hann lèt vel yfir: ok muntu vilja leik þenna enn þriðja dag? Já, segir Oddr, nú skal sverfa til stáls með oss! Þá mælti Þórðr: er þar fjárvân mikil á skipum þínum? Eigi er þat, segir Oddr, þvíat vèr höfum einskis fjár aflat í sumar. Hèr heyrða ek sagt, kvað Þórðr, frá óvitrustu mönnum, þvíat vèr berjumst fyrir ofrkapp eitt ok metnað. Hvat viltu nú athafast at því? segir Oddr. Ek vil, segir Þórðr, at vèr gjörim fèlag. Vel líkar mèr þat, segir Oddr, en eigi veit ek, hversu Hjálmari er umgefit. Hjalmar mælti: ek vil þau ein víkíngalög hafa, er ek hefi áðr haft. Oddr segir: heyra vil ek þau, áðr ek játa. Hjalmar mælti: ek vil aldrí hrátt eta nè lið mitt, ok eigi blóð drekka; þat er ok margra manna siðr, at vinda vöðva í klæðum, ok

kalla þat þá soðit, en mèr þikkir þat vera varga matr. Ek vil aldrí kaupmenn ræna nè búkarla, meira en svá sem ek þarf til strandhöggva, ok leggja þó verð eptir fullt. Ek vil ok aldrí konur láta ræna, hvargi sem þær finnast með miklum fjárlut. Tekr ok nökkur minna manna konu nauðga, eða leiðir nauðga til skipa, sá skal aungu fyrirtýna nema lífi sínu, hvârt er hann er ríkr eðr úríkr. Oddr mælti: vel þikki mèr lög þín, ok undir öll þau vil ek gánga.

*Dráp berserkja.*

19. Nú gjöra þeir fèlag sitt, ok hafa þeir nú jafnmikit lið allir saman, sem þeir Hjálmar höfðu, áðr þeir fundust, þá spyrr Oddr, hvat þeir vili athafast, eða (viti) fjárvân nökkura. Hjálmar segir: á Selund veit ek berserki þá fimm, er harðfengari eru enn flestir aðrir; heitir Brandr ok Agnar, Asmundr ok Ingjaldr ok Alfr; þessir eru bræðr, ok hafa sex skip. Oddr lèzt vilja, at þeir hèldi til móts við berserkina. Ok þvínæst koma þeir við Selund, ok finna þar á þessi skip. En þat var þar til tíðenda, at berserkir voru gengnir á land upp fimm saman. Þeir Oddr tjalda yfir skipum sínum, ok um kveldit fara menn at sofa. Um nóttina tekr Oddr vápn sín hljóðliga, ok gengr á land einnsaman; hann stefnir þángat, sem hann vissi vân berserkjanna. En um morgininn, er ljóst var, gengu berserkir til skipa, ok þá mæta þeir Oddi, ok slær þar þegar í bardaga harðan; veita þeir Oddi grimmliga atsókn, en hann versk þeim harðfengliga; ok svâ lýkr þeirra leik, at hann drepr þá alla, en hann var lítt sár. Snemma um morgininn saknar Asmundr Odds, ok sèr hann at Oddr er af skipum genginn. Þá segir hann: þat mun eigi bregðast at hann mun farinn til fundar við berserkina; nú skolu vèr ok eigi vera sýslulausir! Hann heldr nú þar til sex skipum, er víkíngarnir voru, ok bjöggust við hvârirtveggju, ok síðan lýstr þar saman bardaga. Var þat allt jafnskjótt, er

Oddr kom ofan, ok þá hafði Hjálmar hroðit skip þeirra öll, höfðu þeir þar aflat ógrynni fjár.

*Oddr ferr til Svíþjóðar.*

20. Um haustit býðr Hjálmar Oddi til Svíþjóðar með sèr, ok þat þá hann; en þeir Asmundr ok Guðmundr ok Sigurðr með sínu liði fara norðr til Hrafnistu, ok mæla mót með sèr um vârit við Elvi. Þeir Hjálmar ok Oddr koma nú í Svíþjóð, ok þvínæst til hirðar Ingjalds konúngs, ok fá þar vegsamligar viðtökur, ok dvöldust nú þar um vetrinn; þar lagðist svâ mikil virðíng á Odd, at engi maðr hefir þar ótíginn fengit þvílíka, bæði sakir vits ok atgerfi. Hjálmar gaf Oddi 3 (bú)... (Konúngr átti dóttur þá, er Ingibjörg hèt,) meyja fríðust, ok vel at sèr of flesta hluti. Einn tíma talar Oddr til Hjálmars þessum orðum: því biðr þú eigi konúngsdóttur, ek sè at hugr ykkar ferr saman? Hjálmar segir: ek hefi beðit, en konúngr vill eigi gipta hana útignum manni. Þá skolu við, segir Oddr, draga saman lið okkat at sumri, ok gera konúngi tvâ kosti: annathvârt at hann berist við okkr, eða gipti þèr Ingibjörg, dóttur sína. Eigi vil ek þat, segir Hjalmar, ek hefi hèr lengi friðland haft. Nú sitja þeir þar um vetrinn.

21. En um vârit búa þeir skip sín, ok halda í hernað, finna þá Asmund við Elfi; ræða þeir þá með sèr, hvert halda skal of sumarit. Oddr kveðst vilja halda í vestrvíking, en Hjalmar bað hann ráða. Hafa þeir tuttugu skip af Norvegi. Oddr hefir dreka sinn Hálfdánarnaut. Nú koma þeir fyrst við Orkneyjar, ok herja þar, ok leggja undir sik eyjarnar, þeir áttu þar margar orrostur, ok höfðu sigr í öllum. Þvínæst venda þeir suðr undir Skotland, ok herja þar, þeir leggja undir sik mikit af Skotlandi, ok sátu þar tvâ vetr.

*Líflát Asmundar.*

22. Eptir þat stefna þeir hernaðinum undir Irland, ok höfðu þá 60 skipa. Sem þeir komu við Irland,

veita þeir upprásir, brenna bygðir, en ræna fè, ok drepa menn alla, þá er þeir náðu, en fólk þat, er mátti, dróst á merkr ok á skóga, ok báru fjárhlut sinn í leyni. Asmundr fylgði Oddi þá sem jafnan fastast allra manna. Þat var einn dag at þeir Oddr ok Asmundr sóttu á landit upp, þeir fóru þá svá mikit, at aungvir gátu fylgt. Oddr var svá búinn, at hann hafði örvamal sinn á baki en boga í hendi; en er Odd varði minnst, heyrir hann at strengr gellr í skóginn, ok hann sèr, hvar ör flýgr, sú leitar staðar fyrir brjóst Asmundar, ok þegar fèll hann, ok þvínæst dauðr. Oddi þikkir þetta svá mikit, at aldrí beið hann fyrr þvílíkan skaða. Oddr hylr Asmund með skildi hans ok klæðum, en hann stefnir þángat í skóginn, sem örin fló at. Þvínæst sèr hann rjóðr mikit í skóginum, ok þar í mannfjölda mikinn bæði konur ok karla. Þar stóð upp maðr í guðvefjar klæðum, sá hefir boga í hendi, en örvar stóðu í vellinum hjá honum. Þat þikkir Oddi at sýnn gánga, at hann mun þar eiga eptir hefndum at sjá. Oddr tekr nú eina af Gusisnautum, ok skýtr at þessum manni, örin kemr á hann miðjan, ok fèll sá skjótt. Oddr skýtr nú hverri at annarri, ok drepr þar 6 menn, þá var ok braut flýðr á skóga allr sá lýðr ok fjöldi. Oddr er nú með svá illu skapi, at hann ætlar at vinna Irum nú allt þat íllt er hann má. Hann kom nú á skógarbraut eina mikla, gekk eptir, en hvar sem runnar urðu fyrir honum, þá reif hann þá upp með rótum. Einn hrísruðr varð fyrir honum lausari miklu enn aðrir; hann leit til, ok sèr at þar var hurð undir. Hann kippir henni upp, ok þá gekk hann þar í jörð niðr, ok finnr þar á konur sjö, ok var ein miklu fríðari enn aðrar. Oddr tekr þegar í hönd henni, ok vill kippa henni í braut or jarðhúsinu. Þá mælti hún: Oddr! segir hún, láttu mik vera! Hann segir: hvat muntu vita, at ek heiti Oddr? Hún segir: ek vissa þegar, er þèr híngat komuð, hverr þú vart, ok svá at Hjálmar er

með þèr, ok mun ek segja honum, ef ek fer nauðig til skipa. Oddr mælti: eigi skaltu fara at síðr. Nú þrífa þær til hennar konurnar, ok vilja halda á henni. Hún biðr þær hætta. Ek mun kaupa at þèr, Oddr! segir hun, at þú látir mik vera í friði, þvíat mik skortir eigi gersimar. Ek vil eigi fè þitt, segir Oddr. Þá skal ek láta gera þèr skyrtu. Oddr mælti: gnógar á ek þær. Gnógar muntu eiga, ok eigi þvílíkar sem sjá skal vera: hún skal gjör vera af silki, ok saumuð við gull; þeir kostir skolu ok fylgja, at fár munu aðrar svá gera. Oddr mælti: lát þú mik heyra þat fyrst! Hún mælti: þik skal aldri kala í skyrtunni, hvárki á sjá nè landi, þik skal eigi sund mæða ok eigi eldr granda, þik skal eigi húngr saka ok eigi járn bíta, ok við öllum lutum mon ek skyrtu gjöra nema einum. Hverr er sá enn eini, segir Oddr, ef þú mátt við þessu öllu gera? Við því má ek eigi gjöra, at járn munu þegar bíta, er þú kemr á flótta. Ef þú lætr þessar náttúrur fylgja, segir Oddr, þá þikki mèr ólíkara, at ek koma á flótta; en nær skal búin vera? Hún segir: annat sumar í þat mund árs ok dags sem nú er, en nú er sól í suðri, ok hèr í þessu sama rjóðri skolu við finnast. Oddr mælti: en hvat kemr þèr í hug, hverr ek muna vera yðr Irum, ef þú efnir eigi orð þín, svá íllt sem ek hefi af yðr hlotið, er þèr hafið feldan Asmund, fóstbróður minn. Já, segir hún, þikkist þú ekki hafa hefnt hans, er þú feldir nú föður miun ok bræðr mína þrjá? Eigi þikki mèr hans at hefndra, segir Oddr, þó skal þetta vera kaup okkar, sem þú hefir beðit. Eptir þetta ferr Oddr til skipa, kemr Hjálmar ímót honum, hafði hann Asmund á baki sèr. Hjálmar spyrr nú, hversu atbærist um líflát Asmundar, eða hvárt Oddr hefði nökkut hefnt hans? Oddr kvað þá:

Fann ek at við / vagns slóð-götu, / áðr ek strengvölum / stríðum mættak;

munda ek Asmund aptr údáinn
auði mínum öllum kaupa.

Herja muntu nú vilja, segir Hjálmar, ok brenna allt, ok drepa fólk. Eigi vil ek þat, segir Oddr, ek vil halda í brott hèðan, sem fyrst gefr byr. Þetta undra víkíngar, en Hjálmar kveðr svâ vera skolu, sem Oddr vill. Þeir verpa nú haug mikinn eptir Asmund, en síðan búast þeir braut. Svâ láta víkíngarnir yfir þessu, at þeir leggja bleyðiorð á bak Oddi, er hann hefnir eigi Asmundar; eigi lætr hann sem hann viti þat. Þvínæst sigla þeir vestan, ok er nú ekki sagt frá ferð þeirra, fyrr enn þeir komu undir Hlèsey, þar lá fyrir þeim jarl sá, er Hergautr hèt. Hann hafði hálfan þriðja tug skipa; þar leggr Oddr til orrostu við hann, ok varð þar hinn harðasti bardagi, ok rekr nú af sèr bleyðiorðit. Svâ lýkr þeirri orrostu, at jarlinn fèll ok mestr hluti liðs hans, en þeir fengu þar ógrynni fjár. Eptir þat skilja þeir lið sitt, siglir frá Guðmundr ok Sigurðr með sínu liði, ok vilja nú hætta hernaði, sigla þeir norðr til Hrafnistu, ok setjast um kyrt.

23. Oddr ok Hjálmar sigla nú austr með Danmörku, ok herja á víkínga; þá rèðu fyrir Sjálandi jarlar tveir, hèt annar Hólmgeir, en annar Harðvígr, þeir höfðu fengit landit með hernaði, þeir voru bræðr þeirra 5 berserkja, er Oddr feldi. Þessir bræðr fá njósn af umferð þeirra Odds, ok leggja til móts við þá með 20 skip, en þeir Oddr hafa þá tíu skip; þar tókst orrosta mikil, ok lauk enn með sama móti, at þeir Oddr ok Hjálmar höfðu sigr, þat taka þeir nú ráðs at þeir setjast þar um vetrinn, ok um vârit búa þeir her sinn, ok spurr Hjálmar, hvert nú skal halda herinum. Oddr segir, at halda skal til Irlands. Varð þèr eigi þat leitt í fyrra sumar? Þó skal þángat halda, segir Oddr. Svâ gera þeir nú; er nú ekki sagt frá ferðum þeirra, fyrr enn þeir komu til Irlands; ok er þeir höfðu umbúizt, þá segir Oddr at hann vill gânga

einnsaman á land. Hjálmar bauð at fara með honum, en Oddr kvað eigi þat vera skolu. Eptir þat gengr hann, ok lèttir eigi fyrri enn hann kemr í rjóðr þat, sem þau Ölvör[1] konúngsdóttir höfðu fundizt it fyrra sumar, ok er Ölvör eigi komin. Oddr verðr nú stórliga reiðr, ok bíðr þó um stund. Ok þvínæst heyrir hann, at vagnar gánga, ok þar var Ölvör ok mart fólk með henni. Hún kveðr Odd fyrri ok mælti: nú vil ek eigi at þú sèr mèr reiðr, þó at ek hafa orðit nökkuru seinni enn ek kvað á. Er nú búin skyrtan? segir Oddr. Eigi ræddr um þat, segir hún, ok skaltu nú setjast niðr í vagninn hjá mèr ok líta á skyrtuna. Hún tekr nú skyrtu, ok sýnir honum. Hann lítr nú á, ok ferr í síðan, ok var hún honum at öllu hævilig. Oddr mælti þá: hvârt fylgja nú allir þeir kostir, sem ákveðnir eru? Svâ er víst, segir hún. En hvârt hefir þú ein gjört þenna grip? þá varð henni ljóð á munni:

Serk of-frá ek or silki
í sjö stöðum gervan;
ermr var á Irlandi,
önnur norðr með Finnum,
slógu Saxa meyjar,
en suðreyskar spunnu,
váfu valskar drósir,
varp óþjóðans móðir.

þá varð Oddi ok ljóð á munni:

Vara sem brynja
eða bláir hríngar
ísköld um mik
áðan fèlli,
þá er of síður
silkiskyrta
gulli saumuð
gekk fast ofan.

Hún spyrr þá, hversu honum líki skyrtugerðin. Hann lætr vel yfir: ok skaltu nú kjósa þèr laun fyrir. Hún mælti þá: hèr er svâ herskátt, segir hún, at síðan faðir minn fèll frá, þá er við því búit, at þeir hafi undan mèr landit; nú kýs ek þau laun, at þèr sitið hèr þrjá vetr. þat verðr eigi kauplaust, segir Oddr. Hvat skal þar til vinna, segir hún. þú skalt gánga með mèr, segir Oddr.

[1]) Aulvaur, S.

ok vera mín eiginkona. Ölvör mælti: manngjarnliga mun þèr mælt þikkja, segir hún; þenna kost mun ek taka, segir hún, eptir þetta taka þau þetta með fastmælum, hún fær honum þá mikit fólk, ok ferr hann við svâ búit til skipa. Ok er þeir Hjálmar finnast, segir Oddr honum allt sem háttað er, ok biðr hann nú vera þar þessa 3 vetr, ok því játar Hjálmar honum; þvínæst drekkr Oddr brúðlaup sitt, ok fær Ölvarar. Eptir þat liggja þeir úti á herskipum, ok drepa víkínga ok illgerðamenn, þá er þar höfðu herjat, líða nú þessir þrír vetr með þeima hætti. A þessi stundu gátu þau Oddr dóttur saman, sú hèt Ragnhildr. At liðnum þrim vetrum lýsir Oddr brautferð sinni af Irlandi, ok vill hafa dóttur sína með sèr. Ölvör segir at hún skal vera eptir hjá henni. Þar til þreyta þau þetta, at Hjálmar hlýtr at ráða ok skipa þessu, segir þat sitt atkvæði, at mær vaxi upp með móður sinni henni til yndis.

*Frá Skolla.*

24. Eptir þat sigla þeir vestan, ok halda til Norðimbralands; þar lá víkíngr sá, er Skolli hèt, hann haíði 60 skipa á vatni; ok er þeir fundust, spyrr Skolli, hverr fyrir liði rèði. Oddr sagði til sín. Ertu sá Oddr, er fórt til Bjarmalands? Var ek þar, segir Oddr. Hvat viltu híngat? segir Skolli. Ek vil hafa fè þitt ok fjör, segir Oddr. Skolli mælti: hví viltu herja á mik? Oddr segir: því at þú herjar á konúng þinn. Skolli mælti: Veiztu, hverjar sakir ek á við konúng þenna? Nei, segir Oddr, þat veit ek eigi. Þá skal ek segja þèr, segir Skolli: þessi konúngr hefir drepit föður minn, er hèr rèð fyrir, ok Hrói jarl hèt, en síðan lèt hann gefa sèr konúngs nafn, ok tók mitt ríki allt undir sik. Nú þætti mèr yðr þat meiri frami, at ráðast í lið með mèr ok drepa konúng þenna; vil ek því heita, at eiga síðan allt mitt mál undir yðr fóstbræðrum. Oddr segir: með því at þetta sè svâ farit sem þú segir, þá skaltu fá þèr

tólf bændr af landi ofan ok eiðafullting til sönnunar þíns máls þegar í morgin. *Svá skal vera*, segir *Skolli*; við þetta skilja þeir. Um morgininn gengr Oddr ok Hjálmar á land með öllu liði sínu, þá voru þar komnir 12 bændr af landi ofan, þessir sóru eiða með Skolla at þessum málum; eptir þat snúast þeir í lið Skolla, taka nú ok herja Norðimbraland ok leggja undir sik. En er þetta spyrr konúngr þeirra, ferr hann ímót með her sinn, ok slær þar þegar í bardaga, er þeir finnast. Þessi orrosta stóð þrjá daga með enu mesta mannsspelli, ok þá fèll konúngr þeirra; en þeir Oddr leggja undir sik landit, ok sitja þar um vetrinn; en um vârit lètu þeir taka Skolla til jarls; (skildu síðan) með hinum mesta kærleik.

25. Þeir Oddr sigla nú austr til Noregs, ok koma at austr við Elvina; þar lá fyrir herkonúngr, sá er Hlöðver hèt, hann hafði 30 skipa, ok var sjálfr enn mesti kappi; annar konúngr var með honum, sá er (Róar) hèt. Þegar þeir Oddr höfðu tjaldat ok umbúizt, þá róa þar í höfnina at þeim tíu skip; ok þegar þeir fundust, slær í bardaga með þeim. Þessir menn gjörðu svâ harða lotu, at hverr þeirra hefir mann fyrir sik eða meir; en með því lauk at þeir Oddr ruddu þessi skip tíu. Oddr mælti þá til Hjálmars: allmjök hafa þessir menn miklaðir verit í frásögnum. Hjálmar mælti: bíðum enn, meiri vân at þeirra lið sè meira, ok í því komu 20 skip í höfnina at þeim, þeir æptu þegar heróp, ok lögðu þegar at þeim; tókst þegar áköf orrosta, ok svâ hörð at Oddi þótti eigi ofsögum sagt frá hraustleik þessa manna. Svâ lýkr þeirra leik, at þeir drepa konúngana báða ok allt lið þeirra. Þeir Oddr hafa nú ok eigi meira lið enn tvö skip, er þeir sigla þaðan.

26. Þessunæst koma þeir Oddr ok Hjálmar í sker, þau er Elvarsker heita, en í skerin gánga vâgar, þeir er Tröauvâgar heita; þar lágu fyrir 2 skip mikil

ok tjaldat yfir svörtu. Nú kallar Oddr ok spyrr, hverr fyrir skipum ráði. Maðr sprettir skörum yfir sèr, ok svarar: sá heitir Ögmundr, er fyrir skipum þessum ræðr. Hvat Ögmundr ertu? segir Oddr. Hvar landa ertu þess fæddr, segir hann, at þú hefir eigi heyrt getit Ögmundar Eyþjófsbana? Oddr svarar: ek hefi þín víst heyrt getit, ok eptir því sem þú ert sjálfr at sjá, þvíat ek sá þèr aldrei illmannligra mann, gánga ok frá þèr illar sögur margar. Ögmundr segir: hverr er þessi enn stórorði? Oddr sagði nafn sitt. Ögmundr segir: fórtu til Bjarmalands fyrir nökkuru. Já, segir Oddr. Þá hefir vel tilborit, segir Ögmundr, þvíat ek hefi þín leitat um hríð. Oddr mælti: hvat hefir þú mèr hugat? Við skolum berjast, hvárt er þú vill á sjá eða landi. Oddr mælti: við skolum berjast á skipum. Þá reka þeir Ögmundr tjöld af sèr, ok þeir Oddr ok Hjálmar búast ok um, ok bera grjót á skip sín. Svâ er sagt frá yfirlitum Ögmundar, at hann var svartr á hárs lit, ok hèkk flóki svartr mikill ofan fyrir andlitit, þat er topprinn skyldi heita; allr var hann ok svartr í andliti nema augu ok tenn. Hann hafði átta menn með sér, þá er voru at sjá sem hann; þeir voru líkari tröllum enn mönnum fyrir vaxtar sakir ok allrar illzku; þessa menn bitu[1] ok engi járn. En er hvârirtveggju voru búnir; þá tókst þar bardagi, ok leggja borð við borð. Þeir eiga lánga orrostu ok harða, ok er þat hafði gengit um hríð, þá bregðr Ögmundr friðskildi upp, ok spyrr Odd, hversu honum þikki atfara. Oddr mælti: vel læt ek yfir, þó þikkjumst ek nú við tröll eiga en eigi við menn; ek hjó á háls þèr um hríð með sverði mínu, ok beit eigi heldr á, enn tálknskíði væri hrökt um. Ögmundr svarar: hvârtveggi okkar kann at mæla slíkt við annann, ek hjó á öxl þèr; ok hugðumst ek at gjöra þik einhendan, en eigi beit á þinni skyrtu, ok hefi ek þat sverð, er hvergi nemr í

[1]) *þannig leiðrètt;* bitust, S.

höggvi stað, en hvârt viltu eiga bardaga lengr? Já, segir Oddr, reyna skal lengr. Ek mon nú segja þèr, segir Ögmundr, hversu gánga mun í milli vâr, hèr munu falla bæði Hjálmar ok Þórðr ok menn þínir allir; þá munu ok fallnir allir kappar mínir, ok munu við tveir uppstanda, en ef við skolum við eigast, þá muntu drjúgari verða, því at þèr er ætlaðr aldr meiri miklu enn öðrum, þú hefir ok skyrtu þá, er eigi bíta járn ok eigi eldr. Nú herða þeir at í annat sinn, ok berjast nú hvàrr snarpara, ok eigi lýkr því fyrr, enn þeir standa þrír upp fóstbræðr, þá standa þeir Ögmundr upp níu. Þá mælti Ögmundr: viltu nú at vèr skilim, Oddr! því at nú kalla ek jafn vegit? Já, segir Oddr, því betr þikki mèr, er vèr skiljum fyrri, því at ek á hèr við fjandr en eigi við menn.

27. Þeir Oddr halda nú á braut einni skútu, ok komu um kveldit undir einn hólma. Oddr mælti þá: nú eru þrenn verk fyrir höndum, þat er eitt at skjóta dýr til matar í skógi, annat at gæta skips, þriðja at drepa eld ok fá oss eldivið. Þórðr mælti: ek mon gæta skips. Hjálmar mælti: ek mon slá eld ok fá eldivið. Þá ferr Oddr í skóg ok skýtr dýr, en er þeir komu aptr, þá er fest skútan, en Þórðr í bruttu. Þeir fara nú ok leita hans, ok um síðir finna þeir hann í bergskoru einni, ok sitr þar, ok var þá örendr. Þetta þótti þeim svá harðr skaði, at þeir þóttust aungvan slíkan hafa fengit nema lát Asmundar. Þeir leita þá, hvat honum hafi at bana orðit, ok finna spjót undir hendi hans, en fjöðrin tók út öðrum megin; þá mælti Oddr: þetta mun enn vândi Ögmundr vitat hafa, ok skal nú þegar halda aptr ok berjast til þrautar! Þeir gera nú svâ, róa aptr í sundin; ok er Ögmundr í brautu or vágum, þeir leita hans nú viku fulla ok fasta um sker ok hólma, ok eigi finna þeir hann því heldr, nè spyrja til hans.

*Haugsgjörð eptir Hjálmar.*

28. Nú snúa þeir þángat sem lík Þórðra var, ok

flytja hann heim með sèr til Svíþjóðar, ok verpa þar eptir hann fagran haug. Ingjaldr konúngr tekr við þeim fóstbræðrum avar vel, ok dveljast þeir nú þar (um vetrinn)[1]. . . . . . . . . . . . . . . .
Nú dvelst Oddr nökkvura hríð í Garðaríki, ok leggr konúngr til hans mikil metorð, svâ at hann skyldi öllu ráða því með konúnginum sem hann vildi; Oddr hefir nú landvörn fyri Garðaríki.

29. Frá því er nú sagt eitt sumar at Oddr siglir liði sínu til Gotlands, ok hefir tíu skip; þar varð fyrir honum víkíngr sá, er Sæviðr hèt. Hann var mikill kappi, ok hverjum manni meiri ok sterkari, ok hafði alla æfi sína úti legit á herskipum. Hann hefir hálfan sètta tug skipa; hann leggr þegar til orrostu við Odd með öllu liði sínu, en af því at liðsmunr var mikill, þá snýr mannfalli þegar í lið Odds, ok svâ lýkr um kveldit, at rudd eru skip öll fyrir Oddi, þar til er hann stendr einn upp sinna manna. Ok þá stökkr hann fyrir borð, en náliga var myrkt, ok leggst þegar í braut frá skipunum. Þetta getr einn maðr sèð, ok þrífr gaflok, ok skýtr eptir honum, ok kemr í kálfa honum, ok bítr svâ, at í beini nam stað. Oddi kom nú í hug, at meiri vân væri at hann sè nú í flótta særðr; snýr nú aptr í stað ok at skipunum. Jafnskjótt sem þeir víkíngarnir geta þetta at líta, hafa þeir þegar hendr á honum, leggja nú fjötur á fætr Oddi, en bogastreng at höndum. Sæviðr fær nú til þrjár tylptir manna at vaka yfir Oddi, en allt fólk annat fór at sofa, ok flest á landi. En er herinn var sofnaðr, þá mælti Oddr: þèr eruð vesælir menn, vakið eptir mèr, en hafið ekki til gamans, gjörið nú annathvârt, at einnhverr yðvar skemti, ella mun ek skemta! þeir kvoðust gjarna vilja, at hann skemti, ok

[1]) *Hèr er annathvort óviljandi sleppt í skinnbókinni frásögninni um dauða Hjálmars o. s. frv., eða það bil, sem eptir er audt orðið fyrir 7 línum, á að sýna, að þar vanti nokkuð í bókina.*

kvoðu hann mikinn ágætismann vera; eptir þat kveðr Oddr þeim kvæði, ok hvert at öðru, þar til er þeir voru sofnaðir allir. Þá ekr Oddr sèr þar at, er öx lá, hann gnýr þarvið bakinu, þartil er bogastrengrinn skarsk, ok er Oddr var laus á höndum, þá ók hann af sèr fjötrinum; þvínæst leitar Oddr at skeyti sínu, ok fann örvamalinn ok svâ boga sinn. Síðan snèri Oddr í skóg. Nú leið af nóttin, ok um morgininn ætlar Sæviðr at láta drepa Odd, sendir nú menn út á skip, sváfu þar varðmenn, en Oddr var í brautu. Sæviðr dvelst þar nökkura daga, en Oddr hefir njósn af athöfn hans; svaf hann þá á landi í tjáldi. Oddr leitar þá um nótt til tjalds Sæviðar, urðu varðmenn eigi fyrr varir við, enn Oddr feldi á þá tjaldit, ok barði þeim tjaldkúlur, ok lètti eigi fyrr enn Sæviðr var drepinn, ok allir þeir er þar voru í tjaldi með honum. Oddr býzt þeim víkíngunum til formanns, ok þeir játa því, ferr Oddr nú víða um lönd, ok vinnr stórverk, en sat jafnan í Svíþjóðu á vetrum.

*Skírn Odds.*

30. Eitt vâr sendir Oddr menn norðr í Hrafnistu, at þeir frændr hans Guðmundr og Sigurðr kæmi norðan. Þeir bjöggu ok þegar sína ferð, ok mæltu fund sinn í Eikreyjum. Þetta vâr sagði Oddr upp þjónustu við Ingjald Svíakonúng, hèlt Oddr þá til Eikreyja, ok er þeir fundust frændr, segir hann þeim skil á, at hann vill halda í útlönd liði sínu. Þeir lètu vel yfir því, fóru þeir nú um sumarit; en hvar sem þeir komu í ókunn lönd, þá buðu konúngar Oddi at hafa í þeirra ríki, hvat er hann vildi. Þenna vetr eptir sótti Oddr með liði sínu út á Grikkland, ok þar fèkk hann sèr skip, ok sigldi út undir Sikiley, þar var þá kristit. Sá áboti rèð þar fyrir einu klaustri, er Hugi hèt, hann var enn mesti ágætismaðr; hann fèkk spurn af, at þar voru heiðnir menn komnir norðan or heimi; fór þessi enn góði

ábóti þá til fundar við þá, ok tók tal við Odd; sagði ábóti honum marga hluti frá dýrð guðs, lèt Oddr sèr þat allt vel skiljast. Abóti bað þá Odd at láta skírast, en hann kveðst mundu sjá fyrst siðu þeirra. Oddr ferr nú einn dag til kyrkju með sínum mönnum; heyrðu þeir þar klukknahljóð ok fagran söng. Abóti fór þá enn til tals við Odd, ok spurði hversu þeim gætist at sið þeirra. Oddr lèt vel yfir; munu vèr nú, segir Oddr, sitja hèr í vetr með yðru lofi. Abóti kvað svâ vera skyldu. Sem Oddr hafði þar setit fram um jól, lágu illgerðamenn úti, ok herjuðu á Sikiley. Hugi ábóti átti þá tal við Odd, ok bað hann frelsa land þeirra af illþýði. Oddr játar því, býr hann nú her sinn; þenna vetr fór hann víða um Grikklands eyjar, ok herjaði, ok vann stór verk, ok fèkk auð fjár. Þar kom hann fremst, er heitir Aqvítanaland; þar rèðu fyrir fjórir höfðíngjar, ok þar átti Oddr orrostu mikla, ok feldi þar alla þessa höfðíngja ok mikit fólk annat, ok fèkk þar orof fjár. Þarum kvað hann þessa vísu:

Þar kom ek utarst,
er Aqvítana
bragna kindir
borgum rèðu;
þar lèt ek fjóra
fallna liggja
hrausta drengi,
nú em ek hèr kominn.

Eptir þat heldr Oddr aptr til Sikileyjar, ok dvaldist þar um hríð, var Oddr þá skírðr af Huga ábóta ok allr her hans.

31. Eptir þat siglir Oddr út til Jórsalalands, ok þá fèkk hann storm svâ mikinn ok grunnsævi, at þar braut skip hans öll, þar týndust ok menn hans allir, svâ at einn komst hann á land með því móti, at hann rak með skipflaki nökkuru til lands. Hann hafði örvamal sinn með sèr. Hèr um kvað Oddr þessa vísu:

Sigldum síðan
suðr lángt í haf,
áðr ek grunnsæfi
grimmu mættak;
svâ at einnsaman,
en öllu firðr
gumna sinni
gekk ek annann veg.

Oddr er nú kominn á Jórsalaland, hann snýr nú leið sinni út til Jórdánar, þar ferr hann or klæðum öllum, ok or skyrtu sinni, ok hèlt hún öllum kostum sínum; hann snýr nú austr með hafinu til Sýrlands, ok hefir örvamal sinn á baki.

32. Oddr ferr nú land af landi; er ekki sagt af ferð hans fyrr enn hann kemr austr á Ungaraland. Þar rèðu fyrir landi konúngar tveir úngir, hètu Vilhjálmr ok Knútr, þeir höfðu fyrir skömmu tekit við föðurleifð sinni. Vilhjálmr var þeirra eldri, ok vildi hann einn hafa forráð fyrir þeim, en Knútr undi því eigi, urðu þeir af því missáttir ok hèldu ófrið. En af því at Vilhjálmr var þeirra reyndr meir í orrostum, þá varð hann liðfleiri ok drjúgari, kom Knútr á flótta, ok lèt lið mikit, stökk hann þá or ríki sínu, aflaði hann þá liðs hvargi sem hann fèkk. Þá er svá er komit, kemr Oddr til móts við Knút konúng, ok bauð honum lið sitt. Konúngr spurði, hverr hann væri, en Oddr sagði. Knútr konúngr mælti: hefir þú farit til Bjarmalands fyrir laungu? Já, segir Oddr, var ek þar. Konúngr mælti þá: velkominn skaltu með oss vera, skaltu gerast forstjóri fyrir liði mínu.

*Orrosta Odds við Vilhjálm konúng.*

33. Nú dróst lið mikit til Knúts konúngs, ok eptir þat snýst hann aptr með herinn til síns lands. Oddr mælti þá til Knúts: nú vil ek at þú sendir menn til konúngs, bróður þíns, ok bjóðir honum frið ok jafnsætti ok helmíngaskipti á ríki. Knútr segir: þessa för vil ek at þú farir. Oddr hefir nú með sèr hundrað manna, ok finnr Vilhjálm konúng, ok segir honum boð bróður síns. Vilhjálmr konúngr segir, at hann vill einskis skiptis Knúti konúngi unna á ríki, meira enn hann sè innan hirðar. Oddr kvað hann eflaust mega þat vita, at Knútr konúngr mun eptir leita sínum hluta. Þeir skildu at svá mæltu. Oddr ferr nú ok segir Knúti

konúngi svâ skapat, ok at þeim var allra sætta varnat. Eptir þat stefna þeir herinum í mót Vilhjálmi konúngi, ok þegar þeir finnast, slær þar í mikinn bardaga. Oddr gekk svâ hart fram, at hann brauzt á skjallborg Vilhjálms konúngs, ok um síðir lagði hann sverði í gegnum hann, fèll konúngr þá undir merkjum sínum, var þá æpt sigróp um allan herinn. Knútr konúngr lèt þá stöðva bardagann, ok bjóða öllum mönnum grið, tók þat þá öll alþýða, játtu honum allir menn þá hlýðni, ok gáfu þar til trú sína. Eptir þat settist Knútr konúngr í ríki sitt, bauð hann þá Oddi alla kosti með sèr. Hèr um kvað Oddr þessa vísu:

Unda ek eigi,
áðr Ungara
lofðúnga tvo
líta knáttak;
rèð ek með öðrum
arfs at kveðja,
veitta ek jöfri
vilt ofsinni.

*Frá Oddi.*

34. Oddr hefir þar nú verit svâ, at nökkurum misserum hefir skipt, ok þá gerir honum svâ leitt, at hann má þar með aungu móti lengr dveljast. Konúngr býðr honum lið mikit, en hann kveðst þat með aungu móti vilja. Oddr snýr nú á braut af Ungaralandi, ok ferr nú mörg lönd ok stórar merkr; hann kom fram um síðir á Húnalandi, þar fann hann í mörk einni mikilli lítinn bæ, ok þar fýsti Odd at taka hvíld. Hann hafði þá vâskufl einn mikinn ok síðan yfir klæðum sínum ok örvamal sinn á baki, en boga í hendi. Sem Oddr snèri at þeim litla bæ, stóð maðr úti, ok klauf skíð, sá var lítill vexti ok grár fyrir hæru, sá heilsar hinum komna ok spyrr at nafni. Hann kveðst heita Víðförull, eða hvat heitir þú karl? Ek heiti Jólfr, segir karl, þú munt vilja vera hèr í nótt? Já, segir Oddr. þeir gengu þá inn ok til stofu. Jólfr mælti: þú kerlíng skal sæma við gestinn, en ek á mart annat. Kerlíng mælti: þat er mjök opt, at þú býðr mönnum, en matr er lítill. Um kveldit kom

vist fyrir þá bónda. Víðförull tekr kníf undan kofli sínum, þar voru gyltir hólkar á, þat var gersimi mikil. Karl tók upp knífinn, ok leit á, ok mælti: áttu gersimi þá? Já, segir Víðförull, eða viltu þiggja? Gjarna, segir karl, ok gef þú drengja heilastr! Nú sofa þeir af nótt þessa. Víðförull vaknar um morguninn, ok er Jólfr karl í brutto. Kerlíng mælti: þat vildi karl minn at þú biðir hans heima. Svâ skal þá vera, segir Víðförull. Karl kom heim nær miðdegi, var þeim þá gefinn matr, ok sett borð; karl leggr á borð fyrir sik steinörvar þrjár. Víðförull seilist til, ok hyggr at, er þar vönduð mjök smíð á. Víðförull mælti: áttu skeyti et góða, karl? Já, segir hann, væri svâ vel at þèr þætti sem þú talar um, þá vil ek þèr gefa. Þetta er vel gefit, karl! en eigi veit ek, at ek þurfa at bera steinörvar eptir mèr. Karl mælti: þat kann vera, Oddr! at þèr dugi þessar örvar, er eigi duga Gusisnautar. Veizt þú at ek heiti Oddr? Já, segir karl. Þá má vera, segir Oddr, at þú vitir ok þat, er nú sagðir þú, ok skal at vísu þiggja örvar, ok kunna þèr mikla þökk fyrir. Oddr lætr þær nú í örvamel sinn. Oddr mælti: hverr ræðr fyrir landi þessu. Karl segir: sá konúngr heitir Herrauðr, ok dóttir hans Silkisif, en kappar hans Sigurðr ok Sjólfr, ráðgjafi konúngs heitir Hárekr, hann er ok fóstri konúngsdóttur. Vel segir (þú um þat), ok muntu vilja fylgja mèr til konúngs? segir Oddr. Já, segir Jólfr, eigi mun föruneyti þitt of mikit, þótt ek fylgja þèr. Þvínæst voru þeir búnir, ok fóru síðan, ok fram komu þar, sem Herrauðr konúngr var með Húnaher. Sem þeir voru þar komnir, gengu þeir til konúngs, þar sem hann sat yfir borði, ok dóttir hans á aðra hönd honum, en Hárekr á aðra, kappar hans sátu í öndvegi gagnvart konúngi. Þeir heilsuðu á konúng; hann tók kveðju þeirra, ok spyrr, hverr sá væri enn mikli koflmaðrinn. Hann kveðst Víðförull heita. Konúngr spyrr, hvar landa hann sè fæðíngi. Víðförull

kveðst ekki þat fá greint: hefi ek verit á mörkum úti lengi ævi minnar; en ek em því hèr kominn, at biðja yðr vetrvistar. Konúngr mælti: ertu at nökkru íþróttamaðr? Eigi ferr þat nær, segir Víðförull. Þat hefi ek mælt, segir konúngr, at ek skyla þeim einum mönnum gefa mat, er nökkut vinnr til. Fjarri er því þó, herra! segir Oddr, at ek vinna nökkut. Kunna muntu at draga saman dýr, segir konúngr, ef aðrir skjóta. Þat má vera, segir Víðförull. Þat skal freista, segir konúngr; hvar skal ek sitja? segir Víðförull. Sittu þar, segir konúngr, sem mætast hirð vâr ok gestir. Eptir þat snúa þeir í braut, ok leiðir Víðförull Jólf karl út, ok þakkar honum sitt sinni: ok er hèr fíngrgull, er þú skalt færa kerlíngu. Karl þakkar vel Oddi. Snýr hann nú á braut, en Oddr í höllina, ok þángat sem honum var til sætis vísat. Þar sátu fyrir tveir hirðmenn, hèt Ingjaldr ok Ottar; hann segir at honum var þar til sætis vísat. Já, segja þeir, við viljum ok gjarna við þèr taka, ok skaltu sitja í milli okkar. Þat þiggr hann, festir upp siðan örvamel[1] sinn yfir sik, en trèlurk sinn leggr hann undir fætr sèr. Síðan leggst á sitt knè hvârr þeirra, ok spyrja hann tíðenda, en hann kann þeim segja nær af hverju landi; ekki heyra aðrir menn til tals þeirra. Víðförull er nú þar um hríð, hann ferr þess hvergi, er eigi hafi hann belg sinn ok trè. Þeir bjóða at kaupa honum klæði góð, ok kastaði hann kofli þessum; hann segir at ekki má svâ vera.

*Dyraveiði.*

35. Svâ berr nú til at menn skolu fara á dýraveiðar. Ingjaldr mælti þá: nú skolu vèr vakna snemma í morgin. Hvat skal nú athafast, segir Oddr. Ingjaldr mælti: nú ætlar konúngr á dýraveiðar með hirð sína ok kappa. Þeir sofa nú af nóttina. Um morgininn eru þeir bræðr snemma á fótum, ok vilja vekja Víðförul, en hann vaknar með aungu móti. Svâ líðr lángt á morgin-

[1]) *þannig.*

inn fram, en þeir vilja eigi frá honum gánga. Þar kemr enn at Víðförull vaknar, ok mælti: hvat er nú, mun konúngr búinn vera? Þeir svöruðu báðir: óvænliga hefir þú sofit, er konúngr laungu í bruttu ok allt hans förnneyti. Munu vèr nú aldregi dýr fá, er allt er fellt. Förum nú at því! segir Víðförull. Svâ gjöra þeir; Víðförull hefir belg sinn á baki, en fork sinn í hendi. Víðförull mælti: eru þeir allmiklir bogmenn, Sjólfr ok Sigurðr? Já, segja þeir, á allar íþróttir eru þeir fyrir öðrum mönnum. Nú koma þeir á fjallit, ok renna dýr hjá þeim, ok benda þeir upp boga sinn, Ingjaldr ok Ottar, ok leita við at skjóta, ok hæfa aldri dýr. Víðförull mælti þá: allófimliga fari þið at þessu, ljái þið mèr nú bogann, eigi má ek nú sjá, at mèr muni firr fara. Víðförull tekr nú bogann, ok dregr þegar fyrir odd örinni, ok rekr í sundr bogann. Ingjaldr mælti: nú hefir þú illa gjört, ok er nú örugt at við munum ekki dýr skjóta í degi. Víðförull segir: illa er þá, ef ek hefi ykkr mein gjört. Breiðið nú niðr mötla ykkra, ok mun ek nú sýna ykkr, hvat í belg mínum er. Þeir kvoðust þat vilja. Víðförull leysir nú til belgsins, ok steypir or skeytinu. Þeir þikkjast ekki slíkt skeyti sèð hafa; þvíat þetta var allt gulli reyrt. Oddr tekr nú kaðal einn, ok setr nú upp bogann, ok leggr ör á streng. Hann skýtr fram yfir höfuð öllum mönnum, ok at þeim hirti, er hljóp fyrir sjálfum konúngi. Þessi hjörtr fèll þegar. Konúngr undrast mjök, hvaðan þetta skot kom. Síðan skýtr Víðförull öllu sínu skeyti, ok hefir dýr með hverri ör, þar til er sex eru eptir; þat voru Gusisnautar ok steinörvar karls. Þeir hljópu hjá, Ingjaldr ok Ottar, ok hlógu at. Þeir Sjólfr ok Sigurðr gátu fá dýr skotit um daginn. Síðan fara menn heim um kveldit, ok er menn koma í sæti sitt; þá eru borin inn skeyti manna, ok lögð á borð fyrir konúng; skyldi konúngr þá sjá, hversu mörgum dýrum hverr hefði at skaða orðit; hvers manns skeyti var þar

markat. Þá ræða þeir bræðr um við Víðförul: nú skaltu gánga fyrir konúngs borð eptir skeyti þínu. Víðförull mælti: bíðum fyrst ok hlýðumst um! Sem skeytit var komit fyrir konúng, þá mælti hann til dóttur sinnar: sè hèr fagurt skeyti, dóttir! þau hèldu nú á skeyti Víðföruls, ok töluðu um, hverr eiga mundi. Þá mælti Víðförull: nú skoluð þið gánga fyrir konúng, ok segja at þið eigið skeytit. Þeir svöruðu: þat tjár ekki; konúngr veit áðr atgjörfi okkra. Þá skolu vèr fara, segir Víðförull. Svá gera þeir, gánga nú fyrir konúngs borð. Víðförull mælti: herra! segir hann, skeyti þetta eigu vèr fèlagar. Konúngr leið við honum, ok mælti: þú munt vera mikill bogmaðr. Fjarri er því, herra! en þó hefi ek þessu helzt vanizt, er ek hefi legit úti á mörkum, at skjóta dýr eða fugla til matar mèr. Vera má svá, segir konúngr, kann ok vera at þú sèr annar, enn þú segist. Eptir þat gánga þeir til sætis síns, ok varðveitir Víðförull örvar sínar, líða nú stundir.

*Veðjön.*

36. Þat er einn aptan, er konúngr var útgenginn til svefns, at þeir Sigurðr ok Sjólfr gánga utar fyrir þá bræðr Ingjald ok Ottar; þeir bera þeim horn tvö af hinum sterkasta drykk, ok biðja þá drekka. Þeir taka við, ok drekka af. Litlu síðar komu þeir með önnur tvö horn, ok þóat þeir hefði orð fyrir, þá tóku þeir við, ok drukku af. Þá mælti Sjólfr: liggr sjá ok sefr, koflmaðr, fèlagi ykkar? Já, segja þeir, þat þikkir honum vitrligra enn drekka sik ófæran. Hvárt mun (svá) vera, segir Sjólfr, eða mun (hann) vanari at liggja úti á mörkum, ok skjóta dýr til matar sèr, enn halda samsæti hja ríkum mönnum, eða mun hann vel syndr vera? Já, segja þeir, bæði mun hann vera vel búinn at þeirri íþrótt ok öðrum. Svá mun vera, segir Sjólfr, en þar skolum vèr veðja um, hvárt hann mun betr syndr einn eða við báðir, ok þar skolu við

leggja við hríng þenna, er stendr mörk, en þið två hrínga, er stendr hálfa mörk hvârr, en konúngr ok dóttir hans skolu sjá sund vârt, ok konúngsdóttir skal varðveita hríngana. Nú með því at þeir Ingjaldr voru ofdrukknir, þá játtu þeir þessu: eptir þat gánga þeir Sjólfr í brutt, en hinir gengu at sofa. Um morguninn, er þeir vakna Ingjaldr ok Ottar, kemr þeim í hug, at eigi mun veðjat orðit til vitrliga; taka nú þat ráðs at segja Víðförli, hversu komit er. Hann segir: eigi hefir yðr tekizt til forsjáliga, þvíat ið vitið eigi, hvârt ek flýt á vatni, en þó at svâ væri um hríð at kalla, þá hefi ek þó svâ fyrirlagt, at ek kom aldrei á sund et næsta. Þeir segja þá: gjörum eigi þetta oss at vanda; þat er makligast at við gjaldim sjálfir heimsku okkarrar, ok hafi þeir hrínga okkra. Víðförull segir: eigi nenni ek því, þar sem ið þikkizt veita mèr tillæti í öllu ok virðíng, at fara eigi til sunds, ok segið svâ konúngi ok dóttur hans. Þeir gjöra nú svâ. Konúngr lætr nú blása um borgina, gengr nú til múgr ok margmenni, at sjá á þeirra leik. Sem konúngr ok dóttir hans ok allr borgarlýðr var kominn til vatns þess, er þar var, þá gánga þeir þrír á sund, ok voru þeir bræðr í sundfötum, en Víðförull var í kofli sínum, og þegar þeir koma á djúp, leggjast þeir báðir at koflmanni, ok færa niðr, ok halda í kafi lengi. Þar kom enn, at þeir lètu hann upp, ok tóku hvíld; þeir leggjast þá at honum í annat sinn, en hann seilist þá ímóti þeim sinni hendi hvârum, ok rekr báða í kaf, ok heldr niðri svâ lengi at fádæmi þóttu í vera, áðr en lètti. Þó ætlar hann þeim skamma hvíld, færir þá enn niðr, ok heldr niðri svâ lengi, at engi ætlaði at lífs mundi þeir upp koma. Þat verðr enn at þeir koma upp allir, stökkr þá blóð or nösum þeim báðum bræðrum; þeir urðu þá ok eigi sjálfbjarga til lands. Víðförull flytr þá nú til lands. Síðan leggst hann á sund, ok leikr marga leika, ok um síðir gengr hann á land ok fyrir konúng, ok heilsaði á

hann; konúngr tók því vel, ok mælti: þú ert syndr vel, Víðförull! Já, herra! segir hann, yðar nýt ek at því, þótt ek fenga nú hæra hlut. Vera má svâ, segir konúngr. Drífr nú fólk brutt. Konúngr gengr nú ok í höll sína með hirð sinni, ok er nú mjök hugsjúkr, hverr þessi maðr mun vera. Konúngsdóttir fær honum nú hríngana, en Víðförull selr þeim Ingjaldi, ok segir at þeir skolu hafa. Konúngr talar nú jafnan við dóttur sína ok við Hárek, ok biðr þau vís verða, hverr þessi vetrgestr er; þau kvoðust þat gjarna vilja.

*Enn veðjön.*

37. Þat er nú eitt kveld, er stund leið, ok konúngr var sofa farinn, þá taka þeir Sjólfr ok Sigurðr horn tvö mikil með hinum sterkasta drykk, ok gánga utar fyrir þá Ingjald, ok biðja þá drekka. Þeir tóku við, og drukku af; þeir lètu taka þeim önnur tvö; þá mælti Sjólfr: sefr þessi jafnan raunmrinn, koflmaðrinn, eða hvárt má hann ekki drekka? Ingjaldr segir: þat er eigi, hann er hinn mesti drykkjumaðr. Sjólfr mælti: þar skolu við veðja um, hvárt meira má hann drekka eða við báðir bræðr, skolu við hrínga tvâ víðleggja, er stendr mörk hvárr, en þið skoluð leggja við höfuð ykkur, skal dóttir konúngs sitja hjá, ok skýra, hvárir vinna. Nú með því at þeir voru ofdrukknir, þá játtu þeir, ok festu þetta sín í milli; eptir þat fóru þeir at sofa. Um morgininn vakna þeir Ingjaldr, þikkjast nú vesælir sinna ummæla, þó segja þeir Víðförli til, hvar komit var. Víðförull mælti: svâ mikil þarflausa sem mèr þótti í fyrri veðjon ykkarri, þá þikki mèr nú miklu viðauka, ef þið hafið líf ykkat lagt undir ena mestu fólsku, er ofdrykkja er; en sakir ykkars góðvilja annars til mín, ok umsátra þeirra, er oss vilja öllum fyrirkoma, þá mun mèr íllt þikkja at sjá ykkr leidda undir öxi, ef ek má ykkr hjálpa; segið svâ konúngsdóttur, at vèr munum reyna drykkju í aptan, er konúngr er genginn at sofa. Þeir segja nú konúngs-

dóttur, ok hún föður sínum. Konúngr mælti: þat er eigi illa sums kostar, þvíat þat er líkast til, at vèr verðim vísir, hverr þessi maðr er, ok skolu þið Hárek gefa nú at góðan gaum, hvat í ferr með þeim. Þau kvoðust mundu freista. Nú líðr dagr sjá, ok ferr konúngr at sofa. Konúngsdóttir færir nú sæti sitt, ok þau Hárekr, ok setjast þau utar á bekk jafnær hvàrumtveggjum. Þá standa þeir Sjólfr ok Sigurðr upp með horn tvö, og gánga utar fyrir þá sessunauta. Þá mælti Sjólfr: þú koflmaðr! þat skal upphaf at ölteiti vàrri, at ek særi þik fyrir þann guð, er þú trúir á, ef þú átt annat nafn, enn heita Víðförull, þá seg nú til þess! Já, segir hann, ef þèr er forvitni á nafni mínu, þá er þat óvant, ek heiti Oddr. Já, segir Sjólfr, nú er enn hálfu betr, ok er þèr hèr horn:

Oddr! klauftu eigi
at orrostu,
hrökk hjálmat lið,
Hamdis skyrtur;
guðr geisaði,
gekk eldr í bæ,
þá er af Vindum
vá sigr konúngr.

Nú fær Sigurðr honum annat horn, og kvað þetta:

Oddr! vartu eigi
at eggroði,
þá er seggi alvalds
svelta lètum;
bar ek sár þaðan
sex ok átta,
en þu með bygðum
batt þèr matar.

Nú gánga þeir at sitja, en Oddr drekkr af hornum; þá ríss Oddr upp, ok fyllir hornin, og gengr fyrir þá með, ok fær sitt horn hvàrum, ok kvað þetta:

Þið skoluð hlýða
hróðri mínum,
Sjólfr ok Sigurðr,
sessunautar!
ykkr á ek gjalda
greypan . . . .
hróðr harðsnúinn
huglausum tveim.
Þú látt, Sjólfr!
soðgólfi á,
dáða vanr
ok dýrs hugar;
en ek út
með Akvitanum
fjóra menn
fjörvi næmdag.

Nú gengr Oddr at sitja, en þeir drekka af hornum. Síðan gánga þeir fyrir Odd með horn full, þá kvað Sjólfr:

Þú hefir, Oddr!
farit með ölmusum,
ok bitlínga
borit af borði;
en ek einn
af Ulfsfjalli
höggvinn skjöld
í hendi bark.

Þá selr Sigurðr Oddi horn annat, ok kvað þetta:

Oddr! var þú eigi
út með Grikkjum,
þá er á Serkjum
sverð vâr ruðum;
gerðum harðan
hljóm ísarna,
féllu fyrðar
í fólkroði.

Nú gánga þeir at sitja, en Oddr drekkr af hornum; síðan fyllir hann hornin, ok gengr fyrir þá, og kvað þetta:

Sjólfr! láttu v. meyja
málmþíng sam...[1]
meðan loga létum
leika um konúng;
unnum harðan
hildíng drepinn,
ok hans félögum
aldr of synjat
En þú látt, Sigurðr!
í sal meyja,
meðan við Bjarma
börðumst tysvar;
háðum hildi
heldr snarliga,
en þú seggr í sal
svaft und blæju.

Oddr gengr þá at sitja, en þeir drekka af hornum. Þvínæst færa þeir Oddi horn tvö, og kvað Sjólfr þetta:

Oddr! vartu eigi
á Atalsfjalli,
þá er fenloga
fengit höfðum;
vér berserki
binda knáttum,
þá var af kappi
konúngs lið drepit.

Sigurðr kvað nú ekki: þeir gánga nú at sitja; en Oddr drekkr af hornum. Ok nú gengr hann fyrir þá með tvö horn, ok kvað þetta:

Sjólfr! vartu eigi
þar er sjá knátti
brynjur manna
blóði þvegnar;
brukku oddar
í járnserkjum,
en þú höll konúngs
heldr kannaðir.

[1]) *máske* mál-þíng-samr við meyjar.

Ok Sigurðr! vartu eigi,
þar er sex ruðum
hábrynjuð skip
fyrir Hólmsnesi;
vartu ok eigi
vestr með Skolla,
þá er Englagram
aldri næmdum.

Oddr sezt nú niðr, en þeir drekka af hornum, ok síðan fylla þeir horn, ok færa honum, ok verðr nú ekki kveðit; þeir setjast niðr, en Oddr drekkr af hornum, ok fyllir þeim önnur, ok sèr nú at þeir gerast mjök drukknir, ok nú færir hann þeim horn, ok kveðr þetta:

Sjólfr! vartu eigi
þar er sverð hvöss
á hjarli . . . .
fyrir Hlèseyju;
en þú hallaðist
heima á milli
kynmálasamr
kálfs ok þýjar.
Ok Sigurðr! vartu eigi,
er á Sælund feldak
bræðr bölharða
Brand ok Agnar,
Asmund, Ingjald,
Alfr var enn fimti;
en þú heima látt
í höll konúngs
skrökmálasamr,
skauð hernumin!

Þá sezt Oddr, en þeir drekka af hornum, ok enn fylla þeir horn ok færa Oddi, ok kveða ekki; þvíat af þeim tók málit, er þeir gjörast úfærir. Oddr drekkr af hornum, en þeir sitja, ok nú fyllir Oddr hornin, ok færir þeim, ok kveðr þetta:

Sjólfr! vartu eigi
suðr á skíðr,
þar konúngar
knúðu hjálma;
óðum dreyra,
svá at í ökla tók,
víg vakta ek,
vartu eigi þar!
Ok Sigurðr! vartu eigi
þar í Svíaskerjum,
þá er Hálfdáni
heiptir guldum;
urðu randir
róg-miklaðra
sverðum skornar,
en hann sjálfr drepinn.

Nú sezt Oddr niðr, en þeir drekka enn af hornum, ok nú færa þeir Oddi horn, ok geisar nú fast þeim, ok grenja mjök. Oddr drekkr þegar af, ok fyllir þeim önnur ok færir, ok kvað þetta:

Hvar voru þið þá,
vesælar snytur!
er vèr hèldum aski
í Elvarsund;
teitir ok reifir
at Trönuvâgum?
þar lá Ögmundr
Eyþjófsbani,
tráuðastr flugar
á tveim skipum.
Þar lètu vèr
lindi börðu
hörðu grjóti,
hvössum sverðum;
þrír lifðum vèr,
en þeir níu;
hrókr hernuminn
hví þegir nú?

Oddr gengr nú til sætis, en þeir drekka af hornum, ok færa Oddi horn tvö, ok þó sjá allir, er inni voru, at þeir voru farnir. Oddr drekkr af hornum þegar, ok fyllir enn ok færir þeim, ok kvað þetta:

Sjólfr! vartu eigi
Sámseyju í,
þar er við Hjörvarðr
höggum skiptum;
þeir voru við,
en þeir tólf saman;
sigr hafða ek,
saztu kyrr meðan.
Gekk ek um Gautland
í grimmum hug
sjö dægr saman,
áðr ek Sævið fyndak,
knátta ek þeirra,
áðr ek þaðan færa,
fimtán liða
fjörvi ráða.
En þú gjögraðir,
gárúngr vesæll!
síð of öpnum
til sængr þýjar.

Þá var æpt at um höllina alla, en Oddr gengr til sætis síns. Þeir drukku af hornum enn; þá mælti konúngsdóttir, bað menn hlyða skemtan, þá er hjá væri. Sjólfr stendr enn upp ok fyllir hornin ok færir Oddi, en Sigurðr var nú farinn. Oddr tekr við hornunum, ok drekkr af þegar; síðan byrlar hann í hornin, og gengr fyrir þá Sjólf, ok kvað:

Þið munuð hvergi
hæfir þikkja,
Sjólfr ok Sigurðr!
í sveit konúngs;
ef ek Hjálmars getk
ens hugum-stóra,
þess er snarligast
sverði beitti.
Gekk skarpr Þórðr
fyrir skjöldu framm
hvargi er orrostu
eiga skyldum;

hann lèt Hálfdán
hníga at velli,
fræknan stilli
ok hans fylgjara.
Voru við Asmundr
opt í bernsku
fóstbræðr saman
báðir litnir;
bar fyrir stilli
staung darraðar,
þars konúngar
kappi deildu.
Hefi ek á Saxa
ok á Svía herjat,
Frísi ok Frakka
ok á Flæmíngja,
Ira ok Engla
ok endr Skota,
þeim hefi ek öllum
óþarfr verit,
Nú hefi ek dýra
drengi talda,
þá er forðum mèr
fylgðu úti;
munu engir
verða síðan
frægri fyrðar
í fólkroði.
Nú hefi ek orar
iðnir taldar,
þær er forðum vèr
framdar höfðum;
opt gengum vèr
til öndvegis
sigri fegnir;
látum Sjólf mæla!

Sjólfr tók við horni þessu, ok fèll þá af út dauðdrukkinn ok þeir Sigurðr báðir, en drykkr fór niðr. Oddr gekk þá til sætis síns, ok drakk um stund, ok þóttust flestir menn eigi mjök finna á hann. Konúngsdóttir gekk þá brátt í braut, ok Hárekr með henni, en þau höfðu þó eigi ekki athafzt um kveldit, þvíat allan þeirra kveðskap ok sameign höfðu þau ristit á speldi.

*Oddr segir til sín.*

38. Sem konúngr var klæddr um morguninn, kom dóttir hans til hans, ok þau Hárekr, ok tèðu konúngi allt, þat er í hafði farit um nóttina; þóttust þau nú öll saman gjörla skilja, hverr þessi maðr mundi vera, ok þetta var þrekvirki Örvar-Odds, en einskis manns annars, þvíat þau höfðu þeirra opt heyrt getit áðr. Nú leið dagr sá framan til drykkjumáls, ok sem konúngr var kominn í sæti, ok öll hirðin, sendi konúngr eptir Víðförli, ok bað hann koma fyrir borð sitt. Sem hann kom þar, mælti

konúngr: hitt er nú til, Örvar-Oddr! ef þú ert sá sem vèr hyggjum, at kasta koflinum ok dyljast eigi lengr; ærit lengi höfum vèr þik sett með knöpum, ok kennum vèr þèr mikil völd af því. Svà skal nú vera, herra! segir Oddr, sem þèr vilið. Eptir (þat) kastaði Oddr af sèr koflinum, var hann undir í skallatz-kyrtli hlaðbúnum, ok knýtt gullhlaði um enni sèr, digran gullhríng á hendi sèr, hárit silki bleikt, ok fèll allt með lokkum, ok var maðrinn enn öldurmannligsti. Konúngr mælti: stíg upp, Oddr! í hásætit hjá oss, ok eig við oss át ok drykkju! Hafið mikla þökk, herra! fyrir gott boð, segir Oddr, en nær verðum vèr at sitja ok þeir sessunautar mínir, sem í vetr hafa setit hjá mèr, þvíat eigi samir mèr at þeir sitì hjá knöpum, en ek setjumst í hásæti. Konúngr mælti: ek kann þar gott ráð til: Hárekr skal sitja þèr et næsta, þá þeir Ingjaldr ok Ottar; skolu þeir ok þat starf fá at þeir skolu vera þèr til þjónostu dögum sem nóttum. Vel mæli þèr, herra! Nú var svâ skipat, sem konúngr kvað á. Gjörðist nú brátt enn mesti fèlagskapr með Oddi ok Háreki; Ingjaldr ok Ottar þjónuðu honum ok í öllu því, er þeir máttu; konúngr metr nú ok Odd svâ mikils, at engi komst til jafns um þat. Svâ líðr nú framm þessi vetr; en er hallaði vetri, töluðust þeir við Oddr ok Hárekr; spurði Hárekr, hvat Oddr vill athafast, hann kveðst eigi ráðinn í því; mèr þikkist víðast dauflikt eptir mannamissi þann, er ek hefi fengit. Vârkunn er þat, segir Hárekr; þó verðr maðr eptir mann lifa, eðr eru þèr eigi kvânfaung í hug? Ek veit eigi þat, segir Oddr, mèr þikkir eigi afvænt, at ek þikkja gamall, en ek vil eigi kvângast til þess at stokka enn lágt. Hèr er slíks vân, segir Hârekr, eðr viltu þik í nökkura hættu leggja, at fá konúngsdóttur, fóstru mína? Oddr spurði, hvernig sú hætta væri? Hárekr segir: konúngr heitir Alfr, er ræðr fyrir landi því, er Bjálkaland heitir, því er hann kallaðr Alfr bjálki; hann á konu þá, ef konu

skal kalla, er Gyða heitir, son þeirra heitir Víðgrípr; þau eru fiölkunnig, svâ at þau líma saman stoð ok stjörnur. Þar á konúngr vårr skatt af landi þessu, ok hefir lengi niðri legit; þat hefir konúngr vårr mælt, at þeim manni muni hann gipta dóttur sína, er skattgildir landit undir hann í annat sinn. Oddr mælti: forvitnastu við konúng ok dóttur hans, ef þau muni mèr þessa kostar. Hárekr kvað svâ vera skyldu. Nokkuru síðar kom Hárekr at máli við Odd, ok mælti: þat er ætlan mín, at þú megir leita þessa ráðs, er við töluðum næstum. Oddr mælti: samt er mèr í hug nú ok fyrri. Eptir þat vekr Oddr bónorð sitt við konúng, ok þó at þar væri fleira umtalat, þá lýkst með því, at Oddr festir konúngsdóttur, en hann heitr at skattgilda Bjálkaland. Þessa vísu kvað Oddr hèr um;

Var mèr Hárekr
hollr fulltrúi,
þá er hann fastnaði mèr
fóstru sína;
öflgum jörlum er ek böð
ríki at sitja
rèð ek orrostu
eiga fyri.

39. Litlu síðar safnar konúngr liði handa Oddi, ok eptir þat búa þeir herinn, ok sem Oddr er búinn, tók hann orlof, ok mælti konúngr: hèr er gjöf, Oddr! er ek vil þèr gefa, þat er ein skjaldmær; er hún örugg í bardaga, ok hefir mèr jafnan vel fylkt. Oddr segir; sjaldan var ek þar, er (ek hafða) konur fyrir mèr, ok svâ mun enn vera; en af því at þèr gerið fyrir góðu, þá skal ek þiggja. Nú var svâ, ok fór hún með Oddi. Svâ bar til einn dag at Oddr fór með her sinn, þar sem mýrótt var, ok varð fen nökkuð fyrir þeim. Oddr skapaði skeið, ok hljóp yfir fenit. Skjaldmærin skapaði skeið, ok ætlaði at hlaupa eptir honum, en er hún kom á bakkann, varð henni bilt, Oddr mælti: hví fór nú svâ? Skjaldmær segir: ek skal betr hlaupa í annat sinn. Hún ræðr til í annat sinn,

ok fór á sömu leið. Mèr sýnist, segir Oddr, sem þú þorir eigi. Hún ræðr til enn þriðja sinn, ok fór sömu leið. Oddr hljóp þá aptr yfir fenit, ok þrífr til hennar, ok steypir henni út í fenit, svâ at hún kom aldrei upp, ok *mælti þá: far þú nú þar er þik hafi öll tröll*, heldr enn ek eiga sigr minn undir þèr. Oddr hèlt þá herinum í Bjálkaland, en þeir feðgar fá njósn af, draga þeir þá lið saman, (ok) búast til orrostu. Þeir senda menn til Odds, ok hasla honum völl til bardagans. Eptir þat komu þeir þar hvârirtveggju; Alfr hafði lið miklu meira, tókst þar enn harðasti bardagi. Oddr var í öndverðri fylkíngu sinni, ok sá menn sína falla sem storð, honum þótti orrosta sjá fara mjök undarliga; hann sá ok hvergi Alf bjálka nè Víðgríp, son hans. Sá maðr var með Oddi, er Haki hèt, hann var þjónustumaðr konúngsdóttur, ok hafði hún fengit hann til fylgðar við Odd. Þat var mælt, at hann sæi jafnlángt nefi sèr, eigi lengra. Oddr kallaði Haka til sín, ok mælti: hverju gegnir, er menn mínir falla svâ sem storð, ek sè eigi orrostu þessa svâ hættliga. Haki segir: sèr þú eigi, hvar þau fara þrjú saman, Gyða ok Alfr ok Víðgrípr, son þeirra? Já, segir Oddr, víst sè ek þau eigi. Haki mælti: sè þú undir hönd mèr þá! Oddr gerir nú svâ, ok þegar sá hann, hvar þau fóru, ok fór Gyða fyrir, ok veifði höndunum, ok hafði blóðgar trefr, ok hvern er hún sló með, fèll hverr dauðr niðr; allt þat er í nánd þeim fló, grjót eðr örvar eðr önnur vâpn, þá brá hún við lófunum berum, ok beit aldrei á; þeir Alfr ok Víðgrípr hjuggu til beggja handa; þau voru þá í miðri fylkíngu Odds. Hann varð óðr við þetta, ok hljóp frá Haka, ok ætlaði at þeim; ok þegar þeir voru skildir, þá sá Oddr þau eigi. Oddr snèri þá aptr til Haka, ok mælti: nú skaltu hlífa þèr með skildi þínum, en ek mun leita at skeyti mínu, ok svâ gjöra þeir. Oddr tekr nú Gusisnauta, ok skýtr at Gyðu; hún heyrði hvininn, ok brá við lófanum, ok beit eigi heldr enn á hellu.

Oddr skaut öllum Gusisnautum, ok þar fèllu allar í grös. Oddr mælti: framkomit mun nú þat, sem Jólfr spáði, at farnir munu Gusisnautar, mun nú ráð at reyna steinörvar hans. Oddr tekr nú steinörina, ok skýtr undir hönd Haka ok at Gyðu; hún heyrir hvininn, ok bregðr við lófanum, örin flýgr í gegnum lófann ok aptr í augat ok út um hnakkann. Oddr skýtr annari, ok fór sömu leið. Oddr skaut þá enni þriðju, ok kom sú á Gyðu miðja, ok þá fèll hún þegar, ok er hún var dauð, þá sá Oddr þá feðga, en er Víðgrípr sá fall móður sinnar, þá hljóp hann framm, ok barðist alldjarfliga. Oddr hleypr þá móti honum, ok áttu þeir þá allharða samkvámu, ok lauk með því, at Víðgrípr fèll. Alfr bjálki flýði þá til borgarinnar, var þá ok myrkt af nótt, ok skildi þá með þeim.

40. Um morgininn eptir lèt Oddr kanna valinn, sá þeir þá, at þar var allt fullt af blótskap hjá borginni. Lèt Oddr þá brenna öll hofin ok allan blótskap. Oddr snèri þá til borgarinnar með öllu liði sínu, en Alfr bjálki varði hliðit, ok þá kvað hann:

Hverr veldr eldi?
hverr orrostu?
hverr jarls magni
eggjum beitir?
hof sviðnuðu
hörgar brunnu,
hverr rauð eggjar
á Yngva nið?

Nú svarar Oddr, ok kvað þetta:

Oddr brendi hof,
ok hörga braut
ok trègoðum
týndi þínum;
gjörðu þau ekki
góðs í heimi,
er þau or eldi
ösla nè máttu.

Þá kvað Alfr:

Þess hlægjumst ek,
at hefir fengna
Freys reiði þú
fári blandna;
hjálpi æsir
ok ásynjur
gjörföll regin
gyðjum símum!
eða hverr eggjaði þik
austan hingat
fræknan fella
fláráðan.

þá svarar Oddr, ok kvað:

Hirði ek eigi,
þótt heitir þú,
fárgjarnt höfuð!
Freys reiði mèr;
íllt er at eiga þræl
at einka vin,
skoluð eigi ærr
skratta blóta.
Veit ek í eldi
ásu brenna,
tröll eigi þik!
trúi ek guði einum.

Skal nú ok reyna, segir Oddr, hvårt hamíngjan styrkir mik. þreif Oddr þá trè eitt mikit, svå at furða mátti at þikkja, ok hljóp þá at borgarhliðinu, færði hann þá svå hart trèit á hurðina, at þegar gekk í sundr. Alfr bjálki hjó þá til Odds, en sverðit beit ekki, þar sem skyrta hans var fyrir. Oddr brá þá ok sverðinu, ok hjó til Alfs, ok beit eigi heldr enn hann hrökti tálknskíði; hjöggu þeir þá báðir hart ok tíðum, ok varð hvårgi sár. Oddr þreif þá eikikylfu eina, ok sló til Bjálka á hiálminn svå hart at þegar brotnaði hjálmrinn, en Alfr fèll í úvit. Oddr lèt þá fara hvert at öðru, þar til er Alfr bjálki var dauðr. Hèr um kvað Oddr þetta:

Færðum seggi
frá svikaráðum,
ok trègoðum
týnda ek þeirra;
barða ek Bjálka
í borghliði
eikikylfu,
áðr hann önd of lèt.

Eptir þetta lætr Oddr alla menn gánga til griða í borginni, ok síðan skattgildir hann landit undir Herröð konúng, ok tók þar svå mikit fè, at eigi mátti töla ákoma í allskonar gersimum. Oddr setr nú yfir landit Ingjald ok Ottar, ok lætr gefa þeim jarlsnöfn. Síðan fór Oddr heim í Húnaland, ok varð hann víðfrægr af ferð þessi. Litlu síðar tekr Herröðr konúngr sótt, ok andast; var orpinn haugr mikill eptir hann. þvínæst lætr Oddr efna til veizlu mikillar í Húnalandi, er þá drukkit allt saman ervi eptir Herröð konúng ok bruðlaup Odds; tekr hann þá við landsstjórn, ok játa allir honum hlýðni, seztOddr nú um kyrt; þau Silkisif konúngsdóttir áttu mart barna.

*Um Odd.*

41. Þá er aldri Odds leið mjök eptir því sem völvan hafði fyrirspáð, var þat einn tíma at Oddr talaði við drottníngu þessum orðum: för er sú fyrir hendi, er ek vil fara. Er þú vilt, hvert fara? segir hún. Oddr mælti: ek ætla norðr í Noreg; vil ek vita, hverir eyna Hrafnistu hafa at varðveita eða aðrar eigur várar, frænda. Drottníng segir: svá þætti mèr sem þú mættir fullvel una hèr með oss ríki í Húnalandi, ok mörg skattlönd önnur; þætti mèr sem þú þurftir eigi at girnast á eyjarskika þann, er vettugis er verðr. Já, segir Oddr, svá er þat, at eyin er lítils verð; þó vil ek ráða, hverr hafa skal, mun ok ekki tjóa at letja mik; þvíat ek er ráðinn til ferðarinnar, en ek mun skamma hríð í bruttu vera. Oddr býr tvö skip ok hundrað manna á hvâru, ok nú verðr ekki sagt frá ferð hans, fyrr enn hann kom við Hrafnistu. Þat var tíðenda í eynni, at þar hafði komit vestan af Irlandi Ragnhildr, dóttir Odds, hafði hún tekit undir sik eyna ok allar eigur föður síns. Hún hafði gipzt göfgum manni, er Hákon hèt, ok voru þau þá önduð bæði; son áttu þau eptir, er Víðkuðr hèt, ok rèð hann nú Hrafnistu. Sem Víðkuðr vissi, at Oddr frændi hans var þar kominn, gjörði hann veizlu mikla í móti honum, ok bauð til enum ríkustum mönnum um Naumdælafylki. Oddr sótti þessa veizlu með öllu liði sínu. Allir menn undruðust Odd mjök, þar sem þeir vissu aldr hans miklu meira enn annarra manna, ok var hann enn hraustr ok herfær, miklu var hann ok meiri enn aðrir menn, þeir er þá voru, ok grár allr fyrir hærum. Oddr dvaldist þar hálfan mánuð, ok voru þar allir hlutir fengnir í vald hans, þeir sem hans frændr höfðu átt, en hann gaf þat hverjum sem áðr hafði. Eptir þat býzt Oddr norðan, ok var leiddr út með ágætligum gjöfum. Oddr siglir nú norðan, þar til er hann kom fyrir Berurjóðr; þá mælti Oddr: svá mikil forvitni er mèr á at sjá bæ fóstra míns,

at vèr verðum at leggja seglin, ok gánga á land; svâ gjörðu þeir. Oddr ok menn hans gengu nú þángat sem bærinn var, ok segir Oddr þeim, hvar hvergi hús höfðu staðit. Þar var þá lítill bær. Oddr fylgði þeim ok þar til, er þeir Asmundr höfðu átt skotbakka, ok (sagði þeim), hverr munr með þeim var um skot. Oddr fylgði þeim ok þar til, er þeir höfðu á sund farit, ok sagði þeim þar allt til, þar var þá víða blásit ok jörvi, er þá voru hlíðir fagrar. Oddr mælti þá: förum leið vora! ekki er hèr at horfa á, rennt mun þeim ósköpum, at ek brenna á Berurjóðri. Eptir þat snèru þeir ofan, ok urðu fyrir þeim smá hrískjörr ok blástr í milli, ok er þeir gengu snúðikt, drap Oddr fæti, ok laut áframm. Hann mælti: hvat íllt var þat, er ek drap við mínum fæti? Hann skaraði til spjótskaptinu, ok sá þeir allir, at hrosshauss var, ok þegar hrökkvist ormrinn undan ok at Oddi, ok hjó þegar á fót honum fyrir ofan ökla, ok þar laust þegar verk í með eitri, ok blès allan fótinn ok lærit. Svâ tekr Odd mein þetta fast, at þeir verða at leiða hann ofan til strandar, ok er hann kom þar, mælti hann: nú skolu þèr fara ok höggva mèr steinþró, en sumir skolu þèr sitja hjá mèr, ok rísta eptir kvæði því, er ek vil yrkja um athafnir mínar ok ævi. Eptir þat tekr hann at yrkja kvæði, en þeir rista eptir á speldi, en svâ leið at Oddi, sem upp leið á kvæðit. Þessa vísu kvað Oddr síðast:

Fjöld er at segja
af förum mínum
snotrum seggjum,
sjá mun en efsta.
Þèr skoluð skunda
til skipa ofan,
heilir allir,
hèr mun ek dveljast;
berið Silkisif
ok sonum okkrum
kveðju góða,
kem ek ekki þar!

Ok eptir þat deyr Oddr, ok er þat fornra manna ok fróðra frásögn, at hann þikki einn verit hafa mestháttar maðr jafnborinna manna í fornum sið. Hann

hafði áðr sagt þat mönnum sínum, at þeir skyldu leggja hann í steinþró, draga síðan at við ok brenna svá líkam hans; þvíat hann vildi eigi at heiðnir menn fari með líkam hans; en steinþró kvað hann þar vera skyldu eptir til sýnis, ok er þat sögn manna, at hún sè sjö álna laung, ok svá hafi Oddr verit.

42. Eptir þessi tíðendi fara menn Odds austr heimleiðis; sögðu Silkisif drottníngu þessi tíðendi ok kveðju Odds: hún kvað sèr slíkra tíðenda ván. Nú tók hún ríki undir sik í Húnalandi með sonum sínum, ok kom mart ágætra manna frá þeim sonum Odds. Afkvæmi Ragnhildar hefir víða dreifzt um Hálogaland; þaðan var kominn Víðkunnr í Bjarkey. Þat er fróðra manna sögn, at Oddr hafi lifat þrjú hundruð vetra tíræð, hann var fæddr fimmtíu vetra fyrr enn Haraldr enn hárfagri; en hann lèzt á dögum Olafs konúngs Tryggvasonar, þá er hann hafði ráðit þrjá vetr Noregi. Þat sumar var skírðr hinn helgi Olafr konúngr *anno ab incarnatione domini* níu hundruð ára ok níutigir ok átta vetr. Vetri síðar var kristnat Hálogaland. Lýkr hèr Örvar-Odds sögu.

Leidrettingar. *Bls.* 65, *lín.* 5. svegir *l.* sveigir. 74, 6: laungdýr, *þannig A*, *rèttara* lavgdýr ɔ: lögdýr. 89, 9: Örkneyja *l.* Orkneyja. 104: Sor, Sorshaugr, *þannig A*, *rèttara* Sör, Sörshaugr. 254, 10: ems *l.* sem. 259, 17 nær *l.* vèr. 338, 24: skiptumt *l.* skiptumst. 383, 15: elfr *l.* Elfr. 389, 1: sikr *l.* sik. 398, 12: manfall *l.* mannfall. 400, 26: föðurleyfð *l* föðurleifð. 481, 29: með *l.* mun. 522, 19: hakit *l.* harkit. 535, 35: Þórðra *l.* Þórðar. *Bls.* 4, 9, 41, 46, 63, 69, 71: ega *l.* eiga.

---

